# ISLANDSK LÆSEBOG

MED TILHÖRENDE

## ORDFORKLARING.

UDGIVET

AF

*LUDV. CHR. MÜLLER,*

THEOLOGISK CANDIDAT.

KJÖBENHAVN.

TRYKT PAA DEN GYLDENDALSKE BOGHANDLINGS FORLAG

I DET BRÜNNICHSKE BOGTRYKKERI.

1837.

LUND, HOS C. W. K. GLEERUP. CHRISTIANIA, HOS I. DAHL.

# *Forerindring.*

Efterat Rask har udviklet, hvad Islandsk er for et Sprog, og Danmarks störste Digtere bragt i deres Landsmænds Erindring, hvad der i fordums Dage udtaledes paa det Tungemaal, er det visselig overflödigt at sætte Pen til Papiret, for at gjöre opmærksom paa hvor godt det vil være for Danske at kjende baade det ældste af de Nordiske Bogsprog og de förste Skrifter som afbildede noget Aandeligt i Norden. Det vil vel ogsaa snart være unödvendigt af en anden Aarsag, thi nu da de Franske indbyde Islændere til Paris, og sende Lærde til Island, for at gjöre sig bekjendte med Sproget og Literaturen, vil det vel ikke vare længe för vi lære af dem eller ogsaa af Tydskerne at oplade Øinene for den Skat, der ligger os nærmest; men hidindtil har vi i det Hele ikke agtet den synderlig, og saaledes vil man vel undre sig over, hvor Nogen falder paa at udgive saa tyk en Islandsk Læsebog, især da Rask i Forveien har udgivet sin. Aarsagen er imidlertid denne: Jeg har i en Række af Aar givet Underviisning i Islandsk og savnet en Bog, der med den nödvendige Ordforklaring indeholdt saa fuldstændig en Samling af den ældste Nordiske Literatur, at hvem der havde læst den, kunde gjöre sig et Begreb om den hele Aand, som udtaler sig i Nordens ældste Böger, og med Lethed gaae over til at læse de övrige. En saadan Bog er det, jeg her har villet give, derfor udgjöre Udvalg af Sagaerne og de Eddiske Sange den störste Deel af Samlingen; Pröverne

af Kongespeilet ere tilföiede, for at give en Forestilling om dette mærkelige Værk, hvori Normanden vilde udtrykke sine Anskuelser af sin Tids Liv, men de övrige Vers staae der, deels for at Læseren kan gjöre sig lidt bekjendt med den indviklede Digtekunst, hvori selv de bedre Skjalde paa en vis Tid indklædte hvad de havde at sige, og deels for at han af de tilföiede Psalmer kan see, at det man kalder "det Nordiske Oldsprog" og "det nuværende Islandsk" er ikke mere forskjelligt end Kjöbenhavnerens Talesprog fra den Sjællandske Bondes, der boer i de Landsbyer, der ligge Hovedstaden nærmest.

Det var den Kongelige Direction for Fo den *ad usus publicos*, der ved at indstille dette Arbeide til Hans Majestæts Understöttelse gjorde det muligt for mig, ikke blot at udgive denne Bog, men paa samme Tid at besörge en Samling a Angelsaxiske Oldskrifter trykte og forklarede, hvorfor det er min Skyldighed offentlig at bevidne min hjertelige Erkjendtlighed.

Hermed være Bogen da mine Landsmænd anbefalet; at den har Feil og Mangler veed Ingen bedre end jeg, og jeg haaber, den om tyve Aar vil være overflödig, men at det dertil vil bidrage, om den bruges flittig nu, holder jeg mig ligesaa overbeviist om, som at de der forinden have gjennemgaaet Rasks ikke ville fortryde paa at lade denne fölge efter.

*Udgiveren.*

# Njáls Saga.

*Cap. 1. Frá Merði Gígju.* — Mörðr hèt maðr, er kallaðr var Gígja. Hann var son Sighvats hins Rauða, hann bjó á Velli á Rángárvöllum, hann var ríkr höfðíngi ok málafylgjumaðr mikill ok svâ mikill lagamaðr, at öngir þóttu lögligir dómar, nema hann væri í: hann átti dóttur eina, er Unnr hèt; hún var væn kona ok kurteis ok vel at sèr, ok þótti sá beztr kostr á Rángárvöllum. Nú víkr sögunni vestr til Breiðafjarðar dala. Maðr er nefndr Höskuldr, hann var Dalakollsson, hann bjó á Höskuldsstöðum í Laxárdal. Hrútr hèt bróðir hans, hann bjó á Hrútsstöðum, hann var sammæðr við Höskuld, faðir hans var Herjólfr. Hrútr var vænn maðr, mikill ok sterkr, vígr vel ok hógværr í skapi, manna vitrastr, hagráðr við vini sína, harðráðr við úvini sína, en tillaga-góðr hinna stærri mála. Þat var einhverju sinni, at Höskuldr hafði vina boð, ok þar var Hrútr, bróðir hans, ok sat hit næsta honum. Höskuldr átti sèr dóttur, er Hallgerðr hèt, hún lèk sèr á gólfinu við aðrar meyjar, hún var fríð sýnum ok mikil vexti, ok hárit svâ fagrt sem silki ok svâ mikit, at þat tók ofan á belti. Höskuldr kallar á hana: Farðu hingat til mín, segir hann. Hún gekk þegar til hans, hann tók undir kverkina ok kysti hana, síðan gekk hún í braut. Þá ræddi Höskuldr til Hrúts: Hversu lízt þèr á

mey þessa, þikki þèr ei fögr vera? Hrútr þagði við. Höskuldr mælti til hans í annat sinn. Hrútr svaraði þá: Ærit fögr er mær sjá, ok munu margir þess gjalda; en hitt veit ek eigi, hvaðan þiófs augu eru komin í ættir vârar. Þá reiddist Höskuldr, ok var fátt um með þeim bræðrum nokkura hríð. Bræðr Hallgerðar voru þeir Þórleikr, faðir Bolla, ok Ólafr, faðir Kiartáns, ok Bárðr.

*Cap. 2. Hrútr bað Unnar.* — Þat var einhverju sinni, at þeir bræðr riðu til alþingis, Höskuldr ok Hrútr, þar var fjölmenni mikit. Þá ræddi Höskuldr við Hrút: Þat vilda ek, bróðir, at þú bættir ráð þitt ok bæðir þèr konu. Hrútr svarar: Lengi hefir mèr þat í hug verit, ok hefir mèr þó tvennt um sýnzt, en nú vil ek þó gera at þínu skapi; eða hvar skulu við áleita? Höskuldr svaraði: Hèr eru nú höfðingjar margir á þingi, ok er gott um at velja; en þó hefi ek í einum stað ástofnat fyrir þína hönd: kona heitir Unnr ok er dóttir Marðar Gígju, hins vitrasta manns, ok er hann hèr á þingi ok svâ dóttir hans, ok mát þú sjá hana, ef þú vilt. Ok annan dag eptir, er menn gengu til lögrèttu, sá þeir konur úti hjá Rángæinga búð vel búnar. Þá mælti Höskuldr við Hrút: Þar er hún nú Unnr, er ek sagða þèr frá, eða hversu lízt þèr á hana? Vel, segir hann, en eigi veit ek, hvârt við eigum heill saman. Síðan gánga þeir til lögrèttu. Mörðr Gigja mælti lögskil at vanda sínum ok gekk heim til búðar síðan. Höskuldr stóð upp ok Hrútr ok gengu til búðar Marðar ok inn í búðina. Mörðr sat í innanverðri búðinni, þeir kvöddu hann, hann stóð upp í móti þeim ok tók í hönd Höskuldi, ok settist hann niðr hjá honum, en Hrútr sat hit næsta honum. Síðan töluðu þeir margt, ok komu þar niðr ræður Höskuldar, at ek mæli til kaupa við þik: vill Hrútr gerast mágr þinn ok kaupa dóttur þína, ok skal ek ekki mitt tilspara. Mörðr svarar: Veit ek, at þú ert höfðingi mikill, en bróðir þinn er mèr ókunnr. Höskuldr mælti: Framar er hann en ek. Mörðr mælti:

Mikit munt þú þurfa fram at leggja med honum, þvíat hún á allan arf eptir mik. Eigi þarf ok lengi at bíða hvat ek skal ákveða, segir Höskuldr, hann skal hafa Kamnes ok Hrútsstaði ok upp til Þrándargils ok kaupskip í siglingum. Hrútr talaði þá til Marðar: Hugsa svâ um bóndi, at bróðir minn mun mèr mjök hafa fram haldit fyrir ástar sakir, en ef þèr vilit gera málit at álitum, þá vil ek, at þèr gerit kostinn. Mörðr svaraði: Hugsat hefi ek kostinn: hún skal hafa LX hundraða, ok skal aukast þriðjúngi í þínum garði; en ef þit eigit erfingja, þá skal helmingar fèlag með ykkr. Hrútr mælti: Þenna kost vil ek, ok höfum nú vâtta við. Síðan stóðu þeir upp ok tókust í hendr, ok fastnaði Mörðr Hrúti dóttur sína Unni, ok skyldi boð vera hálfum mánaði eptir mitt sumar at Marðar. Nú ríða þeir heim af þingi hvârirtveggju ok ríða þeir vestr hjá Hallbjarnar vörðum, þá reið í móti þeim Þjóstólfr, son Bjarnar Gullbera, úr Reykjardal, ok sagði þeim skipkvâmu í Hvitá, ok var þar kominn út Özurr, föðurbróðir Hrúts, ok vildi at Hrútr kæmi til fundar við hann sem fyrst. En er Hrútr spurði þetta, þá bað hann Höskuld fara til skips með sèr. Höskuldr fór ok þeir bræðr. En er þeir komu til skips, fagnar Hrútr Özuri frænda sínum vel ok blíðliga. Özurr bauð þeim inn í búðina at drekka. Síðan var tekit af hestum þeirra ok gengu þeir inn ok drukku. Hrútr mælti til Özurar: Nú skalt þú ríða vestr með mèr frændi ok vera með mèr í vetr. Eigi hentir svâ frændi, þvíat ek segi þèr lát Eyvindar bróður þíns; en hann leiddi þik til arfs á Gulaþíngi, ok munu nú taka óvinir þínir, ef þú kemr eigi til. Hvat skal nú til ráða bróðir? segir Hrútr, þikki mèr nú vandast málit, er ek hefi áðr ráðit brúðlaup mitt. Höskuldr mælti: Þú skalt ríða suðr til fundar við Mörð, ok bið hann at þit skipit máldaga, ok siti dóttir hans þrjá vetr í festum, en ek mun ríða heim ok flytja vöru þína til skips. Hrútr mælti: Nú

vil ek, at þú takir mjöl ok við ok slíkt annat, sem þér líkar af varningi. Hrútr lèt taka hesta sína ok reið hann suðr, en Höskuldr reið heim vestr. Hrútr kom austr á Rángárvöllu til Marðar ok hafði þar góðar viðtökur. Hrútr sagði Merði allt efni sitt ok bad hann ráð áleggja. Mörðr segir: Hversu mikit fè er þetta? Hrútr sagði vera C. marka, ef hann fengi allt. Mörðr mælti: Mikit er þat í móti erfðinni minni, en nú skalt þú fara, ef þú vilt. Siðan breyttu þeir máldögum sínum, ok skyldi Unnr sitja þrjá vetr í festum. Nú ríðr Hrútr til skips ok er við skip um sumarit, þar til er búit var. Höskuldr færði fè allt til skips, þat sem Hrútr átti. Hrútr fèkk Höskuldi í hendr fjárvarðveizlu sína vestr þar, meðan hann væri utan, reið Höskuldr heim til bús síns. Litlu síðar gaf þeim byr, ok sigla þeir í haf, þeir voru úti þrjár vikur ok komu við Hernar ok sigla austr til Víkur.

*Cap. 3. Frá Hrúti ok Gunnhildi Konúngamóður.* — Haraldr Gráfeldr rèð fyrir Noregi, hann var son Eiríks konúngs Blóðaxar, Haraldssonar Hárfagra. Gunnhildr hèt moðir hans ok var dóttir Özurar Tóta, þau höfðu aðsetu austr í Konúngahellu. Nú spurðist skipkvâman austr þángat til Víkurinnar, ok þegar er þetta frèttir Gunnhildr, spurði hún eptir, hvat Íslendskra manna væri á skipi? Henni var sagt, at Hrútr hèt madr ok var bróðurson Özurar. Gunnhildr mælti: Ek veit gerla hann mun ætla at heimta erfð sína, en sá maðr hefir at varðveita, er Sóti heitir. Siðan kallar hún á skósvein sinn, er Ögmundr hèt: Ek vil senda þik til Víkurinnar á fund Özurar ok Hrúts, ok seg, at ek býð þeim báðum til mín í vetr, ok seg, at ek vil vera vin þeirra, ok ef Hrútr ferr mínum ráðum fram, þá skal ek sjá um fèmál hans ok um þat annat, er hann tekr at henda: ek skal ok koma honum fram við konúnginn. Siðan fór hann ok kom á fund þeirra. En þegar þeir vissu, at hann var sveinn Gunnhildar, tóku þeir vel við honum. Hann sagði eyrindi

sin þeim af hljóði. Síðan töluðu þeir leyniliga ráðagerð sina, ok ræddi Özurr við Hrút: Svâ lizt mèr frændi, sem nú munim við hafa gert ráð okkat; þvíat ek kann skapi Gunnhildar: jafnskjótt sem við viljum eigi fara til hennar, mun hún reka okkr úr landi, en taka fè okkat allt með ráni; en ef við förum til hennar, þà mun hún gera okkr slíka sæmd, sem hún hefir heitit. Ögmundr fór heim, ok er hann fann Gunnhildi, sagði hann henni eyrindislok sín, ok þat at þeir myndu koma. Gunnhildr mælti: Sliks var von, þvíat Hrútr er vitr maðr sagðr ok vel at sèr; en nú hafðu njósn af nær þeir koma til bæarins, ok seg mèr. Þeir Hrútr fóru austr til Konúngahellu, en er þeir komu þar, gengu í móti þeim frændr ok vinir ok fögnuðu þeim vel; þeir spurðu hvárt konúngr væri í bænum, þeim var sagt, at hann var þar. Síðan mættu þeir Ögmundi, hann sagði þeim kveðju Gunnhildar ok þat með, at hún myndi ekki bjóða þeim fyrri en þeir hefði fundit konúng fyrir orðs sakir, at svâ þikki sem ek grípa gulli á víd þá, en ek mun tilleggja slíkt er mèr sýnist, ok veri Hrútr djarfmæltr við konúng ok biði hann hirðvistar; hèr eru ok tignarklæði, er hún sendi þèr Hrútr, skalt þú í þeim gánga fyrir konúnginn. Síðan fór hann aptr. Annan dag eptir mælti Hrútr: Göngum fyrir konúng! Þat má vel, sagði Özurr, þeir gengu XII saman, ok voru þeir allir frændr þeirra ok vinir. Þeir komu í höllina, er konúngr sat yfir drykkiu, gekk Hrútr fyrst ok kvaddi konúnginn. Konúngr hugði vandliga at manninum, er vel var búinn, ok spurði hann at nafni, hann nefnir sik. Ertu íslendskr maðr? segir konúngr. Hann sagði at svâ var. Hvat hvatti þik híngat á vârn fund? Hrútr svarar: At sjá tign yðra, herra, ok þat annat, at ek á erfðamál mikit hèr í landi, ok mun ek yðvar þurfa við at njóta, ef ek fæ rètt af. Konúngr segir: Hverjum manni hefi ek heitit lögum hèr í landi, eða hver eru fleiri eyrindi þín á vârn fund? Herra, segir Hrútr, ek vil biðja yðr hirðvistar ok gerast

yðar maðr. Konúngr þagnar við. Gunnhildr mælti: Svâ lizt mèr sem sjá maðr bjóði yðr ena mæstu sæmd, því at mèr lizt svâ, ef slikir væri margir innanhirðar, sem þá væri vel skipat. Er hann vitr maðr? sagði Konúngr. Bæði er hann vitr ok framgjarn, segir hún. Þat þikki mèr, sem móðir mín vili, at þú fáir nafnbót slika, sem þú mælir til, en for tignar sakir vârrar ok lands siðar, þá kom þú til mín á hálfs mánaðar fresti, skalt þú þá gerast hirðmaðr minn, en móðir min haldi þèr kost þar til, ok kom þá á minn fund. Síðan gjörðist hann hirðmaðr ok var med konúngi um vetrinn vel metinn.

*Cap. 4. Um sigling Hrúts.* — Um vârit spurði hann til Sóta, at hann var farinn suðr til Danmerkr með erfðina, þá gekk Hrútr á fund Gunnhildar, ok segir henni frá ferðum hans. Gunnhildr mælti: Ek mun fá þèr tvö lángskip skipuð mönnum, ok þar með enn hraustasta mann Úlf úþveginn, gesta höfðingja vârn, en þó gakk þú at finna konúng, áðr þú farir. Hrútr gerði svâ, ok er hann kom fyrir konúng, þá sagði hann konúngi um ferðir Sóta, ok þat er hann ætlar eptir honum at halða. Konúngr mælti: Hvern styrk hefir móðir mín tillagit með þèr? Lángskip tvö ok fyrir liðinu Úlf óþveginn, segir Hrútr. Vel er þess fengit, segir konúngr, nú vil ek gefa þer önnur tvö skip ok munt þú þó þurfa þessa liðs alls. Síðan fylgði hann Hrúti til skips ok mælti: Fari þèr vel. Síðan siglði Hrútr liði sinu suðr.

*Cap. 5. Dráp Atla Arnviðarsonar.* — Atli hèt maðr, hann var son Arnviðar Jarls úr Gautlandi enu eystra, hann hafði haldit sköttum fyrir Hákoni Aðalsteinsfóstra, ok stukku þeir feðgar til Gautlands úr Jamtalandi. Síðan hèlt Atli liðinu úr Leginum út um Stokssund, ok svâ suðr til Danmerkr ok liggr úti í Eyrasundi, hann er útlagi bæði Danakonúngs ok Svíakonúngs. Hrútr hèlt suðr til Eyrasunds, ok er hann kom í sundit, sèr hann fjölda skipa í sundinu. Þá mælti Úlfr: Hvat skal nú til ráða taka Íslendíngr? Halda

fram ferðinni, segir Hrútr, þvíat ekki dugir úfreistat, skal skip okkat Özurar fara fyrst, en þú skalt leggja fram sem þèr likar. Sjaldan hefi ek aðra haft at skildi fyrir mèr, segir Úlfr, ok leggr fram skeiðina jafnfram skipi Hrúts, ok halda svâ fram í sundit. Nú sjá þeir, er í sundinu eru, at skip fara at þeim, þeir segja Atla, hann svaraði: Þá gefr vel til fjár at vinna! Síðan skipuðu þeir til á hverju skipi; en mitt skip skal vera i miðjum skipaflotanum, segir Atli. Síðan renna fram skipin, ok þegar er hvârir ná máli annarra, stóð Atli upp ok mælti: Þèr farit úvarliga, sáuð þèr eigi, at herskip voru í sundinu, eða hvört er nafn höfðingja yðvars? Hrútr segir til sín. Hvörs maðr ert þú? segir Atli. Hirðmaðr Haralds konúngs Gráfeldar. Atli mælti: Lengi höfum við feðgar ekki kærir verit Noregs konúngum yðrum. Ógæfa þín er þat, segir Hrútr. Svâ hefir borit saman fund okkarn, segir Atli, at þú skalt eigi kunna frá tíðendum at segja, ok þreif upp spjót ok skaut á skip Hrúts, ok hafði sá bana er fyrir varð. Síðan tókst orrosta með þeim, ok sóttist þeim seint skip þeirra Hrúts. Úlfr gekk vel fram ok gerði ýmist, hjó eða lagði. Asólfr hèt stafnbúi Atla, hann hljóp upp á skip Hrúts ok varð fjögurra manna bani, áðr Hrútr varð varr við, sneri hann þá í móti honum, en er þeir fundust lagði Asólfr í skjöld Hrúts ok í gegnum, en Hrútr hjó til Asólfs, ok varð þat hans banahögg. Þetta sá Úlfr óþveginn ok mælti: Bæði er nú Hrútr, at þú höggr stórt, enda áttu mikit at launa Gunnhildi. Þess varir mik, segir Hrútr, at þú mælir feigum munni. Nú sèr Atli beran vâpnastað à Úlfi ok skaut spjóti í gegnum hann; nú tekst orrosta mikil. Atli hleypr upp à skip at Hrúti ok ryðst um fast, ok nú snýr í móti honum Özurr ok lagði til hans ok fèll sjálfr á bak aptr, þvíat annar maðr lagði til hans. Hrútr sneri nú í móti Atla, hann hjó þegar í skjöld Hrúts ok klauf allan niðr; þá fèkk Atli steinshögg á höndina ok fèll niðr sverðit, Hrútr tók sverðit ok hjó undan honum fotinn,

siðan veitti hann honum banasár. Þar tóku þeir fè mikit ok höfðu með sèr tvö skip þau er bezt voru ok dvölðust þar litla hrið siðan. Þeir Sóti fórust hjá, ok hèlt hann aptr til Noregs ok kom við Limgarðs siðu, ok gekk Sóti þar á land. Þar mætti hann Ögmundi, sveini Gunnhildar, hann kendi hann þegar ok spyrr: Hversu lengi ætlar þú hèr at vera? Ill nætr, segir Sóti. Hvert ætlar þú þá? segir Ögmundr. Vestr til Englands, segir Sóti, ok koma aldregi til Noregs siðan, meðan riki Gunnhildar er i Noregi. Ögmundr gekk i brott ok ferr á fund Gunnhildar, þviat hún var þaðan skamt á veizlu ok Guðröðr son hennar. Ögmundr sagði Gunnhildi fyrirætlan Sóta, hún bað Guðröð taka hann af lifi. Guðröðr fór þegar ok kom á úvart Sóta ok lèt leiða hann á land upp ok festa þar upp, en tók fèit ok færði móður sinni, hún fèkk til menn at færa fèit allt til Konúngahellu, siðan fór hún ok þángat. Hrútr hèlt aptr um haustit ok hefir fengit of fjár, ok fór þegar á fund konúngs ok hafði af honum góðar viðtökur; hann bauð þeim at hafa af slikt sem þau vildi, en konúngr tók af þriðiúnginn. Gunnhildr sagði Hrúti at hún hafði tekit erfðina, en látit drepa Sóta, hann þakkaði henni ok gaf henni allt hálft við sik.

*Cap. 6. Útsigling Hrúts.* — Hrútr var með konúngi um vetrinn i góðu yfirlæti, en er váraðist gerðist hann hljóðr mjök. Gunnhildr finnr þat ok mælti til hans, er þau voru tvö saman: Ert þú hugsjúkr? Hrútr segir: Þat er sem mælt er, at illt er þeim er aulandi er alinn. Vilt þú til Islands? segir hún. Þat vil ek, segir hann. Átt þú konu nokkura út þar? segir hún. Eigi er þat, segir hann. Þat hefi ek þó fyrir satt, segir hún. Siðan hættu þau málinu. Hrútr gekk fyrir konúng ok kvaddi hann. Konúngr mælti: Hvat vilt þú nú Hrútr? Ek vil beiðast herra, at þèr gefit mèr orlof at fara til Íslands. Mun þin sæmd þar meiri enn hèr? segir konúngr. Eigi mun þat, segir Hrútr,

en þat verðr hverr at vinna, er ætlat er. Við ramman mun reip at draga, segir Gunnhildr, ok leyfi þèr honum at fara sem honum gegnir bezt. Þá var ært illa í landi, en þó fèkk Gunnhildr honum mjöl sem hann vildi hafa. Nú býst hann út til Íslands ok Özurr með honum, ok er þeir voru albúnir, gekk Hrútr at finna konúng ok Gunnhildi: konúngr mælti vel til hans ok bað hann vel fara. Hrútr gekk þegar til skips, ok gaf honum vel byri, ok tóku Borgarfjörð. En þegar skip var landfast, reið Hrútr vestr heim, en Özurr lèt ryðja skipit. Hrútr reið á Höskuldsstaði; Höskuldr tók við honum vel, ok segir Hrútr honum allt um ferðir sínar. Síðan sendu þeir menn austr um ár til Marðar Gigju at búast við boði. En þeir riðu síðan bræðr til skips, ok sagði Höskuldr Hrúti fjárhagi sína, ok hafði mikit ágræðst meðan hann var í brautu. Hrútr mælti: Minni munu verða launin, enn vert væri, en fá vil ek þèr mjöl svâ sem þú þarft í bú þitt í vetr. Síðan rèðu þeir skipinu til hlunns ok bjuggu um, en færðu allan varninginn vestr til Dala, var Hrútr heima á Hrútsstöðum til VI vikna. Þá bjuggust þeir bræðr ok Özurr með þeim at ríða austr til brúðlaups Hrúts ok riðu við LX manna. Þeir riðu þar til er þeir komu austr á Rángárvöllu, þar var fjöldi fyrir boðsmanna, skipuðust menn þar í sæti, en konur skipuðu pall, ok var brúðrin döpur heldr: drekka þeir veizluna ok ferr hún vel fram. Mörðr greiðir fram heimanfylgju dóttur sinnar, ok ríðr hún vestr með þeim, þau riðu þar til er þau komu heim. Hrútr fèkk henni öll ráð í hendr fyrir innan stokk, ok líkaði þat öllum vel, en fátt var með þeim Hrúti um samfarar, ok ferr svâ fram alt til vârs. Ok þá er váraði, átti Hrútr för í Vestfjörðu at heimta fyrir varníng sinn. En áðr hann fór talar kona hans við hann: Hvârt ætlar þú aptr at koma, áðr menn ríða til þíngs? Hvat er at því? segir Hrútr. Ek vil ríða til þíngs, segir hún, ok finna föður minn. Svâ skal þá vera, segir hann, ok mun ek ríða til þíngs með þèr.

Vel er þat ok, segir hún. Sidan reið hann heiman ok vestr i Fjörðu, ok bygði allt fèit ok reið heim siðan; ok er hann kom vestan, þá býr hann sik til alþíngis ok lèt ríða með sèr alla nábúa sina. Höskuldr reið ok bróðir hans. Hrutr mælti við konu sína: Ef þèr er jafnmikill hugr á at fara til þings sem þú læzt, þá bú þú þik ok ríð til þings með mèr; hún bjó sik skjótt, ok síðan ríða þau á þíng. Unnr gekk til búðar föður síns, hann fagnaði henni vel, en henni var skapþúngt nokkut, ok er hann fann þat, mælti hann til hennar: Sèð hefi ek þik með betra bragði, eða hvat býr þèr i skapi? hún tók at gráta ok svaraði eingu; þá mælti hann við hana: Til hvörs reiðst þú til þings, ef þú vilt eigi segia mèr trúnað þinn, eða þikki þèr eigi gott vestr þar? Hún svaraði: Gefa munda ek til alla eigu mína at ek hefða þar alldri komit. Mörðr mælti: þessa mun ek skjótt víss verða; þá sendi hann menn eptir þeim Höskuldi ok Hrúti, þeir fóru þegar, ok er þeir komu á fund Marðar, stóð hann upp i móti þeim ok fagnaði þeim vel ok bað þá sitja, töluðu þeir lengi, ok fór tal þeirra vel. Þá mælti Mörðr til Höskuldar: Hví þikkir dóttur minni svâ illt vestr þar? Hrútr mælti: Segi hún til ef hún hefir sakagiptir nokkurar við mik! En þær urðu eingar uppbornar við Hrút; þá lèt Hrútr eptirspyrja nábúa sína ok heimamenn hversu hann gjörði til hennar, þeir báru honum gott vitni ok sögðu hana eina ráda því sem hún vildi. Mörðr mælti: Heim skalt þú fara, ok una vel við ráð þitt, þviat honum gánga öll vitni betr enn þèr. Síðan reið Hrútr heim af þíngi ok kona hans með honum, ok var nú vel með þeim um sumarit. En þá er vâraði þá dró til vanda með þeim, ok var þess verr er meirr leið á vârit, ok kom þar svâ umsiðir, at hún reið til þings i annat sinn ok talaði við föður sinn ok sagðist ekki vilja annat, en hún væri skilin við Hrút.

*Cap. 7. Skilnaðr Unnar við Hrút.* — Mörðr mælti: Ráð mun ek leggja á með þèr, þat er þèr mun duga, ef þú

kant með at fara ok bregðir þú hvergi af. Nú skalt þú heim ríða fyrst af þingi, ok mun bóndi þinn heim kominn ok taka við þèr vel; þú skalt vera við hann blíð ok eptirmál, ok mun honum þikkja góð skipan á komin: þú skalt öngva fáleika á þèr sýna, en þá er vârar skalt þú kasta á þik sótt ok liggja í rekkju. Hrútr mun öngum getum vilja leiða um sóttarfar þitt ok ámæla þèr í öngu, heldr mun hann biðja, at allir geymi þín sem bezt. Síðan mun hann fara í Fjörðu vestr ok Sigmundr með honum, ok mun hann flytja allt fè sitt vestan úr Fjörðum ok vera í brott lengi sumars. En þá er menn ríða til þings, ok þá er allir menn eru riðnir úr dǿlunum, þeir er ríða ætla, þá skalt þú rísa úr rekkju, ok kveðja menn til ferðar með þèr. En þá er þú ert albúin, þá skalt þú gánga til hvílu þinnar ok þeir menn með þèr sem förunautar þínir eru: þú skalt nefna vâtta hjá hvílu búanda þíns ok segja skilit við hann lagaskilnaði, svâ sem framast má at alþíngis máli ok allsherjar lögum; slika vâttnefnu skalt þú hafa fyrir karldyrum; síðan ríð í braut, ok ríð Laxárdalsheiði, ok svá til Holtavörðuheiðar, þvíat þín mun leitað til Hrútafjarðar, ok ríð þar til er þú kemr til mín, ok mun ek þá sjá fyrir málinu, ok skalt þú alldregi síðan koma honum í hendr. Nú ríðr hún heim af þingi, ok var Hrútr heim kominn ok fagnaði henni vel, hún tók vel máli hans ok var við hann blíð. þeirra samfarar voru góðar þau misseri, en er vâraði, tók hún sótt ok lagðist í rekkju. Hrútr fór í Fjörðu vestr ok bað henni virkta áðr. Nú er kemr at þingi bjó hún ferð sína í braut ok fór með öllu svâ sem fyrr var sagt ok ríðr á þing síðan. Hèraðsmenn leituðu hennar ok fundu hana eigi. Mörðr tók við dóttur sinni vel ok spurði hana, hversu hún hafði með farit ráðagerð hans. Hvergi hefi ek afbrugdit, segir hún: hún gekk til lögbergs ok sagði skilit við Hrút, þetta gerðu menn at nýum tiðindum. Unnr fór heim med föður sínum ok kom alldri vestr þar síðan.

*Cap. 8. Fjárheimta Marðar af Hrúti.* — Hrútr kom heim ok brá mjök í brún, er kona hans var í brautu, ok er þó vel stiltr ok var heima öll þau misseri ok rèðst við öngan mann um sitt mál. Annat sumar eptir reið hann til alþingis ok Höskuldr bróðir hans með honum ok fjölmentu miök. En er hann kom á þíng, þá spurði hann hvârt Mörðr Gígja væri á þíngi, honum var sagt at hann var þar, ok ætluðu allir at þeir myndi tala um mál sitt, en þat varð ekki. Einnhvern dag, er þeir gengu til lögbergs ok aðrir þingmenn, nefndi Mörðr sèr vâtta ok lýsti fèsök á hendr Hrúti um fèmál dóttur sinnar, ok taldi XC hundraða fjár, lýsti hann til gjalda ok útgreizlu, ok lèt varða þriggja marka útlegð; hann lýsti í fjórðúngsdóm þann sem sökin átti í at koma at lögum, lýsti hann löglýsing ok í heyranda hljóði at lögbergi. En er hann hafði þetta mælt svaraði Hrútr: Meir sækir þú þetta mál með fjár ágirnd ok kappi, er heýrir til dóttur þinnar, heldr en við góðvild eða drengskap, enda mun ek hèr láta nokkut í móti koma, þvíat þú hefir enn eigi fèit í hendi þèr, þat er ek fer með: mæli ek svâ fyrir, at þeir sè allir heyrandi vâttar er hjá eru at lögbergi, at ek skora þèr á hólm, skal þar við liggja mundrinn allr, ok þar legg ek í móti annat fè jafnmikit, ok eigi sá hvârtveggja fèit, er af öðrum berr; en ef þú vilt eigi berjast við mik, þá skalt þú af allri fjárheimtinni. Þá þagnaði Mörðr ok rèðst um við vini sína um hólmgönguna. Honum svaraði Jörundr goði: Eigi þarf þú við oss ráð at eiga um þetta mál, þvíat þú veitst ef þú berst við Hrút, at þú munt láta bæði lífit ok fèit, er honum vel farit, er hann mikill af sjálfum sèr ok manna fræknastr. Þá kvað Mörðr þat upp at hann mundi eigi berjast við Hrút; þá varð óp mikit at lögbergi ok óhljóð, ok hafði Mörðr af hina mestu svívirðu, síðan ríða menn heim af þíngi.

*Cap. 9. Frá því er Þórvaldr fèck Hallgerðar.* — Nú er þar til máls at taka, at Hallgerðr vex upp dóttir

Höskuldar ok er kvenna fríðust sýnum ok mikil vexti, ok því var hún Lángbrók kölluð. Hún var fagrhár ok svâ mikit hárit, at hún mátti hylja sik með, hún var örlynd ok skaphörð. þjóstólfr hèt fóstri hennar, hann var suðreyskr at ætt, hann var styrkr maðr ok vigr vel ok hafði marga menn drepna ok bætti öngan mann fè, þat var mælt at hann væri eingi skapbætir Hallgerði. Maðr er nefndr þórvaldr, hann var Ósvifrsson, hann bjó út á Meðalfellsströnd undir Felli, hann var vel auðigr at fè, hann átti eyjar þær er heita Bjarneyar, þær liggia út á Breiðafirði, þaðan hafði hann skreið ok mjöl. þórvaldr var vel styrkr maðr ok kurteiss, nokkut bráðr í skaplyndi. þat var einhverju sinni at þeir feðgar ræddu með sèr hvar þórvaldr myndi áleita um kvânfáng, en þat fannst á, at honum þótti sèr úvíða fullkosta. þá mælti Ósvifr: Vilt þú biðja Hallgerðar Lángbrókar, dóttur Höskuldar? Hennar vil ek biðja, segir hann. þat mun ykkr ekki mjök hent, segir Ósvifr: hún er kona skapstór, en þú harðlyndr ok úvæginn. þar vil ek þó áleita, segir hann, ok mun mik ekki tjóa at letja. þú átt ok mest í hættu, segir Ósvifr. Síðan fóru þeir bónorðsför ok komu á Höskuldsstaði ok höfðu þar góðar viðtökur. þeir ræddu þegar eyrindi sín fyrir Höskuldi ok vöktu bónorðit. Höskuldr svaraði: Kunnigt er mèr um hag ykkarn, en ek vil einga vèl at ykkr draga, er dóttir mín er hörð í skapi, en um yfirlit hennar ok kurteisi megu þit sjálfir sjá. þórvaldr svaraði: Gerðu kostinn, þvíat ek mun skaplyndi hennar ekki láta fyrir kaupi standa. Síðan tala þeir um kaupit, ok spurði Höskuldr dóttur sína ekki eptir, þvíat honum var hugr á at gipta hana, ok urðu þeir sáttir á allan kaupmála. Síðan festi þórvaldr Hallgerði ok reið heim við svâ búit.

*Cap. 10. Frá brúðlaupi Hallgerðar.* — Höskuldr sagði Hallgerði kaupit, hún mælti: Nú em ek at raun komin um þat er mik hefir lengi grunat, at þú mundir eigi unna mèr svâ mikit sem þú sagðir jafnan, er þèr þótti eigi þess vert

at við mik væri umtalat þetta mál; enda þikki mèr ráð þetta ekki svâ mikils háttar sem þèr hètuð mèr; ok fannst þat á öllu er hún þóttist vargefin vera. Höskuldr mælti: Ekki legg ek svâ mikit við ofmetnað þinn, at hann standi fyrir kaupum mínum, ok skal ek ráða, en eigi þú, ef okkr skill á. Mikill er metnaðr yðar frænda, sagði hún, ok er þat eigi undarligt at ek hafa nokkurn, ok gekk á brott síðan. Hún fann fóstra sinn Þjóstólf ok sagði honum hvat ætlat var, ok var henni skapþúngt. Þjóstólfr mælti: Gerðu þèr gott i skapi, þú munt vera gefin i annat sinn ok muntu þá eptirspurð, þviat allsstaðar mun ek gera at þinu skapi nema þar er faðir þinn er eða Hrútr, síðan tala þau ekki um fleira. Höskuldr bjó veizlu ok reið at bjóða mönnum til, ok kom á Hrútsstaði ok kallar Hrút út til máls við sik. Hann gekk út ok gengu þeir á tal, ok sagði Höskuldr honum kaupmála allan ok bauð honum til boðs, ok vilda ek at þèr þætti eigi verr, þótt ek gerða þèr eigi orð þá er kaupit rèðst. Betr þætti mèr at ek kæma hvergi í nánd, sagði Hrútr, þviat hvârigu mun i þessu kaupi gipta, honum nè henni; en þó mun ek fara til boðs ef þèr þikkir sæmd í. Þat þikki mèr víst, sagði Höskuldr, ok reið heim síðan. Osvífr ok Þórvaldr buðu ok mönnum, ok var eigi boðit færra en hundraði. Maðr er nefndr Svanr, hann bjó i Bjarnarfirði, þat er norðr frá Steingrímsfirði. Svanr var fjölkunnigr mjök, hann var móðurbróðir Hallgerðar, hann var údæll ok illr viðreignar; honum bauð Hallgerðr til boðs ok sendi honum Þjóstólf, hann fór, ok var vináttumál með þeim Þjóstólfi. Nú koma menn til veizlunnar ok sat Hallgerðr á palli, ok var brúðrin allkát, ok gekk Þjóstólfr jafnan til tals við hana, en stundum talar hann við Svan ok fannst mönnum mikit um tal þeirra. Veizlan for vel fram. Höskuldr leysti út fè Hallgerðar með hinum bezta greiðskap. Síðan mælti hann til Hrúts: Skal ek nokkurar gjafir framleggja? Hrútr svaraði:

Kostr mun þèr af tómi at eyða fè þínu fyrir Hallgerði, ok lát hèr stað nema!

*Cap. 11. Dráp Þórvalds.* — Þórvaldr reið heim frá boðinu ok kona hans með honum ok Þjóstólfr, hann fylgði hesti hennar ok töluðu þau enn hljótt. Ósvífr veik at syni sínum ok mælti: Unir þú vel ráðinu, eða hversu fór tal með ykkr? Vel, sagði hann, alla blíðu lèt hún uppi við mik, ok máttu sjá mót á, er hún hlær við hvert orð. Eigi ætla ek hlátr hennar iamgóðan sem þú, segir Ósvífr, en þat mun þó síðar reynast. Þau ríða þar til er þau koma heim, en um kveldit sat hún hjá bónda sínum ok skipaði Þjóstólfi hit næsta sèr innar frá. Fátt áttust þeir við Þjóstólfr ok Þórvaldr ok varð þeim fátt at orðum um vetrinn, ok fór svâ fram. Hallgerðr var fengsöm ok stórlynd, enda kallaði hún til alls þess er aðrir áttu i nánd, ok hafði allt i sukki. En er vâraði var þar búskortr, ok skorti bæði mjöl ok skreið. Hallgerðr kom at máli við Þórvald ok ræddi: Eigi muntu þurfa at sitja til alls, þvíat bæði þarf i búit mjöl ok skreið. Þórvaldr mælti: Ekki fèkk ek minna til búss en vant er, ok endist þá allt á sumar fram. Hallgerðr mælti: Ekki fer ek at, þóttu hafir svelt þik til fjár ok faðir þinn; þá reiddist Þórvaldr ok laust hana i audlitit svâ at blæddi ok gekk síðan i brott ok kvaddi húskarla sína með sèr, ok hrundu þeir fram skútu ok hljópu þar á VI karlar ok reru út i Bjarnareyjar, tóku þar skreið sína ok mjöl. Nú er sagt frá Hallgerði, at hún sat úti ok var skapþúngt. Þjóstólfr gekk at ok sá, at hún var særð i andlitinu ok mælti: Hví ertu svá illa leikin? Þórvaldr veldr því, bóndi minn, sagði hún, ok stóðtu mèr þá fjarri, ef þèr þætti nokkut undir um mik. Ek vissa eigi, sagði Þjóstólfr, þó skal ek þessa hefna. Síðan gekk hann á brot ok til fjöru ok hratt fram skipi sexæru ok hafði i hendi öxi mikla, er hann átti, vafinskeptu, hann stígr á skip ok rær út i Bjarneyjar, ok er hann kom þar voru allir menn rónir nema

Þorvaldr ok förunautar hans: hann var at hlaða skútuna, en þeir báru á út menn hans. Þjóstólfr kom at í því ok hljóp upp á skútuna ok hlóð með honum ok mælti: Bæði ertu at þessu litilvirkr ok óhagvirkr! Þorvaldr mælti: Hygztu betr gera munu? sagði hann. Þat eitt munu við athafast at ek mun betr gera en þú, ok er sú kona illa gipt er þú átt, sagði hann, ok skyldu ykkar samfarar skammar vera. Þorvaldr þreif upp agnsax eitt, er var hjá honum ok leggr til Þjóstólfs; hann hafði borit öxina á öxl sér ok laust á móti, ok kom á höndina Þorvalds ok brotnaði handleggrinn, en saxit fèll niðr. Síðan færði Þjóstólfr upp öxina i annat sinn ok hjó i höfuð Þorvalds, ok hafði hann þegar bana.

*Cap. 12. Frá Þjóstólfi.* — Þá fóru þeir ofan menn Þorvalds með byrðarnar. Þjóstólfr tók til ráða skjótt, höggr hann þá tveim höndum borð skútunnar, ok gengu i sundr borðin um tvö rúm, ok hljóp i skip sitt, en á skútunni fèll inn sjór kolblár, ok sökk hún niðr með öllum farminum; þar sökk og niðr lik Þorvalds, ok máttu þeir eigi sjá, hversu Þorvaldr var tilgjörr, en hitt vissu þeir, at hann var dauðr. Þjóstólfr reri inn á fjörðinn, en þeir báðu hann illa fara ok alldri þrífast. Hann svaraði öngu ok reri þar til er hann kom heim, ok brýndi upp skipinu og gekk heim ok hafði uppi öxina, ok var hún blóðug mjök. Hallgerðr var úti ok mælti: Blóðug er öx þín, hvat hefir þú unnit? Nú hefi ek þat gjört at þú munt gefin verða i öðru sinni! Dauðan segir þú þá Þorvald, sagði hún. Svâ er, sagði hann, ok sjá þú nú nokkut ráð fyrir mèr. Svâ skal vera, sagði hún, ek vil senda þik norðr til Bjarnarfjarðar á Svanshól, ok mun Svanr frændi minn taka við þèr báðum höndum, ok er hann svâ mikill fyrir sèr, at þángat sækir þik eingi. Hann söðlaði hest, er hún átti, ok steig á bak ok reið norðr til Bjarnarfjarðar á Svanshól, ok tók Svanr við honum báðum höndum. Svanr mælti: Slika kalla ek menn

er eigi láta sèr allt í augu vaxa at gera, ok mun ek því heita þèr, ef þeir sækja þik híngat, at þeir skulu af því ena mestu skömm fá. Nú er þar til máls at taka er Hallgerðr er, at hún kvaddi til ferðar með sèr Ljót hinn svarta frænda sinn ok bað hann söðla hesta þeirra, ok vil ek ríða heim til föður míns. Hann bjó ferð þeirra. Hún geck til kistna sinna ok lauk upp ok kallar til sín heimamenn sína ok gaf þeim nokkura gjöf öllum, en þeir hörmuðu hana allir. Nú ríðr hún heim til föður síns, ok tók hann vel við henni, þvíat hann hafði eigi spurt tíðindin. Hrútr mælti til Hallgerðar: Hví fór Þórvaldr eigi með þèr? Hún svaraði: Dauðr er hann. Höskuldr mælti: Þjóstólfr mun því valda. Hún sagði svâ vera. Þat mun mèr sízt í tauma gánga, sagði Höskuldr, er Hrútr segir mèr, at hèr mundi til mikillar ógiptu draga um kaup þessi, en ekki mun tjá at saka sik um orðinn hlut. — Nú er þar til máls at taka er förunautar Þórvalds eru at þeir báðu sèr skips inn til lands; þeim var lèð þegar, ok reru þeir inn til lands at Reykjanesi ok fundu nú Ósvíf ok sögðu honum þessi tíðindi. Hann mælti: Illa gefast ills ráðs leifar, ok sè ek nú allt eptir, hversu farit hefir: Hallgerðr mun sent hafa Þjóstólf til Bjarnarfjarðar, en hún mun riðin heim til föður síns, skulum vèr nú samna liði ok sækja hann norðr þángat. Þeir gerðu svâ ok fóru í liðsbón, ok varð þeim gott til manna, ok riðu til Steingrímsfjarðar ok svâ til Ljótárdals ok til Selárdals ok svâ til Bjarnarfjarðar. Nú tók Svanr til orða ok geispaði mjök: Nú sækja at fylgjur Ósvífs; þá spratt Þjóstólfr upp. Svanr mælti: Gack þú út með mèr, lítils mun við þurfa; síðan gengu þeir út báðir. Svanr tók geitskinn eitt ok vafði um höfuð sèr ok mælti: Verði þoka ok verði skrípi ok undr mikil öllum þeim, sem eptir þèr sækja. Nú er frá því at segja, at þeir Ósvífr riðu á hálsinn ok menn hans, þá kom þoka mikil í móti þeim. Ósvífr mælti: Þessu mun Svanr

valda, ok væri vel ef eigi fylgði meira illt. Litlu síðarr seig sorti mikill fyrir augu þeim svâ at þeir sá ekki, ok fèllu þeir þá af baki ok týndu hestunum ok gengu í fen ofan sjálfir, en sumir í skóginn, svâ at þeim hèlt við meiðíngar, þeir töpuðu af sèr vâpnunum; þá mælti Ósvífr: Ef ek fynda hesta mína ok vâpn, þá munda ek aptr hverfa; ok er hann hafði þetta mælt, þá sá þeir nockut ok fundu hesta sína ok vâpn. Þá eggjuðu enn margir á at við skyldi leita um atreiðna, ok var þat gjört, ok urðu þeim þegar en sömu undr, ok fór svâ þrim sinnum. Þá mælti Ósvífr: Þótt förin sè eigi góð, þá skal þó nú aptr hverfa. Nú skulum vèr gjöra ráð vârt i annat sinn, ok hefi ek þat helzt í hug mèr at fara ok finna Höskuld ok beiða hann sonar bóta; þvíat þar er sæmdar von er gnóg er til. Þaðan riðu þeir til Breiðafjarðardala, ok er nú ekki fyrr frá at segja enn þeir koma á Höskuldsstaði; þar var þá fyrir Hrútr. Ósvífr kvaddi út Höskuld ok Hrút, þeir gengu út báðir ok heilsuðu Ósvífi, en síðan gengu þeir á tal. Höskuldr spurði Osvíf hvaðan hann kæmi at? hann kveðst hafa farit at leita Þjóstólfs ok fundit hann eigi. Höskuldr sagði hann kominn mundu norðr á Svanshól, ok er þat eigi allra at sækja hann þángat. Því em ek hèr kominn, segir Ósvífr, at ek vil beiða þik sonar bóta. Höskuldr svaraði: Eigi drap ek son þinn, ok eigi rèð ek honum banaráð, en þó heldr þik vârkunn til at leita á nokkur. Hrútr mælti: Náit er bróðir nef augum, ok er nauðsyn at drepa niðr illu orði ok bæta honum son sinn ok rifka svâ ráð fyrir dóttur þinni, þvíat sá einn er til, er þetta falli niðr, þvíat þá er betr at fátt sè um talat. Höskuldr mælti: Vilt þú gera um málit? Þat vil ek, segir Hrútr, ok mun ek ekki hlífa þèr í gjörðinni, því ef satt skal um tala, þá hefir dóttir þin ráðit honum banann. Hrútr þagði þá nokkura stund; síðan stóð hann upp ok mælti til Ósvífs: Tak nú í hönd mèr ok handsala niðrfall at sökum. Osvífr stóð upp ok mælti: Eigi er þat jafnsætti at bróðir þinn gjöri um,

en þó hefir þú svâ vel til lagt at ek trúi þèr vel at gera um málin. Síðan stóð hann upp ok tók í hönd Höskuldi, ok sættust þeir svâ á málit, at Hrútr skyldi gera ok lúka upp gerðinni áðr Ósvífr færi brot. Síðan gerði Hrútr ok mælti: Fyrir víg Þórvalds geri ek tvö hundruð silfrs, (þat þótti þá góð manngjöld) ok skal gjalda þegar bróðir ok leysa vel af hendi. Höskuldr gerði svâ. Þá mælti Hrútr til Ósvífs: Ek vil gefa þèr skikkju góða er ek hafða út, hann þakkaði honum gjöfina ok undi nú vel við þar sem komit var, ok fór heim. Þeir Hrútr ok Höskuldr komu þángat til fjárskiptis, ok urðu þeir Ósvífr á þat vel sáttir, ok fóru heim með féit, ok er Ósvífr úr sögunni. Hallgerðr bað Höskuld at hún færi heim þángat, ok veitti hann henni þat, ok var lengi margtalat um víg Þórvalds. Fé Hallgerðar gekk fram ok gerðist allmikit.

*Cap. 13. Bónorð Glúms.* — Bræðr þrír eru nefndir til sögunnar, hèt einn Þórarinn, annar Ragi, þriði Glúmr, þeir voru synir Ólafs halta ok voru virðingamenn miklir ok vel auðgir at fé. Þórarinn átti þat kenningarnafn at hann var kallaðr Ragabróðir, hann hafði lögsögu eptir Hrafn Heingsson, hann var stórvitr maðr, hann bjó at Varmalæk, ok áttu þeir Glúmr bú saman. Glúmr hafði verit lengi i förum, hann var mikill maðr ok sterkr ok fríðr sýnum. Ragi var vígamaðr mikill, bróðir þeirra; þeir bræðr áttu suðr Engey ok Laugarnes. Þeir bræðr töluðu, Glúmr ok Þórarinn, ok spurði Þórarinn Glúm, hvârt hann ætlaði utan sem hann var vanr? Hann svaraði: Hitt hafða ek heldr nú ætlat at hætta kaupferðum. Hvat er þèr þá i skapi? vilt þú biðja þèr konu? Þat vilda ek, segir hann, ef ek gæta vel fyrir mèr sèð. Þá taldi Þórarinn upp konur þær sem voru í Borgarfirði úgiptar, ok spurði ef hann vildi nokkura þessa eiga, ok mun ek ríða til með þèr. Hann svaraði: Öngva vil ek þessa eiga. Nefndu þá at því er þú vilt eiga, segir Þórarinn. Glúmr svaraði: Ef þú vilt þat

vita, þá heitir hún Hallgerðr ok er dóttir Höskuldar í Dölum vestr. Eigi er nú þat sem mælt er, at þú látir þér annars víti at varnaði, ok var hún gipt manni, ok rèð hún þeim bana, segir Þórarinn. Glúmr mælti: Má at hana hendi eigi slík úgipta í annat sinn, ok veit ek víst at hún ræðr eigi mèr bana, en ef þú vilt mèr nokkura sæmd veita, þá ríð þú til með mèr at biðja hennar. Þórarinn mælti: Ekki mun mega við gera, þat mun verða fram at koma sem ætlat er. Opt kom Glúmr á um þetta mál við Þórarinn, en hann fór lengi undan; en þar kom umsíðir er þeir söfnuðu at sèr mönnum ok riðu tin saman vestr til Dala ok komu á Höskuldsstaði, ok tók Höskuldr við þeim vel, ok voru þeir þar um nóttina. En snemma um morguninn sendir Höskuldr eptir Hrúti, ok kom hann þángat; ok var Höskuldr úti er hann reið í tún. Höskuldr sagði Hrúti hvat þar var komit manna. Hvat munu þeir vilja? sagði Hrútr. Eingi hafa þeir enn eyrindi uppborit fyrir mèr, segir Höskuldr. Við þik munu þó vera eyrindin, segir Hrútr, þeir munu biðja Hallgerðar dóttur þinnar; eða hversu munt þú svara? Hvat þikki þèr ráð? segir Höskuldr. Vel skalt þú svara ok segja þó kost ok löst á konunni, segir Hrútr. En í þessu tali þeirra bræðra gánga þeir út gestirnir. Höskuldr fagnar þeim vel. Hrútr kvaddi ok Þorarinn ok þá báda bræðr. Síðan gengu þeir allir samt á tal, ok mælti Þórarinn: Ek em kominn hingat með Glúmi bróður mínum þess eyrindis at biðja Hallgerðar dóttur þinnar, Höskuldr, til handa Glúmi bróður mínum, skalt þú þat vita at hann er vel mannaðr. Veit ek þat, segir Höskuldr at þit eruð mikils háttar menn báðir, en ek vil ok segja þèr í móti, at ek rèð ráði hennar fyrri, ok varð oss þat at mikilli úgæfu. Þórarinn svaraði: Ekki munum vèr þat láta fyrir kaupum standa, þvíat eigi skal einn eiðr alla verða, ok má þetta verða vel, þótt hitt yrði illa; enda spilti Þjóstólfr þar mest um. Þá mælti Hrútr: Gefa munda ek yðr til ráð: ef þèr

vilit eigi þetta láta fyrir ráðum standa er áðr hefir orðit um hagi Hallgerðar, at Þjóstólfr fari ekki suðr með henni þótt ráðin takist, ok veri þar alldri þrim nóttum lengr nema Glúmr lofi, en falli óheilagr fyrir Glúmi ef hann er lengr; en heimilt á Glúmr at lofa þat, en ecki er þat mitt ráð: skal nú ok eigi svâ framfara sem fyrr at Hallgerðr sè leynd, skal hún nú vita allan þenna kaupmála ok sjá Glúm ok ráða sjálf hvârt hún vill eiga hann eða eigi, ok megi hún eigi öðrum kenna, þótt eigi verði vel; skal þetta allt vèlalaust vera. Þórarinn mælti: Nú er sem jafnan at þat mun bezt gegna at þín ráð sè höfð. Þá var sent eptir Hallgerði ok kom hún þángat, ok tvær konur með henni, hún hafði yfir sèr vefjar möttul blán ok var undir í skarlats kyrtli ok silfrbelti um sik, en hárit tók ofan á bringuna tveim megin, ok drap hún undir belti sèr. Hún settist niðr í milli þeirra Hrúts ok föður sins, hún kvaddi þá alla góðum orðum ok mælti vel ok sköruliga ok spurði tiðinda; siðan hætti hún at tala. Glúmr mælti: Um kaup vor föður þins höfum við Þórarinn bróðir minn talat nockut, at ek munda fá þin, Hallgerðr, ef þat er þinn vili sem þeirra, munt þú nú segja, ef þú ert skörúngr, hvârt þat er nokkut nær þinu skapi; en ef þèr er nockut um hug á kaupum við oss, þá viljum vèr ekki um tala. Hallgerðr mælti: Veit ek at þit eruð mikilsháttar menn bræðr, ok veit ek at ek mun nú miklu betr gefin enn fyrr; en vita vil ek hvat þèr hafit um talat, eða hve mjök þèr hafit fram mælt málinu, en svâ lizt mèr á þik at ek mun þèr vel unnandi verða, ef við komum skapi saman. Glúmr sagði henni sjálfr allan kaupmála ok veik hvergi af, ok spurði þá Höskuld ok Hrút hvârt hann hermdi rètt. Höskuldr sagði svâ vera. Hallgerðr mælti þá: Svâ vel sem þèr hefir farit þetta mál til min, faðir minn ok Hrútr, at ek vil at ykru ráði gera, ok skal þessi kaupmáli vera sem þit hafit stofnat. Þá mælti Hrútr: Þat þicki mèr ráð at við Höskuldr nefnim vâtta, en Hallgerðr festi

sik sjálf, ef lögmanni þikkir þat rètt. Rètt er þat, segir Þórarinn. Síðan voru virð fè Hallgerðar, ok skyldi Glúmr leggja í móti jafnmikit, ok skyldi vera helmíngar fèlag með þeim. Síðan fastnaði Glúmr sèr Hallgerði, ok riðu þeir suðr heim; en Höskuldr skyldi hafa boð inni. Er nú kyrt þar til er menn ríða til boðs.

*Cap. 14. Frá brúðlaupi Glúms.* — Þeir bræðr fjölmentu mjök ok höfðu valit lið: þeir riðu vestr til Dala ok komu á Höskuldsstaði, ok var þar fjölmenni mikit fyrir, skipuðu þeir Höskuldr ok Hrútr annan bekk, en brúðgumi annan. Hallgerðr sat á palli ok samdi sèr vel, Þjóstólfr gekk með öxi reidda ok lèt þat eingi sem vissi. Veizlan fór vel fram, en er boði var lokit, fór Hallgerðr suðr með þeim. En er þau komu suðr til Varmalækjar, þá spurði Þórarinn Hallgerði ef hún vildi taka við búi: Eigi vil ek þat, segir hún. Hallgerðr sat mjök á sèr um vetrinn, ok líkaði við hana ecki illa. En um vârit töluðu þeir um fjárhagi sína bræðr, ok mælti Þórarinn: Ek vil gefa ykkr upp búit at Varmalæk, þvíat ykkr er þat hægst um hönd, en ek mun fara suðr á Laugarnes ok búa þar, en Engey skulum við eiga báðir saman. Glúmr vildi at svâ væri, fór Þórarinn suðr bygðum, en þau bjuggu þar eptir. Rèð Hallgerðr sèr hjón, hún var örlynd ok fengsöm. En um sumarit fæddi hún meybarn. Glúmr sagði henni hvat heita skyldi: Hana skal kalla eptir föðurmóður minni, ok skal heita Þórgerðr, þvíat hún var komin frá Sigurði Fâfnisbana í föðurætt sína at lángfeðga tölu. Mærin var vatni ausin ok þetta nafn gefit: hún óx þar upp ok gerðist lík móður sinni at yfirlitum. Þau komu vel âsamt Glúmr ok Hallgerðr, ok fór svâ fram um hríð. Þau tíðindi spurðust úr Bjarnarfirði norðan, at Svanr hafði róit at veiðiskap um vârit, ok kom at honum austanveðr mikit, ok rak þá upp at veiðilausu ok týndust þar; en fiskimenn þeir er voru at Kallbak, þóttust sjá Svan gánga inn í fjallit Kallbakshorn, ok var honum þar vel fagnat, en

sumir mæltu því i móti ok kváðu öngu gegna; en þat vissu allir, at hann fannst hvergi, hvárki lífs nè dauðr. En er Hallgerðr spurði þetta, þá þótti henni mikill skaði eptir móðurbróður sinn. Glúmr bauð Þórarni at skipta um löndin, hann kveðst eigi þat vilja: En ef ek lifi þèr lengr, þá ætla ek mèr Varmalæk. Glúmr sagði Hallgerði, hún svaraði: Makligr er Þórarinn þess frá oss, segir hún.

*Cap. 15. Frá Þjóstólfi.* — Þjóstólfr hafði barit húskarl Höskuldar, rekr hann Þjóstólf í braut. Hann tók hest sinn ok vápn ok mælti við Höskuld: Nú mun ek á brot fara ok koma alldri aptr! Allir munu því fagna, segir Höskuldr. Þjóstólfr reið þar til er hann kom til Varmalækjar; hann hafði þar góðar viðtökur af Hallgerði, en eigi illar af Glúmi. Hann sagði Hallgerði, at faðir hennar hefði hann á brot rekit, ok bað hana ásjár, hún svaraði honum því at hún kveðst honum öngu mega heita um þarvist hans fyrr enn hún fyndi Glúm. Ferr vel með ykkr? segir hann. Vel er um ástir okkrar, segir hún. Síðan gekk hún til máls við Glúm ok lagði hendr um háls honum ok mælti: Skalt þú veita mèr bæn þá er ek mun biðja þik? Veita mun ek þèr ef sæmd er í, segir hann, eða hvers vilt þú biðja? Hún mælti: Þjóstólfr er rekinn brott vestan, ok vilda ek at þú leyfðir honum at vera hèr, en ek vil þó eigi þvert taka ef þèr er lítit um. Glúmr mælti; Nú er þèr ferr vel, þá skal ek veita þèr, en segi ek þèr ef hann tekr nockut illt til, at hann skal þegar á braut verða. Hún gengr þá til Þjóstólfs ok segir honum, hann svaraði: Nú ferr þèr enn vel sem von var. Síðan var hann þar, ok sat á sèr um hríð, en þar kom at hann þótti þar öllu spilla, hann hlífðist þá við engan mann, nema við Hallgerði eina, en hún veitti honum alldri eptirmæli þá er hann átti við aðra. Þórarinn bróðir Glúms taldi á við hann er hann lèt hann þar vera ok kvað illa gefast mundu ok fara enn sem fyrr ef hann væri þar. Glúmr svaraði vel, enn brá þó á sitt ráð.

*Cap. 16. Frá sauðaferðum Glúms.* — Þat var eitthvert sinn um haust at heimtur voru illar á fè manna, ok var Glúmi vant margra geldínga. Þá mælti Glúmr við Þjóstólf: Gack þú á fjall með húskörlum mínum, ok vitit ef þèr finnit nockut af sauðum. Ecki eru mèr fjárleitir hentar, segir Þjóstólfr, enda er þat ærit eitt til at ek vil eigi gánga í spor þrælum þínum, ok far þú sjálfr, ok mun ek þá fara með þèr; þetta varð þeim at orðum mjök. Hallgerðr sat úti, ok var á veðr gott. Glúmr geck at henni ok mælti: Illt höfum við Þjóstólfr saman átt nú, ok munu við skamma hríð saman búa, ok sagði henni allt þat er þeir höfðu viðræðzt. Hallgerðr mælti þá eptir Þjóstólfi, ok varð þeim þá mjök at orðum. Glúmr drap til hennar hendi sinni ok mælti: Ekki deili ek lengr við þik! ok geck brot síðan, hún unni honum mikit ok mátti eigi stilla sik ok grèt hástöfum. Þjóstólfr geck at henni ok mælti: Sárt ert þú leikin, ok skyldi eigi svâ opt. Ecki skalt þú þessa hefna ok öngan hlut í eiga, hversu sem með okkr ferr! Hann gekk í brot ok glotti við.

*Cap. 17. Víg Glúms.* — Glúmr kvaddi menn til ferðar með sèr, en Þjóstólfr bjóst ok fór með Glúmi, þeir fóru upp Reykjardal hinn syðra ok svâ upp hjá Baugagili, ok svâ suðr til Þverfells, en suma sendi hann til Súlufjalla, ok fundu þeir allir of fjár. En sumir foru í Skoradalsleit, ok þar kom at þeir voru tveir sèr Glúmr ok Þjóstólfr, þeir gengu suðr frá Þverfelli ok fundu þar sauði skjarra ok eltu sunnan at fjallinu; komust sauðirnir upp á fjallit fyrir þeim, ámælti þá hvárr þeirra öðrum, ok mælti Þjóstólfr við Glúm at hann hefði til eingis afla. Glúmr mælti: Án er illt gengi, nema heiman hafi: ek skal taka hæðiyrði af þèr, þar sem þú ert þræll fastr á fótum. Þjóstólfr mælti: Þat skalt þú eiga til at segja at ek em eigi þræll, þviat ek skal hvergi undan þèr láta. Þá reiddist Glúmr ok hjó til hans med handöxi, en hann

brá við sinni öxi ok kom í fetann ok beit í ofan um tvâ fingr. Þjóstólfr hjó þegar í móti með öxi sinni, ok kom á öxlina ok tók í sundr axlarbeinit ok viðbeinit, ok blæddi inn úr sárinu. Glúmr greip til Þjóstólfs annarri hendi svâ fast at hann fèll við. Glúmr mátti ekki halda, þvíat dauðinn fór á hann, Þjóstólfr huldi hræ hans með grjóti ok tók af honum gullhring; hann gekk þar til er hann kom til Varmalækjar. Hallgerðr var úti ok sá at blóðug var öxin; hann mælti: Eigi veit ek hversu þèr mun þikkja: ek segi þèr víg Glúms. Þú munt því valda, segir hún. Svâ er, segir hann; hún hló at ok mælti: Eigi ertu eingi í leikinum. Hvert ráð sèr þú fyrir mèr nú? sagði hann. Farðu til Hrúts föðurbróður míns, segir hún, ok sjái hann fyrir þèr. Eigi veit ek, segir Þjóstólfr, hvârt þetta er heilræði, en þó skal ek þínum ráðum framfara um þetta mál. Tók hann þá hest sinn ok reið vestr á Hrútsstaði um nóttina, hann bindr hest sinn á bak húsum, gengr síðan til dyra ok lystr á högg mikit, eptir þat gengr hann norðr um húsin. Hrútr hafði vakat, hann spratt upp skjótt ok fór í treyu ok kipti skóm á fætr sèr, tók upp sverð sitt, hann vafði mötli um vinstri hönd sèr ok upp um handlegginn, menn vöknuðu við er hann geck út. Hann sá mann mikinn at húsbaki ok kendi þar Þjóstólf. Hrútr spurði tíðinda. Ek segi þèr víg Glúms, segir Þjóstólfr. Hverr veldr því? segir Hrútr. Ek vâ hann, segir Þjóstólfr. Hví reiðt þú hingat? segir Hrútr. Hallgerðr sendi mik til þín, segir Þjóstólfr. Eigi veldr hún þessu þá, segir Hrútr ok brá sverðinu. Þetta sá Þjóstólfr ok vildi eigi verða seinni ok höggr þegar til Hrúts. Hrútr brást skjótt undan högginu ok laust vinstri hendi utan á hlýr öxinni svâ snart at öxin hraut úr hendi Þjóstólfi. Hrútr hjó með hægri hendi á fót Þjóstólfi fyrir ofan knèit svâ at litlu loddi við, ok hljóp at honum í því ok hratt honum hart. Hrútr hjó þá í höfuð Þjóstólfi ok veitti honum banasár. Þjóstólfr fèll á bak

aptr, þá komu út húskarlar Hrúts ok sá verks ofmerki. Hrútr lèt færa Þjóstólf í braut ok hylja hræ hans. Síðan fór Hrútr at finna Höskuld ok sagði honum víg Glúms ok svâ Þjóstólfs, honum þótti skaði í láti Glúms, en þakkaði honum vígit Þjóstólfs. Litlu síðarr spyrr Þórarinn Ragabróðir víg Glúms bróður sins, hann riðr við fimtánda mann vestr á Höskuldsstaði. Höskuldr tók báðum höndum við honum, ok er hann þar um nóttina. Höskuldr sendi þegar eptir Hrúti at hann kæmi þángat, hann fór þegar, ok um daginn eptir töluðu þeir mart um víg Glúms. Þórarinn mælti: Vilt þú nockuru bæta mèr bróðurinn, þvíat ek hefi mikils mist. Höskuldr svaraði: Eigi drap ek bróður þinn, ok eigi rèð dóttir mín honum bana, en þegar Hrútr vissi, þá drap hann Þjóstólf. Þá þagnaði Þórarinn ok þótti vandast málit. Hrútr mælti: Gerum við góða ferð hans; hann hefir víst mikils mist, ok mun þat vel fyrir mælast, ok gefum honum gjafir ok sè hann vin okkarr alla æfi síðan! ok fór þetta fram at þeir gáfu honum gjafir bræðr, ok reið hann suðr aptr. Þau Hallgerðr skiptu um bústaði um vârit, ok fór hún suðr á Laugarnes, en hann til Varmalækjar, ok er Þórarinn úr sögunni.

*Cap. 18. Andlát Marðar.* — Nú er þar til máls at taka er Mörðr Gígja tók sótt ok andaðist, ok þótti þat skaði mikill. Unnr dóttir hans tók fè allt eptir hann; hún var þá úgefin í annat sinn, hún var örlynd mjök ok óforsjál um fjárhagi, ok tók at eyðast fyrir henni lausafè, svâ at hún átti ecki nema lönd ok gripi.

*Cap. 19. Hèr hefr frá Gunnari.* — Gunnarr hèt maðr, hann var frændi Unnar. Rannveig hèt móðir hans ok var Sigfúss dóttir, Sighvats sonar hins rauða, hann var veginn við Sandhólaferju. Faðir Gunnars hèt Hámundr ok var son Gunnars Baugssonar, við þann er kent Gunnarsholt. Gunnarr Hámundarson bjó at Hlíðarenda í Fljótshlíð. Hann var mikill maðr vexti ok sterkr, manna bezt vígr, hann

hjo báðum höndum ok skaut ef hann vildi, ok hann vâ svâ skjótt með sverði, at þrjú þóttu á lopti at sjá, hann skaut manna bezt af hoga ok hæfði allt þat er hann skaut til, hann hljóp meir enn hæð sina með öllum herklæðum, ok eigi skemra aptr enn fram fyrir sik, hann var syndr sem selr, ok eigi var sá leikr er noekurr þyrfti við hann at keppa, ok hefir svâ verit sagt at eingi væri hans jafningi. Hann var vænn at yfirlitum ok ljóslitaðr, rèttnefjaðr ok hafit upp í framanvert, bláeygr ok snareygr, ok roði í kinnunum, hárit mikit ok fór vel ok vel litt; manna kurteisastr var hann, harðgjörr í öllu, fèmildr ok stiltr vel, vinfastr ok vinavandr, hann var vel auðigr at fè. Bróðir hans hèt Kolskegr, hann var mikill maðr ok sterkr, drengr góðr ok öruggr í öllu; annarr bróðir hans hèt Hjörtr, hann var þá í bernsku.

*Cap. 20. Frá Njáli ok börnum hans.* — Njáll hèt maðr, hann var son þórgeirs Gellings þórólfssonar. Móðir Njáls hèt Ásgerðr ok var dóttir Árs hersis hins ómálga, hún hafði komit út hingat til Íslands ok numit land fyrir vestan Markarfljót, milli Öldusteins ok Selialandsmúla. Sonr hennar var Holtaþórir, faðir þeirra þórleifs Kráks, er Skógverjar eru frá komnir, ok þórgríms hins mikla ok Skorargeirs. Njáll bjó at Bergþórshvâli í Landeyum, annat bú átti hann í þórólfsfelli. Njáll var vel auðigr at fè ok vænn at áliti, honum vóx eigi skegg; hann var lögmaðr svâ mikill at eingi fannst hans jafningi, vitr var hann ok forspárr, heilráðr ok góðgjarn, ok varð allt at ráði þat er hann rèð mönnum, hógværr ok drenglyndr, hann leysti hvers manns vandræði, er á hans fund kom. Bergþóra hèt kona hans, hún var Skarphèðins dóttir, kvenskörúngr mikill ok drengr góðr ok nockut skaphörð, þau áttu sex börn, dætr þrjár, ok sonu þrjá, ok koma þeir allir við þessa sögu siðan.

*Cap. 21. Frá Unni ok Gunnari.* — Nú er þar til máls at taka er Unnr hefir látit allt lausafè sitt: hún gerði ferð sina til Hliðarenda, ok tók Gunnarr vel við frændkonu

sinni; var hún þar um nótt, um daginn eptir sátu þau úti ok töluðu. Þar komu niðr ræður hennar at hún sagði honum hversu henni fèll þíngt til fjár. Illa er þat, sagði hann. Hvert úrræði vilt þú veita mèr? sagði hún. Hann svaraði: hafðu fè svâ mikit sem þú þarft, er ek á á leigustöðum. Eigi vil ek eyða fè þínu, segir hún. Hversu vilt þú þá? segir hann. Ek vil at þú heimtir fè mitt undan Hrúti, segir hún. Eigi þikki mèr þat vænt, segir hann, þar er faðir þinn fèck eigi heimt, ok var hann lögmaðr mikill, en ek kann lítt til laga. Hún svaraði: Meir þreytti Hrútr þat með kappi en með lögum, en faðir minn var gamall, ok þótti mönnum því þat ráð at þeir þreytti þat ekki með sèr; enda er sá eingi minn frændi at gángi i þetta mál ef þú hefir eigi þrek til. Þora mun ek, segir hann, at heimta fè þetta, en eigi veit ek hversu upp skal taka málit. Hún svaraði: Farðu ok finn Njál at Bergþórshvâli, hann mun ráðin kunna til at leggja, er hann ok vin þinn mikill. Von er mèr at hann ráði mèr heilt sem öllum öðrum, segir hann. Svâ lauk með þeim at Gunnarr tók við málinu, en fè fèck hann henni til búsins sem hún þurfti, ok fór hún heim síðan. Gunnarr ríðr nú at finna Njál, ok tók hann við honum vel, ok gengu þegar á tal. Gunnarr mælti: Heilræði em ek kominn at sækja at þèr. Njáll svaraði: Margir eru þess vinir mínir makligir, en þó ætla ek at leggja mesta stund á við þik. Gunnarr mælti: Ek vil gera þèr kunnigt at ek hefi tekit fjárheimtu af Unni á Hrút. Þat er mikit vandamál, segir Njáll, ok mikil hætta hversu ferr, en þó mun ek leggja til með þèr þat er mèr þickir vænst, ok mun þat endast ef þú bregðr hvergi af, en líf þitt er i hættu ef þú gerir eigi svâ. Hvergi skal ek afbregða, segir Gunnarr. Þá þagði Njáll noekura hríð ok mælti síðan: Hugsat hefi ek málit, ok mun þat duga.

*Cap. 22. Ráðagjörð Njáls.* — Nú skalt þú ríða heiman við þriðja mann; skalt þú hafa vâskufl yztan klæða ok

undir söluvâðar kyrtil mórendan, þar skalt þú hafa undir hin góðu klæði þín, ok taparöxi í hendi; tvâ hesta skal hafa hverr yðar, aðra feita, en aðra magra; þú skalt hafa hèðan smíði. Þèr skulut ríða þegar á morgin, ok er þèr komit yfir Hvítá vestr, láttu slota hattinn mjök: þá mun eptirspurt hverr sá sè, hinn mikli maðr, förunautar þínir skulu segja at þar sè Kaupahèðinn hinn mikli, eyfirðskr maðr, ok fari með smíði; hann er maðr skapillr ok margmæltr, þikkist einn vita allt, hann tekr aptr kaup sín optliga ok flýgr á menn, þegar eigi er allt gert sem hann vill. Þú skalt ríða vestr til Borgarfjarðar ok láta hvervetna falt smíði, ok reka aptr kaupin mjök, mun þá sá orðrómr áleggjast at Kaupahèðinn sè manna vestr viðfángs, ok sizt sè logit frá honum. Þú skalt ríða til Norðárdals, ok svâ til Hrútafjarðar ok til Laxárdals, ok til þess er þú kemr á Höskuldsstaði, þar skalt þú vera um nótt ok sitja utarliga ok drepa niðr höfði. Höskuldr mun mæla at ecki skyli eiga við Kaupahèðinn ok segja at hann sè óvinveittr. Siðan munt þú fara í brot um morguninn eptir ok koma á næsta bæ hjá Hrútsstöðum, þar skalt þú láta falt smíðit ok hafa þat uppi allt er vest er ok berja í brestina: bóandi mun at hyggja ok mun hann finna brestina, þú skalt hnykkja af honum ok mæla illa við hann; hann mun segja at þat sè von at þú gefist honum eigi vel er þú gefst öllum öðrum illa, þá skalt þú fljúga á hann, þótt þú sèr því úvanr, ok stillt þó vel aflinu at þú verðir eigi kendr. Þá mun sendr maðr á Hrútsstaði at segja Hrúti, at betra mun at skilja ykkr, hann mun þegar fara ok bjóða þèr með sèr, en þú munt þat þiggja. Þú skalt kveðja Hrút, hann mun vel svara, þèr mun skipat á hinn óæðra beck gegnt öndugi Hrúts. Hann mun spyrja hvârt þú sèr Norðlendskr, þú skalt segja at þú sèr eyfirðskr maðr. Hann mun spyrja hvârt þar sè allmargir ágætir menn; ærinn hafa þeir klækiskap, skalt þú segja. Er þèr kunnigt um Reykjardal? mun hann segja. Kunnigt er mèr um allt Ísland,

skalt þú segja. Eru i Reykjardal kappar miklir, mun hann segja. Þjófar eru þar ok illmenni, skalt þú segja; þá mun Hrútr hlæa ok þikkja gaman at: þit munut tala um menn i Austfirðinga fjórðúngi, ok skalt þú fá nockut ámæli; tal ykkat mun koma á Rángárvöllu, þá skalt þú segja at þar sé sizt mannval síðan Mörðr Gigja var dauðr, kveð þá ok vísu nokkura, þá er Hrúti þikki gaman at, þvíat ek veit at þú ert skáld. Hrútr mun spyrja hvat þú finnir helst til þess at eigi megi koma maðr i stað hans; þú skalt því svara at hann var maðr svâ vitr ok svâ mikill málafylgjumaðr at alldri yrði á um höfðingsskap hans. Hann mun spyrja hvârt þér sé nockut af kunnigt hversu fór með okkr. Kunnigt er mèr, skalt þú segja, at hann tók af þèr konuna, en þú hafðir ecki at. Þá mun Hrútr svara: Þótti þèr ecki áverða fyrir honum er hann náði eigi fénu, en bjó þó til málit? Hèr má ek vel svara þèr um, skalt þú segja: þú skoraðir hann til einvígis, en hann var gamall, og réðu vinir hans honum þat at hann berðist eigi við þik, ok drápu svâ niðr málinu. Mælta ek þat víst, mun Hrútr segja, ok þótti þat heimskum mönnum sem lög væri, en mátti þó málit upptaka á öðru þíngi, ef hann hefði þrek til haft. Veit ek þat, skalt þú segja. Hann mun þá spyrja þik: Kant þú nockut i lögum? Kunna þótta ek norðr þar, skalt þú segja, en þó munt þú segja mèr verða hversu málit skal upptaka. Hrútr mun svara at hverju máli þú vilt spyrja. At því, skalt þú segja, at mik skiptir öngu, hversu upp skal taka fjárheimtuna Unnar. Stefna skal málinu svâ at ek heyra eða at lögheimili mínu, mun Hrútr segja. Stefn nú þá! skalt þú segja, en ek mun í annat sinn. Þá mun Hrútr stefna, ok skalt þú hyggja at því vandliga hver orð hann hefir. Þá mun Hrútr mæla at þú skylir stefna; þú skalt þá stefna ok skal rángt, svâ at eigi sè meir enn annat hvert orð rètt: þá mun Hrútr hlæa ok mun hann þá ecki gruna þik, en mæla þó at fátt eitt sè rètt i. Þú skalt kenna um förunautum

þínum at þeir hafi glapit þik, þá skalt þú biðja Hrút at hann mæli fyrir þèr, ok biðja at hann leyfi at þú mælir eptir. Hann mun þat leyfa þèr ok stefna sjálfr málinu, þú skalt þegar stefna eptir ok mæla þá rètt ok spyrja þá Hrút hvârt rètt sè stefnt; hann mun svara at þat megi eigi ónyta, þá skalt þú mæla hátt svâ at förunautar þínir heyri: Stefni ek handseldri sök Unnar Marðar dóttur. En þá er menn eru sofnaðir skulut þèr taka beisl yðar ok söðulreiði ok fara hljóðliga, gánga út ok bera söðla yðra í haga til hinna feitu hestanna, ríða þeim, en láta hina eptir: þèr skulut ríða upp úr búfjár högum ok vera þar þrjár nætr, svâ nockuru mun yðar leita farit lengi, skalt þú þá ríða heim suðr ok ríða jafnan um nætr en liggja um daga; en vèr munum þá ríða til þíngs í sumar ok veita at málunum. Gunnarr þackaði honum ok reið heim fyrst.

*Cap. 23. Frá Kaupahèðni.* — Gunnarr reið heiman tveim nóttum síðarr ok tveir menn með honum. Þeir riðu þar til er þeir komu á Bláskógaheiði, þá riðu menn í móti þeim ok spurðu hverr sá væri hinn mikli maðr er svâ lítt var sýndr, en förunautar hans sögðu at þar var Kaupahèðinn. Þeir sögðu at þá var eigi hins verra eptir von, er slíkr fór fyrir. Hèðinn lèt þegar sem hann mundi á þá ráða, en þó fóru hvârir leið sína. Gunnarr fór með öllu sem fyrir hann var lagt, ok var á Höskuldsstöðum um nótt ok fór þaðan ofan eptir dalnum ok kom á næsta bæ á Hrútsstöðum, þar lèt hann falt smíðit. Hèðinn rèð þegar á bóanda, þat var sagt Hrúti; hann sendi eptir Hèðni, fór hann þegar á fund Hrúts ok hafði góðar viðtökur; skipaði Hrútr honum gagnvart sèr, fóru orð þeirra mjök sem Njáll ætlaði. En er talit kom á Rángárvöllu ok Hrútr frètti þar at mönnum, þá kvað hann vísu þessa:

Menn eru sízt at sönnu,
slíkt talar þjóð í hljóði,
opt heyrt er þat, eptir,

öll, á Rángárvöllum.
Mörðr, frá ek Gigju gerðu
gunnhríðar markunnar,
úngr var seimaslaungvir
slikr at spekt ok riki.

Hrútr mælti þá: Skáld ert þú Hèðinn, en hefir þú heyrt hversu fór með okkr Merði? Héðinn qvað þá enn visu:

Heyrt hafa ok hríngs at bjartrar
husti þráðs með ráðum
jarðar undirgjörðar
álmr vænti ek þik rænti.
Rèðu hodda hlæði
haldendr við þik skjaldar,
áðr rauð seima sneiðir
sverð, at hann ei berðist.

Þá svaraði Hrútr honum hversu upp skyldi taka málit ok stefndi fyrir málinu, en hann mælti eptir ok stefndi rángt, þá brosti Hrútr ok grunaði ekki. Þá mælti hann at Hrútr skyldi stefna í annat sinn, svâ gerði Hrútr. Hèðinn stefndi þá í annat sinn ok stefndi þá rètt ok vitnaði undir förunauta sina at hann stefndi handseldri sök Unnar Marðar dóttur; hann fór til svefns sem aðrir menn um kveldit. En þegar er Hrútr var sofnaðr tóku þeir klæði sín ok vopn ok gengu út ok fóru til hesta sinna ok riðu yfir ána, ok svâ fram Hjarðarholts megin þar til er þraut dalinn, ok eru þar í fjöllunum millum Haukadals ok komu sèr þar er eigi mátti finna þá fyrr enn riðit væri at þeim. Höskuldr vaknar þessa nótt á Höskuldsstöðum ok vakti upp alla heimamenn sína. Ek vil segja yðr draum minn, segir hann, ek þóttumst sjá bjarndýri mikit gánga út úr húsunum, ok vissa ek at eigi fannst þessa dýrs maki, ok fylgðu því húnar tveir, ok vildu þeir vel dýrinu; þat stefndi til Hrútsstaða ok geck þar inn í húsin, siðan vaknaða ek. Nú vil ek spyrja yðr hvat þèr sáð til hins mikla manns. Einn maðr svaraði

honum: þat sá ek at fram undan erminni kom eitt gullað ok rauðt klæði, á hægri hendi hafði hann gullhring. Höskuldr mælti: þetta er engis manns fylgja nema Gunnars frá Hlíðarenda, þikkjumst ek nú sjá allt eptir, skulu vèr nú ríða á Hrútsstaði; þeir gerðu svâ. Hrútr lá í lokreckju ok spyrr hverir komnir eru? Höskuldr segir til sín ok spurði hvat þar væri gesta? Hann segir: Hèr er Kaupahèðinn. Höskuldr segir: Breiðari mun um bakit, ek get verit mun hafa Gunnarr frá Hlíðarenda. Þá mun hèr slægleiks munr orðit hafa, segir Hrútr. Hvat er at orðit? segir Höskuldr. Ek sagði honum hversu upp skyldi taka málit Unnar, og stefnda ek mèr sjálfr, en hann stefndi eptir, ok mun hann þann hafa mála tilbúnaðinn, ok er sá rèttr. Mikill er vizkumuur orðinn, segir Höskuldr, ok mun eigi Gunnarr einn hafa umráðit: Njáll muu þessi ráð hafa tillagt, þviat engi er hans maki at viti. Þeir leita nú Hèðins, ok er hann allr í brottu. Síðan sömnuðu þeir liði ok leituðu þeirra þrjá daga ok fundu þá eigi. Gunnarr reið suðr af fjallinu til Haukadals ok fyrir austan Skarð ok norðr til Holtavörðuheiðar ok til þess er hann kom heim.

*Cap. 24. Þingdeild Gunnars ok Hrúts.* — Gunnarr reið til alþingis, þeir Hrútr ok Höskuldr riðu ok til þings ok fjölmentu mjök. Gunnarr sækir mál þetta á þingi, hann kvaddi búa til máls, ok höfðu þeir Hrútr ætlat at veita honum atgöngu en treystust eigi. Síðan geck Gunnarr at Breiðfirðinga dómi ok bauð Hrúti at hlýða til eiðspjalls sins ok framsögu sakar ok sóknargagna allra; eptir þat vann hann eið ok sagði fram sök. Síðan lèt hann bera stefnuvætti, þá sakartökuvætti. Njáll var eigi við dóma. Nú sótti Gunnarr málit þar til er hann bauð til varna. Hrútr nefndi vâtta ok sagði ónýtt málit ok sagði hann mist hafa þeirra þriggja vâttorða er í dóminn áttu at koma: eitt þat er nefnt var fyrir rekkjustokki, annat fyrir karldyrum, þriðja

at lögbergi. Njáll var þá kominn til dóma, ok kveðst borgit munu geta málinu ok sökinni, ef þeir vildi þat þreyta. Eigi vil ek þat, segir Gunnarr, ek skal gera Hrúti slíkan, sem hann gerði Merði frænda mínum, eða hvârt eru þeir bræðr svâ nær, Hrútr ok Höskuldr, at þeir megi heyra mál mitt? Heyra megum við, segir Hrútr, eða hvat viltu? Gunnarr mælti: þeir sè heyrandi vâttar er hjá eru at ek skora þèr Hrútr til hólmgöngu, ok skulu við berjast í dag í hólma þeim er hèr er í Öxará, en ef þú vilt eigi berjast við mik, þá greitt þú út fèit allt í dag. Síðan gekk Gunnarr frá dómum með öllu sínu föruneyti, þeir Höskuldr ok Hrútr gengu ok heim, ok var málit hvârki sótt nè varit þaðan af. Hrútr mælti er hann kom inn í búðina: þat hefir mik alldri fyrr hent at nockurr maðr hafi mèr hólmgöngu boðit, at ek hafa undan gengit. Þat munt þú ætla at berjast, segir Höskuldr, en eigi skal þat ef ek ræð, þvíat eigi ferr þèr nærr við Gunnar enn Merði mundi við þik, ok skulu við heldr greiða fèit báðir saman Gunnari. Síðan spurðu þeir bræðr bændr hvat þeir vildi tilleggja; þeir sögðu allir at þeir vildi tilleggja slíkt sem Hrútr vildi. Göngum þá, segir Höskuldr, til búðar Gunnars ok greiðum af höndum fèit; var þá sagt Gunnari, hann geck út í búðardyrnar. Höskuldr mælti: Nú er at taka við fènu. Gunnarr mælti: Greiði nú þá, þvíat ek em nú búinn við at taka; þeir greiddu fèit allt vel af hendi. Þá mælti Höskuldr: Njót þú sem þú hefir aflat! Gunnarr kvað þá vísu þessa:

Auðs munu æskimeiðar
óttlaust fyrir því njóta,
hægs at hvergi ljúgum
hjörðings til peninga.
Færr en vitnis varrar
vèr rjóðum þá fljóði
verr enn oss ok errinn
álmr hraustr funa hjálma.

Hrútr svaraði: Illu mun þèr launat verða. Ferr þat sem má, segir Gunnarr. Þeir Höskuldr gengu heim til búðar sinnar, ok var honum mikit í skapi, ok mælti til Hrúts: Hvårt mun Gunnari alldri hefnast þessi újafnaðr? Eigi mun þat, segir Hrútr, hefnast mun honum víst, ok mun oss verða í því engi hefnd nè frami, en þó er þat líkast at hann snúist til vorrar ættar um vinfengit; hættu þeir þá talinu. Gunnarr sýndi Njáli fèit, hann mælti: Vel hefir nú vegnat, segir hann. Ok hefir af þèr tilleitt, segir Gunnarr. Menn riðu heim nú af þinginu, ok hafði Gunnarr hina mestu sæmd af málinu. Gunnarr færði fèit allt Unni ok vildi hann ekki af hafa, en kvaðst meira heimta þikkjast eiga at henni síðan ok hennar frændum en at öðrum mönnum, hún kvað þat svå vera.

*Cap. 25. Gjaforð Unnar.* — Valgarðr hèt maðr, hann bjó at Hofi við Rángá, hann var sonr Jörundar Goða Ranuvissonar heimska. Bróðir Valgarðs hins grá var Úlfr Aurgoði, er Oddaverjar eru frá komnir. Úlfr Aurgoði var faðir Svarts föður Loðmundar, föður Sigfúss, föður Sæmundar Fróða; en frá Valgarði er kominn Kolbeinn Úngi. Þeir bræðr Úlfr Aurgoði ok Valgarðr hinn grái fóru at biðja Unnar ok giptist hún Valgarði án ráði allra frænda sinna, en þat þótti Gunnari illa ok Njáli ok mörgum öðrum, þviat hann var maðr grályndr ok úvinsæll. Þau gátu sèr son er Mörðr hèt, ok er sá lengi við þessa sögu. Þá er hann var fullkominn at aldri var hann illa til frænda sinna, ok þó einna vest til Gunnars, hann var slægr maðr í skaplyndi, en illgjarn í ráðum.

Nú skal nefna sonu Njáls. Skarphèðinn hèt hinn elsti: hann var mikill maðr vexti ok styrkr, vel vigr, syndr sem selr, manna fóthvatastr ok skjótr ok öruggr, gagnorðr ok skjótorðr ok skáld gott, en þó löngum vel stilltr. Hann var jarpr á hár, ok sveipr í hárinu, eygðr vel, fölleitr ok skarp-

leitr, liðr á nefi, ok lá hátt tanngarðrinn, munnljótr mjök, ok þó manna hermannligstr. Grímr hèt annarr son Njáls: hann var friðr sýnum ok hærðr vel, dökkr á hár, ok fríðari sýnum enn Skarphèðinn, mikill ok sterkr. Helgi hèt hinn þriði son Njáls; hann var friðr sýnum ok hærðr vel, hann var styrkr maðr ok vígr vel, hann var vitr maðr ok stilltr vel; allir voru þeir ókvângaðir synir Njáls. Höskuldr hèt hinn fjórði son Njáls: hann var laungetinn, móðir hans var Hróðny ok var Höskuldsdóttir, systir Íngjalds frá Keldum. Njáll spurði Skarphèðinn ef hann vildi kvângast, hann bað föður sinn ráða; bað hann þá til handa honum Þórhildar dóttur Rannvis úr Þórólfsfelli, ok átti hann því þar annat bú síðan. Skarphèðinn fèkk Þórhildar ok var þó vistum með föður sínum til enda. Grímr bað Ástríðar af Djúpárbacka, ok var hún eckja ok auðig mjök. Grímr fèck hennar ok var þó með Njáli.

*Cap. 26. Frá Ásgrími ok börnum hans.* — Ásgrímr hèt maðr, hann var Elliðagrímsson. Móðir hans hèt Jórun ok var Teitsdóttir Ketilbjarnarsonar hins gamla frá Mosfelli. Bróðir Ásgríms Elliðagrímssonar hèt Sigfús, hans dóttir var Þórgerðr, móðir Sigfúss, föður Sæmundar hins Fróða. Gaukr Trandilsson var fóstbróðir Ásgríms er friðastr maðr hefir verit ok bezt at sèr gjörr; þar varð illa með þeim, þvíat Ásgrímr drap Gauk. Ásgrímr átti tvâ sonu, ok hèt hvârtveggi Þórhallr, þeir voru báðir efniligir menn. Grímr hèt ok son Ásgríms, en Þórhalla dóttir, hún var kvenna fríðust ok vel at sèr. Njáll kom at máli við son sinn Helga: Hugat hefi ek þèr kvânfâng, ef þú vilt mínu ráði fylgja. Þat vil ek víst, segir hann, þvíat ek veit at bæði er at þú vilt vel, enda kant þú vel, eða hvar hefir þú ástofnat? Við skulum biðja dóttur Ásgríms Elliðagrímssonar, þvíat sá er kostr beztr.

*Cap. 27. Bónorð Helga Njálssonar.* — Litlu síðar riðu þeir út yfir Þjórsá ok fóru þar til er þeir komu í

Túngu. Ásgrimr var heima ok tók við þeim vel, ok voru þar um nóttina, en um daginn gengu þeir á tal; þá vakti Njáll til um bónorðit ok bað þórhöllu til handa Helga syni sínum. Ásgrímr svaraði því vel ok sagði eigi þá menn vera er hann væri fúsari við at kaupa enn þá, þeir töluðu þá um málit, ok lauk svâ at Ásgrimr festi Helga dóttur sina, ok var kveðit á brúðlaupstefnu. Gunnarr var at veizlu þessi ok margir aðrir enir beztu menn. Eptir veizluna bauð Njáll heim til fóstrs þórhalli syni Ásgríms, ok var hann með Njáli lengi siðan, hann unni meira Njáli enn föður sínum. Njáll kendi honum lög svâ at hann varð mestr lögmadr á Íslandi um þeirra daga.

*Cap. 28. Útkvâma Hallvarðar.* — Skip kom út i Arnarbælisós ok stýrði skipinu Hallvarðr Hviti, Víkverskr maðr, hann fór til vistar til Hlíðarenda ok var með Gunnari um vetrinn ok bað hann jafnan at hann skyldi fara utan. Gunnarr talaði fátt um ok tók á öngu úlikliga, ok um vârit fór hann til Bergþórshvâls at finna Njál hversu ráðligt honum þætti at hann færi utan. Ráðligt þikki mèr þat, segir Njáll, munt þú þar þikkja sæmdarmaðr sem þú ert. Vilt þú nockut taka við fjárfari mínu meðan ek em i brautu? þviat ek vil at Kolskeggr bróðir minn fari með mèr, en ek vilda at þú sæir um búit meðan með móður minni. Ekki skal þat viðnema, segir Njáll, allt skal ek styðja þar um þat er þú vilt. Vel mun þèr fara, segir Gunnarr; ríðr hann þá heim. Austmaðr kom at máli við Gunnar at hann mundi utan fara. Gunnarr spyrr ef hann hefði nockut siglt til annarra landa? hann kvaðst hafa siglt til allra þeirra, er voru meðal Noregs ok Garðaríkis, ok svâ hefi ek siglt til Bjarmalands. Vilt þú sigla með mèr i Austrveg? segir Gunnarr. þat vil ek vist, segir hann. Síðan rèð Gunnarr utanferð sina með honum. Njáll tók við öllu fjárfari Gunnars.

*Cap. 29. Utanferð Gunnars.* — Gunnarr fór utan ok

Kolskeggr með honum, þeir sigldu til Túnsbergs ok voru þar um vetrinn. Þá var orðit höfðingja skipti i Noregi, var þá dauðr Haraldr Gráfeldr ok Gunnhildr, rèð þá ríki Hákon jarl hinn illi, Sigurðarson. Móðir Hákonar var Bergljót dóttir Þóris jarls, móðir hennar var Ólöf árbót, hún var dóttir Haralds hins Hárfagra. Hallvarðr spyrr Gunnar ef hann vildi ráðast til Hákonar jarls? Eigi vil ek þat, segir Gunnarr, átt þú noekut lángskip? segir Gunnarr. Á ek tvö, segir hann. Þá vilda ek at vit færim i hernat, segir Gunnarr, ok rèðim menn til með okkr. Þat vil ek þá, segir Hallvarðr. Síðan fóru þeir til Víkurinnar ok tóku þar skip tvö ok bjuggu þaðan; þeim varð gott til manna, þvíat mikil ágæti var sögð frá Gunnari. Hvârt vilt þú, segir Gunnarr, austr til Hísingar? Ek vil, segir Hallvarðr, á fund Ölvis frænda míns. Hvat vilt þú honum? segir Gunnarr. Hann svaraði: Hann er góðr drengr, ok mun hann fá okkr nockurn styrk til ferðarinnar. Föru við þángat þá, segir Gunnarr. Þegar er þeir voru búnir hèldu þeir austr til Hísingar ok höfðu þar góðar viðtökur. Skamma stund hafði Gunnarr þar verit áðr Ölvi fannst mikit um hann. Ölver spyrr um ferð hans. Hallvarðr segir at Gunnarr vill i hernat ok afla sèr fjár. Þat er engi ætlan, segir Ölver, þar sem þèr hafit lið ekki. Nú megu þèr ok viðauka, segir Hallvarðr. Ek ætla ok at styrkja Gunnar at nokkuru, segir Ölver, ok þóttú eigir frændsemi at telja við mik, þá þieki mèr þó meiri slægr til hans. Hvat viltu nú þá tilleggja? segir hann. Lángskip tvö, annat tvítugsessu, en annat þritugsessu. Hverr skal þau skipa? segir Hallvarðr. Ek skal skipa húskörlum mínum annat, en bóndum annat; en þó hefi ek frètt at ófriðr er kominn i ána, ok veit ek eigi hvârt þit komist i brot, þvíat þeir eru i ánni. Hverir? segir Hallvarðr. Bræðr tveir, segir Ölver, heitir annarr Vandill, en annarr Karli, synir Sjólfs hins gamla úr Gautlandi austan. Hallvarðr sagði Gunnari at Ölver hafði lagit

til skipin við þá, Gunnarr varð glaðr við þat. þeir bjuggu ferð sína þaðan þar til er þeir voru albúnir; þeir Gunnarr gengu fyrir Ölvi ok þöckudu honum, hann bað þá fara varliga fyrir þeim bræðrum.

*Cap. 30. Gunnarr fór í víking.* — Gunnarr hèlt út úr elfinni, ok voru þeir Kolskeggr á einu skipi báðir, en Hallvarðr var á öðru skipi. þeir sjá nú skipin fyrir sèr, þá mælti Gunnarr: Verum vèr at nokkuru viðbúnir ef þeir leita á oss, en eigum vèr ekki við þá elligar; þeir gerðu svâ ok bjuggust við á skipum sínum. Hinir skildu í sundr skipin ok gerðu hlið í millum skipanna, Gunnarr fór fram milli skipanna. Vandill þreif upp stafnljá ok kastaði á meðal skipanna ok skips Gunnars ok dró þegar at sèr. Ölver hafði gefit Gunnari sverð gott. Gunnarr brá nú sverðinu ok hafði hann eigi sett á sik hjálminn; hleypr þegar á saxit á skip Vandils ok hjó þegar mann til bana. Karli lagði at öðrum megin sínu skipi ok skaut spjóti um þvert skip Gunnars ok stefndi á hann miðjan. Gunnarr sèr þetta ok snerist svâ skjótt at eigi mátti auga áfesta ok tók inni vinstri hendi spjótit ok skaut á skip til Karla, ok hafði sá bana er fyrir varð. Kolskeggr þreif upp akkeri ok kastar á skip Karla, ok kom fleininn í borðit ok út í gegnum ok fèll þar inn sjár kolblár, ok hljópu menn allir á önnur skip. Gunnarr hljóp nú aptr á sitt skip, þá kom at Hallvarðr, ok tókst nú barðagi mikill. Sá þeir nú at formadr var öruggr, ok gerði hverr at slikt er mátti. Gunnarr gerði ýmist er hann hjó eða skaut, ok hafði margr maðr bana fyrir honum. Kolskeggr fylgði honum vel. Karli hljóp á skip til Vandils bróður síns, ok börðust þeir þaðan um daginn. Kolskeggr tók hvíld um daginn á skipi Gunnars, ok sèr Gunnarr þat, hann kvað þá vísu:

þú hefir árgjörnum erni,
Ætthrafn, verit betri,
greiðir, gumna dauða,

gjálfr-dags, enn þèr sjálfum.
Hèr gengr margr í morgin
muninn bekki vargs drekka
æstr, en þik tekr þyrsta
þing álmr fetils stinga.

Síðan tók Kolskeggr jústu eina af miði fulla ok drakk ok barðist eptir þat, ok þar kom at þeir bræðr hljópu uppá skip þeirra Vandils, ok gekk Kolskeggr með öðru borði, en Gunnarr með öðru. Í móti Gunnari gekk Vandill ok hjó þegar til hans, ok kom í skjöldinn. Gunnarr snaraði skjöldinn, er sverðit festi í, ok brotnaði undir hjaltinu. Gunnarr hjó þá í móti, ok sýndust þrjú sverðin á lopti, ok sá hann eigi hversu hann skyldi forðast. Gunnarr hjó þá undan honum báða fætr. Kolskeggr lagði Karla í gegnum með spjóti; eptir þat tóku þeir herfáng mikit. Þaðan hèldu þeir suðr til Danmerkr, ok þaðan austr í Smálönd, ok höfðu jafnan sigr. Ekki hèldu þeir aptr at hausti. Annat sumar hèldu þeir til Rafala ok mættu þar víkingum ok börðust þegar ok fengu sigr. Síðan hèldu þeir austr til Eysýslu ok lágu þar nokkura hríð undir nesi einu. Þeir sá mann einn gánga ofan af nesinu, Gunnarr gekk á land upp at finna manninn, ok töluðust þeir við. Gunnarr spyrr hann at nafni, hann nefndist Tófi, Gunnarr spyrr hvat hann vildi. Þik vil ek finna, herskip liggja öðrum megin undir nesinu, ok mun ek segja þèr hverir fyrir ráða: þar ráða fyrir bræðr tveir, heitir annarr Hallgrímr, en annarr Kolskeggr, þá veit ek mesta orrostumenn, ok þat með at þeir hafa vâpn svâ góð at eigi færr önnur slík; Hallgrímr hefir atgeir þann er hann hefir látit seiða til, at honum skal ekki vopn at bana verða nema hann; þat fylgir ok at þegar veit er víg er vegit með atgeirinum, þvíat svâ sýngr í honum áðr at lángt heyrir til, svâ hefir hann náttúru mikla með sèr. Kolskeggr hefir sax, þat er ok et bezta vâpn, þeir hafa ok lið þriðjúngi meira enn þèr hafit, fè hafa þeir ok mikit ok hafa fólgit á

landi, ok veit ek gerla hvar er, en þeir hafa sent njósnarskip fyrir nesit, ok vita þeir allt til yðar, þeir hafa nú ok viðbúning mikinn ok ætla þegar at yðr at leggja er þeir eru búnir. Er yðr nú annathvârt til, at leggja í brot þegar, ella búist þèr við sem skjótast, en ef þèr hafit sigr, þá skal ek fylgja þèr til fjárins alls. Hann gaf honum fingrgull ok gekk síðan til manna sinna ok sagði þeim at herskip lágu öðrum megin nessins ok vita þeir allt til vor, tökum vèr vâpn vor ok búumst við vel, þvíat nú er til fjár at vinna. Síðan bjuggust þeir við ok þá er þeir voru búnir, sjá þeir at skip fara at þeim, tekst nú orrosta með þeim, ok berjast þeir lengi, ok verðr mannfall mikit. Gunnarr vâ margan mann; þeir Hallgrímr hljópu á skip til Gunnars. Gunnarr sneri í móti honum, Hallgrímr lagði til hans með atgeirinum. Slá ein var um þvert skipit, ok hljóp Gunnarr aptr yfir öfugr, skjöldr Gunnars var fyrir framan slána, ok lagði Hallgrímr í hann, ok í gegnum ok svâ í slána. Gunnarr hjó á hönd Hallgrími, ok lamdist handleggrinn, en sverðit beit ekki, fèll þá niðr atgeirrinn, Gunnarr tók atgeirinn ok lagði í gegnum Hallgrím ok kvað þá vísu:

Feldan hefi ek þann er eyddi öldu,
eisu er kunni holdi at reisa,
seyðan frá ek at Hallgrímr hefði
hjálma vönd í öðrum löndum.
Allir viti hve at úlfafylli
atgeirr of kom dyggvir skatnar,
hann skal mèr, þvíat herskap kunnum,
hendi fylginn lífs til enda!

ok þat efndi Gunnarr at hann bar atgeirinn meðan hann lifði. Þeir börðust nafnar, ok var nær hvârum vænna horfði, þá kom Gunnarr at ok hjó Kolskegg banahögg. Eptir þat beiddu víkingar sèr griða. Gunnarr lèt þess kost, ok hann lèt þá kanna valinn ok taka fè þat er dauðir menn höfðu átt, en hann gaf hinum vâpn sín ok klæði, er hann

gaf grið, ok bað þá fara til fóstrjarða sinna; þeir hèldu í brot, en Gunnarr tók fè þat allt er eptir var. Tófi kom at Gunnari eptir hardagann ok bauð at fylgja honum til fjár þess er víkingar hafa fólgit, ok kvað þat bæði vera meira ok betra enn þetta er þeir höfðu áðr fengit; Gunnarr kvaðst þat vilja. Gunnarr gekk þá á land ok Tófi fyrir til skógar, en Gunnarr eptir, þeir komu at þar sem viðr var borinn saman mikill. Tófi segir at þar var fèit undir, hrundu þeir þá af viðunum ok fundu undir bæði gull ok silfr, klæði ok vopn góð, þeir bera fè þetta til skipa. Gunnarr spyrr Tófa, hverju hann vildi er hann launaði honum? Tófi svaraði: Ek em Danskr maðr at ætt, ok vilda ek at þú fylgðir mèr til frænda minna. Gunnarr spyrr hvi hann væri í austrvegi? Ek var tekinn af víkingum, segir Tófi, ok var mèr hèr skotit á land í Eysýslu, ok hefi ek hèr verit síðan.

*Cap. 31. Frá þvi er Gunnarr kom til Hákonar jarls.* — Gunnarr tók við honum ok mælti við Kolskegg ok Hallvarð: Nú munu vèr halda til norðrlanda. Þeir lètu vel yfir þvi ok báðu hann ráða. Gunnarr sigldi úr Austrvegi með fè miklu, hann hafði tíu skip ok hèlt þeim til Heiðabæar í Danmörk. Haraldr konúngr Gormsson var þar á land upp, honum var sagt til Gunnars, ok þat með at eingi mundi hans maki á Íslandi, hann sendi mann til hans at bjóða honum til sín. Gunnarr fór þegar á konúngs fund, konúngr tók við honum vel ok setti hann hit næsta sèr, þar var Gunnarr hálfan mánað. Konúngr hafði þat at gamni, at hann lèt Gunnar reyna ymsar íþróttir við menn sína, ok voru þeir öngir at nè eina íþrótt hefði til jafns við hann. Konúngr mælti til Gunnars: Svâ lizt mèr sem úvíða muni þinn jafníngi fást. Konúngr hauð at fá Gunnari kvânfâng ok ríki mikit ef hann vildi þar staðfestast. Gunnarr þakkaði konúngi boð sitt ok mælti: Fara vil ek fyrst til Íslands at finna vini mína ok frændr. Þá mun þú alldri aptr koma til vor, segir konúngr. Auðna mun þvi ráða herra, segir

Gunnarr. Gunnarr gaf konúngi lángskip gott ok annat fè mikit, konúngr gaf honum tignarklæði sín ok glófa gullfjallaða ok skarband ok gullknútr á ok hatt gerskan. Gunnarr fór norðr til Hisingar. Ölver tók við honum báðum höndum; hann færði Ölvi skip sín ok kallar þat vera hlut hans. Ölver tók við fènu ok kvað Gunnar vera dreng góðan ok bað hann vera þar nockura hríð. Hallvarðr spurði Gunnar ef hann vildi finna Hákon jarl. Gunnarr sagði sèr þat vera nær skapi, þvíat nú em ek at nokkuru reyndr, en þá var ek at öngu er þú baðt þess fyrr. Síðan fóru þeir norðr til þrándheims á fund Hákonar jarls, ok tók hann vel við Gunnari ok bauð honum at vera með sèr um vetrinn, hann þág þat, ok virðist hann hverjum manni vel. At jólum gaf jarl honum gullhring. Gunnarr lagði hug á Bergljótu frændkonu jarls, ok fannst þat opt á jarli at hann mundi hana hafa gipta honum ef Gunnarr hefði nokkut þess leitat.

*Cap. 32. Útkváma Gunnars.* — Um vârit spyrr jarl Gunnar hvat hann vildi ráða sínna; hann kvaðst vildu til Íslands. Jarlinn kvað vera illa ært i landi, ok mun vera lítil útsigling, en þó skalt þú hafa mjöl ok við i skipi þínu. Snemmendis bjó Gunnarr skip sitt, Hallvarðr fór út með þeim Kolskeggi, þeir komu út snemma sumars ok tóku Arnarbælisós fyrir alþíngi. Reið Gunnarr heim frá skipi, en fèkk menn til at ryðja skipit, en er þeir komu heim urðu menn þeim fegnir, þeir voru bliðir við heimamenn sína, ok hafði ekki vaxit dramb þeirra. Gunnarr spyrr hvârt Njáll sè heima, honum var sagt at hann var heima: lèt hann þá taka hest sinn, ok riðu þeir bræðr til Bergþórshvâls. Njáll varð feginn komu þeirra ok bað at þeir skyldu vera þar um nóttina, ok sagði Gunnarr frá ferðum sínum. Njáll sagði hann vera hinn mesta afreksmann, ok ert þú mjök reyndr, en þó mun þú meir síðar, þvíat margr mun þik öfunda. Við alla vilda ek gott eiga, segir Gunnarr. Margt mun til verða, segir Njáll, ok munt þú jafnan eiga hendr þínar at

verja. Undir þvi væri þá, segir Gunnarr, at ek hefða málaefni góð. Svâ mun ok vera, segir Njáll, ef þú geldr eigi annarra at. Njáll spurði Gunnar hvârt hann mundi til þings ríða. Gunnarr sagði at hann mundi ríða, ok spyrr hvârt Njáll mundu ríða, en hann kvaðst eigi ríða mundu, ok svâ vilda ek at þú gerðir. Gunnarr reið heim ok gaf Njáli góðar gjafir ok þakkaði honum fjárvarðveizlu. Kolskeggr fýsti hann mjök at ríða til þíngs: mun þar vaxa sæmd þín við, þvíat margr mun þar at þèr víkja. Lítt hefi ek þat skap haft, segir Gunnarr, at hrósa mèr, en gott þikki mèr at finna góða menn. Hallvarðr var ok þar kominn ok bauð at ríða til þíngs með þeim.

*Cap. 33. Bónorð Gunnars.* — Gunnarr reið ok þeir allir, en er þeir komu á þíng, þá voru þeir svâ vel búnir at öngir voru þar jafnvel búnir, ok fóru menn út úr hverri búð at undrast þá. Gunnarr reið til búðar Rángæínga ok var þar með frændum sinum; margir menn fóru at finna Gunnar ok spyrja hann tíðinda, hann var við alla menn lèttr ok kátr ok sagði öllum slíkt er vildu. Þat var einn dag er Gunnarr gekk frá lögbergi, hann gekk fyrir Mosfellíngabúð, þá sá hann konu fara í móti sèr, ok var vel búin, en er þau fundust, kvaddi hún þegar Gunnar. Hann tók vel kveðju hennar ok spyrr hvat kvenna hún væri, hún nefndist Hallgerðr ok kvaðst vera dóttir Höskulds Dalakollssonar: hún mælti til hans djarfliga ok bað segja sèr frá ferðum sinum, en hann kvaðst ekki varna mundu henni máls, settust þau þá niðr ok töluðu. Hún var svâ búin at hún var í rauðu kyltli ok hafði yfir sèr skallatsskikkju hlaðbúna í skaut niðr, hárit tók ofan á bríngu henni ok var bæði mikit ok fagrt. Gunnarr var í skallatsklæðum, er Haraldr konúngr Gormsson gaf honum, hann hafði ok gullhríng á hendi, þann er Hákon jarl gaf honum. Þau töluðu lengi hátt, þar kom er hann spurði hvârt hún væri ógefin, hún sagði at svâ væri, ok er þat ekki margra at hætta á þat.

þikki þèr hvergi fullkosta? Eigi er þat, segir hún, en mannvönd mun ek vera. Hversu munt þú svara, ef ek bið þin? Þat mun þèr ecki i hug, segir hún. Eigi er þat, segir hann. Ef þèr er nokkurr hugr á, þá finn þú föður minn. Síðan skildu þau talit. Gunnarr geck þegar til búðar Dalamanna ok fann mann úti fyrir búðinni ok spyrr hvârt Höskuldr væri í búð, sá segir at hann væri í búð, geck þá Gunnarr inn. Höskuldr ok Hrútr tóku vel við Gunnari, hann settist niðr á meðal þeirra, ok fannst þat ekki í tali þeirra, at þar hefði missætti verit í meðal. Þar kom niðr ræða Gunnars hversu þeir bræðr mundu því svara, ef hann bæði Hallgerðar. Vel, segir Höskuldr, ef þèr er þat alhugat. Gunnarr segir sèr þat alvöru: en svâ skildu vèr næstum, at mörgum mundi þat þickja likligt, at hèr mundi ekki samband verða. Hversu lízt þèr Hrútr frændi? segir Höskuldr. Hrútr svaraði: Ecki þicki mèr þetta jafnræði. Hvat finnr þú til þess? segir Gunnarr. Hrútr mælti: Því mun ek svara þèr um þetta er satt er: þú ert maðr vaskr ok vel at þèr, en hún er blandin mjök, ok vil ek þik i öngu svíkja. Vel mun þèr fara, segir Gunnarr, en þó mun ek þat fyrir satt hafa, at þèr virðit í fornan fjandskap, ef þèr vilit eigi gera mèr kostinn. Eigi er þat, segir Hrútr, meir er hitt at ek sè, at þú mátt nú ekki viðgera; en þótt vèr kaupim eigi, þá vildim vèr þó vera vinir þínir. Ek hefi talat við hana, segir Gunnarr, ok er þat ekki fjarri hennar skapi. Hrútr mælti: Veit ek at báðum er þetta girnda ráð, hættit þit ok mestu til hversu ferr. Hrútr sagði Gunnari ófregit allt um skapferði Hallgerðar, ok þótti Gunnari fyrst ærit margt þat er áfátt var, en þar kom síðar at saman dró kaupmála með þeim. Var þá sent eptir Hallgerði, var þá talat um málit svâ at hún var við. Lètu þeir nú sem fyrr at hún festi sik sjálf; skyldi þetta boð vera at Hlíðarenda, ok skyldi fara fyrst leyniliga, en þó kom þar er allir vissu. Gunnarr reið heim af þingi ok kom til Berg-

þórshvols, ok sagði Njáli frá kaupum sínum, hann tók þessu þúngliga. Gunnarr spyrr hví Njáli þótti þetta svâ úráðligt? Þvíat af henni mun standast allt it illa, er hún kemr austr híngat, segir Njáll. Alldri skal hún spilla okkru vinfengi, segir Gunnarr. Þat mun þó svâ nær fara, segir Njáll, en þó munt þú jafnan bæta fyrir henni. Gunnarr bauð Njáli til boðs ok öllum þeim þaðan sem hann vildi at færi. Njáll hèt at fara. Síðan reið Gunnarr heim ok reið um hèraðit at bjóða mönnum.

*Cap. 34. Frá Þráni Sigfússyni.* — Þráinn hèt maðr, hann var Sigfússon, Sighvatssonar hins rauða, hann bjó at Grjótá í Fljótshlíð, hann var frændi Gunnars ok virðíngamaðr mikill; hann átti Þórhildi skáldkonu, hún var orðgifr mikit ok fór með flimtan, Þráinn unni henni litit. Honum var boðit til boðs ok konu hans, hún gekk at beina ok Bergþóra Skarphèðinsdóttir, kona Njáls. Ketill hèt annarr Sigfússon, hann bjó í Mörk fyrir austan Markarfljót, hann átti Þórgerði Njálsdóttur. Þórkell hèt hinn þriði Sigfússon, fjórði Mörðr, fimti Lambi, sètti Sigmundr, sjöndi Sigurðr, þessir voru allir frændr Gunnars ok voru kappar miklir, þeim bauð Gunnarr öllum til boðsins. Gunnarr hafði ok boðit Valgarði enum grá ok Úlfi Aurgoða ok sonum þeirra, Rúnólfi ok Merði. Þeir Höskuldr ok Hrútr komu til boðsins fjölmennir, þar voru synir Höskuldar Þórleikr ok Ólafr, þar var brúðrin í för með þeim ok Þórgerðr dóttir hennar, ok var hún kvenna fríðust, hún var þá fjórtán vetra gömul, margt var með henni annarra kvenna. Þar var ok Þórkatla, dóttir Ásgríms Elliðagrímssonar, ok dætr Njáls tvær Þórgerðr ok Helga. Gunnarr hafði marga fyrir boðsmenn, ok skipaði hann svâ sínum mönnum: hann sat á miðjan bekk, en innar frá Þráinn Sigfússon, þá Úlfr Aurgoði, þá Valgarðr enn grái, þá Mörðr ok Runólfr, þá Sigfússynir, Lambi sat yztr. Hit næsta Gunnari utar frá sat Njáll, þá Skarphèðinn, þá Helgi, þá Grímr, þá Höskuldr,

þá Hafr enn spaki, þá Íngjaldr frá Keldum, þá synir Þóris austan úr Holti. Þórir vildi sitja yztr virðinganianna, þvíat þá þótti hverjum gott þar sem sat. Höskuldr sat á miðjan beck, en synir hans innar frá honum, Hrútr sat utar frá Höskuldi, en þá er eigi frá sagt hversu öðrum var skipat. Brúðr sat á miðjum palli, en til annarrar handar henni Þórgerðr dóttir hennar, á aðra hönd sat Þórkatla dóttir Ásgríms Elliðagrímssonar. Þórhildr geck um beina ok báru þær Bergþóra mat á borð. Þráinn Sigfússon var starsýnn á Þórgerði Glúmsdóttur, þetta sá Þórhildr kona háns, hún reiddist ok gerði kviðlíng til hans:

Era gapripur góðar,
Gegr er þèr í augum!

Þráinn! segir hún; hann steig þegar fram yfir borðit ok sagði skilit við Þórhildi: vil ek eigi hafa flimtan hennar nè fáryrði yfir mèr; ok svâ var hann kappsamr of þetta, at hann vildi eigi vera at veizlunni nema hún sè í brot rekin, ok þat var at hún fór í brot, ok nú sat hverr maðr í sínu rúmi ok drucku ok voru glaðir. Þá tók Þráinn til orða: Ekki mun ek færa þat í hljóðmæli er mèr er í skapi, þess vil ek spyrja þik Höskuldr Dalakollsson: viltu gipta mèr Þórgerði frændkonu þína? Eigi veit ek þat, segir Höskuldr, mèr þickir þú illa skilit við þessa er þú áttir áðr, eða hverr maðr er hann, Gunnarr? Gunnarr svarar: Eigi vil ek segja frá manninum, þvíat mèr er maðrinn skyldr, ok seg þú frá Njáll, segir Gunnarr, þvíat allir munu því trúa. Njáll mælti: Þat er frá manni at segja at maðr er vel auðigr at fè ok gerr at sèr um allt ok et mesta mikilmenni, ok megit þèr fyrir því gera honum kostinn. Þá mælti Höskuldr: Hvat sýnist þèr ráð, Hrútr frændi? Gera mátt þú fyrir því kostinn at þetta er henni jafnræði. Þá tala þeir um kaup ok verða á allt sáttir, stendr þá Gunnarr upp ok Þráinn ok gánga at pallinum: spurði Gunnarr þær mæðgur hvârt þær vildu játa þessum kaupum? Þær kváðust eigi bregða

mundu, ok fastnaði Hallgerðr dóttur sína; þá var skipat konum í annat sinn, sat þá Þórhalla meðal brúða. Fór nú boð vel fram, ok er lokit var riða þeir Höskuldr vestr, en Rángæingar til sinna heimila. Gunnarr gaf mörgum mönnum gjafir, ok virðist þat vel. Hallgerðr tók við buráðum ok var fengsöm ok atkvæðamikil. Þórgerðr tók við búráðum at Grjótá ok var góð húsfreya.

*Cap. 35. Heimboð at Bergþórshvâli.* — Þat var siðvandi þeirra Gunnars ok Njáls at sinn vetr þá hvârr heimboð at öðrum fyrir vináttu sakir: þá átti Gunnarr at sækja veizlu at Njáli, ok fóru þau Gunnarr ok Hallgerðr til Bergþórshvols, þá voru þau Helgi eigi heima. Njáll tók vel við þeim Gunnari, ok þá er þau höfðu þar verit nockura hríð, kom Helgi heim ok Þórhalla kona hans. Þá gekk Bergþóra at pallinum ok Þórhalla með henni, ok mælti Bergþóra til Hallgerðar: Þú skalt þoka fyrir konu þessi! Hún mælti: Hvergi mun ek þoka, þvíat engi hornreka vil ek vera. Ek skal hèr ráða, sagði Bergþóra; síðan settist Þórhalla niðr. Bergþóra geck at borðinu með handlaugar. Hallgerðr tók höndina Bergþóru ok mælti: Eigi er þó kosta munr með ykkr Njáli: þú hefir kartnögl á hverjum fingri, en hann er skegglauss. Satt er þat, segir Bergþóra, en hvârtki okkat gefr þat öðru at sök, en eigi var skegglauss Þórvaldr bóandi þinn, ok rèttu þó honum bana. Þá mælti Hallgerðr: Til litils kemr mèr at eiga hinn vaskasta mann á Íslandi, ef þú hefnir eigi þessa, Gunnarr! Hann spratt upp ok steig fram yfir borðit ok mælti: Heim mun ek fara, ok er þat makligast at þú sennir við heimamenn þína, en eigi í annara manna híbýlum; enda á ek Njáli marga sæmd at launa, ok mun ek ekki vera eggjanar fífl þitt! síðan foru þau heim. Mun þú þat Bergþóra, sagði Hallgerðr, at vit skulum eigi skildar. Bergþóra sagði at eigi skyldi hennar hlutr batna við þat. Gunnarr lagði ekki til ok fór heim til Hlíðarenda ok var heima allan vetrinn; líðr nú sumarit til alþingis.

*Cap. 36. Kolr vå Svart.* — Gunnarr reið til þings, en áðr hann reið heiman mælti hann til Hallgerðar: Vertu nú dæl, meðan ek em í brautu, ok sýn af þér önga fárskapi þar sem við vini mína er um at eiga. Tröll hafi þína vini! segir Hallgerðr. Gunnarr reið til þings ok sá at eigi var gott orðum við hana at koma; Njáll reið ok til þings ok synir hans allir. Nú er frá því at segja hvat heima er tíðinda. Þeir áttu skóg saman Njáll ok Gunnarr í Rauðaskriðum, þeir höfðu ekki skipt skóginum, en hvârr var vanr at höggva sem þyrfti, ok taldi hvârgi á annan of þat. Kolr hét verkstjóri Hallgerðar, hann hafði verit með henni lengi ok var it mesta illmenni. Svartr hét maðr, hann var húskarl Njáls ok Bergþóru, þeim líkaði vel við hann. Bergþóra mælti við hann at hann skyldi fara í Rauðaskriður ok höggva skóg, en ek mun fá til menn at draga heim viðinn; hann kvaðst vinna mundu þat sem hún legði fyrir hann, hann fór upp í Rauðaskriður ok skyldi þar vera viku. Snauðir menn komu til Hlíðarenda austan frá Markarfljóti ok sögðu, at Svartr hafði verit í Rauðaskriðum ok höggvit skóg ok gert mikit at. Svâ mun Bergþóra tilætla at ræna mik mörgu, segir Hallgerðr, en því skal ek ráða at hann höggi eigi optar. Rannveig heyrði, móðir Gunnars, ok mælti: Þó hafa húsfreyur verit góðar, þótt eigi hafi staðit i mannráðum. Nú leið af nóttin, ok of morguninn kom Hallgerðr at máli við Kol ok mælti: Verk hefi ek hugat þér, segir hún, ok fèkk honum í hendr vâpn ok mælti: Farðu í Rauðaskriður, þar munt þú finna Svart. Hvat skal ek honum? segir hann. Spyrr þú at því, þar er þú ert it mesta illmenni? vega skalt þú hann, segir hún. Gert mun ek þat geta, segir hann, en þat er líkara at ek gefa mik við. Vex þér hvatvetna í augu, segir hún, ok ferr þèr illa þar sem ek hefi mælt eptir þèr hvern hlut, mun ek fá til annan mann at gera þetta, ef þú þorir eigi. Hann tók öxina ok

var reiðr mjök, ok tekr hest er Gunnarr átti ok riðr nú þar til er hann kemr austr at Markarfljóti. Hann steig þar af baki ok beið í skóginum þar til er þeir höfðu borit ofan viðinn, ok Svartr var einn eptir, hleypr Kolr þá at honum ok mælti: Fleiri munu kunna at höggva stórt enn þú einn! ok setti öxina i höfuð honum ok hjó hann banahögg, ok riðr heim síðan ok segir Hallgerði vígit; hún mælti: Svâ skal ek þik varðveita at þik skal ekki saka. Vera má þat, segir hann, en hinn veg dreymdi mik þó áðr enn ek vâ vigit. Nú koma þeir upp í skóginn ok finna Svart veginn ok flytja hann heim. Hallgerðr sendi Gunnari mann til þíngs at segja honum vígit. Gunnarr hallmælti ekki Hallgerði fyrst fyrir sendimanninum, ok vissu menn eigi fyrst hvârt honum þótti vel eða illa. Litlu síðar stóð hann upp ok bað menn sína gánga með sèr, þeir gerðu svâ ok fóru til búðar Njáls. Gunnarr sendi mann eptir Njáli ok bað hann koma út, Njáll gekk út þegar, ok gengu þeir Gunnarr á tal. Gunnarr mælti: Víg hefi ek at segja þèr, ok hefir valdit kona mín ok verkstjóri minn Kolr, en fyrir hefir orðit Svartr húskarl þinn. Njáll þagði meðan hann sagði honum alla söguna; þá mælti Njáll: Þurfa muntu at láta hana eigi öllu framkoma. Gunnarr mælti: Sjálfr skalt þú dæma. Njáll mælti: Erfitt mun þèr verða at bæta öll slis Hallgerðar, ok mun annarstaðar meira slóða draga enn hèr er vit eigum hlut at, ok mun hèr þó mikit ávanta at vel sè, ok munu vit þess þurfa at muna þat at vit höfum vel við mælzt, ok vættir mik at þèr fari vel, en þó munt þú verða mjök atþreyttr. Njáll tók sjálfdæmi af Gunnari ok mælti: Ekki mun ek halda máli þessu til kapps: þú skalt gjalda tólf aura silfrs, en þat vil ek tilskilja, þótt nockut komi þat úr vorum garði er þèr eigit um at gera, at þèr stillit eigi verr gerðinni. Gunnarr greiddi af hendi fèit vel ok reið heim síðan. Njáll kom heim af þíngi

ok synir hans. Bergþóra sá fèit ok mælti: Vel er þessu í hóf stillt, en jafnmikit fè skal koma fyrir Kol, er stundir líða. Gunnarr kom heim af þíngi ok taldi á Hallgerði, hún kvað betri menn liggja úbætta margstaðar. Gunnarr kvað hana ráða mundu tiltekjum sínum, en ek skal ráða hversu málin lúkast. Hallgerðr hældist jafnan um víg Svarts, en Bergþóru líkaði þat illa. Njáll fór upp í Þórólfsfell ok synir hans at skipa þar til bús, en þann sama dag verðr sá atburðr þá er Bergþóra er úti, at hún sèr mann ríða at garði svörtum hesti; hún nam staðar ok gekk eigi inn, hún kendi eigi manninn, sjá maðr hafði spjót í hendi ok gyrðr saxi, hún spyrr þenna mann at nafni. Atli heiti ek, sagði hann; hún spurði hvaðan hann væri? Ek em Austfirðskr maðr, segir hann. Hvert skalt þú fara? segir hún. Ek em maðr vistlauss, segir hann, ok ætlaða ek at finna Njál ok Skarphèðinn, ok vita ef þeir vildi með mèr taka. Hvat er þèr hentast at vinna? segir hún. Ek em akrgerðar maðr, ok margt er mèr vel hent at gera, segir hann, en eigi vil ek því leyna at ek em maðr skapharðr, ok hefr margr jafnan hlotit um sárt at binda fyrir mèr. Ekki gef ek þèr þat at sök þótt þú sèr engi bleyðimaðr, segir hún. Atli mælti: Ert þú nockurs ráðandi hèr? segir hann. Ek em kona Njáls, segir hún, ok ræð ek eigi síðr hjón enn hann. Vilt þú taka við mèr? segir hann. Gera mun ek þèr kost á því, segir hún, ef þú vilt vinna þat er ek legg fyrir þik, ok svâ þótt ek vilja senda þik til mannráða. Áttu svâ tilvarit of menn, segir hann, at þú munt ekki min at slíku þurfa. Þat skil ek er ek vil, segir hún. Kaupa munu vit at þessu, segir hann; þá tók hún við honum. Njáll kom heim ok synir hans, ok spurði Bergþóru hvat manna sjá væri? Hann er húskarl þinn, segir hún, ok tók ek við honum, ok kveðst hann vera maðr óhandlatr. Ærit mun hann stórvirkr, segir

Njáll, en eigi veit ek hvârt hann er svâ góðvirkr. Skarphèðinn var vel til Atla. Njáll ríðr til þings of sumarit ok synir hans, Gunnarr var á þingi. Njáll tók upp fèsjóð. Skarphèðinn spyrr: Hvat fè er þat, faðir? Hèr er fè þat er Gunnarr greiddi mèr fyrir heimamann vorn fyrra sumar. Koma mun þèr þat til nockurs, segir Skarphèðinn, ok glotti við.

*Cap. 37. Víg Kols er Atli drap.* — Nú er þar til at taka at Atli spurði Bergþóru hvat hann skyldi vinna um daginn? Hugat hefi ek þèr verkit, segir hún: þú skalt fara at leita Kols þar til er þú finnr hann, segir hún, þvíat nú skalt þú vega hann í dag, ef þú vilt minn vilja gera. Hèr er vel ákomit, segir Atli, þvíat hvârtveggi okkar er illmenni, en þó skal ek svâ til hans ráða at annarrhvârr okkar skal deya. Vel mun þèr fara, segir hún, ok skalt þú ok eigi til eingis vinna. Hann tók vâpn sín ok hest ok reið upp til Fljótshlíðar ok mætti þar mönnum er fóru frá Hlíðarenda, þeir áttu heima austr í Mörk. Þeir spurðu hvert Atli ætlaði? hann kveðst ríða skyldu at leita klárs eins. Þeir kváðu þat lítit eyrindi slíkum verkmanni, en þó er þá helst eptir at spyrja er á ferli hafa verit í nótt. Hverir eru þeir? segir hann. Víga-Kolr, húskarl Hallgerðar, segja þeir, fór frá seli áðan ok hefir vakat í alla nótt. Eigi veit ek hvârt ek þori at finna hann, segir Atli, hann er skapillr, ok má vera at ek láta annars víti at varnaði. Hinnig værir þú undir brún at líta sem þú mundir eigi vera ragr! ok vísuðu honum til Kols, hann keyrði þá hest sinn ok ríðr mikinn. Ok er hann mætir Kol, mælti Atli til hans: Gengr vel klyfjabandit? segir Atli. Þat mun þik skipta öngu, mannfýlan, segir Kolr, ok öngan þann er þaðan er. Atli mælti: Þat átt þú eptir er erfiðast er, en þat er at deya. Síðan lagði Atli spjóti til hans, ok kom á hann miðjan. Kolr sveflaði til hans öxi ok misti hans, ok fèll af baki ok dó þegar. Atli reið þar til er hann fann verkmenn Hallgerðar,

ok mælti: Farit upp til hestsins, ok gætit hans Kols, þviat hann er fallinn af baki, ok er hann dauðr. Hefir þú vegit hann?. segja þeir. Svâ mun Hallgerði sýnast sem hann hafi eigi sjálfdauðr orðit! Reid siðan Atli heim ok sagði Bergþóru, hún þakkar honum verk þetta ok orð þau sem hann hafði um haft. Eigi veit ek, segir hann, hversu Njáli mun þikkja, segir Atli. Vel mun hann i höndum hafa, segir hún, ok mun ek segja þèr eitt til marks um, at hann hefir haft til þings þrælsgjöld þau er vèr tókum við fyrra vâr, ok munu þau nú koma fyrir Kol; en þótt sættir verði þá skalt þú þó vera varr um þik, þviat Hallgerðr mun eingar sættir halda. Vilt þú nokkut senda mann til Njáls at segja honum vigit? Eigi vil ek þat, segir hún, mèr þætti betr at Kolr væri úgildr; hættu þau talinu. Hallgerði var sagt vig Kols ok ummæli Atla, hún kvaðst launa skyldu Atla: hún sendi mann til þings at segja Gunnari vig Kols, hann svaraði fá ok sendi mann at segja Njáli, hann svaraði öngu. Skarphèðinn mælti: Miklu eru þrælar atgerðarmeiri en fyrr hafa verit: þeir flugust þá á, ok þótti þat ecki saka, en nú vilja þeir vegast, ok glotti við. Njáll kippti ofan sjóðinum er uppi var í búðinni ok gekk út, synir hans gengu med honum til búðar Gunnars. Skarphèðinn mælti við mann er var i búðardyrum: Segðu Gunnari at faðir minn vill finna hann, hann gerði svâ. Gunnarr gekk út þegar ok fagnaði vel Njáli, siðan gengu þeir á tal. Illa hefir vorðit, segir Njáll, er húsfreya mín skal hafa rofit grið ok látit drepa húskarl þinn. Ekki skal hún ámæli af þessu hafa, segir Gunnarr. Dæm þú nú málit, segir Njáll. Svâ mun ek gera, segir Gunnarr, læt ek þá vera menn jafndýra Svart ok Kol: skaltu greiða mèr tólf aura silfrs. Njáll tók fèsjóðinn ok seldi Gunnari, Gunnarr kendi fèit, at þat var et sama sem hann hafði honum greitt; fór Njáll til búðar sinnar, ok var jafnvel með þeim siðan sem áðr. Þá er Njáll kom heim, taldi hann á Bergþóru, en hún kvaðst

alldri vægja skyldu fyrir Hallgerði. Hallgerðr leitaði á Gunnar mjök er hann hafði sæzt á vígit, Gunnarr kveðst alldri bregðast skyldu Njáli nè sonum hans; hún geisaði mjök, Gunnarr gaf eigi gaum at því. Svâ gættu þeir til á þeim misserum at ekki varð at.

*Cap. 38. Víg Atla.* — Um vârit ræddi Njáll við Atla: Þat vilda ek at þú rèðist austr í fjörðu at eigi skapi Hallgerðr þèr aldr. Ekki hræðumst ek þat, segir Atli, ok vil ek gjarna heima vera ef ek á kosti. Þat er þó úráðligra, segir Njáll. Betra þikki mèr at látast í þínu húsi enn skipta um lánardrotna, en þess vil ek biðja þik ef ek em veginn at eigi komi þrælsgjöld fyrir mik. Svâ skal þik bæta sem frjálsan mann, en Bergþóra mun þèr því heita sem hún mun efna, at fyrir þik skulu koma mannhefndir; rèðst hann þá þar at hjóni. Nú er at segja frá Hallgerði at hún sendi mann vestr til Bjarnarfjarðar eptir Brynjólfi Rosta frænda sínum, hann var son Svans laungetinn, hann var it mesta illmenni. Gunnarr vissi ekki til þessa. Hallgerðr kvað hann sèr vel fallinn til verkstjóra. Brynjólfr kom vestan, ok spurði Gunnarr hvat hann skyldi, hann kvaðst þar vera skyldu. Ecki munt þú bæta híbýli vor, segir Gunnarr, svâ er mèr frá þèr sagt, en ekki mun ek vísa í brot frændum Hallgerðar, þeim er hún vill at sè með henni. Gunnarr var til hans fárr ok ekki illa, leið nú svâ fram til þings. Gunnarr ríðr til þings ok Kolskeggr, ok er þeir komu til þings fundust þeir Njáll, ok var hann á þingi ok synir hans, ok fór vel með þeim Gunnari. Bergþóra mælti við Atla: Far þú upp í Þórólfsfell ok vinn þar viku; hann fór upp þangat ok var þar á laun ok brendi kol í skógi. Hallgerðr mælti við Brynjólf: Þat er mèr sagt at Atli sè eigi heima, ok muni hann vinna verk í Þórólfsfelli. Hvat þikki þèr líkast at hann vinni? segir hann. Í skógi nokkut, segir hún. Hvat skal ek honum? segir hann. Drepa skalt þú hann, segir hún; hann varð um fárr. Hall-

gerðr mælti: Minnr myndi Þjóstólfi í augu vaxa, ef hann væri á lífi, at drepa Atla. Ecki skalt þú hèr enn þurfa mjök á at frýa, segir hann; tók hann þá vopn sín ok tekr hest sinn, ok stígr á bak ok ríðr í Þórólfsfell. Hann sá kolreyk mikinn austr frá bænum, ríðr hann þar til ok stígr þá af hestinum ok bindr, en hann gengr þar sem mestr var reykrinn: sèr hann þá hvar kolgröfin er, ok er þar maðr við, hann sá at hann hafði sett spjót í völlinn hjá sèr. Brynjólfr gengr með reykinum allt at honum, en hann var óðr at verki sínu ok sá hann eigi. Brynjólfr hjó í höfuð honum með öxi, hann brást við svâ fast at Brynjólfr lèt lausa öxina, ok þreif Atli spjótit ok skaut eptir honum. Brynjólfr kastaði sèr niðr við vellinum, en spjótit fló yfir hann fram. Nautst þú nú þess er ek var eigi viðbúinn, segir Atli, en nú mun Hallgerði vel þikkja, því at þú munt segja dauða minn, en þat er til bóta at þú munt eiga slíkan brátt; enda tak þú nú öxi þína er hèr hefir verit. Hann svaraði honum öngu, ok tók öxina eigi fyrr enn hann var dauðr, ok reið heim í Þórólfsfell ok sagði vígit, ok reið heim síðan ok sagði Hallgerði: hún sendi menn til Bergþórshvols ok lèt segja Bergþóru at nú var launat víg Kols. Síðan sendi Hallgerðr mann til þíngs at segja Gunnari víg Atla. Gunnarr stóð upp ok Kolskeggr með honum, Kolskeggr mælti: Óþarfir munu þèr verða frændr Hallgerðar! Þeir gengu til fundar við Njál. Gunnarr mælti: Víg Atla hefi ek at segja þèr, hann sagði honum hverr vâ, ok vil ek nú bjóða þèr bót fyrir, ok skaltu gera sjálfr. Njáll mælti: Þat höfum vit ætlat at láta okkr ekki ágreina, en þó mun ek ekki gera hann at þræli. Gunnarr kvað þat vel vera, ok rètti fram höndina. Njáll nefndi sèr vâtta, ok sættust at þessu. Skarphèðinn mælti: Ecki lætr Hallgerðr verða ellidauða húskarla vora. Gunnarr mælti: Svâ mun móðir þín tilætla at ýmsir eigi högg í garða. Ærit bragð mun at því, sagði Njáll. Síðan gerði Njáll hundrað silfrs, en Gunnarr galt

þegar. Margir mæltu er hjá stóðu at mikit væri gert, Gunnarr reiddist ok kvað þá bætta fullum bótum er eigi væri vaskari menn enn Atli var; riðu þeir við þat heim af þingi. Bergþóra ræddi við Njál, er hún sá fèit: Efnt þickist þú hafa heit þin, en nú eru eptir min heit. Eigi er nauðsyn á at þú efnir þau, segir Njáll. Hins hefir þú tilgetit, segir hún, ok skal svâ vera. Hallgerðr mælti við Gunnar: Hefir þú goldit fyrir víg Atla hundrað silfrs ok gert hann at frjálsum manni? Frjáls var hann áðr, segir Gunnarr, enda skal ek ekki gera at óbótamönnum heimamenn Njáls. Jafnkomit mun á með ykkr er hvârtveggi er blauðr! Þat er sem reynist, segir hann, var þá Gunnarr við hana lengi fárr, þar til er hún lèt við hann. Nú er kyrt þau misseri, um vârit jók Njáll ekki hjón sín. Nú riða menn til þings um sumarit.

*Cap. 39. Víg Brynjólfs Rosta.* — Þórðr hèt maðr, hann var kallaðr leysingjason, Sigtryggr hèt faðir hans, ok hafði hann verit leysingi Ásgerðar, ok drukknaði hann í Markarfljóti, var Þórðr því með Njáli siðan. Hann var mikill maðr ok styrkr, hann hafði fóstrat alla sonu Njáls. Hann hafði lagt hug á Guðfinnu, frændkonu Njáls, Þórólfsdóttur, hún var matselja heima þar ok var þá úhraust. Bergþóra kom at máli við Þórð lausingja, hún sagði: Þú skalt fara at drepa Brynjólf, frænda Hallgerðar. Eingi em ek vígamaðr, segir hann, en þó mun ek gera þat er þú vilt. Þat vil ek, segir hún. Siðan fór hann upp til Hliðarenda ok lèt kalla Hallgerði út, ok spurði hvar Brynjólfr væri. Hvat viltu honum? segir hún. Ek vil at hann segi mèr hvar hann hefir hulit hræ Atla, mèr er sagt, at hann hafi illa umbúit; hún vísaði til hans ok kvað hann vera í Akratúngu niðri. Gæt þú, segir Þórðr, at honum verði eigi þat sem Atla. Engi ertu vígamaðr, segir hún, ok mun ecki undir hvárt þit finnist. Alldri hefi ek sèð mannsblóð, ok veit ek eigi hve mèr bregðr við! ok hleypir úr túninu ok ofan til Akratúngu. Rannveig, móðir Gunnars, hafði heyrt

á viðrtal þeirra. Mjök frýr þú honum hugar, Hallgerðr, segir hún, en ek ætla hann öruggan mann, ok mun þat frændi þinn finna. Þeir mættust á förnum vegi, Brynjólfr ok Þórðr, Þórðr mælti: Ver þú þik Brynjólfr, þvíat ek vil eigi níðast á þèr. Brynjólfr reið á Þórði ok hjó til hans, hann hjó móti með öxi ok í sundr skaptit fyrir framan hendr honum Brynjólfi ok hjó þegar í annat sinn til hans, ok kom á bringuna, ok gekk þegar á hol: fèll hann þá af baki ok var þegar dauðr. Þórðr fann smalamann Hallgerðar ok lýsti vígi á hönd sèr, ok sagði hvar hann lá ok bað hann segja Hallgerði vígit. Síðan reið hann til Bergþórshvols ok sagði Bergþóru vígit ok öðrum mönnum. Njóttu heill handa! sagði hún. Smalamaðr sagði Hallgerði vígit, hún varð beisk við ok kvað hèr skyldu mikit illt afleiða ef hún mætti ráða.

*Cap. 40. Sætt Njáls ok Gunnars um víg Brynjólfs.* — Nú koma tíðindin til þings, ok lèt Njáll segja sèr þrimsinnum ok mælti síðan: Fleiri gerast nú vígamenn en ek ætlaða. Skarphèðinn mælti: Sjá maðr hefir þó helst verit hraðfeigr, segir hann, er látist hefir fyrir fóstra vorum er alldri hefir sèð mannsblóð, ok mundu þat margir ætla at vèr bræðr myndim þetta fyrr gert hafa at því skapferli sem vèr höfum Skamt munt þú til þess eiga, segir Njáll, at þik mun slíkt henda; mun þik þó nauðr tilreka; þeir gengu þá til móts við Gunnar ok sögðu honum vígit. Gunnarr mælti ok sagði at þat var lítill mannskaði, en þó var hann frjáls maðr. Njáll bauð honum þegar sættina, Gunnarr játti því, ok skyldi hann sjálfr dæma, hann dæmdi þegar ok gerði hundrað silfrs. Njáll galt þegar fèit, ok voru þeir sáttir eptir þat.

*Cap. 41. Útkváma Sigmundar.* — Sigmundr hèt maðr, hann var Lambason Sighvatssonar hins rauða, hann var farmaðr mikill, kurteis maðr ok vænn, mikill ok sterkr, hann var metnaðarmaðr mikill ok skáld gott ok at flestum íþróttum vel búinn, hávaðamaðr mikill, spottsamr ok ódæll,

hann kom út austr í Hornafirði. Skjöldr hèt fèlagi hans, hann var sænskr maðr ok illr viðreignar. Þeir fengu sèr hesta ok riðu austan úr Hornafirði, ok lèttu eigi ferð sinni fyrr enn þeir komu í Fljótshlíð til Hlíðarenda. Gunnarr tók vel við þeim, þar var frændsemi mikil með þeim. Gunnarr bauð Sigmundi at vera þar um vetrinn. Sigmundr kvaðst þat þiggja mundu ef Skjöldr væri þar, fèlagi hans. Svâ er mèr frá honum sagt, sagði Gunnarr, at hann sè þèr engi skapbætir, en þú þarf hins heldr at bætt sè um með þèr; er hèr ok vönd vistin, ok vilda ek ráða yðr ráð frændum mínum, at þèr hlypit eigi upp við frameggjan Hallgerðar, konu minnar, þvíat hún tekr þat margt upp er fjarri er mínum vilja. Veldrat sá er varar, segir Sigmundr. Þá er at gæta ráðsins, segir Gunnarr, en mjök munt þú verða reyndr, ok gakk með mèr jafnan ok hlít mínum ráðum! Síðan voru þeir í fylgð með Gunnari. Hallgerðr var vel til Sigmundar, ok þar kom at þar gerðist svâ mikill ákafi at hún bar fè á hann ok þjónaði honum eigi verr enn bónda sínum, ok lögðu margir þat til orðs ok þóttust eigi vita hvat undir myndi búa. Hallgerðr mælti til Gunnars: Eigi er gott við at una við þat hundrað silfrs, er þú tókt fyrir Brýnjólf frænda minn, enda skal ek hefna hans ef ek má, segir hún. Gunnarr kvaðst ekki vilja skipta orðum við hana, ok gekk í brot; hann fann Kolskegg ok mælti til hans: Farðu ok finn Njál ok seg honum at Þórðr sè varr um sik, þótt sættir sè, þvíat mèr þikkir eigi trúliga vera. Hann reið ok sagði Njáli, en Njáll sagði Þórði; Kolskeggr reið heim, ok þakkaði Njáll þeim trúleika sina. — Þat var einuhverju sinni at þeir voru úti Njáll ok Þórðr, þar var vanr at gánga hafr um túnit, ok skyldi eingi hann í braut reka. Þórðr mælti: Undarliga bregðr nú við, segir hann. Hvat sèr þú þess er þèr þickir með undarligu móti? segir Njáll. Mèr þikki hafrinn liggja hèr í lægðinni, ok er alblóðugr allr. Njáll kvað þar vera eigi hafr ok ekki annat. Hvat er

þat þá? segir þórðr. þú munt vera feigr maðr, ok munt þú sèð hafa fylgju þína, segir Njáll, ok ver þú varr um þik! Ekki mun mèr þat stoða, segir þórðr, ef mèr er dauðinn ætlaðr. Hallgerðr kom at máli við þráinn Sigfússon ok mælti: Mágr þætti mèr þú vera, segir hún, ef þú dræpir þórð leysíngjason. Eigi mun ek þat gera, þvíat þá mun ek hafa reiði Gunnars frænda míns, segir hann, mun ok þar stórt áliggja, þvíat vígs þess mun verða brátt hefnt. Hverr mun hefna? segir hún, hvârt karl enn skegglausi? Eigi mun þat, segir hann, hans synir munu hefna. Síðan töluðu þau lengi hljótt, ok vissi eingi maðr hvat þau höfðu í ráðagerðum. Einusinni var þat at Gunnarr var eigi heima, ok þeir fèlagar, þar var kominn þráinn frá Grjótá, þá sátu þau Hallgerðr úti ok töluðu. þá mælti Hallgerðr: því hafit þit heitit fèlagar Sigmundr ok Skjöldr at drepa þórð leysíngjason, en þú hefir mèr því heitit þráinn, at vera viðstaddr. þeir gengu við allir at þeir höfðu þessu heitit henni. Nú mun ek gefa ráðit til, segir hún: þèr skulut ríða austr í Hornafjörð eptir fè yckru ok koma heim um þing öndvert; en ef þit erut heima, mun Gunnarr vilja at þèr ríðit til þings með honum: Njáll mun vera á þingi ok synir hans ok Gunnarr, en þit skulut þá drepa þórð, þeir játtu at þessi ráðagerð skyldi framkoma. Síðan bjuggust þeir austr í fjörðu ok varaðist Gunnarr þat ekki, ok reið Gunnarr til þings. Njáll sendi þórð leysíngjason austr undir Eyafjöll ok bað hann vera í brot eina nótt: hann fór austr, ok gaf honum eigi austan, þvíat fljótit var svâ mikit at lángt var um óreitt. Njáll beið hans eina nótt, þvíat hann ætlaði at hann skyldi riðit hafa með honum. Njáll mælti við Bergþóru, at hún skyldi senda þórð til þings þegar hann kæmi heim, tveim nóttum síðar kom þórðr austan. Bergþóra sagði honum at hann skyldi til þings: en nú skaltu ríða upp í þórólfsfell ok sjá þar um bú, ok vera þar eigi lengr en eina nótt eða tvær.

*Cap. 42. Víg Þórðar leysingjasonar.* — Sigmundr kom austan ok þeir félagar. Hallgerðr sagði þeim, at Þórðr var heima, en hann skyldi þegar til þings ríða á fárra nátta fresti: mun yðr nú færi á við hann, segir hún, en ef þetta berr undan, náit þèr honum eigi. Menn komu til Hlíðarenda frá Þórólfsfelli ok sögðu Hallgerði at Þórðr væri þar. Hallgerðr gekk til þeirra Þráins Sigfússonar ok mælti til hans: Nú er Þórðr í Þórólfsfelli, ok er yðr nú ráð at vega at honum, er hann ferr heim. Þat skulu vèr nú gera, segir Sigmundr, gengu þeir þá út ok tóku vâpn sín ok hesta ok riðu á leið fyrir hann. Sigmundr mælti til Þráins: Nú skalt þú eeki at gera, þvíat oss mun eigi alla tilþurfa. Svâ mun ek gera, segir hann. Þá reið Þórðr at þeim litlu síðar. Sigmundr mælti til hans: Gefst þú upp, segir hann, þvíat nú skalt þú deya. Eigi skal þat, segir Þórðr, gakk þú til einvígis við mik! Eigi skal þat, segir Sigmundr, vèr skulum þess njóta er vèr erum fleiri, en eigi er kynligt at Skarphèðinn sè hraustr, at þat er mælt at fjórðúngi bregði til fóstrs. At því mun þèr verða, segir Þórðr, þvíat Skarphèðinn mun mín hefna! Síðan sækja þeir at honum, ok brýtr hann spjót fyrir hvârumtveggja þeirra, svâ varðist hann vel; þá hjó Skjöldr af honum höndina, ok varðist hann þá með annarri nokkura stund, þar til er Sigmundr lagði í gegnum hann, fèll hann þá dauðr til jardar, þeir báru at honum torf ok grjót. Þráinn mælti: Vèr höfum illt verk unnit, ok munu synir Njáls illa kunna víginu þá er þeir spyrja. Þeir ríða heim ok segja Hallgerði, hún lèt vel yfir víginu. Rannveig mælti, móðir Gunnars: Þat er mælt at skamma stund verðr hönd höggi fegin, enda mun svâ hèr; en þó mun Gunnarr leysa þik af þessu máli, en ef Hallgerðr kemr annarri flugu í munn þèr, þá verðr þat þinn bani. Hallgerðr sendi mann til Bergþórshvols at segja vígit, en annan mann til þings at segja Gunnari vígit. Berg-

þóra kvaðst ekki mundu berja Hallgerði illyrðum um slíkt, ok kvað þat öngva hefnd fyrir svâ mikit mál.

*Cap. 43. Sætt Njáls ok Gunnars um víg Þórðar.* — En er sendimaðr kom til þíngs at segja Gunnari vígit, þá mælti Gunnarr: þetta er illa orðit, ok eigi kæmi þau tíðindi til eyrna mèr at mèr þætti verri, en þó skulu vèr nú fara þegar at finna Njál, ok væntir mik enn at honum fari vel, þótt hann sè mjök atþreyttr. Gengu þeir þá á fund Njáls ok kölluðu hann til máls við sik, hann geck þegar til fundar við Gunnar, þeir töluðu, ok var ekki manna við fleira fyrst enn Kolskeggr. Hörð tíðindi hefi ek at segja þèr, segir Gunnarr, víg þórðar leysíngjasonar, ok vil ek bjóda þèr sjálfdæmi fyrir vígit. Njáll þagnaði nokkut skeið ok mælti síðan: Vel er slíkt boðit, segir hann, ok mun ek þat þiggja, en þó er eigi örvænt at ek hafa ámæli af konu minni eða sonum fyrir þetta, þvíat þeim mun mjök mislíka; en þó mun ek á þat hætta, þvíat ek veit at ek á við dreng um, vil ek ok eigi at af mèr standi brigð okkarrar vináttu. Viltu nokkut sonu þína við láta vera? segir Gunnarr. Ekki, segir Njáll, þvíat eigi munu þeir rjúfa þá sátt er ek geri, en ef þeir eru viðstaddir, þá munu þeir ekki saman draga. Svâ mun vera, segir Gunnarr, sjá þú einn fyrir! þeir tókust þá í hendr ok sættust vel ok skjótt. Þá mælti Njáll: Tvö hundruð silfrs geri ek, ok mun þèr mikit þikkja. Eigi þikki mèr þetta ofmikit, segir Gunnarr, ok gekk heim til búðar. Synir Njáls kvomu heim ok spurði Skarphèðinn hvaðan fè þat væri komit hit mikla er faðir hans hèlt á. Njáll mælti: Ek segi ydr víg þórðar fóstra yðars, ok höfu vit Gunnarr nú sæzt á málit, ok hefir hann tvennum manngjöldum bætt hann. Hverir hafa vegit hann? segir Skarphèðinn. Sigmundr ok Skjöldr, en þráinn var þó nærstaddr, segir Njáll. Mikils þótti þeim við þurfa, segir Skarphèðinn, en hvar skal þá komit er vèr skulum handa hefja? Skamt mun til þess, segir Njáll, ok munt þú þá eigi þess

lattr, en þó þicki mèr mikit undir, at þèr rjúfit eigi þessa sætt. Svâ munu vèr þá gera, segir Skarphèðinn, en ef til verðr nokkut með oss, þá munu vèr minnast á enn forna fjandskap. Engis mun ek þá umbeiða, segir Njáll.

*Cap. 44. Sigmundr niddi Njál ok sonu hans.* — Nú ríða menn heim af þingi, ok er Gunnarr kom heim, mælti hann til Sigmundar: Meiri ertu úgiptumaðr enn ek ætlaða, ok hefir þú til ills þína ment; en þó hefi ek nú gert þik sáttan við Njál ok sonu hans, ok skalt þú nú eigi láta þèr annarri flugu koma í munn þèr; ert þú mèr ekki skaplikr: þú ferr með spott ok háð, en þat er ekki mitt skap, kemr þú þèr því vel við Hallgerði at it eigit meir skap saman. Gunnarr taldi á hann lánga hríð, hann svaraði honum vel ok kvaðst meir hans ráðum skyldu framfara þaðan af enn þar til. Gunnarr sagði honum þá hlyða mundu. Helst vinátta með þeim Gunnari ok Njáli, þótt fátt væri meðal annars liðsins. Sá atburðr var, at farandkonur komu til Hlíðarenda frá Bergþórshvoli, þær voru málgar ok heldr illorðar. Hallgerðr átti dýngju, ok sat hún þar optliga, þar var Þórgerðr dóttir hennar, þar var Þráinn ok Sigmundr ok fjöldi kvenna; Gunnarr var eigi þar nè Kolskeggr. Farandkonur þessar gengu inn í dýngjuna; Hallgerðr heilsaði þeim ok lèt gefa þeim rúm, ok spurði at tíðindum, en þær kváðust engi segja. Hallgerðr spurði hvar þær voru um nótt, þær sögðu at Bergþórshvoli. Hvat hafðist Njáll at? segir hún. Stritaðist hann við at sitja, sögðu þær. Hvat gerðu synir Njáls? segir hún, þeir þickjast nú helst menn. Miklir eru þeir vexti, en úreyndir eru þeir mjök, segja þær: Skarphèðinn hvatti öxi, Grímr skepti spjót, Helgi hnauð hjalt á sverð, Höskuldr treysti mundriða í skildi. Til stórræða nokkurra munu þeir ætla, segir Hallgerðr. Eigi vitu vit þat, segja þær. Hvat gerðu húskarlar Njáls? segir hún. Eigi vissu vit þat hvat sumir gerðu, einn ók skarni á hóla. Hví mundi þat sæta? segir hún. Þat sagði hann at þar yrdi taða betri

enn annarsstaðar, segja þær. Misvitr er Njáll, segir Hallgerðr, þar er hann kann til hversvetna ráð. Hvat er í því? segja þær. Þat mun ek tilfinna er satt er, segir hún er hann lèt eigi aka í skegg sèr, at hann væri sem aðrir karlmenn, ok köllum karl enn skegglausa, en sonu hans taðskegglínga, ok kveð þú nokkut um, Sigmundr, ok lát oss njóta þess er þú ert skáld! Þess em ek albúinn, segir hann, ok kvað vísur þessar:

Hvat skulu, haukasetra
Hildr, mundriða í skildi
trauðir tryggra ráða
taðskegglíngar negla?
Þvíat sviphnuggnir seggir,
svanteigs, megu eigi,
elda björk, þau er yrkjum
orð háðulig forðast.

Karlinn spyri orða illra,
einsætt er þat, greinir,
vámr nemi víst í tómi
vort raus hinn skegglausi;
hoddveitir velr heiti
hölzti gott af spotti,
lið sem ek trautt um trúða,
taðskegglíngum, vegligt.

Get ek makligast miklu
meins leitendum heiti,
trauðr rýf ek trygðir siðan,
taðskegglíngum, vegligs:
heiti kallinu, kneytum
(kanna ek oft hugi manna)
skjal í skömmu máli,
skegglauss tali seggja!

Gersimi ert þú, segir Hallgerðr, hversu þú ert mér eptirlátr! Þá kom Gunnarr at í því: hann hafði staðit fyrir framan dýngjuna ok heyrði öll orðtökin, brá þeim mjök við er þau sá hann inn gánga, þögnuðu þá allir, en áðr hafði verit hlátr mikill. Gunnarr var reiðr mjök ok mælti til Sigmundar: Heimskr maðr ertu ok úráðhollr: þú hrópar sonu Njáls ok sjálfan hann, er þó er mest vert, ok þó slíkt sem þú hefir þeim áðr gert, ok mun þetta vera þinn bani; en ef nokkurr maðr hermir þessi orð eða vísur, þá skal sá í brottu verða ok hafa þó reiði mína! en svâ var þeim öllum ótti mikill at honum, at engi þorði þessi orð at herma, síðan gekk hann í brott. — Farandkonurnar töluðu með sér, at þær myndu taka laun af Bergþóru, ef þær segði henni þetta: þær fóru síðan ofan þángat ok sögðu Bergþóru á laun ófregit. Bergþóra mælti er menn sátu undir borðum: Gjafir eru yðr gefnar feðgum, ok verðit þèr litlir drengir af, ef þèr launit öngu. Hversu eru gjafir þær? segir Skarphèðinn. Þèr synir mínir áttu eina gjöf allir saman, þèr erut kallaðir taðskegglíngar, en bóndi minn karl hinn skegglausi. Ekki höfum vèr kvennaskap, segir Skarphèðinn, at vèr reiðimst við öllu. Reiddist Gunnarr þó fyrir yðra hönd, segir hún, ok þickir hann skapgóðr, ok ef þèr rekit eigi þessa rèttar, þá munu þèr engra skamma reka. Gaman þikkir kerlíngunni at, móður vorri, segir Skarphèðinn, ok glotti at, en þó spratt honum sveiti í enni ok kvomu rauðir flekkir í kinnr honum, en því var ekki vant. Grímr var hljóðr ok beit á vörinni. Helga brá ekki við, ok mælti hann ekki. Höskuldr gekk fram með Bergþóru, hún kom innar ok geisaði mjök. Njáll mælti: Kemst þó at seinna fari, húsfreya, ok ferr svâ um mörg mál, þótt menn hafi skapraun af, at jafnan orkar tvímælis, þótt hefnt sè. En um kveldit er Njáll var kominn í rekkju, heyrði hann at öx kom við þilit ok saung hátt við, en lokrekkja var önnur, ok hèngu þar á skildir, ok sèr hann at þeir eru í brottu;

hann mælti: Hverir hafa tekit ofan skjöldu vora? Synir þinir gengu út með þá, segir Bergþóra. Njáll kipti skóm á fætr sèr ok gekk út þegar, ok öðrum megin húsa, ok sèr at þeir stefna upp á hvâlinn, hann mælti: Hvert skal fara, Skarphèðinn? Leita sauða þinna, segir hann. Njáll mælti: Ecki mundu þèr þá vâpnaðir ef þèr ætlaðit þat, ok mun annat vera erindit. Skarphèðinn mælti: Laxa skulu vèr veiða, faðir, ef vèr rötum eigi sauðina! Vel væri þá, ef svâ væri, at þá veiði bæri eigi undan! þeir fóru leið sína, en Njáll gekk til hvílu sinnar. Hann mælti til Bergþóru: Úti voru synir þinir með vâpnum allir, ok munt þú nú hafa eggjat þá upp til nokkurs. Allvel skal ek þakka þeim, ef þeir segja mèr víg Sigmundar, sagði Bergþóra.

*Cap. 45. Víg Sigmundar ok Skjaldar.* — Nú fara þeir Njálssynir upp til Fljótshlíðar ok voru um nóttina við hlíðina, ok foru nær Hlíðarenda, er morna tók. þenna morgin inn sama stóðu þeir Sigmundr ok Skjöldr upp ok ætluðu til stóðhrossa, þeir höfðu beisl með sèr ok tóku hross í túni ok riðu í braut, þeir fundu hrossin milli lækja tveggja. Skarphèðinn sá þá, þvíat Sigmundr var í litklæðum. Skarphèðinn mælti: Hvârt sjáit èr nú rauðálfinn, sveinar? þeir litu til ok kváðust sjá hann. Skarphèðinn mælti: þú skalt gera at ekki, Höskuldr, þvíat þú munt opt sendr einnsaman úvarliga; en ek ætla mèr Sigmund, þicki mèr þat karlmannligt, en þeir Grímr ok Helgi skulu vega at Skildi. Höskuldr settist niðr, en þeir gengu þar til er þeir kvomu at þeim. Skarphèðinn mælti til Sigmundar: Tak vopn þín ok ver þik, er þat nú meiri nauðsyn enn kveða flim um oss bræðr. Sigmundr tók vâpn sín, en Skarphèðinn beið meðan. Skjöldr sneri í móti þeim Helga ok Grími, ok börðust þeir í ákafa. Sigmundr hafði hjálm á höfði ok skjöld á hlið ok gyrðr sverði, spjót í hendi; snýr nú í móti Skarphèðni ok leggr þegar spjóti til hans, ok kemr í skjöld-

inn. Skarphèðinn lystr í sundr spjótskaptit ok færir upp öxina, ok höggr til Sigmundar ok klýfr skjöldinn ofan öðrum megin mundriða. Sigmundr brá sverðinu ok hjó til Skarphèðins, ok kemr í skjöldinn svâ at festi. Skarphèðinn snaraði svâ fast skjöldinn at Sigmundr lèt laust sverðit. Skarphèðinn höggr til Sigmundar með öxinni Rimmugýgi. Sigmundr var í panzara, öxin kom á öxlina, hann klauf ofan herðarblaðit ok hnykti at sèr öxinni. Sigmundr fèll á knè bæði ok spratt upp þegar. Lauztu mèr nú, segir Skarphèðinn, en þó skaltu í móðurætt falla áðr vit skiljum. Þat er illa þá, segir Sigmundr. Skarphèðinn laust á hjálminn ok hjó Sigmund síðan banahögg. Grímr hjó fót af Skildi í ristarlið, en Helgi lagði sverði í gegnum hann, ok fèkk þegar bana. Skarphèðinn sá smalamann Hallgerðar, ok hafði hann höggit höfuð af Sigmundi, hann seldi smalamanni höfuðit ok bað hann færa Hallgerði, kvað hana kenna mundu hvârt þat höfuð hefði ort níð um þá; smalamaðr kastar höfðinu niðr þegar þeir höfðu skilit, þvíat hann þorði eigi meðan þeir sá hann. Þeir fóru þar til er þeir fundu menn niðri við Markarfljót, ok sögðu þeim tíðindin, lýsti Skarphèðinn vígi Sigmundar á hendr sèr, en Grímr ok Helgi vígi Skjaldar; fóru þeir þá heim ok sögðu Njáli tíðindin, hann svarar svâ: Njótit heilir handa! hèr skulu eigi sjálfdæmi fyrir koma at svâ búnu. — Nú er þar til máls at taka er smalamaðr kemr heim til Hlíðarenda, hann sagði Hallgerði tíðindin: Fèkk Skarphèðinn mèr í hendr höfuð Sigmundar ok bað mik færa þèr, en ek þorða þat eigi, segir hann, at gera, þvíat ek vissa eigi hversu þèr myndi þat líka. Þat var illa er þú gerðir þat eigi, segir hún, ek skylda færa Gunnari, ok mundi hann þá hefna frænda sins, ella sitja fyrir hvers manns ámæli. Síðan gekk hún til Gunnars ok mælti: Ek segi þèr víg Sigmundar frænda þíns, hefir Skarphèðinn vegit hann ok vildi láta færa mèr höfuðit. Slíks var honum von, segir Gunnarr, þvíat illa gefast ill ráð, ok hefir

hvârtveggja yckat opt gráliga gert til annars. Geck þá Gunnarr í brott, hann lèt ekki búa til vígsmálit ok engan hlut athafa. Hallgerðr minnti opt á ok sagði Sigmund vera úbættan, Gunnarr gaf ekki gaum at því. Nú liðu þrjú þíng þau er menn ætluðu at hann myndi sækja málit; þá kom eitt vandamál at hendi Gunnari, þat er hann vissi eigi hversu upp skyldi taka, reið hann þá til fundar við Njál, hann fagnar vel Gunnari. Gunnarr mælti til Njáls: Heilræði em ek kominn at sækja at þèr um eitt vandamál. Makligr ert þú þeirra, segir Njáll, ok rèð honum ráðin; Gunnarr stóð þá upp ok þakkaði honum. Njáll mælti þá ok tók til Gunnars: Ærit lengi hefir Sigmundr frændi þinn verit úbættr. Fyrir löngu var hann bættr, segir Gunnarr, en þó vil ek eigi drepa hendi við sóma mínum. Gunnarr hafði alldri illa mælt til Njálssona. Njáll vildi ecki annat enn Gunnarr gerði um málit, hann gerði tvö hundruð silfrs, en lèt Skjöld vera úgildan, þeir greiddu þegar allt fèit. Gunnarr sagði sætt þeirra upp á þíngskálaþíngi, þá er þar var mest fjölmenni, ok tjáði hversu vel þeim hafði farit, ok sagði þau en illu orð er Sigmund dró til höfuðsbana; skyldi ok engi herma þau eða kveða vísurnar, en ef kvæði skyldi vera úgildr sá er mælti. Þeir mæltu þat báðir, Gunnarr ok Njáll, at engir hlutir skyldu þeir til verða at eigi semdi þeir sjálfir, efndist þat ok vel síðan, ok voru þeir jafnan vinir.

*Cap. 46. Frá Gizuri Hvíta ok Geir goða.* — Gizurr Hvíti hèt maðr; hann var Teitsson, Ketilbjarnarsonar hins gamla frá Mosfelli. Móðir Gizurar hèt Olöf, hún var dóttir Böðvars hersis Víkingakárasonar, hans son var Ísleifr biskup. Gizurr Hvíti bjó at Mosfelli ok var höfðíngi mikill. Sá maðr er nefndr til sögunnar er Geirr goði hèt, móðir hans hèt Þórkatla, dóttir Ketilbjarnar gamla frá Mosfelli. Geirr bjó í Hlíð, þeir Gizurr fylgðust at hverju máli. Í þenna

tíma bjó Mörðr Valgarðsson at Hofi á Rángárvöllum, hann var slægr ok illgjarn; þá var Valgarðr utan, faðir hans, en móðir hans önduð. Hann öfundaði mjök Gunnar frá Hlíðarenda; hann var vel auðigr at fè ok heldr úvinsæll.

*Cap. 47. Frá Otkatli í Kirkjubæ.* — Otkell hèt maðr, hann var Skarfsson Hallkelssonar, sá barðist við Grím í Grímsnesi ok feldi hann á hólmi; þeir voru bræðr Hallkell ok Ketilbjörn hinn gamli. Otkell bjó í Kirkjubæ, Þórgerðr hèt kona hans, hún var Mársdóttir, Runólfssonar, Naddaðarsonar hins Færeyska. Otkell var auðigr at fè, son hans hèt Þórgeirr, hann var á úngum aldri ok gerpiligr maðr. Skamkell hèt maðr, hann bjó at Hofi öðru, hann átti vel fè, hann var maðr illgjarn ok lýginn, óðæll ok illr viðreignar, hann var vinr Otkels. Hallkell hèt bróðir Otkels, hann var mikill maðr ok sterkr, ok var þar með Otkeli. Bróðir þeirra hèt Hallbjörn Hvíti, hann flutti út þræl einn er Melkólfr hèt, hann var írskr ok heldr úvinsæll. Hallbjörn fór til vistar með Otkeli ok svâ Melkólfr þræll; þrællinn mælti þat jafnan, at hann þættist sæll ef Otkell ætti hann: Otkell var vel til hans ok gaf honum knif ok belti ok alklæðnað, en þrællinn vann allt þat er hann vildi. Otkell falaði þrælinn at bróður sinum, hann kvaðst myndu gefa honum þrælinn, en kvað þó verra grip í enn hann ætlaði. En þegar er Otkell átti þrælinn, þá vann hann allt verr; Otkell talaði optliga fyrir Hallbirni at honum þætti þrællinn lítit vinna, hann sagði Otkeli at honum var annat verr gefit. Í þenna tíma kom hallæri mikit, svâ at menn skorti bæði hey ok mat, ok gekk þat um allar sveitir. Gunnarr miðlaði mörgum mönnum hey ok mat, ok höfðu allir er þángat komu meðan til var; svâ kom at Gunnar skorti bæði hey ok mat, þá kvaddi Gunnarr Kolskegg til ferðar með sèr ok Þráin Sigfússon ok Lamba Sigurðarson. Þeir fóru í Kirkjubæ ok kölluðu Otkel út, hann heilsaði þeim. Gunnarr mælti: Svâ er háttat at ek em kominn at fala at þèr

hey ok mat, ef til væri. Otkell svarar: Hvârtveggja er til, en hvârki mun ek þèr selja. Viltu gefa mèr þá, segir Gunnarr, ok hætta til hverju ek launa þèr? Eigi vil ek þat, segir Otkell. Skamkell var tillaga illr. Þráinn Sigfússon mælti: Þess væri vert at vèr tækim upp bæði hey ok mat ok legðim verð í staðinn. Skamkell svaraði: Aldauða eru þá Mosfellingar, ef èr Sigfússynir skulut ræna þá. Með engi rán vil ek fara, segir Gunnarr. Vilt þú kaupa þræl at mèr? segir Otkell. Þat spari ek eigi, segir Gunnarr; síðan keypti Gunnarr þrælinn ok fór í brot við svâ búit. Þetta spyrr Njáll ok mælti: Illa er slíkt gert at varna Gunnari kaups, er þar öðrum eigi góðs von er slíkir fá eigi. Hvat þarft þú margt um slíkt at tala? segir Bergþóra, miklu er drengiligra at fá honum bæði mat ok hey, er þik skortir hvârki til. Njáll mælti: Þetta er dagsanna, ok skal ek víst birgja hann at nokkuru. Fór hann upp í Þórólfsfell ok synir hans, ok bundu þar hey á fimtán hesta, en á fim hestum höfðu þeir mat. Njáll kom til Hlíðarenda ok kallaði út Gunnar, hann fagnar þeim vel. Njáll mælti: Hèr er hey ok matr er ek vil gefa þèr, vil ek at þú leitir alldri annarra enn mín, ef þú þarft nokkurs við. Góðar eru gjafir þínar, segir Gunnarr, en meira þikki mèr verð vinátta þín ok sona þinna. Fór Njáll heim síðan, líðr nú vârit.

*Cap. 48. Frá því er Hallgerðr lèt stela úr Kirkjubæ.* — Gunnarr ríðr til þíngs, en at hans gisti fjölmenni mikit austan af Síðu. Gunnarr bauð at þeir gisti þar er þeir riði af þíngi, þeir kváðust svâ gera myndu, ríða nú til þíngs. Njáll var á þíngi ok synir hans, þíngit var kyrt. Nú er þar til at taka, at Hallgerðr kemr at máli við Melkólf þræl: Sendiför hefi ek hugat þèr, segir hún, þú skalt fara í Kirkjubæ. Ok hvat skal ek þángat? segir hann. Þú skalt stela þaðan mat á tvâ hesta, ok hafa smjör ok ost, en þú skalt leggja eld í útibúrit, ok munu allir ætla at af vangeymslu hafi orðit, en engi mun ætla at stolit hafi verit. Þrællinn

mælti: Vândr hefi ek verit, en alldri hefi ek þjófr verit! Heyr â endimi! segir Hallgerðr, þú gerir þik góðan, þar sem þú hefir bæði verit þjófr ok morðíngi, ok skalt þú eigi þora annat enn fara, ella mun ek láta drepa þik. Hann þóttist vita at hún myndi svâ gera ef hann færi eigi; tók hann um nóttina tvâ hesta ok lagði á lènur ok fór í Kirkjubæ: hundrinn gó eigi ok kendi hann ok hljóp í móti honum; síðan fór hann til útibúrs ok klyfjaði þaðan tvâ hesta af mat, en brendi búrit ok drap hundinn. Hann fór upp með Rángá, ok slitnaði skóþveingr hans, ok tekr hann knif ok gerir at skónum; honum liggr eptir knífrinn ok beltit, hann ferr þar til er hann kemr til Hlíðarenda, þá saknar hann knifsins, ok þorir eigi aptr at fara, færir nú Hallgerði matinn, hún lætr vel yfir. Um morguninn er menn komu út í Kirkjubæ, sá menn þar skaða mikinn, var þá sendr maðr til þíngs at segja Otkeli, hann varð vel við skaðann ok kvað þat valdit myndu hafa, at eldhúsit var áfast útibúrinu, ok ætluðu þat þá allir, at þat myndi tilbera. Nú ríða menn heim af þíngi, ok riðu margir til Hlíðarenda. Hallgerðr bar mat á borð, ok kom innar ostr og smjör. Gunnarr vissi sliks matar þar ekki vân ok spurði Hallgerði hvaðan þat kvæmi. Þaðan sem þú mátt vel eta, segir hún, enda er þat ekki karla at annast um matreiðu. Gunnarr reiddist ok mælti: Illa er þá ef ek em þjófsnautr! ok lystr hana kinnhest; hún kvaðst þann hest muna skyldu ok launa ef hún mætti. Gekk hún þá fram ok hann með henni, ok var þá borit allt af borðinu, en borit innar slátr, ok ætluðu allir at þat myndi til hafa borit at þá myndi þikkja fengit betr; fara þíngmenn nú í brot.

*Cap. 49. Frá Skamkatli.* — Nú er at segja frá Skamkatli. Hann ríðr at sauðum upp með Rángá, ok sèr hann at glóar nokkut í götunni, hann finnr þar knif ok belti ok þikkist kenna hvártveggja, hann ferr með heim í Kirkjubæ. Otkell var úti er Skamkell kom, hann mælti til

hans: Kennir þú nokkut til gripa þessa? Kenni ek víst, segir Otkell. Hverr á? segir Skamkell. Melkólfr þræll, segir Otkell. Kenna skulu þá fleiri, segir Skamkell, enn vit tveir, þvíat trúr skal ek þèr í ráðum; þeir sýndu mörgum mönnum ok kendu þeir allir. Þá mælti Skamkell: Hvat munt þú nú til ráða taka? Otkell svarar: Vit skulum finna Mörð Valgarðsson ok leita ráða við hann. Síðan fóru þeir til Hofs ok sýndu Merði gripina, ok spurðu ef hann kendi, hann kvaðst kenna: eða hvat er at því? eða þikkist èr til Hlíðarenda eiga eptir nokkuru at sjá? Vant þikkir oss með slíku at fara, segir Skamkell, er slíkir ofreflismenn eigu í hlut. Svâ er víst, segir Mörðr, en þó mun ek vita þá hluti úr híbýlum Gunnars er hvârgi ykkar mun vita. Gefa vildim vit þèr fè til, segja þeir, at þú leitadir eptir þessu máli. Mörðr svaraði: Þat fè mun mèr fullkeypt, en þó má vera at ek líta á; þeir gáfu honum þrjár merkr silfrs til liðveitslu við þá. Hann gaf þat ráð til at konur skyldu fara með smávarníng ok gefa húsfreyum, ok vita hverju þeim væri launat: þvíat allir hafa þat lyndi at gefa þat fyrst upp er stolit er, ef þat hafa at varðveita, mun hèr ok svâ ef af mannavöldum er; skulu þær þá sýna mèr af hverju gefit er hvârgi, vil ek þá lauss máls þessa ef uppvíst verðr; þessu játuðu þeir, fóru þeir heim síðan. Mörðr sendi konur um hèrað, ok voru þær í brottu hálfan mánað, þær kvomu aptr ok höfðu byrðar stórar. Mörðr spurði hvar þeim væri mest gefit, þær sögðu at þeim var at Hlíðarenda mest gefit, ok Hallgerðr yrði þeim mestr drengr. Hann spurði hvat þeim væri þar gefit? ostr, segja þær; hann beiddist at sjá, þær sýndu honum, ok voru þat sneiðir margar, tók hann þær ok varðveitti. Litlu síðar fór Mörðr at finna Otkel, bað hann taka skyldi ostkistu Þórgerðar, ok var svâ gert; lagði hann þar í niðr sneiðirnar, ok stóðst þat á endum ok ostkistan, sá þeir þá at þeim hafði heill hleifr gefinn verit.

þá mælti Mörðr: Nú megu þèr sjá, at Hallgerðr mun stolit hafa ostinum, drógu þeir þá öll dæmi saman, sagði Mörðr þá at hann þóttist lauss þessa máls, skildu þeir at því. Kolskeggr kom at máli við Gunnar ok sagði: Íllt er at segja, alræmt er at Hallgerðr muni stolit hafa, ok hún valdit þeim mikla skaða er varð í Kirkjubæ. Gunnarr kvaðst ætla at svâ myndi vera: eða hvat er nú til ráðs? Kolskeggr svaraði: Þú mun þikkja skyldastr at bæta fyrir konu þína, ok þikki mèr ráð at þú farir at finna Otkel ok bjóðir honum góð boð. Þetta er vel mælt, segir Gunnarr, ok skal svâ vera. Litlu síðar sendi Gunnarr eptir Þráin Sigfússyni ok Lamba Sigurðarsyni, ok kvomu þeir þegar; Gunnarr sagði þeim hvert hann ætlaði, þeir lètu vel yfir því. Gunnarr reið við tólfta mann í Kirkjubæ ok kallaði út Otkel; þar var Skamkell ok mælti: Ek skal útgánga með þèr, ok mun nú betra at hafa vitsmuni við, munda ek þat vilja at standa þèr þá næst er þú þyrftir mest, ok sú raun mun á verða; þikki mèr þat ráð at þú látir drygliga. Síðan gengu þeir út, Otkell ok Skamkell, Hallkell ok Hallbjörn, þeir heilsuðu Gunnari, hann tók því vel. Otkell spyrr hvert hann ætlaði at fara? Eigi lengra enn híngat, segir Gunnarr, ok er þat erindi mitt at segja þèr um skaða þann inn illa, er hèr hefir vordit, er hann er af völdum konu minnar ok þræls þess, er ek keypta at þèr. Slíks var von, segir Hallbjörn. Gunnarr mælti: Hèr vil ek bjóða fyrir góð boð, ok bjóða at enir bestu menn skipi um í hèraðinu. Skamkell mælti: Þetta eru áheyrilig boð ok újafnlig: þú ert maðr vinsæll af böndum, en Otkell er úvinsæll. Bjóða mun ek þá at gera um ok lúka upp þegar gjördinni ok leggja á vináttu mína ok greiða nú allt fèit, ok mun ek bæta þèr tvennum bótum. Skamkell mælti: Þenna kost skalt þú eigi þiggja, ok er þat úvirðuligt at selja honum sjálfdæmi, þar er þú ættir at taka. Otkell mælti: Eigi vil ek selja þèr sjálfdæmi, Gunnarr! Gunnarr mælti: Skil ek hèr tillögur manna, nær sem launat

verðr; enda dæm þú nú sjálfr. Otkell laut at Skamkeli ok mælti: Hverju skal nú svara? Þetta skalt þú kalla vel boðit, en víkja máli þínu undir Gizur Hvíta ok undir Geir goða; munu þat þá margir mæla, at þú sèr líkr Hallkatli föðurföður þínum, er mestr kappi hefir verit. Otkell mælti: Vel er þetta boðit, Gunnarr, en þó vil ek at þú ljáir mèr tómstundar til at finna Gizur Hvíta. Gunnarr mælti: Far þú nú með sem þèr líkar; en þat munu menn mæla, at þú kunnir eigi at sjá sóma þinn, er þú vilt eigi þessa kosti er ek býð þèr. Riðr Gunnarr heim, ok er Gunnarr var í brottu, mælti Hallbjörn: Hèr veit ek mestan mannamun, Gunnarr bauð þèr góð boð, en þú vildir engi af taka, eða hvat muntu mega ætla þèr at deila við Gunnar illdeildum, þar sem engi er hans jafningi? en þó er hann svâ vel at sèr at hann mun láta standa boð þessi, þótt þú þiggir síðar; þikki mèr ráð at þú farir at finna Gizur Hvíta ok Geir goða nú þegar. Otkell lèt taka hest sinn ok bjó sik at öllu. Otkell var ekki glöggskygn. Skamkell gekk á leið með Otkeli, hann ræddi við Otkel: Undr þótti mèr er bróðir þinn vildi eigi taka af þèr þetta starf, vil ek bjóða þèr at fara fyrir þik, er ek veit at þèr þikkir mikit fyrir ferðum. Þat mun ek þiggja, segir Otkell, ok ver þú sem rèttorðastr! Svâ skal vera, segir Skamkell; tók Skamkell þá við hesti hans ok klæðum, en Otkell gengr heim. Hallbjörn var úti ok mælti til Otkels: Íllt er at eiga þræl at einka vin, ok munu vèr þessa jafnan iðrast, er þú hefir aptr horfit; ok er þat úvitrligt bragð at senda enn lýgnasta mann þess eyrindis, er svâ mun mega atkveða at líf manna liggi við. Hræddr myndir þú verða, segir Otkell, ef Gunnarr hefði á lopti atgeirinn, er þú ert nú svâ. Eigi veit þat, hverr þá verðr hræddastr, sagði Hallbjörn, en þat muntu eiga til at segja, at Gunnarr mun ekki lengi munda atgeirinum, er hann er reiðr. Otkell mælti: Hvikit þèr allir nema Skamkell; ok voru þeir þá báðir reiðir.

*Cap. 50. Otkell stefnir Gunnari.* — Skamkell kom til Mosfells ok hermdi boð öll fyrir Gizuri. Svâ lizt mér, segir Gizurr, sem þetta hafi allvel boðit verit, eða hví þá hann eigi boð þessi? Þat var mest i því at allir vildu leita þér vegs, ok beið hann af því þinna atkvæða, enda mun öllum þat bezt gegna. Þar var Skamkell of nótt. Gizurr sendi mann eptir Geir goða, ok kom hann þar snemma, sagði þá Gizurr honum ok mælti: Hversu skal nú með fara? Svâ sem þú munt áðr ráðit hafa, at gera þat af þessu máli sem bezt gegnir: nú munu vit láta Skamkel segja söguna i annat sinn, ok vita hversu honum hermist; þeir gerðu svâ. Gizurr mælti: Rètt muntu sagt hafa sögu þessa, en þó hefi ek þik sèð illmannligstan mann, ok eigi deilir litr kosti ef þú gefst vel. Fór Skamkell heim ok rîðr fyrst i Kirkjubæ ok kallar út Otkel, hann fagnar vel Skamkeli. Skamkell sagði honum kveðju Gizurar ok Geirs: en um málaferli þessi þarf eigi at tala hljóðliga, at þat er vili þeirra Geirs ok Gizurar at sættast ekki á mál þessi; gaf hann þat til ráðs at fram væri höfð stefnuför, ok stefnt Gunnari um afneytslu fjárins, en Hallgerði um stuld. Otkell mælti: Svâ skal með öllu fara sem þeir hafa ráð tilgefit. Þeim þótti ok undir því mest, segir Skamkell, at þú hefðir látit sem drembiligast; en ek gerða þik sem mestan mann af öllu. Nú segir Otkell bræðrum sínum. Hallbjörn mælti: Þetta mun vera en mesta lýgi. Nú líða stundir þar til er stefnudagar komu hinir síðustu til alþingis. Otkell kvaddi bræðr sína ok Skamkel at ríða til Hlíðarenda stefnuför. Hallbjörn kvaðst fara mundu, en kvað þá þó þessar ferðar iðrast mundu, er stundir liða. Nú ríða þeir tólf saman til Hlíðarenda, en er þeir komu i túnit, þá var Gunnarr úti ok fann eigi fyrr enn þeir komu allt at bænum, hann gengr þá eigi inn. Otkell lætr þegar dynja stefnuna, en er þeir höfðu flutt fram stefnuna, þá mælti Skamkell: Hvârt er rètt, bóndi? Þèr vitit þat, segir Gunnarr, en minna skal ek þik á ferð þessa, Skamkell, eitt-

hvert sinn ok tillögur þinar. Þat mun oss ekki saka, segir Skamkell, ef atgeirrinn er eigi á lopti. Gunnarr var inn reiðasti, ok gekk inn ok sagði Kolskeggi; Kolskeggr mælti: Illa var er vèr vorum eigi úti, þeir skyldu hafa farit hingat ina mestu sneypuför, ef vèr hefðim við verit. Gunnarr mælti: Hvat bíðr sinnar stundar, en ekki mun þeim för sjá til sæmdar verða. Litlu síðar fór Gunnarr ok sagði Njáli, Njáll mælti: Láttu lítt á þik fá, þviat þetta mun þèr verða til innar mestu sæmdar, áðr þessu þíngi sè lokit, skulum vèr ok fylgja þèr allir með ráðum ok kappi. Gunnarr þakkaði honum ok reið heim. Otkell ríðr til þings ok bræðr hans ok Skamkell.

*Cap. 51. Sættir.* — Gunnarr reið til þings ok allir Sigfússynir, Njáll ok hans synir, þeir gengu með Gunnari allir, ok var þat mælt, at engi flokkr myndi jafnharðr snúinn þeim. Gunnarr gekk einn dag til búðar Dalamanna. Hrútr var við búð ok Höskuldr, ok fögnuðu þeir vel Gunnari. Gunnarr segir þeim nú málavöxt á þessu. Hvat leggr Njáll til ráðs, segir Hrútr. Hann bað mik finna ykkr bræðr, ok sagði svâ at eitt ráð myndi honum um þat sýnast sem ykkr. Þat vill hann þá, segir Hrútr, at ek kveða upp fyrir venzlasakir, ok skal svâ vera: þú skalt skora á hólm Gizuri Hvíta, ef þeir bjóða þèr eigi sjálfdæmi, en Kolskeggr Geiri goða; en fást munu menn til at gánga at þeim Otkeli, ok höfum vèr nú lið svâ mikit allir saman, at þú munt framkoma sliku sem þú vilt. Gunnarr gekk heim til búðar ok sagði Njáli. Sliks var mèr vân, sagði Njáll. Úlfr Aurgoði varð viss þessarar ráðagerðar ok sagði Gizuri. Gizurr mælti til Otkels: Hverr lagði þat til ráðs með þèr at þú skyldir stefna Gunnari? Skamkell sagði mèr at þat væri ráðagerð ykkur Geirs goða. En hvar er mannfýla sú, segir Gizurr, er þetta hefir logit? Hann liggr sjúkr heima at búð, segir Otkell. Þar er hann standi alldri upp! segir Gizurr. Nú skulum vèr allir gánga at finna Gunnar ok

bjóða sjálfdæmi, ok veit ek þó eigi hvârt hann vill þau nú taka. Margir menn mæltu illa við Skamkel, ok lá hann sjúkr um allt þíngit. Þeir Gizurr gengu til búðar Gunnars, kend var för þeirra, ok var sagt Gunnari inn í búðina, þeir gengu út allir ok fylktu. Gizurr Hvíti gekk fyrstr. Síðan mælti hann: Þat er boð vort, segir Gizurr, at þú Gunnarr dæmir þetta mál. Fjarri mun þat þá þínu ráði, er mèr var stefnt, segir Gunnarr. Eigi rèð ek því, segir Gizurr, ok hvârgi okkars Geirs. Þá muntu synja þess með skynsemd. Hvers beiðist þú? segir Gizurr. Þess at þú vinnir eið, segir Gunnarr. Þat vil ek gera, segir Gizurr, ef þú vilt þiggja sjálfdæmit. Þat bauð ek fyrir stundu, segir Gunnarr, en nú þikki mèr um meira at dæma. Njáll mælti: Eigi er at níta sjálfdæminu, þess meiri sæmdar er fyrir vert er meira er málit. Gunnarr mælti: Gera mun ek til skaps vina minna at dæma málit, en þat ræð ek Otkeli at gera ekki til saka við mik síðan. Þá var sent eptir Höskuldi ok Hrúti, ok kvâmu þeir þángat til, vann þá Gizurr eið ok Geirr goði, en Gunnarr gerði gerðina ok rèðst við öngan mann um, ok síðan sagði hann upp gerðina. Þat er gerð mín, sagði hann, at ek geri verð húss ok matar þess er inni var, en fyrir þrælinn vil ek þèr ekki bæta, þar er þú leyndir anmarka á honum, en ek geri hann til handa þèr, þvíat þar eru eyru sæmst sem óxu. Met ek svâ sem þèr hafit stefnt mèr til háðúngar, ok fyrir því dæmi ek eigi minna til handa mèr enn vert er þetta fè, húsit ok þat er inni brann; en ef yðr þikkir betra at vèr sèm úsáttir, þá læt ek þess enn kost, en gert hefi ek þá enn eitt ráð fyrir mèr, ok skal þat þá framkoma. Gizurr svarar: Þat viljum vèr at þú gjaldir ekki Otkeli, en þess beiðu vèr í mót at þú sèr vinr Otkels. Þat skal verða alldri, sagði Gunnarr, meðan ek lifi, ok mun hann hafa vináttu Skamkels, þeirri hefir hann lengi hlítt. Gizurr svarar: Þó viljum vèr nú lúka málinu, þótt þú ráðir einn skildaganum; oru þá hand-

salaðar þessar sættir allar. Gunnarr mælti til Otkels: Ráðligra er þèr at fara til frænda þinna, en ef þú vilt vera þar i sveit, þá gerðu ekki til saka við mik. Gizurr mælti: Þetta er heilræði, ok skal hann svâ gera. Gunnarr hafði hina mestu sæmd af málinu, riðu menn síðan heim af þíngi. Sitr nú Gunnarr í búi sinu, ok er nú kyrt um hríð.

*Cap. 52. Frá Runólfi syni Úlfs Aurgoða.* — Runólfr hèt maðr, son Úlfs Aurgoða, hann bjó i Dal fyrir austan Markarfljót; hann gisti Otkel, er hann reið af þíngi. Otkell gaf honum uxa alsvartan níu vetra gamlan. Runólfr þakkaði honum gjöfina ok bauð honum heim þá er hann vildi fara, ok stóð þetta heimboð nokkut skeið, svâ at hann fór eigi. Runólfr sendi honum opt menn ok minnti á at hann skyldi fara, ok hèt hann jafnan ferðinni. Otkell átti hesta tvâ bleikalótta, þeir voru beztir hestar at reið i hèraðinu ok svâ elskir hvârr at öðrum, at hvârr rann eptir öðrum. Austmaðr var á vist með Otkeli er Auðúlfr hèt, hann lagði hug á Signýu, dóttur Otkels. Auðúlfr var mikill maðr vexti ok styrkr.

*Cap. 53. Frá Otkeli er hann reið uppá Gunnar.* — Þat var um vârit at Otkell mælti, at þeir myndi ríða austr i Dal at heimboði, ok lètu allir vel yfir því. Skamkell var i för með Otkeli ok bræðr hans tveir, Auðólfr ok þrír menn aðrir. Otkell reið enum bleikalótta hesti, en annarr rann hjá lauss, stefna þeir austr til Markarfljóts. Hleypir hann nú fyrir Otkell, ærast nú hestarnir báðir ok hlaupa af leiðinni upp til Fljótshlíðar, ferr Otkell nú meira enn hann vildi. Gunnarr hafði farit heiman einn samt af bæ sínum ok hafði kornkippu í hendi, en í annarri hendi handöxi: hann gengr á sáðland sitt ok sár þar niðr korninu, ok lagði guðvefjar skikkju sína niðr hjá sèr ok öxina, ok sár nú korninu um hríð. Nú er at segja frá Otkeli at hann ríðr meira enn hann vildi, hann hefir spora á fótum ok hleypir neðan um sáðlandit, ok sèr hvârgi þeirra annan, ok í því

er Gunnarr stendr upp, ríðr Otkell á hann ofan, ok rekr sporann við eyra Gunnari ok ristr mikla ristu, ok blæðir þegar mjök, þar ríðu þeir félagar Otkels. Allir megu þèr sjá, segir Gunnarr, at þú hefir blóðgat mik, ok er slikt úsæmiliga farit: Hefir þú stefnt mèr fyrst, en nú treðr þú mik undir fótum ok ríðr á mik. Skamkell mælti: Vel er við orðit, bóndi, en hvergi vart þú úreiðuligri á þinginu, þá er þú tókt sjálfdæmit ok þú hélt á atgeirinum. Gunnarr mælti: Þá er vit finnumst næst skaltu sjá atgeirinn! síðan skilja þeir at því. Skamkell æpti upp ok mælti: Hart ríði þèr sveinar! Gunnarr gekk heim ok gat fyrir öngum manni um, ok ætluðu eingir at þetta myndi af manna völdum vera. Einhverju sinni var þat at hann sagði Kolskeggi, bróður sinum. Kolskeggr mælti: Þetta skalt þú segja fleirum mönnum, at eigi sè þat mælt at þú gefir dauðum sök, þvíat þrætt mun vera í móti, ef eigi vita vitni áðr hvat þèr hafit saman átt. Gunnarr sagði nábúum sínum, ok var lítil orðræða á fyrst. Otkell kemr austr í Dal, ok er þar við þeim vel tekit, ok sitja þar viku. Skamkell sagði Runólfi allt hversu fór með þeim Gunnari. Einn maðr varð til at spyrja at því, hversu Gunnari varð við. Skamkell mælti: Þat myndi mælt, ef útiginn maðr væri, at grátit hefði. Illa er slikt mæit, segir Runólfr, ok muntu þat eiga til at segja næst er þit finnist, at úr sè grátraust úr skapi hans, ok væri vel ef eigi gyldi betri menn þinnar illsku: lízt mèr nú hitt ráð, þá er þèr vilit heim fara, at ek fara með yðr, þvíat Gunnarr mun eigi gera mèr mein. Eigi vil ek þat, segir Otkell, ok mun ek ríða neðarla yfir fljótit. Runólfr gaf Otkeli góðar gjafir ok kvað þá eigi sjást myndu optar. Otkell bað hann þá muna syni sína, ef svâ bæri við.

*Cap. 54. Barðagi við Rángá.* — Nú er þar til máls at taka, at Gunnarr var úti at Hlíðarenda ok sèr smalamann sinn hleypa at garði, smalamaðrinn reið heim í túnit. Gunnarr mælti: Hví ríðr þú svâ hart? Ek vilda vera þèr

trúlyndr, ek sá menn ríða ofan með Markarfljóti átta saman, ok voru fjórir í litklæðum. Gunnarr mælti: þar mun vera Otkell. Sveinninn mælti: Ek hefi opt heyrt mörg skapraunar orð Skamkels, þvíat Skamkell mælti þat austr í Dal, at þú grètir þá er þeir ríðu á þik ofan, ok segi ek þèr af því, at mèr þiekir íllt orðtak slíkt vândra manna. Ecki skulu vit vera orðsjúkir, segir Gunnarr, en þat eitt skalt þú vinna er þèr líkar hèðan ífrá. Skal ek nokkut segja Kolskeggi, bróður þínum? sagði smalamaðrinn. Far þú ok sof, segir Gunnarr, ek mun segja Kolskeggi; sveinninn lagðist niðr ok sofnaði þegar. Gunnarr tók smalahestinn ok lagði á söðul sinn, hann tók skjöld sinn ok gyrði sik sverðinu Ölvisnaut, setr hjálm á höfuð sèr, tekr atgeirinn, ok saung í hátt, ok heyrði Rannveig, móðir hans: hún gekk fram ok mælti: Reiðuligr ert þú nú son minn, ok eigi sá ek þik slíkan fyrr. Gunnarr gengr út ok stingr niðr atgeirinum ok verpr sèr í söðulinn ok ríðr brot. Rannveig, móðir hans, gekk til stofu, þar var hárausti mikit. Hátt kveði þèr, segir hún, en þó lèt hærra atgeirrinn, er Gunnarr gekk út. Kolskeggr heyrði ok mælti: þat mun eigi öngra tíðinda vita. þat er vel, segir Hallgerðr, nú munu þeir reyna hvârt hann gengr grátandi undan þeim. Kolskeggr tekr vopn sín ok leitar sèr at hesti, ok ríðr eptir slíkt er hann mátti. Gunnarr ríðr nú um Akratúngu þvera, ok svâ til Geilastofna, ok þaðan til Rángár, ok ofan til vaðs hjá Hofi. Konur voru þar á stöðli. Gunnarr hljóp af hesti sínum ok batt, þá riðu hinir at, móhellur voru í götunum við vaðit. Gunnarr mælti til þeirra: Nú er at verja sik, er hèr nú atgeirrinn, munu þèr nú ok reyna þat hvârt ek græt nokkut fyrir yðr; þeir hljópu þá allir af baki ok sóttu at Gunnari. Hallbjörn var fremstr. Sæk þú eigi at! segir Gunnarr, þèr vilda ek sízt íllt gera, en ek mun þó öngum hlífa, ef ek á hendr mínar at verja. þat mun ekki gera, segir Hallbjörn, þú munt þó drepa vilja bróður minn, ok er þat skömm, ef ek

sit hjá; ok lagði til Gunnars tveim höndum miklu spjóti. Gunnarr skaut fyrir skildinum, en Hallbjörn lagði í gegnum skjöldinn. Gunnarr skaut svâ fast niðr skildinum, at hann stóð fastr í jörðunni, en tók til sverðsins svâ skjótt at eigi mátti auga á festa, ok hjó með sverðinu, ok kom á hönd Hallbirni fyrir ofan úlflið, svâ at aftók. Skamkell hljóp á bak Gunnari ok höggr til hans með mikilli öxi. Gunnarr snerist skjótt at honum ok lystr við atgeirinum, ok kom undir kverk öxinni, ok hraut hún úr hendi honum út á Rángá, Gunnarr leggr í annat sinn atgeirinum ok í gegnum Skamkel, ok vegr hann upp ok kastar honum i leirgötuna at höfðinu. Auðólfr austmadr þrifr upp spjót ok skaut at Gunnari. Gunnarr tók á lopti spjótit ok skaut aptr þegar, ok fló í gegnum skjöldinn ok austmanninn, ok niðr í völlinn. Otkell höggr með sverði til Gunnars, ok stefnir á fótinn fyrir neðan knè. Gunnarr hljóp í lopt upp, ok missir hans, Gunnarr leggr atgeirinum til hans ok í gegnum hann, þá kemr Kolskeggr at ok hleypr þegar at Hallkatli, ok höggr hann banahögg með saxinu, þar vega þeir þá átta. Kona hljóp heim er sá, ok sagði Merði ok bað hann skilja þá. Þeir einir munu vera, segir hann, at ek hirði alldri þótt drepist. Eigi munt þú þat vilja mæla, segir hún, þar mun vera Gunnarr, frændi þinn, ok Otkell, vin þinn. Klifar þú nokkut jafnan, mannfýla þín, segir hann, ok lá hann inni meðan þeir börðust. Gunnarr reið heim ok Kolskeggr eptir verk þessi, ok ríða þeir hart upp eptir eyrunum, ok stökk Gunnarr af baki ok kom standandi niðr. Kolskeggr mælti: Hart ríðr þú nú frændi. Þat lagði Skamkell mèr til orðs, er hann mælti svâ, er riðit var á mik. Hefnt hefir þú nú þess, segir Kolskeggr. Hvat ek veit, segir Gunnarr, hvârt ek mun því úvaskari maðr enn aðrir menn, sem mèr þikkir meira fyrir enn öðrum mönnum at vega menn.

*Cap. 55. Heilræði Njáls við Gunnar.* — Nú spyrjast tíðindin víða, ok mæltu þat margir, at eigi þætti þetta fyrr

framkoma enn líkligt var til. Gunnarr reið til Bergþórshvols ok sagði Njáli verk þessi. Njáll mælti: Mikit hefir þú atgert, ok hefir þú verit mjök atþreyttr. Hversu mun nú gánga síðan? segir Gunnarr. Vilt þú at ek segi þèr þat, segir Njáll, er eigi er framkomit? þú munt ríða til þíngs, ok muntu njóta við ráða minna, ok fá af þessu máli ina mestu sæmd; mun þetta upphaf vígaferla þinna. Ráð þú mèr heilræði nokkur, segir Gunnarr. Ek skal þat gera, segir Njáll. Veg þú alldri meir í enn sama knèrunn enn um sinn ok rjúf alldri sætt þá er góðir menn gera meðal þín ok annarra, ok þó sízt á því máli. Gunnarr mælti: Öðrum ætlaða ek at þat skyldi hættara enn mèr. Svâ mun vera, segir Njáll, en þó skaltu svâ um þitt mál hugsa ef þetta berr saman, at þá mun þú skamt eiga ólifat, en ella munt þú verða gamall maðr. Gunnarr mælti: Veitst þú hvat þèr mun verða at bana? Veit ek, segir Njáll. Hvat? segir Gunnarr. Þat sem allir munu sízt ætla, segir Njáll. Síðan reið Gunnarr heim. Maðr var sendr Gizuri Hvíta ok Geiri goða, þvíat þeir áttu eptir Otkel at mæla, fundust þeir þá at ok töluðu hversu með skyldi fara; kom þat ásamt með þeim at sótt myndi málit til laga, var þá atleitat hverr við myndi vilja taka, en eingi varð til þess. Svâ lízt mèr, segir Gizurr, at nú muni tveir kostir, at annarrhvârr okkar sæki málit, ok munu vit þá verða at hluta með okkr, eða ella mun maðrinn úgildr, munu vit ok svâ ætla mega til at þúngt mun at hræra málit, er Gunnarr frændmargr ok vinsæll; en sá okkar er eigi hlýtr skal til ríða ok ekki úr gánga fyrr enn til enda kemr málit. Síðan hlutuðu þeir, ok hlaut Geirr goði at fara með sökina. Litlu síðar riðu þeir vestan yfir ár, ok kvomu þar sem fundrinn hafði verit við Rángá, ok grófu upp líkamina ok nefndu vâtta at benjum; síðan lýstu þeir ok nefndu níu búa um málit. Þeim var sagt at Gunnarr var heima við þrjátigi manna; spurði þá Geirr

goði, hvârt Gizurr vildi at ríða við hundrað manna. Eigi vil ek þat, segir hann, þótt mikill sé liðsmunr, riðu þeir þá aptr heim. Málatilbúnaðr spurðist um öll héruð, ok var sú orðræða á at róstumikit myndi verða þíngit.

*Cap. 56. Þingdeild Gunnars ok Geirs goða.* — Skapti hèt maðr, hann var Þóroddsson: þeir voru höfðíngjar miklir feðgar ok lagamenn miklir. Þóroddr þótti nokkut grályndr ok slægr, þeir veittu Gizuri Hvíta at hverju máli. Þeir Hlíðverjar ok Rángæingar fjölmentu mjök til þíngs, var Gunnarr svâ vinsæll at allir sammæltust á þat at fylgja honum; koma þeir nú allir til þíngs ok tjalda búðir sinar. Í sambandi með Gizuri Hvíta voru þessir höfðingjar: Skapti Þóroddsson, Ásgrímr Elliðagrímsson, Oddi frá Kiðjabergi, Haldórr Örnólfsson. Nú gengu menn til lögbergs einnhvern dag, stóð þá upp Geirr goði ok lýsti vígsök á hendr Gunnari um víg Otkels, annari vígsök lýsti hann á Gunnar um víg Hallbjarnar Hvíta, þá um víg Auðúlfs, þá um víg Skamkels, þá lýsti hann vígsök á hendr Kolskeggi um víg Hallkels, ok þá er hann hafði lýst öllum vígsökunum var þat mælt at hann talaði vel: hann spurði at þingfesti ok at heimilis fángi, gengu menn síðan frá lögbergi. Líðr nú þíngit þar til er dómar skyldu fara út til sóknar, fjölmentu þá hvârirtveggju mjök út liði sínu. Geirr goði ok Gizurr Hvíti stóðu sunnan at Rángæinga dómi, Gunnarr ok Njáll stóðu norðan at dóminum. Geirr goði býðr Gunnari at hlýða til eiðspjalls síns, ok síðan vann hann eið, eptir þat sagði hann fram sök sína, þá lèt hann bera lýsíngar vætti, þá let hann bjóða búum í setu, þá bauð hann til ruðningar um kviðinn, þá beiddi hann framburðar um kviðinn. Þá gengu búar at dóminum þeir er kvaddir höfðu verit ok nefndu sèr vátta ok lètu þat standa fyrir kviðburði um mál Auðúlfs at aðili var í Norvegi, ok þeir áttu eigi um at skila málit: eptir þat báru þeir kvið um mál Otkels, ok báru Gunnar sannan at sökinni. Eptir þat bauð Geirr goði

Gunnari til varna ok nefndi vâtta at öllum gögnum, þeim er fram voru komin. Gunnarr bauð þá at móti Geiri goða at hlýða til eiðspjalls síns ok þeirra varna er hann myndi framfæra um málit, þá vann hann eið. Gunnarr mælti: Þá færi ek vörn fyrir þetta mál, at ek nefnda vâtta ok óhelgaða ek Otkel fyrir búum af þeirri blóðgri ben, er Otkell veitti mèr áverka með spora sínum, en ek ver þèr, Geirr goði, goðalýriti mál þetta at sækja ok svâ dómendum at dæma, ok ónýti ek með þessu allan þinn málatilbúnað: ver ek þèr lagalýriti, ífalausu lýriti, fullu ok főstu, svâ sem ek á at verja at alþingis máli rèttu ok allsherjar lögum. Ek mun ok segja þèr aðra meðför mína, segir Gunnarr. Muntu þá skora mèr á hólm, sem þú ert vanr, segir Geirr, ok þola eigi lög? Eigi skal þat, segir Gunnarr, ek skal stefna þèr at lögbergi um þat er þú kvaddir þess kviðar, er eigi átti máli at skipta um víg Auðólfs, ok telja þik um þat sekjan fjörbaugsmann. Njáll mælti: Eigi má þetta svâ fara, þvíat þetta mun nú verða mjök með kappi deilt; hafa hèr hvârirtveggju mikit til síns máls at því sem mèr lízt: eru þau sum víg at þú munt eigi í móti mega mæla at þú mun sekr um verða, hefir þú þann málatilbúnað á Geir at hann verðr sekr um; skaltu ok þat vita Geirr goði, at enn er eigi uppkastat þeirri skóggángssök er á þèr stendr, ok skal sú eigi niðri liggja ef þú vilt ekki gera fyrir mín orð. Þóroddr goði mælti: Svâ lízt oss sem þat myndi friðligast at sætt sè á málit; eða hví leggr þú svâ fátt til, Gizurr Hviti? Svâ lízt mèr, segir Gizurr, sem rammar skorður muni þurfa við at voru máli, má þat ok sjá at nær standa vinir Gunnars, ok mun sá verða mála hlutí vor beztr, at góðir menn geri um, ef Gunnarr vill þat. Sáttgjarn hefi ek verit jafnan, segir Gunnarr, enda eigit þèr nú eptir mikit at mæla, en ek þikkjumst þó mjök neyddr til hafa verit. Urðu þær nú málalyktir með ráði hinna vitrustu manna, at málin voru öll lagit

í gerð; skyldu gera um sex menn, var þá þegar gert um málin á þingi: var þat gert at Skamkell skyldi úgildr, en manngjöld skyldi jöfn látin ok spora höggvit, en bætt voru víg sem vert þótti, ok gáfu frændr Gunnars fè til at þegar voru bætt upp öll vígin á þingi: gengu þeir þá til ok veittu Gunnari trygðir, Geirr goði ok Gizurr Hvíti. Reið Gunnarr heim af þingi ok þakkaði mönnum liðveizlu, ok gaf mörgum gjafir ok fèkk af ina mestu sæmd. Sitr Gunnarr nú heima í sæmd sinni.

*Cap. 57. Frá Starkaði ok sonum hans.* — Starkaðr hèt maðr, hann var sonr Barkar blátannarskeggs, Þórkelssonar bundinfóta, er land nam umhverfis Þríhyrning. Hann var kvângaðr maðr, ok hèt kona hans Hallbera, hún var dóttir Hróalds hins rauða ok Hildigunnar, dóttur Þórsteins Titlíngs. Synir þeirra Starkaðar ok Hallberu voru þeir Þórgeirr ok Börkr ok Þórkell, Hildigunnr læknir var systir þeirra. Þeir voru ofsamenn miklir í skapi, harðlyndir ok údælir, þeir sátu yfir hlut manna.

*Cap. 58. Frá Egli ok sonum hans.* — Egill hèt maðr, hann var Kolsson Óttarssonar Ballar, er land nam meðal Stóralækjar ok Reyðarvats: bróðir Egils var Önundr í Tröllaskógi, faðir Halla ens sterka, er var at vígi Holtaþóris með sonum Ketils ens slèttmála. Egill bjó í Sandgili, synir hans voru þeir Kolr ok Óttarr ok Haukr, móðir þeirra hèt Steinvör, systir Starkaðar. Synir Egils voru miklir menn ok kappsamir ok hinir mestu újafnaðarmenn, þeir voru at einu máli ok synir Starkaðar; systir þeirra var Guðrún Náttsól, ok var kvenna kurteisust. Egill hafði tekit við austmönnum tveimr: hèt annarr Þórir, en annarr Þórgrímr, þeir voru frumferlar út hingat, vinsælir ok auðgir, þeir voru vígir vel ok fræknir um allt. Starkaðr átti hest góðan, rauðan at lit, ok þótti sem engi hestr myndi hafa við þeim í vígi. Einhverju sinni var þat at þeir bræðr úr Sandgili voru undir Þríhyrningi; þeir höfðu viðrmælgi mikit um

alla bændr í Fljótshlíð, ok þar kom at þeir töluðu hvárt nokkurr myndi vilja etja hestum við þá, en þeir menn voru at mæltu þat til sóma þeim ok eptirlætis, at bæði myndi vera at eingi myndi þora við at etja, enda myndi engi eiga þvílíkan hest. Þá svaraði Hildigunnr: Veit ek þann mann er þora mun at etja við yðr. Nefndu þann, segja þeir. Gunnarr á hest brúnan, ok mun hann þora at etja við yðr ok við alla aðra. Svâ þikkir yðr konum sem engi muni vera hans maki, en þótt óvirðiliga hafi farit fyrir honum Geirr goði eða Gizurr Hviti, þá er eigi ráðit at oss fari svâ. Yðr mun first fara, segir hún, ok varð þeim af hin mesta deila. Starkaðr mælti: Á Gunnar vil ek at þèr leitit sízt, þvíat erfitt mun yðr verða at gánga í móti giptu hans. Leyfa muntu oss at vèr bjóðim honum hesta at. Leyfa mun ek, ef þèr prettit hann í öngu; þeir kváðust svâ gera myndu. Riðu þeir nú til Hlíðarenda. Gunnarr var heima ok gekk út, Kolskeggr ok Hjörtr gengu út með honum ok fögnuðu þeim vel, ok spurðu hvert þeir ætlaði at fara. Eigi lengra, segja þeir, oss er sagt er þú eigir hest góðan, ok viljum vèr bjóða þèr hesta at. Litlar sögur megu gánga frá hesti mínum: hann er úngr ok úreyndr at öllu. Kost muntu láta at etja, segja þeir, ok gat þess til Hildigunnr at þú myndir góðr af hestinum. Hví töluðu þèr um þat? segir Gunnarr. Þeir menn voru, segja þeir, er þess gátu at eingi myndi þora at etja við vorn hest. Þora mun ek at etja, segir Gunnarr, en gráliga þikki mèr þetta mælt. Skulu vèr til þess ætla þá? segja þeir. Þá mun yðr för yður þikkja bezt ef þèr ráðit þessu, en þó vil ek þess beiða yðr, at vèr etim svâ hestunum, at vèr gerim öðrum gaman at, en oss verði engi vandræði, ok þèr gerit mèr öngva sköm; en ef þèr gerit til mín sem til annarra, þá er eigi ráðit nema ek sveigja þat á yðr, at hart mun þikkja undir at búa: mun ek þar eptir gera sem þèr gerit fyrir. Ríða þeir þá heim, spurði Starkaðr at hversu þeim hefði farist, þeir sögðu at Gunnarr

gerði góða ferð þeirra: hann hèt at etja hesti sínum, ok kváðu vèr á nær þat hestavíg skyldi vera, fannst þat á í öllu at honum þótti sik skorta við oss, ok baðst hann undan. Þat mun opt áfinnast, segir Hildigunnr, at Gunnarr er seinþreyttr til vandræða, en harðdrægr ef hann má eigi undan komast. Gunnarr reið at finna Njál og sagði honum hesta atit, ok hversu orð fóru með þeim. Eða hversu ætlar þú fara hesta atit? Þú munt hafa meira hlut, sagði Njáll, en þó mun hèr hljótast af margs manns bani. Mun nokkut hèr minn bani af hljótast? segir Gunnarr. Ekki mun þat af þessu, segir Njáll, en þó munu þeir minnast á fornan fjandskap ok nýan, er at þèr fara, ok muntu ekki annat mega enn hrökkva við. Gunnarr reið þá heim.

*Cap. 59. Frá því er Gunnarr atti hesti sínum.* — Þá spurði Gunnarr lát Höskuldar mágs síns. Fám nóttum síðar varð Þórgerðr lèttari at Grjótá, kona Þráins, ok kom þar til sveinbarn; sendi hún þá mann til móður sinnar ok bað hana kjósa hvárt heita skyldi Glúmr eða Höskuldr, hún bað Höskuld heita, var þá þat nafn gefit sveininum. Gunnarr ok Hallgerðr áttu tvá sonu, hèt annarr Högni, en annarr Grani. Högni var maðr gerpiligr ok hljóðlyndr, tortryggr ok sannorðr. — Nú ríða menn til hestavígs, ok er þar komit fjölmenni mikit, var þar Gunnarr ok bræðr hans ok Sigfússynir, Njáll ok synir hans allir. Þar var kominn Starkaðr ok synir hans, ok Egill ok synir hans, ok ræddu til Gunnars at þeir mundu samanleiða hrossin, Gunnarr sagði at þat væri vel. Skarphèðinn mælti: Vilt þú at ek keyra hest þinn, Gunnarr frændi? Eigi vil ek þat, segir Gunnarr. Hèr er þó betr ákomit, segir Skarphèðinn, vèr erum hvárirtveggju hávaðamenn. Þèr munut fátt mæla, segir Gunnarr, eða gera áðr ydr munu vandræði afstanda; en hèr mun verða um seinna, þótt allt komi fyrir eitt. Síðan voru hrossin samanleidd. Gunnarr bjó sik at keyra, en Skarphèðinn leiddi fram hestinn. Gunnarr var í rauðum kyrtli ok

hafði um sik breitt belti ok hestastaf mikinn í hendi. Síðan rennast at hestarnir, ok bítast lengi svâ at engi þurfti á at taka, ok var þat et mesta gaman. Þá báru þeir saman ráð sitt, Þórgeirr ok Kolr, at þeir myndi hrinda hesti sínum, þá er á rynnist hestarnir, ok vita ef Gunnarr felli fyrir. Nú rennast á hestarnir, ok hlaupa þeir Þórgeirr ok Kolr á lend hestinum. Gunnarr hriudr sínum hesti í móti, ok verðr þar skjótr atburðr, at þeir Þórgeirr falla á bak aptr ok hestrinn á þá ofan; þa spretta þeir upp ok hlaupa at Gunnari. Gunnarr varpar sèr undan, ok þrífr Kol ok kastar honum á völlinn, svâ at hann liggr í óviti. Þórgeirr Starkaðarson laust hest Gunnars, svâ at út hljóp augat. Gunnarr laust Þórgeir með stafnum, fellr Þórgeirr í úvit, en Gunnarr gengr til hests síns ok mælti við Kolskegg: Högg þú hestinn: ekki skal hann við örkuml lifa! Kolskeggr hjó höfuð af hestinum. Þá komst á fætr Þórgeirr ok tók vâpn sín ok vildi at Gunnari, en þat var stöðvat, ok varð þraung mikil. Skarphèðinn mælti: Leiðist mèr þóf þetta, ok er miklu drengiligra at menn vegist með vâpnum; ok kvað vísu:

Hèr verðr þraung á þíngi,
þóf gengr lángt úr hófi,
sið mun sætt með þjóðum
sett, leiðist mèr þetta.
Rauskligra er rekkum
rjóða vâpn í blóði,
víst tem ek gráðinn geysta
gjarna ylgjar barni.

Gunnarr var kyrr svâ at honum hèlt einn maðr, ok mælti ekki orð íllt. Njáll leitaði um sætt eða um grið, Þórgeirr kvaðst hvárki vildu selja grið nè taka, kvaðst heldr vilja Gunnar dauðan fyrir höggit. Kolskeggr mælti: Fastara hefir Gunnarr staðit, enn hann hafi fallit fyrir orðum einum saman, ok mun enn svâ, segir hann. Nú ríða menn af

hestaþíngi, hverr til sins heima, veita þeir Gunnari eingar atfarar, liðu svâ þau misseri. Á þingi um sumarit fann Gunnarr Ólaf Pá, mág sinn, ok bauð honum heim, en bað hann þó vera varan um sik: þvíat þeir munu oss gera þat illt sem þeir mega, ok farðu fjölmennr jafnan. Hann rèð honum mörg heilræði, ok mæltu þeir til ennar mestu vináttu með sèr.

*Cap. 60. Frá Ásgrími ok Úlfi Uggasyni.* — Ásgrímr Elliðagrímsson hafði mál at sækja á þinginu á Úlf Uggason, þat var erfðamál. Ásgrími tókst svâ til sem sjaldan var vant, at vörn var í máli hans, en sú var vörnin at hann hafði nefnt fim búa, þar sem hann átti níu at nefna, nú hafa þeir þetta til varna. Gunnarr mælti: Ek mun skora þèr á hólm, Úlfr Uggason, ef menn skulu ei fá rèttu máli framkomit, ok myndi þat Njáll ætla ok Helgi vinr minn, at ek mynda hafa nokkura vörn í málinu með þèr, Ásgrímr, ef þeir væri eigi við. Ekki á ek þetta við þik, segir Úlfr. Fyrir hitt mun nú þó gánga, segir Gunnarr. Lauk svâ því máli, at Úlfr hlaut at greiða fèit allt. Þá mælti Ásgrímr til Gunnars: Heim vil ek þèr bjóða í sumar, ok jafnan skal með þèr í málaferlum, en alldri í móti þèr. Riðr Gunnarr heim af þíngi. Litlu síðar funðust þeir Njáll. Njáll bað Gunnar vera varan um sik, kvað sèr sagt at þeir undan Þríhyrníngi ætluðu at fara at honum, ok bað hann alldri fara með fámenni ok hafa jafnan vâpn sin. Gunnarr kvað svâ vera skyldu, hann sagði at Ásgrímr hefði boðit honum heim; ok ætla ek at fara nú í haust. Láttu öngva menn vita, áðr þú ferr, hversu lengi þú ert í brottu, en ek býð þèr þó at synir mínir ríði með þèr, ok mun eigi þá á þik ráðit; rèðu þeir þat þá með sèr. Nú líðr á sumarit til átta vikna, þá segir Gunnarr Kolskeggi: Búðu ferð þína, þvíat vit skulum ríða til heimboðs í Túngu. Skal nokkut nú gera orð Njálssonum? sagði Kolskeggr. Ekki, segir Gunnarr, eigi skulu þeir hljóta vandræði af mèr.

*Cap. 61. Ráðin atför við Gunnar.* — Þeir ríða þrír saman, Gunnarr ok bræðr hans. Gunnarr hafði atgeirinn ok sverðit Ölvisnaut, en Kolskeggr hafði saxit, Hjörtr hafði ok alvæpni, riðu þeir nú í Túngu. Ásgrímr tók vel við þeim, ok voru þeir þar nokkura hríð; þá lýstu þeir yfir því at þeir ætluðu þá heim at fara. Ásgrímr gaf þeim góðar gjafir, ok bauð at ríða með þeim austr. Gunnarr kvað eingis myndu við þurfa, ok fór hann eigi. Sigurðr Svínhöfði hèt maðr, hann kom undir Þríhyrning, hann bjó við Þjórsá, hann hafði heitit at halda njósnum um ferð Gunnars. Hann sagði þeim nú til ferða hans, ok kvað ekki myndu verða vænna enn svâ, er hann er við enn þriðja mann. Hversu marga munu vèr menn þurfa, segir Starkaðr, í fyrirsát? Rýrt mun verða fyrir honum smámennit, segir hann, ok er eigi ráð at hafa færri enn þrjátigi manna. Hvar skulu vèr fyrir sitja? Við Knafahóla, segir hann, þar sèr eigi fyrr enn at er komit. Far þú í Sandgil ok seg Agli, at þeir búist þaðan fimtán, nú munu koma hèðan aðrir fimtán til Knafahóla. Þórgeirr mælti til Hildigunnar: Þessi hönd skal þèr sýna Gunnar dauðan í kveld. En ek get, segir hún, at þú berir lágt höfuðit af ykkrum fundi. Þeir fara fjórir feðgar undan Þríhyrníngi, ok ellifu menn aðrir, fóru þeir til Knafahóla ok sitja þar. Sigurðr Svínhöfði kom í Sandgil ok mælti: Ek em sendr hingat af Starkaði ok sonum hans, at segja þèr Egill, at þèr feðgar farit til Knafahóla at sitja fyrir Gunnari. Hversu margir skyldu vèr fara? segir Egill. Fimtán með mèr, segir hann. Kolr mælti: Nú ætla ek mèr at reyna við Kolskegg. Mjök þikki mèr þú ætla þèr, segir Sigurðr. Egill bað austmenn sína fara, þeir kváðust öngvar sakir eiga við Gunnar; enda þarf hèr mikils við, segir Þórir, er fjöldi manns skal fara at þrimr mönnum; gekk þá Egill í brot ok var reiðr. Húsfreya mælti þá til austmannsins: Illa hefir Guðrún dóttir mín brotit odd af oflæti sínu ok legit hjá þèr, er þú skalt

eigi þora at fylgja mági þínum, ok munt þú vera ragr maðr, segir hún. Fara mun ek, segir hann, með bónda þínum, ok mun hvârgi okkar aptr koma. Síðan gekk hann til Þórgríms fèlaga síns ok mælti: Tak þú nú við kistulyklum mínum, þvíat ek mun þeim eigi lúka optar; bið ek at þú eignist slíkt af fè okkru sem þú vilt, en far utan ok ætla ekki til hefnda eptir mik, en ef þú ferr eigi utan, þá verðr þat þinn bani. Austmaðrinn rèðst í flokk með þeim.

*Cap. 62. Draumr Gunnars.* — Nú er þar til máls at taka, at Gunnarr ríðr austr yfir Þjórsá; en er hann kom skamt fra ánni syfjaði hann mjök, ok bað hann þá æia þar, þeir gerðu svâ: hann sofnaði fast ok lèt illa í svefni. Kolskeggr mælti: Dreymir Gunnar nú. Hjörtr mælti: Vekja vilda ek hann. Eigi skal þat, segir Kolskeggr, ok skal hann njóta draums síns. Gunnarr lá mjök lánga hríð, ok varp af sèr skildinum ok var honum varmt mjök. Kolskeggr mælti: Hvat hefir þik dreymt, frændi? Þat hefir mik dreymt, segir Gunnarr, at ek mynda eigi riðit hafa úr Túngu svâ fámennr, ef mik hefði þá þetta dreymt. Seg oss draum þinn, segir Kolskeggr. Gunnarr kvað vísu:

Þikkjumst, flýtir flokka,
fámennr riðinn, sennu,
(víst brá ek hrafns á hausti
húngri) brott úr Túngu.
Þvíat, eldveitir öldu,
ek fýsumst því lýsa,
merg etr valr frá vargi
villr, dreymdi mik illa.

Þat dreymdi mik at ek þóttumst ríða fram hjá Knafahólum, þar þóttist ek sjá varga marga, ok sóttu þeir allir at mèr, en ek snera undan ok fram at Rángá. Þá þótti mèr þeir sækja at öllum megin, en ek vörðumst, ok skaut ek alla þá er fremstir voru, þar til er þeir gengu svâ at

mèr, at ek mátta eigi boganum viðkoma, tók ek þá sverðit ok vâ ek með annarri hendi, en lagða með atgeirinum annarri hendi: hlifða ek mèr þá ekki, ok þóttumst ek þá eigi vita hvat mèr hlifði, drap ek þá marga varga, ok þú með mèr, Kolskeggr. En Hjört þótti mèr þeir hafa undir ok slita á honum brjóstit, ok hafði einn hjartat í munni sèr, en ek þóttumst verða svâ reiðr, at ek hjó varginn í sundr fyrir aptan bóguna, ok eptir þat þótti mèr stökkva vargarnir. Nú er þat ráð mitt, Hjörtr frændi, at þú ríðir vestr aptr í Túngu. Eigi vil ek þat, segir Hjörtr, þótt ek vita vísan bana minn, þá vil ek þèr fylgja. Síðan riðu þeir ok komu austr hjá Knafahólum. Kolskeggr mælti: Sèrðu frændi, mörg spjót koma upp hjá hólunum, ok menn með vâpnum! Ekki kemr mèr þat at úvörum, segir Gunnarr, at draumr minn sannist. Hvat skal nú til ráða? segir Kolskeggr, ek get þess at þú vilir eigi renna undan þeim. Ekki skulu þeir at því spotta, segir Gunnarr, en ríða munu vèr fram at Rángá í nesit, þar er vígi nokkut; ríða þeir nú fram í nesit ok bjuggust þar við. Kolr mælti er þeir riðu hjá fram: Hvârt skal nú renna, Gunnarr? Kolskeggr mælti: Seg þú svâ fremi frá því er þessi dagr er allr!

*Cap. 63. Víg Hjartar ok átján manna.* — Síðan eggjaði Starkaðr sína menn, snúa þeir þá fram í nesit at þeim. Sigurðr Svínhöfði fór fyrstr ok hafði törguskjöld einn rauðan, en sviðu í annarri hendi. Gunnarr sèr hann ok skýtr til hans af boganum, hann brá upp hátt skildinum, er hann sá örina hátt flygja, ok kom örin í gegnum skjöldinn ok í augat, svâ at út kom í hnakkanum, ok varð þat víg fyrst. Annarri ör skaut Gunnarr at Úlfheðni, manni Starkaðar, ok kom sú á hann miðjan, ok fèll hann fyrir fætr bóanda einum ok bóndinn um hann; Kolskeggr kastar til steini ok kom í höfuð bóndanum, ok varð þat hans bani. Þá mælti Starkaðr: Ekki mun oss þetta duga,

at hann komi boganum við, ok göngum at fram vel ok snarpliga. Síðan eggjaði hverr annan. Gunnarr varði sik með boganum ok örum, meðan hann mátti; síðan kastar hann þeim niðr, tók hann þá atgeirinn ok sverðit ok vegr með báðum höndum, er bardagi enn harðasti lengi, en þó vegr Gunnarr drjúgum menn ok Kolskeggr. Þá mælti Þórgeirr Starkaðarson: Ek hèt at færa Hildigunni höfuð þitt, Gunnarr. Ekki mun henni þat þikkja svâ miklu varða, segir Gunnarr, en þó munt þú þá nærr gánga verða. Þórgeirr mælti við bræðr sína: Hlaupu vèr at honum fram allir senn: hann hefir öngan skjöld, ok munu vèr hafa ráð hans í hendi! Þeir hljópu fram, Börkr ok Þórkell, ok urðu skjótari enn Þórgeirr. Börkr höggr til Gunnars. Gunnarr laust við atgeirinum svâ hart, at sverðit hraut úr hendi Berki, sèr hann þá til annarrar handar Þórkel standa í höggfæri við sik. Gunnarr stóð nokkut höllum fæti. Gunnarr sveiflar sverðinu, ok kom á hálsinn Þórkatli, ok fauk af höfuðit. Kolr mælti Egilsson: Láti mik fram at Kolskeggi, ok mælti: Þat hefi ek lengi mælt, at vit myndim mjök jafnfærir til vígs. Slíkt megu vit nú reyna, segir Kolskeggr. Kolr leggr til hans spjóti. Kolskeggr hafði þá vegit mann ok átti sem mest at vinna, ok kom eigi fyrir sik skildinum, ok kom lagit í lærit utan fótar ok gekk í gegnum. Kolskeggr brást við fast ok óð at honum, ok hjó með saxinu á lærit ok undan fótinn ok mælti: Hvârt nam þik eða eigi? Þess galt ek nú, segir Kolr, er ek var berskjaldaðr, ok stóð nokkura stund á hinn fótinn ok leit á stúfinn. Kolskeggr mælti: Eigi þarftu at líta á, jafnt er sem þèr sýnist: af er fótrinn. Kolr fèll þá dauðr niðr. En er þetta sèr Egill, hleypr hann at Gunnari ok höggr til hans. Gunnarr leggr í móti atgeirinum, ok kom á hann miðjan, Gunnarr vegr hann upp á atgeirinum ok kastar honum út á Rángá. Þá mælti Starkaðr: Allvesæll ertu Þórir austmaðr, er þú sitr hjá, en nú er veginn Egill, húsbóndi þinn ok mágr. Þá spratt upp austmaðrinn ok var

reiðr mjök. Hjörtr hafði orðit tveggja manna bani, austmaðrinn hleypr at honum ok höggr framan á brjóstit. Hjörtr fèll þá þegar dauðr niðr. Gunnarr sèr þetta ok varpar sèr skjótt til höggs við austmanninn ok sníðr hann í sundr í miðju. Litlu síðar skýtr Gunnarr til Barkar atgeirinum, ok kom á hann miðjan ok í gegnum hann, ok niðr í völlinn; þá höggr Kolskeggr höfuð af Hauki Egilssyni, enn Gunnarr höggr hönd af Óttari í olbogabót. Þá mælti Starkaðr: Flýum nú, ekki er við menn um at eiga. Gunnarr mælti: Þat mun ykkr íllt frásagnar þikkja, ef ekki skal mega sjá á ykkr at þit hafit í bardaga verit; síðan hljóp Gunnarr at þeim feðgum ok veitti þeim áverka. Eptir þat skildu þeir, ok höfðu þeir Gunnarr marga menn þá særða er undan hèldu á fundinum, lètust fjórtán menn ok Hjörtr inn fimtándi. Gunnarr reiddi Hjört heim á skildi sínum, ok var hann þar heygðr; margir menn hörmuðu hann, þvíat hann var vinsæll. Starkaðr kom ok heim, ok græddi Hildigunnr sár þeirra Þórgeirs ok mælti: Yðr væri mikit gefanda til at þèr hefðit ekki íllt átt við Gunnar. Svâ væri þat, segir Starkaðr.

*Cap. 64. Ráð Njáls við Gunnar.* — Steinvör í Sandgili bað Þórgrím austmann vera fyrir fjárforráðum sínum ok fara eigi utan, ok muna svâ lát fèlaga sins ok frænda; hann sagði: Þat spáði mèr Þórir, fèlagi minn, at ek munda falla fyrir Gunnari, ef ek vera hèr á landi, ok myndi hann vita þat fyrir, er hann vissi dauða sinn. Ek mun gefa þèr til Guðrúnu dóttur mína, ok fèit allt, segir hún. Eigi vissa ek, at þú mundir þat svâ miklu kaupa, segir hann; síðan kaupa þau þessu at hann skal fá hennar, ok er boð þetta um sumarit. Gunnarr riðr til Bergþórshvols ok með honum Kolskeggr. Njáll var úti ok synir hans, ok gengu í móti Gunnari ok fögnuðu þeim vel, síðan gengu þeir á tal. Gunnarr mælti: Híngat em ek kominn at sækja heilræði at þèr ok traust. Njáll sagði: Skylt er þat. Ek hefi ratat í vandræði mikit ok drepit marga menn, ok vil ek vita, segir Gunnarr,

hversu þú vilt vera láta. Þat munu margir mæla, segir Njáll, at þú hafir mjök verit tilneyddr, en nú skalt þú gefa mèr tóm til ráðagerðar. Njáll gekk i brot einn saman ok hugsaði ráðit, ok kom aptr ok mælti: Nú hefi ek nokkut hugsat málit, ok lízt mèr sem þetta muni nú nokkut með harðfengi ok kappi verða at gera. Þórgeirr hefir barnat Þórfinnu frændkonu mína, ok mun ek selja þèr i hendr legorðssökina; aðra skóggángssök sel ek þèr á hendr Starkaði, er hann hefir höggvit i skógi mínum á Þríhyrníngshálsum, ok skalt þú sækja þær sakir báðar. Þú skalt fara þángat sem þèr börðust, ok grafa upp hina dauðu ok nefna vâtta at benjum, ok úhelga þá alla hina dauðu fyrir þat er þeir fóru með þann hug til fundar at veita þèr áverka ok bráðan bana ok bræðrum þínum; en ef þetta er prófat á þíngi, ok því sè við lostit, at þú hafir áðr lostit Þórgeir ok megir hvârki sækja þína sök nè annarra, þá mun ek svara því máli ok segja, at ek helgaða þik á Þíngskálaþíngi, at þú skyldir bæði mega sækja þitt mál ok svâ annarra, ok mun þá verða svarat máli því: þú skalt ok finna Tyrfíng i Berjanesi, ok skal hann selja þèr sök á hendr Önundi i Tröllaskógi, er mæla á eptir Egil bróður sinn. Reið þá Gunnarr heim fyrst, en nokkurum nóttum síðar riðu þeir Njálssynir ok Gunnarr þángat til sem líkin voru, ok grófu þá upp alla sem jarðaðir voru, stefndi Gunnarr þeim þá öllum til óhelgi fyrir atför ok fjörráð, ok reið heim eptir þat.

*Cap. 65. Frá Valgarði ok Merði.* — Þetta haust et sama kom út Valgarðr inn grái ok fór heim til Hofs. Þórgeirr fór at finna þá Valgarð ok Mörð, ok sagði hver efni i voru, ef Gunnarr skyldi hafa óhelgat þá alla, er hann hafði vegit. Valgarðr kvað þat vera mundu ráð Njáls, ok þó eigi öll upp komin þau, sem hann myndi hafa ráðit honum. Þórgeirr bað þá feðga liðveizlu ok atgöngu, en þeir fóru lengi undan ok mæltu til fè mikit at lyktum: var þat i ráðagerðum at Mörðr skyldi biðja Þórkötlu, dóttur Gizurar

Hvíta, ok skyldi Þórgeirr þegar ríða vestr um ár með þeim Valgarði ok Merði. Annan dag eptir riðu þeir tólf saman ok komu til Mosfells, var þeim þar vel fagnat; vekja þeir þá til við Gizur um bónorðit, lýkr svâ með þeim at ráðin skyldu takast, ok skyldi boð vera á hálfsmánaðar fresti at Mosfelli; ríða þeir heim. Síðan ríða þeir til boðs, var þar fjöldi fyrir boðsmanna, ok fór þat vel fram; fór Þórkatla heim með Merði ok var fyrir búi, en Valgarðr fór utan um sumarit. Mörðr eggjar Þórgeir á málatilbúnað við Gunnar. Þórgeirr fór at finna Önund, biðr hann nú búa til vígsmálit Egils bróður síns ok sona hans: en ek mun búa til vígsmál bræðra minna ok áverkamál mitt ok föður mins; hann kvaðst þess albúinn, fara þeir þá ok lýsa vígunum ok kveðja nío vatfángs búa. Þessi málatilbúnaðr spurðist til Hlíðarenda, ríðr Gunnarr þá at finna Njál ok sagði honum, ok spurði hvat hann vildi þá láta atgera. Nú skalt þú, segir Njáll, stefna vætfángsbúum þinum ok nábúum saman ok nefna vâtta fyrir húum ok kjósa Kol til veganda at vígi Hjartar, bróður þíns, þvíat þat er rètt; síðan skalt þú lýsa víginu á hönd Kol, þótt hann sè dauðr, þá skalt þú nefna þèr vâtta ok kveðja búa alþíngis reiðar, at bera um þat, hvârt þeir væri í atvist ok atsókn, þá er Hjörtr var veginn: þú skalt ok stefna Þórgeiri um legorðssökina, ok svâ Önundi um sökina Tyrfings. Gunnarr fór nú með öllu sem honum var ráð til kent af Njáli. Þetta þótti mönnum undarligr málatilbúnaðr, fara nú þessi mál til þíngs, Gunnarr ríðr til þíngs ok synir Njáls ok Sigfússynir. Gunnarr hafði sent mann mágum sínum, at þeir skyldu ríða til þíngs ok fjölmenna mjök, kvað þeim þetta mundu mjök kappdrægt verða, þeir fjölmentu mjök vestan. Mörðr reið til þíngs ok Runólfr úr Dal ok þeir undan Þríhyrníngi ok Önundr úr Tröllaskógi.

*Cap. 66. Frá mannbótum ok sættum.* — En er þeir koma á þíng, gánga þeir í lið með Gizuri Hvíta ok Geiri

goða. Gunnarr ok Sigfússynir ok Njálssynir gengu allir í einum flokki, ok fóru svâ snúðigt at menn urðu at gæta sín er fyrir urðu at eigi fèlli, ok var ekki jafntíðrætt um allt þíngit sem um málaferli þessi en miklu. Gunnarr gekk til móts við mága sína, ok fögnuðu þeir Ólafr honum vel; þeir spurðu Gunnar um fundinn, en hann sagði þeim frá gerla ok bar öllum vel sögu, ok sagði þeim hvat hann hafði síðan atgert. Ólafr mælti: Mikils er vert hversu fast Njáll stendr þèr um alla ráðagerð. Gunnarr kvaðst alldri þat mundu launat geta, en heiddi þá liðveizlu, en þeir sögðu at þat væri skylt. Fara nú mál hvârtveggi í dóm, flytja hvârir sitt mál. Mörðr spurði hví sá maðr skyldi hafa mál fram, er áðr hafði til óhelgi sèr unnit við Þórgeir sem Gunnarr? Njáll svaraði: Vartu á Þíngskálaþíngi of haustit? Var ek víst, segir Mörðr. Heyrðir þú, segir Njáll, at Gunnarr bauð honum alsætti? þá friðhelgaða ek Gunnar, segir Njáll, til allra lögligra mála. Rètt er þetta, segir Mörðr, en hví sætti þat ef Gunnarr lýsti vígi Hjartar á hendr Kol, þar sem austmaðrinn vâ hann? Rètt var þat, segir Njáll, þar sem hann kaus hann til veganda með vâttum. Rètt mun þetta víst, segir Mörðr, en fyrir hvat stefndi Gunnarr þeim öllum til óhelgi? Eigi þarftu þessa at spyrja, segir Njáll, þar sem þeir fóru til áverka ok manndrápa. Eigi kom þat fram við Gunnar, segir Mörðr. Njáll mælti: Bræðr Gunnars voru þeir Kolskeggr ok Hjörtr, ok hafði annarr bana en annarr sár á sèr. Lög hafit þèr at mæla, segir Mörðr, þótt hart sè undir at búa. Þá gekk fram Hjalti Skeggjason úr Þjórsárdal ok mælti Ekki hefi ek hlutast til málaferla yðarra, en nú vil ek vita hvat þú vilt gera fyrir mín orð, Gunnarr, ok vináttu. Hvers beiðist þú? segir Gunnarr. Þess, segir hann, at þèr leggit málin öll til jafnaðardóms, ok dæmi góðir menn. Gunnarr mælti: Þá skalt þú alldri vera í móti mèr við hveriga sem ek á um. Því vil ek heita, segir Hjalti. Eptir þat átti hann hlut at við mótstöðumenn Gunnars, ok kom því við,

at þeir sættust allir, ok eptir þat veittu hvârir öðrum trygðir. En fyrir áverka þórgeirs kom legorðssökin, en skógarhögg fyrir áverka Starkaðar, en bræðr þórgeirs voru bættir hálfum bótum, en hálfar féllu niðr fyrir tilför við Gunnar; en jafnt skyldi vera vígit Egils ok sökin Tyrfings; fyrir víg Hjartar skyldi koma víg Kols ok austmannsins, þá voru aðrir bættir hálfum bótum. Njáll var í gerð þessi ok Ásgrímr Elliðagrimsson, Hjalti Skeggjason. Njáll átti mikit fé undir Starkaði ok í Sandgili, ok gaf hann þat allt Gunnari til bóta þessa. Svâ átti Gunnarr marga vini á þíngi, at hann bætti þá upp öll vígin þegar, en gaf gjafir mörgum höfðíngjum, þeim er honum höfðu lið veitt, ok hafði ena mestu sæmd af málinu, ok urðu allir á þat sáttir, at eingi væri hans jafníngi í Sunnlendíngafjórðúngi. Riðr Gunnarr heim af þíngi ok sitr um kyrt, en þó öfunduðu mótstöðumenn hans mjök hans sæmd.

*Cap. 67. Frá þórgeiri Otkelssyni.* — Nú er at segja frá þórgeiri Otkelssyni. Hann gerðist maðr mikill ok styrkr, trúlyndr ok úslægr, nokkut tallýðinn, hann var vinsæll af inum beztum mönnum, ok ástsæll af frændum sínum. Einhverju sinni hefir þórgeirr Starkaðarson farit at finna Mörð frænda sinn. Illa uni ek við, segir hann, málalok þau sem orðit hafa með oss Gunnari, en ek hefi kaupt at þèr liðveizlu meðan við verim uppi báðir: vil ek at þú hugsir nokkura ráðagerð ok leggist djúpt; mæli ek því þetta svâ ljóst, at ek veit at þú ert enn mesti úvinr Gunnars ok svâ hann þinn: skal ek auka mikit þína sæmd ef þú sèr vel fyrir. Sýnist þat jafnan, segir Mörðr, at ek em fègjarn, enda mun svâ enn; ok er vant fyrir at sjá, at þú sèr eigi griðníðingr eða trygðarofsmaðr, en þú komir þó þínu máli fram. En þat er mèr sagt at Kolskeggr ætli mál fram at hafa ok ripta fjórðúng í Móeiðarhvoli, er föður þínum var goldit í sonarbætr, hefir hann mál þetta tekit af móður sinni, ok er þetta

ráð Gunnars at gjalda lausafè, en láta eigi landit; skal þess at biða er þetta gengr fram ok kalla hann þá rjúfa sætt á yðr. Hann hefir ok tekit sáðland af Þórgeiri Otkelssyni ok rofit svâ sætt á honum: skalt þú fara at finna Þórgeir Otkelsson, ok kom honum i málit með þèr, ok fara at Gunnari; en þótt i bresti nokkut um þetta, ok fáit þèr hann eigi veiddan, þá skulut þèr þó fara at honum optar, mun ek segja þèr at Njáll hefir spáð honum ok sagt fyrir um æfi hans, ef hann vegi i enn sama knèrunn optar enn um sinn, at þat mundi honum leiðast til bana. Bæri þat þá svâ við at hann ryfi sætt þá er ger væri, skalt þú því koma Þórgeiri i málit at hann hefir vegit föður hans áðr, ok ef þit erut á einum fundi, þá skalt þú hlífa þèr, en hann mun gánga fram vel, ok mun Gunnarr vega hann; hefir hann þá vegit tysvar i enn sama knèrunn, en þú skalt flýa af fundinum; en ef honum vill þetta til dauða draga, þá mun hann rjúfa sættina, er þar til at sitja. Eptir þetta ferr Þórgeirr heim ok segir föður sínum af hljóði. Rèðu þeir þat með sèr at með þessa ráðagerð skyldu þeir af hljóði fara.

*Cap. 68. Frá Þórgeiri Starkaðarsyni.* — Nokkuru siðar fór Þórgeirr Starkaðarson i Kirkjubæ at finna nafna sinn, ok gengu þeir á eintal ok töluðu dag allan hljótt; en at lyktum gaf Þórgeirr Starkaðarson nafna sínum spjót gullrekit ok reið heim siðan, gerðu þeir með sèr ena kærustu vináttu. Á Þíngskálaþíngi um haustit sótti Kolskeggr til lands at Móeiðarhvoli, en Gunnarr nefndi vâtta ok bauð þeim lausafè undan Þrihyrningi eða land annat at lögligri virðíngu; Þórgeirr nefndi sèr vâtta, at Gunnarr ryfi sætt á þeim. Eptir þat var lokit þínginu, liðu nú þau misseri, finnast þeir nafnar jafnan, ok eru með þeim enir mestu dáleikar. Kolskeggr mælti til Gunnars: Sagt er mèr at mikil sè vinátta með þeim nöfnum, ok er þat margra manna mál, at þeir muni vera ótrúligir, ok vilda ek at þú værir varr um þik. Koma mun til mín feigðin, segir Gunnarr, hvar

sem ek em staddr, ef mèr verðr þess auðit; skildu þeir þá talit. Gunnarr sagði fyrir um haustit at þeir skyldu vinna viku heima þar, en aðra niðri í eyum ok hætta þá heyverkum, sagði hann svâ fyrir at allt skyldi fara manna af bænum nema hann ok konur. Þórgeirr undan Þríhyrníngi ferr at finna nafna sinn, en þegar er þeir fundust töluðu þeir at vanda. Þórgeirr Starkaðarson mælti: Ek vilda at vit herðim okkr ok færim at Gunnari. Svâ at einu hafa fundir orðit við Gunnar, segir Þórgeirr Otkelsson, at fáir hafa af því sigrast, enda þikki mèr íllt at heita griðníðingr. Þeir hafa rofit sættina, en vit eigi, segir Þórgeirr Starkaðarson, tók Gunnarr af þèr sáðland þitt, en Móeiðarhvol af okkr feðgum; ok semja þeir þat með sèr at fara at Gunnari, sagði þá Þórgeirr, at Gunnarr myndi á fárra nátta fresti einu heima vera: skalt þú koma við enn tólfta mann til móts við mik, en ek mun hafa jafnmarga. Síðan reið Þórgeirr heim.

*Cap. 69. Frá Njáli ok þeim nöfnum.* — Þá er þeir húskarlar ok Kolskeggr höfðu verit þrjár nætr í eyum, þá hefir Þórgeirr Starkaðarson njósn af þessu ok gerir orð nafna sínum at hann skyldi koma til móts við hann á Þríhyrnings hálsi. Síðan bjóst Þórgeirr undan Þríhyrníngi við enn fimtánða mann; hann ríðr upp á hálsinn ok bíðr þar nafna síns. Gunnarr er nú einn heima á bænum. Ríða þeir nafnar í skóga nokkura, þar kom at þeim svefnhöfgi, ok máttu þeir ekki annat enn sofa, festu skjöldu sína í limar, en bundu hesta sína ok settu hjá sèr vâpnin. Njáll var þessa nótt í Þórólfsfelli, ok mátti ekki sofa ok gekk ýmist út eða inn. Þórhildr spurði Njál, hví hann mætti ekki sofa. Margt berr nú fyrir augu mèr, sagði hann, ek sè margar fylgjur grimligar úvina Gunnars, ok er nokkut undarliga, þær láta ólmliga ok fara þó ráðlausliga. Litlu síðar reið maðr at dyrum, ok stè af baki ok gekk inn, ok var þar

sauðamaðr þeirra Þórhildar. Hún mælti: Hvárt fantu sauðina? Fann ek þat er meira myndi varða, sagði hann. Hvat var þat? segir Njáll. Ek fann tuttugu ok fjóra menn i skóginum uppi, þeir höfðu bundit hesta sina, en sváfu sjálfir, þeir höfðu fest skjöldu sina i limar; en svâ gerla hafði hann athugat, at hann sagði frá allra þeirra vâpnabúnaði ok klæðum. Njáll vissi þá gerla hverr hvergi hafði verit ok mælti til hans: Gott hjónatak ef slikir væri margir, ok skalt þú þessa jafnan njóta, en þó vil ek nú senda þik; hann játaði at fara. Þú skalt fara, segir Njáll, til Hlíðarenda ok segja Gunnari at hann fari til Grjótár ok sendi þá eptir mönnum, en ek mun fara til móts við þá, er i skóginum eru, ok fæla þá i braut; hefir þetta af því vel i móti borist, at þeir munu eingis afla í þessi ferð, en láta mikit. Sauðamaðr fór ok sagði Gunnari sem gerst frá öllu, reið þá Gunnarr til Grjótár ok stefndi at sèr mönnum. Nú er at segja frá Njáli at hann ríðr til fundar við þá nafna. Óvarliga liggit þèr, segir hann, eða til hvers skal för sjá ger hafa verit? ok er Gunnarr engi kektunarmaðr, en ef satt skal um tala þá eru þetta in mestu fjörráð: skulu þèr ok þat vita, at Gunnarr er í liðsamnaði, ok mun hann hèr brátt koma ok drepa yðr, nema þèr ríðit undan ok heim. Þeir brugðu við skjótt, ok varð þeim mjök við felmt, ok tóku vâpn sin ok stigu á hesta sína ok hleyptu heim undir Þríhyrning. Njáll fór til móts við Gunnar ok bað hann ekki eyða fjölmenni: en ek mun fara ok leita um sættir, munu þeir nú vera hófliga hræddir, en fyrir þessi fjörráð skal eigi koma minna, er við alla þá er um at eiga, enn eigi skal meira koma fyrir víg annarshvârs þeirra nafna, þótt þat kunni við at bera; skal ek varðveita þetta fé ok svâ fyrir sjá at þá sè þèr innan handar er þú þarft til at taka.

*Cap. 70. Gjafar Ólafs Pá við Gunnar.* — Gunnarr þakkaði Njáli tillögur sínar. Njáll reið undir Þríhyrning ok sagði þat þeim nöfnum, at Gunnarr mundi ekki eyða

flokkum fyrr enn úr sliti með þeim, þeir buðu boð fyrir sik ok voru óttafullir, ok báðu Njál fara með sáttarboðum. Njáll kvaðst með því einu fara myndu, er eigi fylgði svik, þeir báðu hann vera í gerðinni ok kváðust þat halda myndu er hann gerði. Njáll kvaðst eigi gera mundu nema á þingi, ok væri við enir beztu menn, þeir játuðu því, gekk þá Njáll í meðal, svâ at hvârir handsöluðu öðrum grið ok sætt, skyldi Njáll gera um ok nefna til þá er hann vildi. Litlu síðar fundu þeir Mörð Valgarðsson, Mörðr taldi á þá mjök er þeir höfðu lagit mál undir Njál, þar sem hann var vinr Gunnars mikill, kvað þeim þat illa duga mundu. Ríða menn nú til alþingis at vanda, eru nú hvârirtveggju á þingi. Njáll kvaddi sèr hljóðs, spurði alla ena beztu menn, er þar voru komnir, hvert mál þeim þætti Gunnarr eiga á þeim nöfnum fyrir fjörráðin; þeir sögðu, at þeim þótti slikr maðr mikinn rètt á sèr eiga. Njáll spurði, hvárt hann ætti á öllum þeim, eða ætti fyrirmenn at svara fyrir alla málinu; þeir segja at mest myndi á fyrirmönnum standa, en þó á öllum mikit. Þat munu margir mæla, kvað Mörðr, at eigi hafi um sakleysi verit, þar sem Gunnarr rauf sætt við þá nafna. Eigi er þat sættarrof, segir Njáll, at hverr hafi lög við annan, þvíat með lögum skal land vort byggja, en með ólögum eyða; segir Njáll þeim þá at Gunnarr hafði boðit land fyrir Móeiðarhvol eða annat fè, þóttust þeir þá nafnar falsaðir af Merði, ok töldu á hann mjök, ok kváðust af honum hljóta þetta fègjald. Njáll nefndi tólf manna dóm á málinu, galt þá hundrað silfrs hverr er til hafði farit, en tvö hundruð hvârr þeirra nafna; tók Njáll við þessu fè ok varðveitti, en hvârir veittu öðrum trygðir ok grið, ok mælti Njáll fyrir. Reið Gunnarr þá af þingi vestr til Dala í Hjarðarholt, ok tók Ólafr Pái vel við honum, sat hann þar hálfan mánað, hann reið víða um Dali, ok tóku allir við honum fegínshendi. En at skilnaði mælti Ólafr: Ek vil gefa þèr þrjá gripi, gullhring ok skikkju er átt hefir Mýrkjartan

Irakonúngr, ok hund er mèr var gefinn á Írlandi: hann er mikill ok eigi verri til fylgðar enn röskr maðr, þat fylgir ok at hann hefir manns vit, hann mun ok geygja at hverjum manni þeim er hann veit at úvin þinn er, en alldri at vinum þínum, sèr hann ok á hverjum manni, hvârt til þín er vel eða illa, hann mun ok líf áleggja at vera þèr trúr; þessi hundr heitir Sámr. Síðan mælti hann við hundinn: Nú skaltu Gunnari fylgja ok vera honum slíkr sem þú mátt; hundrinn gekk þegar at Gunnari ok lagðist niðr fyrir fætr honum. Ólafr bað Gunnar vera varan um sik ok kvað hann eiga marga öfundarmenn, þar er þú þikkir ágætr maðr nú um allt land. Gunnarr þakkaði honum gjafir ok heilræði ok reið heim. Sitr Gunnarr nú heima nokkura hríð, ok er kyrt.

*Cap. 71. Ráðagerð Marðar.* — Litlu síðar finnast þeir nafnar ok Mörðr; verða þeir eigi ásáttir, þóttust þeir láta fè mikit fyrir Merði, en hafa ekki í móti, ok báðu hann setja aðra ráðagerð þá er Gunnari væri til meins. Mörðr kvað svâ vera skyldu: er þat nú ráð mitt, at Þorgeirr Otkelsson fífli Ormhildi frændkonu Gunnars, en Gunnarr mun af því láta vaxa óþokka við þik, skal ek þá ljósta upp þeim kvitt, at Gunnarr muni eigi svâ hafa við þik gert; skulut it þá nokkuru síðar hafa atför við Gunnar, en þó skulut þit Gunnar eigi heimsækja, þviat þat má eigi ætla meðan hundrinn lifir. Sömdu þeir nú þessa ráðagerð með sèr, at sjá skyldi framkoma. Nú líðr sumarit. Þorgeirr venr kvâmur sínar til Ormhildar, Gunnari þótti þat illa, ok gerðist óþokki mikill með þeim, fór svâ fram um vetrinn. Nú kemr sumar, ok verða þá enn optliga fundir þeirra á laun; þeir finnast jafnan Þorgeirr undan Þríhyrníngi ok Mörðr ok ráða atför við Gunnar, þá er hann riði ofan í eyar, at sjá verk húskarla sinna. Eitt sinn varð Mörðr varr við er Gunnarr reið ofan í eyar ok sendi mann undirÞríhyrníng at segja Þorgeiri, at þá mundi vænast til at leita at fara at

Gunnari. Þeir brugðu við skjótt ok fara þaðan tólf saman, en er þeir komu í Kirkjubæ, þá voru þar fyrir þrettán menn, réðu þeir þá þat at fara ofan til Rángár ok sitja þar fyrir Gunnari. En er Gunnarr reið neðan úr eyum, reið Kolskeggr með honum, Gunnarr hafði boga sinn ok örvar ok atgeirinn, Kolskeggr hafði saxit ok alvæpni.

*Cap. 72. Víg Þórgeirs Otkelssonar.* — Sá atburðr varð er þeir Gunnarr riðu neðan at Rángá, at blóð mikit kom á atgeirinn. Kolskeggr spurði hví þat mundi sæta. Gunnarr segir, ef slíkir atburðir yrði, at þat væri kallat í öðrum löndum benrögn: ok sagði mèr svâ Ölver bóndi at þat yrði fyrir stórfundum. Síðan riðu þeir til þess, er þeir sá mennina við ána sitja, ok höfðu bundit hesta sína. Gunnarr mælti: Fyrirsát er nú. Kolskeggr svaraði: Lengi hafa þeir ótrúligir verit, eða hvat skal nú til ráða taka? Hleypa skulu vit upp hjá þeim, segir Gunnarr, til vaðsins ok búast þar við. Hinir sjá þat ok snúa þegar at þeim. Gunnarr bendir upp bogann ok tekr örvarnar ok steypir niðr fyrir sik, ok skýtr þegar er þeir komu í skotfæri, særði Gunnarr við þat mjök marga menn, en drap suma. Þá mælti Þórgeirr Otkelsson: Þetta dugir oss ekki, göngum at sem harðast! Þeir gerðu svâ. Fyrst gekk Önunðr fagri, frændi Þórgeirs. Gunnarr skaut atgeirinum til hans ok kom í skjöldinn, ok klofnaði hann í tvâ hluti, en atgeirinn hljóp í gegnum Önund. Ögmundr Flóki hljóp at baki Gunnari. Kolskeggr sá þat ok hjó þegar undan Ögmundi báða fætr ok hratt honum út á Rángá, ok druknaði þegar. Gerðist þá bardagi harðr, hjó Gunnarr annarri hendi, en lagði annarri. Kolskeggr vâ drjúgt menn, en særði marga. Þórgeirr Starkaðarson mælti til nafna síns: Allítt sèr þat á, at þú eigir föður þins at hefna. Hann svarar: Víst er eigi vel fram gengit, en þó hefir þú eigi gengit mèr í spor, enda skal ek eigi þola þin frýuorð! hleypr at Gunnari af mikilli reiði ok lagði í gegnum skjöldinn ok svâ í gegnum höndina. Gunnarr snar-

aði svâ hart skjöldinu at spjótit brotnaði i falnum. Gunnarr sèr annan mann kominn i höggfæri við sik, ok höggr þann banahögg, eptir þat þrífr hann atgeirinn tveim höndum, þá er Þórgeirr Otkelsson kominn nær honum með reiddu sverði. Gunnarr snýr at honum með mikilli reiði ok rekr i gegnum hann atgeirinn, ok bregðr honum á lopt ok keyrir hann út á Rángá, ok rekr hann ofan á vaðit ok festi þar á steini einum, ok heitir þar siðan Þórgeirs vað. Þórgeirr Starkaðarson mælti: Flýum vèr nú, ekki mun oss sigr verða auðit at svâ búnu; sneru þeir þá allir í frá. Sækjum vit nú eptir þeim, segir Kolskeggr, ok taktu bogann ok örvarnar, ok muntu komast i skotfæri við Þórgeir Starkaðarson. Gunnarr segir: Eyðast munu fèsjóðarnir um þat er þessir eru bættir, er hèr liggja nú dauðir. Ekki mun þèr fèfátt verða, segir Kolskeggr, en Þórgeirr mun eigi fyrr afláta enn hann ræðr þèr bana. Standa munu nokkurir hans makar á götu minni, áðr enn ek hræðumst þá, segir Gunnarr. Siðan riða þeir heim ok segja tiðindin. Hallgerðr fagnaði þessum tiðindum ok lofaði mjök verkit. Rannveig mælti: Vera má at gott sè verkit, en verra verðr mèr við, segir hún, en ek ætla at gott muni afleiða.

*Cap. 73. Frá vigsóknum á þingi.* — Þessi tiðindi spyrjast víða, ok var Þórgeirr mörgum manni harmdauði. Þeir Gizurr Hviti riðu til ok lýstu vigunum ok kvöddu búa til þings, riðu þeir þá vestr heim. Þeir Njáll ok Gunnarr fundust ok töluðu um bardagann, þá mælti Njáll við Gunnar: Vertu nú varr um þik, nú hefir þú vegit tysvarsinnum i sama knèrunn: hygg nú svâ fyrir hag þínum, at þar liggr við líf þitt, ef þú heldr eigi þá sætt sem ger er. Hvergi ætla ek mèr af at bregða, segir Gunnarr, en þó mun ek þurfa liðsinni yðvart á þingi. Njáll svaraði: Halda mun ek við þik mínum trúnaði til dauðadags. Riðr Gunnarr þá heim. Liðr nú til þings, ok

fjölmenna hvârirtveggju mjök, er um þetta allfjölrætt á þingi, hversu þessi mál mundu lúkast. Þeir Gizurr ok Geirr goði töluðu með sèr hvârr þeirra lýsa skyldi vígsökinni Þórgeirs, en þar kom at Gizurr tók undir sik málit ok lýsti sök at lögbergi, ok kvað svâ at orði: At ek lýsi lögmætu frumhlaupi á hönd Gunnari Hámundarsyni, um þat er hann hljóp lögmætu frumhlaupi til Þórgeirs Otkelssonar ok særði hann holundarsári því, at ben gerðist, en Þórgeirr fèkk bana af: tel ek hann eiga at verða um sök þá sekjan skógarmann, úælan, úferjanda, útráðanda öllum bjargráðum: tel ek sekt fè hans hálft mèr en hálft fjórðúngs mönnum þeim er sektar fè eigu at taka at lögum: lýsi ek til fjórðúngsdóms þess er sökin á í at koma at lögum: lýsi ek löglýsing í heyranda hljóði at lögbergi: lýsi ek nú til sóknar ok sektar fullrar á hönd Gunnari Hámundarsyni. Í annat sinn nefndi Gizurr sèr vátta ok lýsti sök á hönd Gunnari Hámundarsyni um þat er hann særði Þórgeir Otkelsson holundarsári því er at ben gerðist, en Þórgeirr fèkk bana af á þeim vetfángi, er Gunnarr hljóp til Þórgeirs lögmætu frumhlaupi áðr. Síðan lýsti hann þessi lýsing sem hinni fyrri, þá spurði hann at þingfesti ok heimilis fángi. Eptir þat gengu menn frá lögbergi, ok mæltu allir at honum mæltist vel. Gunnarr var vel stiltr ok lagði fátt til, líðr nú þíngit þar til er dómar fara út. Gunnarr stóð norðan at Rángæinga dómi, ok hans menn, Gizurr stóð sunnan at ok nefnir vátta ok bauð Gunnari at hlýða til eiðspjalls síns ok til framsögu sakar sinnar ok sóknargagna þeirra allra, sem hann hugði fram at færa. Eptir þat vann hann eið, þá sagði hann fram sök svâ skapaða í dóm sem hann lýsti, þá lèt hann bera lýsíngar vætti, þá bauð hann búum í setu ok til ruðníngar um kviðinn.

*Cap. 74. Frá sættum.* — Þá mælti Njáll: Nú mun eigi mega sitjanda hlut í eiga, göngum nú þar til sem bú-

arnir sitja. Þeir gengu þángat til ok kvöddu fjóra búa úr kviðinum, en kvöddu hina fim bjargkviðar, er eptir voru, um málit Gunnars, hvârt þeir nafnar hefði farit með þann hug til fundar at vinna á Gunnari, ef þeir mætti, en allir báru þat skjótt at þat hefði verit, kallaði Njáll þetta lögvörn fyrir málit ok kvaðst myndu frambera vörnina, nema þeir legði til sætta. Voru í þessu þá margir höfðingjar at biðja sættanna, ok fèkkst þat af at tólf menn skyldu gera um málit, gengu hvârirtveggju þá ok handsöluðu þessa sætt. Eptir þat var gert um málit, ok kveðit á fègjöld, ok skyldi allt greitt þegar þar á þingi, en Gunnarr skyldi fara utan ok Kolskeggr ok vera í brottu þrjá vetr, en ef Gunnarr færi eigi utan ok mætti hann komast, þá skyldi hann dræpr fyrir frændum ens vegna. Gunnarr lèt ekki á sik finna at honum þætti eigi góð sættin. Gunnarr spurði Njál at fè því, er hann hafði fengit honum til varðveizlu. Njáll hafði ávaxtat fèit ok greiddi þá fram allt fèit, ok stóðst þat á endum ok þat er Gunnarr átti at gjalda fyrir sik, ríða þeir nú heim. Þeir Njáll ok Gunnarr riðu báðir samt af þingi, þá mælti Njáll til Gunnars: Gerðu svâ vel fèlagi, at þú halt sætt þessa, ok mun hvat vit höfum við mælzt, ok svâ sem þèr varð hin fyrri utanferð mikil til sæmdar, þá mun þèr verða þessi miklu meirr til sæmdar: muntu koma út með mikilli mannvirðingu ok verða maðr gamall, ok mun engi maðr hèr þá á sporði þèr standa; en ef þú ferr eigi utan ok rýfr sætt þína, þá muntu drepinn vera hèr á landi, ok er þat illt at vita þeim er vinir þínir eru. Gunnarr kvaðst ekki ætla at rjúfa sættir. Gunnarr ríðr heim ok sagði sættina. Rannveig kvað vel, at hann færi utan, ok ætti þeir við annan at deila fyrst.

*Cap. 75. Utanferð Kolskeggs.* — Þráinn Sigfússon sagði þat konu sinni, at hann ætlaði at fara utan þat sumar, hún sagði at þat væri vel, tók hann sèr þá fari með Högna hinum hvíta. Gunnarr tók sèr fari með Arnfinni enum

Víkverska ok Kolskeggr. Þeir Grímr ok Helgi Njálssynir báðu föður sinn leyfa at þeir færi utan. Njáll mælti: Erfið mun ykkr verða utanferðin, svâ at tvísýnt mun verða hvárt þit fáit haldit lífinu, en þó munut þit fá sæmd í sumu ok mannvirðing, en eigi örvænt, at afleiði vandræði, er þit komit út. Þeir báðu jafnan at fara, ok varð þat at hann bað þá fara, ef þeir vildi, réðu þeir sèr þá fari með Bárði svarta ok Ólafi Ketilssyni úr Eldu, ok er nú mikil umræða á at mjök leysist á brot hinir betri menn úr sveitinni. Þeir voru menn frumvaxta synir Gunnars, Högni ok Grani, þeir voru menn óskaplikir: hafði Grani mikit af skaplyndi móður sinnar, en Högni var vel at sèr. Gunnarr lætr flytja vöru þeirra bræðra til skips, ok þá er öll faung Gunnars voru komin, ok skip var mjök búit, þá ríðr Gunnarr til Bergþórshvâls ok á aðra bæi at finna menn, ok þakkaði liðveizlu öllum þeim er honum höfðu lið veitt. Annan dag eptir býr hann snemmendis ferð sína til skips, ok sagði þá öllu liði at hann myndi ríða í brot alfari, ok þótti mönnum þat mikit, en væntu þó tilkvâmu hans síðar. Gunnarr hverfr til allra manna, er hann var búinn, gengu menn út með honum allir, hann stingr niðr atgeirinum ok stiklar í söðulinn, ok ríða þeir Kolskeggr í brot. Þeir ríða fram með Markarfljóti, þá drap hestr Gunnars fæti ok stökk hann af baki, honum varð litit upp til hlíðarinnar ok bæarins at Hlíðarenda, ok mælti: Fögr er hlíðin, svâ at mèr hefir hún alldri jafnfögr sýnst, bleikir akrar, en slegin tún, ok mun ek ríða heim aptr ok fara hvergi. Gerðu eigi þann óvina fagnað, segir Kolskeggr, at þú rjúfir sætt þína, þvíat þèr myndi engi maðr þat ætla, ok muntu þat ætla mega, at svâ mun allt fara, sem Njáll hefir sagt. Hvergi mun ek fara, ok svâ vilda ek at þú gerðir, segir Gunnarr. Eigi skal þat, segir Kolskeggr, hvârki skal ek á þessu níðast ok á öngu öðru því er mèr er tiltrúat, ok mun sjá einn hlutr svâ vera at skilja mun með okkr, en seg þat frændum mínum ok móður

minni, at ek ætla ekki at sjá Ísland, þvíat ek mun spyrja þik látinn, frændi, ok heldr mik þá ekki til útferðar. Skilr þá með þeim, ríðr Gunnarr heim til Hlíðarenda, en Kolskeggr ríðr til skips ok ferr utan. Hallgerðr verðr fegin Gunnari, er hann kom heim, en móðir hans lagði fátt til. Gunnarr sitr nú heima þetta haust ok vetrinn ok hafði ekki margt manna með sèr, liðr nú vetr úr garði. Ólafr Pái bauð Gunnari með sèr at vera ok Hallgerði, en fá bú í hendr móður sinni ok Högna, syni sinum. Gunnari þótti fýsiligt fyrst, ok játaði því, en þá er atkom þá vildi hann eigi. En á þingi um sumarit lýsa þeir Gizurr sekt hans at lögbergi, en áðr þinglausnir voru stefndi Gizurr öllum úvinum Gunnars í Almannagjá: Starkaði undan Þríhyrníngi ok Þórgeiri syni hans, Merði ok Valgarði enum grá, Geir goða ok Hjalta Skeggjasyni, Þórbrandi ok Ásbranði Þórleikssonum, Eylifi ok Önundi syni hans, Önundi úr Tröllaskógi, Þórgrími austmanni úr Sandgili. Gizurr mælti: Ek vil bjóða yðr at vèr farim at Gunnari í sumar ok drepim hann. Hjalti mælti: Því hèt ek Gunnari hèr á þíngi, þá er hann gerði mest fyrir mín orð, at ek skyldi eigi vera í atförum við Gunnar, skal ok svâ vera; síðan gekk Hjalti í brot, en þeir rèðu atför við Gunnar er eptir voru, ok höfðu handtak at, ok lögðu við sekt, ef nokkurr gengi úr. Mörðr skyldi halda njósnum nær bezt gefi færi á honum, ok voru þeir fjörutíu manna í þessu sambandi; þótti þeim sèr nú myndu litit fyrir at veiða Gunnar, er á brotu var Kolskeggr ok Þráinn ok margir aðrir vinir Gunnars. Riðu menn heim af þíngi. Njáll fór at finna Gunnar ok sagði honum sekt hans ok ráðna atför við hann. Vel þikki mèr þèr fara, segir Gunnarr, þú gerir mik varan við. Nú vil ek, segir Njáll, at Skarphèðinn fari til þín ok Höskuldr son minn, ok munu þeir leggja sitt líf við þitt líf. Eigi vil ek, segir Gunnarr, at synir þínir sè drepnir fyrir mínar sakir, ok áttu annat at mèr. Fyrir ekki mun þat koma, segir Njáll, þángat mun snúit

vandræðum, þá er þú ert látinn, sem synir mínir eru. Eigi er þat ólikligt, segir Gunnarr, en eigi vilda ek at þat hlytist af mèr til, en þess vil ek biðja at þèr sjáit á með Högna, syni mínum, en ek tala ekki til Grana, þvíat hann gerir ekki margt at mínu skapi. Reið Njáll heim ok hèt því. Þat er sagt, at Gunnarr reið til allra mannfunda ok lögþinga, ok þorðu alldri úvinir hans á hann at ráða; for svâ fram nokkura hríð, at hann fór sem úsekr maðr.

*Cap. 76. Atreið til Hlíðarenda.* — Um haustit sendi Mörðr Valgarðsson orð, at Gunnarr mundi vera einn heima, en lið allt myndi vera niðri í eyum at lúka heyverkum. Riðu þeir Gizurr Hvíti ok Geirr goði austr yfir ár, þegar þeir frèttu þat, ok austr yfir sanda til Hofs; þá sendu þeir orð Starkaði undir Þríhyrningi, ok fundust þeir þar allir, er at Gunnari skyldu fara, ok rèðu hversu at skyldi fara. Mörðr sagði, at þeir mundu eigi koma á úvart Gunnari, nema þeir tæki hónda af næsta bæ, er Þórkell hèt, ok lèti hann fara nauðgan með sèr at taka hundinn Sám, ok færi hann heim einn á bæinn. Fóru þeir siðan austr til Hlíðarenda ok sendu eptir Þórkatli; þeir tóku hann höndum ok gerðu honum tvâ kosti, at þeir myndu drepa hann, ella skyldi hann taka hundinn, en hann keyri heldr at leysa líf sitt ok fór með þeim. Traðir voru fyrir ofan garðinn at Hlíðarenda, ok námu þeir þar staðar með flokkinn. Þórkell bóndi gekk heim á bæinn, ok lá rakkinn á húsum uppi, ok teygir hann rakkann á brot með sèr í geilar nokkurar; í því sèr hundrinn, at þar eru menn fyrir, ok hleypr á hann Þórkel upp ok grípr nárann. Önundr úr Tröllaskógi hjó með öxi í höfuð hundinum svâ at allt kom í heilann; hundrinn kvað við hátt, svâ at þat þótti þeim með údæmum miklum vera, ok fèll hann dauðr niðr.

*Cap. 77. Víg Gunnars.* — Gunnarr vaknaði í skálanum ok mælti: Sárt ertu leikinn, Sámr fóstri, ok mun svâ til ætlat at skamt skyli okkar í meðal. Skáli Gunnars var gerr

af viði einum ok súðþaktr utan, ok gluggar hjá brúnásunum, ok snúin þar fyrir speld. Gunnarr svaf í lopti einn í skálanum ok Hallgerðr ok móðir hans. Þá er þeir komu at, vissu þeir eigi, hvârt Gunnarr myndi heima vera, ok báðu at einnhverr mundi fara heim fyrir ok vita hvers víss yrði; en þeir settust niðr á völlinn. Þórgrímr austmaðr gekk upp á skálann. Gunnarr sèr at rauðan kyrtil bar við glugginn ok leggr út með atgeirinum á hann miðjan. Þórgrími skruppu fætrnir, ok varð lauss skjöldrinn, ok hrataði hann ofan af þekjunni; gengr hann síðan at þeim Gizuri, er þeir sátu á vellinum. Gizurr leit við honum ok mælti: Hvârt er Gunnarr heima? Þórgrímr sagði: Vitit þèr þat, en hitt vissa ek, at atgeirr hans er heima; síðan fèll hann niðr dauðr. Þeir sóttu þá at húsunum. Gunnarr skaut út örum at þeim ok varðist vel, ok gátu þeir ekki atgert, þá hljópu sumir í húsin ok ætluðu þaðan at sækja, Gunnarr kom þángat at þeim örunum, ok gátu þeir ekki atgert, ok fór svâ fram um hríð. Þeir tóku hvíld ok sóttu at í annat sinn, Gunnarr skaut enn út, ok gátu þeir ekki atgert ok hrukku frá í annat sinn. Þá mælti Gizurr Hvíti: Sækjum at betr, ekki verðr af oss! gerðu þeir þá hríð ina þriðju ok voru við lengi, eptir þat hrukku þeir frá. Gunnarr mælti: Ör liggr þar úti á vegginum, ok er sú af þeirra örum, ok skal ek þeirri skjóta til þeirra, ok er þeim þat sköm, ef þeir fá geig af vâpnum sínum. Móðir hans mælti: Ger þú eigi þat, son minn, at þú vekir, þá er þeir hafa áðr frá horfit. Gunnarr þreif örina ok skaut til þeirra, ok kom á Eylif Önundarson, ok fèkk hann af sár mikit; hann hafði staðit einn saman, ok vissu þeir eigi, at hann var særðr. Hönd kom þar ut, segir Gizurr, ok var á gullhríngr, ok tók ör er lá á þekjunni, ok myndi eigi út leitat viðfánga, ef gnógt væri inni, ok skulu þèr nú sækja at. Mörðr mælti: Brennu vèr hann inni! Þat skal verða alldri, segir Gizurr, þótt ek vita, at líf mitt liggi við; er þèr sjálfrátt at leggja til ráð þau er dugi, svâ

slægr maðr sem þú ert kallaðr. Strengir lágu á vellinum ok voru hafðir til at festa með hús jafnan. Mörðr mælti: Töku vèr strengina ok berum um ássendana, en festum aðra endana um steina ok snúum í vindása ok vindum af ræfrit af skálanum; þeir tóku strengina ok veittu þessa umbúð alla, ok fann Gunnarr eigi fyrr enn þeir höfðu undit allt þakit af skálanum. Gunnarr skýtr þá af boganum, svâ at þeir komust alldri at honum; þá mælti Mörðr í annat sinn, at þeir myndi brenna Gunnar inni. Gizurr mælti: Eigi veit ek hvi þú vilt þat mæla, er engi vill annarra, ok skal þat alldri verða. Í þessu bili hleypr upp á þekjuna Þórbrandr Þórleiksson ok höggr í sundr bogastrenginn Gunnars. Gunnarr þrífr atgeirinn báðum höndum ok snýst at honum skjótt ok rekr í gegnum hann ok kastar honum á völlinn. Þá hljóp upp Ásbrandr, bróðir hans, Gunnarr leggr til hans atgeirinum, ok kom hann skildi fyrir sik, atgeirinum rendi í gegnum skjöldinn, en brotnuðu báðir haudleggirnir, ok fèll hann út af vegginum; áðr hafði Gunnarr sært átta menn, en vegit þá tvâ, þá fèkk Gunnarr sár tvö, ok sögðu þat allir menn, at hann brygði sèr hvârki við sár nè við bana. Hann mælti til Hallgerðar: Fá mèr leppa tvâ úr hári þínu, ok snúit þit móðir mín saman til bogastrengs mèr. Liggr þèr nokkut við? segir hún. Líf mitt liggr við, segir hann, þvíat þeir munu mik alldri fá sótt, meðan ek kem boganum við. Þá skal ek nú, segir hún, muna þèr kinnhestinn, þann er þú laust mik, ok hirði ek alldri, hvârt þú verr þik lengr eða skemr. Gunnarr kvað þá vísu:

Hverr hefir dreyrgra darra
dómreynir til sóma
niðr drepr sveigar sága
síns ágætis mínum.
Öngr skal lítils lengi
liðs ráðandi biðja,

fús verðr fagrmjöls dísi
Feniu hönd á venju.

Hefir hverr til síns ágætis nokkut, segir Gunnarr, ok skal þik þessa eigi lengi biðja. Rannveig mælti: Illa ferr þèr, ok mun þín sköm lengi uppi. Gunnarr varði sik vel ok fræknliga ok særir nú aðra átta menn svâ stórum sárum, at mörgum lá við bana. Gunnarr verr sik þar til er hann fèll af mæði, þeir særðu hann mörgum stórum sárum, en þó komst hann úr höndum þeim ok varði sik þá enn lengi, en þó kom þar at þeir drápu hann.

Svâ segir Þórmóðr Ólafsson:

Öngr var sólar slaungvir
sandheims á Íslandi
(hróðr er af heiðnum lýðum
hægr) Gunnari frægri.
Njörðr nam hjálma hríðar
hlíf nunna tvâ lífi,
sár gaf stála stýrir
stórum tólf ok fjórum.

Gizurr mælti: Mikinn öldúng höfum vèr nú at velli lagt, ok hefir oss erfitt veitt, ok mun hans vörn uppi, meðan landit er byggt. Síðan gekk hann til fundar við Rannveigu ok mælti: Viltu veita mönnum vorum tveim jörð, er dauðir eru, ok sè hèr heygðir? At heldr tveim at ek mynda gjarna veita yðr öllum, segir hún. Vârkunn er þat, segir hann, er þú mælir þat, þvíat þú hefir mikils mist; ok kvað á, at þar skyldi öngu ræna ok öngu spilla. Fóru á braut síðan. Þá mælti Þórgeirr Starkaðarson: Eigi megum vèr vera heima í búum vorum fyrir Sigfússonum, nema þú Gizurr eða Geirr sèr suðr hèr nokkura hríð. Þetta mun svâ vera, segir Gizurr, ok hlutuðu þeir, ok hlaut Geirr eptir at vera, síðan fór hann í Odda ok settist þar. Hann átti sèr son er Hróaldr hèt, hann var laungetinn, ok hèt Bjartey móðir hans ok var systir Þórvalds hins Veila, er veginn var við

hestlæk í Grímsnesi; hann hrósaði því, at hann hefði veitt Gunnari banasár. Hróaldr var i Odda með föður sínum. Þórgeirr Starkaðarson hrósaði öðru sári, at hann hefði Gunnari veitt. Gizurr sat heima at Mosfelli. Víg Gunnars spurðist ok mæltist illa fyrir um allar sveitir, ok var hann mörgum manni harmdauði.

*Cap. 78. Gunnarr kvað vísu dauðr.* — Njáll kunni illa láti Gunnars ok svâ Sigfússynir. Þeir spurðu hvârt Njáli þætti nokkut eiga at lýsa vígsök Gunnars eða búa mál til; hann kvað þat ekki mega, er maðr var sekr orðinn, ok kvað heldr verða at veita þeim vegskarð í því at drepa menn nokkura í hefnd eptir hann. Þeir urpu haug eptir Gunnar ok lètu hann sitja upp í hauginum. Rannveig vildi eigi, at atgeirrinn færi í hauginn, ok kvað þann einn skyldu á honum taka er hefna vildi Gunnars, tók því eingi á atgeirinum. Hún var svâ hörð við Hallgerði, at henni hèlt við at hún mundi drepa hana, ok kvað hana valdit hafa vígi sonar síns; stökk þá Hallgerðr til Grjótár ok Grani son hennar, var þá gert fèskipti með þeim, skyldi Högni hafa land at Hlíðarenda ok bú á, en Grani skyldi hafa leigulönd. — Sá atburðr varð at Hlíðarenda, at smalamaðr ok griðkona ráku fè hjá haugi Gunnars, þeim þótti hann vera kátr ok kveða i hauginum. Fóru þau heim ok sögðu Rannveigu móður Gunnars atburðinn, en hún bað þau segja Njáli: fóru þau þá til Bergþórshvols ok sögðu Njáli, en hann lèt segja sèr þrimsinnum. Eptir þat talaði hann lengi hljótt við Skarphèðinn, hann tók vâpn sín ok ferr með þeim til Hlíðarenda. Þau Högni ok Rannveig tóku við honum allvel ok urðu honum fegin mjök. Rannveig bað at hann væri þar lengi, hann hèt því, þeir Högni gengu út ok inn jafnan. Högni var maðr vaskligr ok vel at sèr gerr ok tortryggr, ok þorðu þau fyrir því eigi at segja honum fyrirburðinn. Þeir Skarphèðinn ok Högni voru úti eitt kveld hjá haugi Gunnars suðr

frá, túnglskin var bjart, en stundum dró fyrir. Þeim sýndist haugrinn opinn, ok hafði Gunnarr snúizt í hauginum ok sá í móti túnglinu. Þeir þóttust sjá fjögur ljós í hauginum brenna, ok bar hvergi skugga á. Þeir sá at Gunnarr var kátligr ok með gleðibragði miklu, hann kvað vísu ok svâ hátt, at þó mátti heyra gerla, þótt þeir væri firr:

Mætti dögla deilir,
dáðum rakkr, sá er háði
bjartr með beztu hjarta
benrögn, faðir Högna.
Heldr kvaðst hjálmi faldinn
hjörþilju sjá vilja
vætti draugr enn vægja
valfreyu stafr deya,
ok valfreyu stafr deya.

Síðan laukst aptr haugrinn. Mundir þú trúa fyrirburð þessum, ef Njáll segði þér eða ek? segir Skarphèðinn. Trúa munda ek, segir hann, ef Njáll segði, þvíat þat er sagt, at hann ljúgi alldri. Mikit er um fyrirburði slíka, segir Skarphèðinn, er hann sjálfr vitrast okkr ok vildi heldr deya enn vægja fyrir óvinum sinum, ok kendi hann okkr þau ráð. Öngu mun ek til leiðar koma, segir Högni, nema þú vilir mèr at veita. Nú skal ek þat muna, hversu Gunnari fór eptir víg Sigmundar, frænda yðvars, skal ek nú veita yðr slíkt er ek má, hèt faðir minn því Gunnari, þar er þú ættir hlut at eða móðir hans. Gengu þeir síðan heim til Hlíðarenda.

*Cap. 79. Hefnt Gunnars frá Hlíðarenda.* — Nú skulu vit fara, segir Skarphèðinn, þegar í nótt, því ef þeir spyrja, at ek em hèr, þá munu þeir vera varari um sik. Þinum ráðum vil ek framfara, segir Högni. Eptir þat tóku þeir vâpn sín, þá er allir menn voru í rekkjum. Högni tekr ofan atgeirinn ok saung í honum hátt. Rannveig spratt upp af æði mikilli ok mælti: Hverr tekr atgeirinn, þar er ek bannaða öllum með at fara? Ek ætla, segir Högni, at færa

föður mínum, ok hafi hann til Valhallar ok beri þar fram á vâpnaþíngi. Hún svaraði: Fyrri muntu nú bera hann ok hefna föður þíns, þvíat atgeirrinn sagði mannsbana eins eða fleiri. Síðan gekk Högni út ok sagði Skarphèðni orðræðu þeirra ömmu hans. Síðan fara þeir til Odda, hrafnar tveir flugu með þeim alla leið. Þeir komu um nótt í Odda, þeir ráku fènað heim á húsin, þá hljóp út Hróaldr ok Tjörfi ok ráku fèit upp í geilarnar ok höfðu með sèr vâpn sín. Skarphèðinn spratt upp ok mælti: Eigi þarft þú at hyggja at, jafnt er sem þèr sýnist: menn eru hèr! síðan höggr Skarphèðinn Tjörfa banahögg. Hróaldr hafði spjót i hendi, ok hleypr Högni at honum. Hróaldr leggr til Högna. Högni hjó í sundr spjótskaptit með atgeirinum, en rekr atgeirinn í gegnum hann. Síðan gengu þeir frá þeim dauðum ok snúa þaðan upp undir Þríhyrníng. Skarhèðinn hleypr á hús upp ok reytir gras, ok ætluðu þeir er inni voru at fènaðr væri; tók Starkaðr ok Þórgeirr vâpn sín ok klæði ok fóru út ok upp um garðinn. En er Starkaðr sèr Skarphèðinn, hræðist hann ok vildi aptr snúa. Skarphèðinn höggr hann upp við garðinum, þá kemr Högni í móti Þórgeiri ok vegr hann með atgeirinum. Þaðan fóru þeir til Hofs, ok var Mörðr á velli úti ok bað sèr griða ok bauð alsætti. Skarphèðinn sagði Merði víg þeirra fjögurra. Skarphèðinn kvað vísu:

Vèr höfum felda fjóra
fleinstýranda dýra,
þeim skaltu beiðir beimum
bylgju laugs of fylgja.
Kúgum karl, svâ at eigi
kaldráðum hlyn skjalda,
aumr seldu alla dóma
auðrunnr syni Gunnars.

Ok slíka för, segir Skarphèðinn, skaltu fara, eða selja

Högna sjálfdæmi, ef hann vildi taka. Högni kvaðst hitt hafa ætlat at sættast ekki við föðurbana sína, en þó tók hann sjálfdæmi um síðir.

*Cap. 80. Sæzt á víg Gunnars við Högna.* — Njáll átti hlut at við þá er eptirmál áttu eptir þá Starkað ok þórgeir, at þeir skyldu taka sættum, ok var hèraðsfundr til lagðr ok teknir menn til gerðar, ok voru virðir í allir hlutir, tilför við Gunnar, þótt hann væri sekr, en slíkt fègjald, sem gert var; þá galt Mörðr allt, því er þeir luku eigi fyrr upp gerðinni á hendr honum, enn gert var áðr um hitt málit, ok lètu þeir þat á endum standast, voru þeir þá alsáttir. En á þíngi var umræða mikil, ok kom þar at þeir sættust Geirr goði ok Högni, ok hèlzt sú með þeim síðan, bjó Geirr goði í Hlíð til dauðadags, ok er hann úr sögunni. Njáll bað konu til handa Högna, Álfeiðar, dóttur Vetrliða skálds, ok var hún honum gefin. þeirra son var Ari er sigldi til Hjaltlands ok kvângaðist þar, frá honum er kominn Einarr Hjaltlendíngr, enn vaskasti maðr. Högni hèlt vináttu við Njál, ok er hann úr sögunni.

*Cap. 81. Frá Kolskeggi er hann tók skírn.* — Nú er at segja frá Kolskeggi, at hann kemr til Noregs ok er í Vík austr um vetrinn, en um sumarit eptir ferr hann austr til Danmerkr, ok felst á hendi Sveini Danakonúngi Tjúguskegg ok hafði þar virðingar miklar. Einhverja nótt dreymir hann at maðr kom at honum, sá var ljóss ok þótti honum hann vekja sik, hann mælti við hann: Statt upp þú ok far með mèr! Hvat vilt þú mèr? segir hann. Ek skal fá þèr kvânfáng, ok skaltu vera riddari minn; hann þóttist játa því, eptir þat vaknaði hann. Síðan fór hann til spekíngs eins ok sagði honum drauminn, en hann rèð svâ at hann mundi fara suðr í lönd ok verða guðs riddari. Kolskeggr tók skírn í Danmörku, en nam þar þó eigi yndi ok fór austr í Garðaríki ok var þar einn vetr, þá fór hann þaðan út í Miklagarð ok gekk þar á mála. Spurðist þat síðast til hans,

at hann kvângaðist þar ok var höfðingi fyrir Væríngja liði ok var þar til dauðadags, ok er hann úr sögu þessi. —

*Cap. 82. Frá Þráni er hann drap Kol.* — Nú er þar til máls at taka at Þráinn Sigfússon kom til Noregs, þeir komu norðr við Hálogaland ok héldu suðr til Þrándheims ok svâ til Hlaða. En þegar Hákon jarl spurði þat, sendi hann menn til þeirra ok vildi vita hvat manna væri á skipi, þeir komu aptr ok sögðu honum hverir voru. Jarlinn sendi þá eptir Þráni Sigfússyni, ok kom hann á hans fund. Jarlinn spurði hverrar ættar hann væri, hann sagði, at hann væri skyldr mjök Gunnari at Hlíðarenda. Jarlinn mælti: Njóta skaltu þess, því at sèð hefi ek marga Íslendska menn ok öngan hans nóta. Þráinn mælti: Herra vilit þèr at ek sè með yðr í vetr? Jarl tók við honum, var Þráinn þar um vetrinn ok virðist vel. Kolr hèt maðr, hann var víkingr mikill, hann var son Ásmundar Eskisíðu austan úr Smálöndum. Hann lá í Gautelfi austr ok hafði fim skip ok lið mikit; þaðan hèlt Kolr úr elfinni til Noregs ok gekk upp á Foldinni ok kom á úvart Hallvarði Sóta, ok fundu hann í lopti einu. Hann varðist þaðan vel, þar til er þeir báru eld at, þá gafst hann upp, en þeir drápu hann ok tóku þar fè mikit, ok hèldu þaðan til Ljóðhúsa. Þessi tíðindi spurði Hákon jarl ok lèt dæma Kol útlaga um allt ríki sitt, og lagði fè til höfuðs honum. Einhverju sinni var þat at jarl tók svâ til orða: Offjarri er oss nú Gunnarr at Hlíðarenda, hann myndi drepa útlaga minn, ef hann væri hèr, en nú munu Íslendingar drepa hann, ok er þat illa er hann hefir eigi til vor farit. Þráinn Sigfússon svaraði: Eigi em ek Gunnarr, en þó em ek skyldr honum, ok vil ek játast undir þessa ferð. Jarl mælti: Þat vil ek gjarna, skal ok þína för allvel búa. Síðan tók Eiríkr son hans til orða: Við marga hafi þèr heit góð, en misjafnt þikkir út seljast; er þetta hin torvelligsta för, því at víkingr sjá er harðr ok illr viðreignar, muntu þurfa at vanda til ferðar þessar bæði menn ok skip. Þráinn mælti:

þó skal ek fara, þótt ferðin sè óríflig. Siðan fèkk jarl honum fim skip ok öll vel skipuð. Með þráni var Gunnarr Lambason ok Lambi Sigurðarson, Gunnarr var bróðurson þráins ok hafði komit til hans úngr, ok unni hvârr öðrum mikit. Eiríkr jarlsson gekk til með þeim ok hugði at mönnum ok vâpna alla ok skipti þar um er honum þótti þurfa. Siðan er þeir voru búnir fèkk Eiríkr þeim leiðsögumann, sigldu þeir þá suðr með landi, en hvar sem þeir kvæmi við, heimilaði jarl þeim þat er þyrfti at hafa. þeir hèldu austr til Ljóðhúsa, þá spurðu þeir at Kolr var farinn til Danmerkr, hèldu þeir þá suðr þángat; en er þeir komu suðr til Helsingjaborgar þar funðu þeir menn á báti, ok sögðu þeir at þar var Kolr fyrir, ok myndi þar dveljast um hríð. Einn tíma er veðrdagr var góðr, þá sá Kolr skipin er at fóru ok kvað sik dreymt hafa Hákon jarl um nóttina, ok kvað þetta vera myndu menn hans, ok bað alla menn sína taka vâpn sín. Síðan bjuggust þeir við ok tekst þar orrusta, berjast þeir lengi, svâ eigi urðu umskipti. Síðan hljóp Kolr upp á skip þráins ok ruddist um fast ok drepr margan mann, hann hafði gyltan hjálm. Nú sèr þráinn, at eigi mun duga, eggjar nú mennina með sèr, en hann gengr sjálfr fyrstr ok mætir Kol. Kolr höggr til hans, ok kom í skjöldinn þráins, ok klauf ofan skjöldinn, þá fèkk Kolr steinshögg á höndina, fèll þá niðr sverðit. þráinn hjó til Kols, ok kom á fótinn svâ at aftók, eptir þat drápu þeir Kol; hjó þráinn höfuð af honum, en steyptu búkinum fyrir borð, en varðveittu höfuð hans, þeir tóku þar fè mikit. Hèldu þá norðr til þrándheims ok fara á fund jarls, tekr jarl vel við honum. Hann sýndi jarli höfuð Kols, en jarl þakkaði honum verk þat. Eiríkr kvað meira vert enn orða einna. Jarlinn svaraði at svâ var, ok bað þá gánga með sèr: gengu þeir þángat sem jarl hafði gera látit skip gott, þat er eigi var gert sem lángskip, þar var gammshöfuð á

ok búit mjök. Jarl mælti: þú ert skrautmenni mikit, þráinn, ok hafit þit svâ verit báðir frændr, þit Gunnarr, vil ek nú gefa þèr skip þetta, en skipit heitir Gammr, þar skal fylgja með vinátta min, vil ek at þú sèr með mèr svâ lengi sem þú vilt. Hann þakkaði honum velgerníng sinn, ok kvaðst ekki fýsast til Íslands at svâ búnu. Jarl átti ferð austr til landamæris at finna Sviakonúng, fór þráinn með honum um sumarit ok var skipstjórnarmaðr ok stýrði Gamminum, ok sigldi svâ mikit at fáir þyrftu við hann, ok var hann öfundaðr mjök; en þat fannst á jafnan at jarl virði mikils Gunnar, þvíat hann setti þá harðliga aptr alla, er á þráin leituðu. Var þráinn með jarli allan þann vetr, en um vârit spurði jarl þráin hvârt hann vildi þar vera eða fara til Íslands, en hann kvaðst eigi þat hafa ráðit við sik, ok sagðist vita vilja áðr tíðindi af Íslandi. Jarl sagði at svâ skyldi vera, sem honum þótti henta, var þráinn með jarli. þá spurðust tíðindi af Íslandi, þau er mörgum þótti mikil: lát Gunnars frá Hlíðarenda, þá vildi jarl eigi at þráinn færi út, ok var hann með honum eptir.

*Cap. 83. Utanferð Njálssona.* — Nú er þar til máls at taka, at þeir Grímr ok Helgi, synir Njáls, fóru af Íslandi þat sumar, sem þeir þráinn fóru utan, ok voru á skipi með þeim Ólafi úr Eldu Ketilssyni ok Bárði hvíta. þeir tóku norðanveðr svâ hörð, at þá bar suðr í haf, ok rak yfir myrkr svâ mikit, at þeir vissu eigi, hvar þeir fóru, ok höfðu þeir útivist lánga. þá komu þeir þar er grunnsævi var mikit, ok þóttust þeir vita, at þat mundi vera nær löndum. þeir Njálssynir spurðu, ef Bárðr vissi nokkut til, hverjum löndum þeir myndu næst vera. Mörg eru til, segir hann, at því sem vèr höfum veðrföll haft: Eyar eða Skotland eða Írland. Tveim nóttum síðar sá þeir lönd á bæði borð en boða mikinn inn á fjörðinn; þeir köstuðu akkerum fyrir utan boðann. þá tók at

lægja veðrit, en um morguninn var logn, sjá þeir þá fara þrettán skip út at sèr. Þá mælti Bárðr: Hvat skal nú til ráða taka? þvíat menn þessir munu veita oss atsókn. Síðan ræddu þeir hvârt þeir skyldu verja sik eða gefast upp, en áðr þeir höfðu ráðit komu at víkingar. Spurðu þá hvârir aðra at nöfnum, hvat fyrirmenn hèti, þá nefndust fyrirmenn kaupmanna, ok spurðu í móti hverir fyrir liði þeirra væri. Annarr nefndist Grjótgarðr, en annarr Snækólfr, synir Moldans úr Dungalsbæ í Skotlandi, frændr Melkólfs Skota konúngs; ok eru kostir tveir af oss gervir, segir Grjótgarðr, at þèr gángit á land, en vèr munum taka fè yðvart, hinn er annarr, at vèr munum sækja at yðr ok drepa hvern mann, er vèr fám. Helgi svarar: Þat vilja kaupmenn at verja sik. Þá mæltu kaupmenn: Mæl þú alsvesall! hverja vörn munu vèr veita? ok er fè fjörvi firra. Grímr tók þat ráðs, at hann æpti á víkingana ok lèt þá eigi heyra illan kur kaupmanna. Bárðr ok Olafr ræddu: Hyggit þèr eigi at Íslendíngar muni gera spott at látum yðrum, takit heldr vopn yður ok verit yðr! tóku þeir þá allir til vâpna ok festu þat með sèr, at þeir skyldu alldri uppgefast meðan þeir mætti verja sik.

*Cap. 84. Frá Kára Solmundarsyni.* — Víkingar skutu á þá ok tókst orrusta ok verja kaupmenn sik vel. Snækólfr hleypr at Ólafi ok leggr í gegnum hann með spjóti. Grímr leggr til Snækólfs spjóti, ok svâ fast at hann fèll útbyrðis. Helgi snerí þá móts við Grím, ok ráku þeir ofan alla víkínga ok jafnan vorn þeir Njálssynir þar er mest þurfti. Víkingar kölluðu ok báðu kaupmenn uppgefast; þeir sögðu, at þeir myndi alldri uppgefast. I þessu varð þeim litit til hafs: sjá þeir skip fara sunnan fyrir nesit, ok voru eigi færri enn tíu, þeir róa mikinn ok stefna at þángat. Er þar skjöldr við skjöld, en á því skipi, er fyrst fór, stóð maðr við siglu, sá var i silkitreyu ok hafði gyldan hjálm, en hárit bæði mikit ok fagrt; sjá maðr hafði spjót gullrekit i hendi, hann

spurði: Hverir eiga hèr leik svâ ójafnan? Helgi sagði til sín ok sagði at í móti voru þeir Grjótgarðr ok Snækólfr. En hverir eru stýrimenn? sagði hann. Helgi svaraði: Bárðr svarti, er lifir, en annarr er látinn, er Ólafr heitir. Erut þit, segir hann, Íslendskir menn? Svâ er víst, segir Helgi. Hann spurði hvers synir þeir væri, þeir sögðu; þá kannaðist hann við ok mælti: Nafnfrægir erut þèr feðgar. Hverr ertu? segir Helgi. Kári heiti ek, ok em ek Solmundarson. Hvaðan komtu at? segir Helgi. Úr Suðreyum. Þá ert þú vel at kominn, segir Helgi, ef þú vilt veita oss nokkut. Veita slíkt sem þèr þurfit, segir Kári, eða hvers beiðit þèr? Veita þeim atlögu, segir Helgi. Kári sagði at svâ skyldi vera, lögðu þeir þá at þeim, ok tókst þá bardagi í annat sinn. En er þeir hafa barist um hríð, hleypr Kári upp, á skip til Snækólfs, hann snýr í móti honum ok höggr til hans. Kári hleypr yfir slá eina er lá um þvert skipit aptr öfugr. Snækólfr hjó í sláua, svâ at fal báða eggteina sverðsins. Kári höggr til hans, ok kom sverðit á öxlina, ok varð högg svâ mikit at hann klauf frá ofan höndina, ok hafði Snækólfr þegar bana. Grjótgarðr skaut spjóti til Kára. Kári sà þat ok hljóp í lopt upp, en spjótit misti hans. Í því voru þeir Helgi ok Grímr komnir til móts við Kára, hleypr þá Helgi at Grjótgarði ok leggr sverði í gegnum hann, ok varð þat hans bani. Gengu þeir þá um skip öll með báðum borðum, menn báðu sèr þá griða, gáfu þeir þá grið öllum, en tóku fè allt; eptir þat leggja þeir skipin öll út undir eyar.

*Cap. 85. Frà Sigurði jarli.* — Sigurðr hèt jarl er rèð fyrir Orkneyum, hann var Hlöðvisson, Þórfinnssonar hausakljúfs, Torf-Einarssonar, Rögnvaldssonar jarls af Mæri, Eysteinssonar Glumru. Kári var hirðmaðr Sigurðar jarls ok hafði tekit skatta af eyunum af Gilla jarli. Kári biðr þá nú fara til Hrosseyar ok sagði at jarl mundi vel við þeim taka, þeir þágu þat ok fóru með Kára ok komu til Hrosseyar. Kári fylgir þeim à fund jarls ok sagði hverir menn þeir voru

Hversu komu þeir, segir jarl, á þinn fund? Ek fann þá, sagði Kári, í Skotlandsfjörðum, ok börðust þeir við sonu Moldans jarls, ok vörðust þeir svâ vel at þeir urpu sèr jafnan meðal viðanna, ok voru þar jafnan sem mest var raunin; vil ek nú biðja þeim hirðvistar. Því skalt þú ráða, segir jarl, tekist hefir þú svâ mikit á hendr við þá áðr; þeir voru þá með jarli um vetrinn ok voru vel virðir. Helgi var hljóðr er á leið vetrinn. Jarl þóttist eigi vita hví þat myndi sæta, ok spurði hví hann væri hljóðr, ok spurði hvat honum þætti, eða þikki þèr hèr eigi gott? Gott þikki mèr hèr, segir Helgi. Hvat hugsar þú þá? segir jarl. Eigi þèr nokkurs ríkis at gæta á Skotlandi? segir Helgi. Svâ mun oss þikkja, segir jarl, eða hvat er at því? Helgi segir: Skotar munu hafa tekit sýslumann yðvarn af lífi ok tekit njósnir allar at öngar skyldi gánga yfir Petlandsfjörð. Jarl mælti: Ertu forspárr maðr? hann segir: Litt er þat reynt. Auka skal ek sæmd þína, segir jarl, ef þetta er svâ, ella mun þèr gjald at verða. Ekki er hann þess háttar maðr, segir Kári, ok mun hann satt tilsegja, þvíat faðir hans er forspárr. Síðan sendi jarl menn suðr til Straumeyar Arnljóti sýslumanni sínum, eptir þat sendi Arnljótr menn suðr yfir Petlandsfjörð, ok tóku þar njósnir ok frèttu þat at Hundi jarl ok Melsnati jarl höfðu tekit af lífi Hávarð í Þráðsvík mág Sigurðar jarls, sendi þá Arnljótr orð Sigurði jarli at hann skyldi koma suðr með lið mikit at reka jarla þessa af ríkinu. Þegar jarl spurði þetta, dró hann saman her mikinn um allar eyar.

*Cap. 86. Bardagi með Jörlum.* — Síðan fór jarl suðr með herinn, ok var Kári í för með honum ok svâ Njálssynir, þeir komu suðr við Katanes. Jarl átti þessi ríki i Skotlandi: Hross ok Myrævi, Syðrlönd ok Dali, komu þar at móti þeim menn af þeim ríkjum ok sögðu at jarlar væri þaðan skamt í braut með mikinn her. Þá snýr Sigurðr jarl þángat herinum, ok heitir þar Dungalsnípa er fundrinn var

fyrir ofan, ok laust í bardaga með þeim mikinn. Skotar höfðu látit fara sumt liðit laust, ok kom þat í opna skjöldu jarlsmönnum, ok varð þar mannfall mikit, þar er þeir Njálssynir sneru í móti þeim ok börðust við þá, ok komu þeim á flótta, verðr þá bardagi harðr, snúa þeir Helgi þá fram hjá merkinu jarls ok berjast vel. Nú snýr Kári í móti Melsnata jarli. Melsnati skaut spjóti til Kára, Kári hendi ok skaut aptr spjótinu ok í gegnum jarlinn. Þá flýði Hundi jarl, en þeir ráku flóttann allt þar til er þeir spurðu til Melkólfs jarls at hann dró her saman í Dungalsbæ, átti jarl þá ráð við menn sína, ok sýndist öllum þat ráð at snúa aptr ok berjast eigi við svâ mikinn landher, sneru þeir þá aptr. En er jarl kom í Straumey skiptu þeir þar herfángi, síðan fór hann norðr til Hrosseyar. Njálssynir fylgðu honum ok Kári. Jarl gerði þá veizlu mikla, ok at þeirri veizlu gaf jarl Kára sverð gott ok spjót gullrekit, en Helga gullhring ok skikkju, en Grími skjöld ok sverð. Eptir þat gerði hann þá hirðmenn sína, Grím ok Helga, ok þakkaði þeim framgöngu góða. Þeir voru með jarli þann vetr ok um sumarit, þar til er Kári fór í hernat; þeir fóru með honum, þeir herjuðu víða um sumarit ok fengu hvervetna sigr, þeir börðust við Guðröð konúng úr Mon ok sigruðu hann ok fóru við þat aptr ok höfðu fengit mikit fè; voru þeir enn með jarli um vetrinn. Um vârit beiddust þeir Njálssynir at fara til Noregs. Jarl mælti at þeir skyldi fara sem þeim líkaði, ok fèkk þeim gott skip ok röskva menn. Kári sagði at hann myndi þetta sumar koma til Noregs með skatta Hákonar jarls, ok mundu þeir þá finnast, ok svâ kom at þeir sammæltust á þat. Síðan lètu þeir Njálssynir út ok sigldu til Noregs ok komu norðr við Þrándheim.

*Cap. 87. Utanferð Hrapps.* — Kolbeinn hèt maðr ok var kallaðr Arnljótarson, hann var þrændskr maðr, hann sigldi þat sumar út til Íslands er þeir Kolskeggr ok Njálssynir fóru utan. Hann var þann vetr í Breiðdal austr, en um

vârit eptir bjó hann skip sitt i Gantavík, ok þá er þeir voru mjök búnir reri at þeim maðr á báti ok festi bátinn við skipit, en gekk síðan upp á skipit til fundar við Kolbein. Kolbeinn spurði þenna mann at nafni. Hrappr heiti ek, segir hann. Hvat viltu mèr? segir Kolbeinn. Ek vil biðja þik at þú flytir mik um Íslands haf. Kolbeinn spyrr: Hvers son ertu? Ek em son Aurgunleiða, Geirólfssonar Gerpis. Kolbeinn spurði: Hver nauðsyn er þèr á? Ek hefi vegit víg eitt, segir Hrappr. Hvert víg er þat? segir Kolbeinn, eða hverir eru til eptirmáls? Vâpnfirðingar, segir Hrappr, en ek vâ Aurlyg Aurlygsson, Hroðgeirssonar hins hvíta. Þess get ek at sá hafi verr er þik flytr, segir Kolbeinn. Hrappr mælti: Vinr em ek vinar míns, en geld ek þat er illa er til mín gert, enda skortir mik eigi fè til at leggja fyrir farit. Síðan tók Kolbeinn við Hrappi, litlu síðar gaf byr, ok sigla þeir í haf. Hrapp þraut vistir í hafi, settist hann þá at með þeim er næstir voru; þeir spruttu upp með illyrðum, ok svâ kom at þeir ráðast á, ok hefir Hrappr þá þegar undir tvâ menn, þá var sagt Kolbeini, ok bauð hann Hrapp í mötuneyti sitt, ok hann þá þat. Þeir koma af hafi ok leggja utan við Agðanes, þá spurði Kolbeinn hvar fè þat væri er hann bauð í leigu undir sik? Hrappr svarar: Þat er út á Íslandi. Verða muntu fleirum prettóttr enn mèr, en þó vil ek þèr nú uppgefa alla leiguna. Hrappr bað hann hafa þökk fyrir: eða hvat leggr þú nú til ráðs með mèr? Þat fyrst, segir hann, at þú far sem bráðast frá skipi, þvíat allir austmenn munu illa túlka fyrir þèr, en þó ræð ek þèr þat annat heilræði at þú svik alldri lánardrottinn þinn. Síðan gekk Hrappr á land upp með vopnum sinum ok hafði öxi eina mikla í hendi vafinskeptu. Hann ferr þar til er hann kemr til Guðbrands í Dala, hann var hinn mesti vin Hákonar jarls, þeir áttu hof báðir saman, ok var því alldri upp lokit nema þá jarl kom þángat, þat var annat mest hof í Noregi, en annat á Hlöðum. Þrándr hèt sonr Guðbrands, en Guð-

rún dóttir. Hrappr gekk fyrir Guðbrand ok kvaddi hann vel, hann spurði hvat manna hann væri. Hrappr sagði til sín at hann væri utan af Íslandi, síðan biðr hann Guðbrand at hann taki við honum. Guðbrandr mælti: Ekki lízt mèr svâ á þik sem þú munir gæfumadr vera. Mjök þikki mèr ok logit frá þèr, segir Hrappr, er þat var sagt at þú tækir við öllum þeim er þik bæði, ok engi maðr væri jafnágætr sem þú; mun ek því í móti mæla ef þú tekr eigi við mèr. Guðbrandr mælti: Hèr muntu vera hljóta. Hvar vísar þú mèr til sess? segir Hrappr. Á hinn úæðra bekk gagnvart öndugi mínu. Hrappr fór í sæti sitt, hann kunni frá mörgu at segja, var þat fyrst at Guðbrandi þótti gaman at ok mörgum öðrum, en þó kom svâ at mörgum þótti ofkeski, ok varð þat um síðir at til vanda dró með þeim Guðbrandi, er Hrappr drap verkstjóra hans ok komst á skóg undan. Guðbrandr samnar liði ok lèt kanna skóginn,' ok finna þeir hann eigi, þvíat skógrinn var mikill ok þraungr. Hrappr ferr um skóginn þar til er hann kom í rjóðr nokkut, þar fann hann húsabæ ok mann úti, ok klauf skíð, hann spurði þenna mann at nafni, ok nefndist hann Tófi. Tófi spurði at hans nafni, ok nefndist Hrappr sem hann hèt. Hrappr spurði hví bóndi bjuggi svâ fjarri öðrum mönnum? Því, segir hann, at ek þikkjumst hèr lítt þurfa at amast við aðra menn. Vit förum kynliga með okkr um málin, segir Hrappr, ok mun ek fyrr segja þèr hverr ek em: ek hefi verit með Guðbrandi í Dölum, ok stökk ek þaðan fyrir þat er ek drap verkstjóra hans; en ek veit at vit erum báðir illmenni, þvíat þú mundir ekki hèr kominn frá öðrum mönnum nema þú værir nokkurs manns útlagi, ok geri ek þèr tvâ kosti, at ek mun segja til þín, eða vit njótim báðir jafnt þess er hèr er. Bóndi mælti: Þetta er jafnt sem þú segir, ek nam konu þessa er hèr er hjá mèr, ok hefir margr maðr eptir mèr leitat. Síðan leiddi hann Hrapp inn með sèr, þar voru hús lítil ok vel gjör.

Bóndi sagði húsfreyu sinni at hann hafði Hrapp ráðit með sèr. Flestir munu af manni þessum íllt hljóta, segir hún, en þó muntu ráða vilja. Síðan var Hrappr þar, hann var förull mjök ok var alldri heima. Þeir sátu um hann feðgar, Þrándr ok Guðbrandr, ok varð þat alldri at þeir fengi honum náð, ok fór svâ fram öll þau misseri. Guðbrandr lèt segja Hákoni jarli hver vandræði hann hafði af Hrappi, jarl lèt dæma hann útlaga ok lagði fè til höfuðs honum, en hèt þó at fara sjálfr at leita eptir honum, en þat fórst þó fyrir; ok þótti jarli þeim sjálfrátt at taka hann er hann fór svâ úvarliga.

*Cap. 88. Þráinn tók við Hrappi.* — Þetta sumar hit sama fóru Njálssynir til Noregs af Orkneyum sem fyrr var ritat, ok voru þar í kaupstefnu um sumarit. Þráinn Sigfússon bjó þá skip sitt til Íslands ok var þá mjök albúinn, þá fór Hákon jarl á veizlu til Guðbrands. Um nóttina fór Vígahrappr til goðahúss þeirra jarls ok Guðbrands, hann gekk inn í húsit. Hann sá Þórgerði Höldabrúði sitja, ok var hún svâ mikil sem maðr roskinn, hún hafði mikinn gullhring á hendi ok fald á höfði. Hann sviptir hana faldinum ok tekr af henni gullhrínginn, þá sèr hann kerru Þórs ok tekr af honum annan gullhríng, hann tók hinn þriðja af Irpu ok dró þau öll út ok tók af þeim allan búnaðinn; síðan lagði hann eld í goðahúsit ok brendi upp, eptir þat gengr hann brot, tók þá at morna. Hann gengr um akrland nokkut, þar spruttu upp sex menn með vâpnum ok sækja þegar at honum, en hann verst vel; verða þær málalyktir at hann vegr þrjá menn, en særir Þránd til ólífis, en eltir tvâ til skógar, svâ at þeir báru öngva njósn jarli. Hrappr ætlar nú at snúa aptr á skóginn, sèr hann nú at menn eru komnir milli skógarins ok hans, treystist hann þá eigi þángat á at leita, leggst hann þá niðr í runna nokkura ok liggr þar um stund. Þeir Hákon jarl ok Guðbrandr gengu þenna morgin snemma til goðahússins ok fundu þat brunnit upp, en úti þrjú goðin ok úr

öllum skrúðanum. Þá tók Guðbrandr til orða: Mikill máttr er gefinn goðum vorum, er þau hafa gengit sjálf úr eldinum. Eigi munu goðin þessu valda, segir jarl, maðr mun brent hafa hofit, en borit út goðin; en goð hefna eigi alls þegar, mun sá maðr braut rekinn úr Valhöllu ok þar alldri koma, er þetta hefir gert. Í því bili hljópu þángat menn jarls fjórir ok sögðu þeim ill tiðindi: kváðust fundit hafa á akrinum menn þrjá vegna, en særðan Þránd til ólífis. Hverr mun sliku valda? segir jarl. Vígahrappr, segja þeir. Þá mun hann hafa brent upp goðahúsit, segir jarl; þeim þótti hann víst til þess likligr. Hvar mun hann nú vera? segir jarl. Þeir sögðu at Þrándr segði at hann hefði lagst niðr í runna nokkura. Jarl ferr þángat at leita, ok var Hrappr þá allr í brotu; skipaði jarl þá til at leita hans, ok fundu þeir hann eigi. Jarl var sjálfr í leitinni ok bað hann þá hvílast fyrst. Jarl gekk einn saman frá öðrum mönnum ok bað öngvan mann með sèr gánga, ok dvaldist um stund. Hann fèll á knè bæði ok hèlt fyrir augu sèr, síðan gekk hann aptr til þeirra; hann mælti við þá: Gángit þèr með mèr! þeir gengu með honum. Hann snýr þvers af leiðinni þeirri er þeir höfðu áðr farit, ok komu at dalverpi einu, þar spratt Hrappr upp fyrir þeim, ok hafði hann þar fólgit sik áðr. Jarl eggjar menn at hlaupa eptir honum, en Hrappr var svâ fóthvatr at þeir komust hvergi í nánd honum. Hrappr stefndi til Hlaða, þar voru þeir þá búnir til hafs hvârirtveggju, Þráinn Sigfússon ok Njálssynir. Hrappr hleypr þar at sem þeir eru fyrir Njálssynir, hann mælti: Bjargit mèr góðir drengir, þvíat jarl vill drepa mik. Helgi leit við honum ok mælti: Ógæfusamligr maðr ert þú, segir Helgi, ok mun sá betr hafa er eigi tekr við þèr. Þat mynda ek vilja, segir Hrappr, at þit hlytit af mèr mest illt. Maðr em ek til þess, segir Helgi, at hefna þèr þess þá er stundir líða. Hrappr sneri þá til móts við Þráin Sigfússon ok bað hann ásjá. Hvat er þèr á höndum? segir Þráinn

Brennt hefi ek goðahús fyrir jarli ok drepit menn nokkura, ok mun hann hèr koma brátt, þvíat hann er sjálfr í eptirleitinni. Varla samir mèr þat, segir Þráinn, svâ mikit gott sem jarl hefir mèr gert. Þá sýndi hann Þráni gripina, þá er hann hafði borit úr goðahúsinu, ok bauð at gefa honum fèit, Þráinn sagði at hann myndi eigi þiggja, nema annat fè kæmi í mót. Hrappr mælti: Hèr mun ek stað nema, ok skal mik hèr drepa fyrir augum þèr, ok mun þú þá bíða af hvers manns ámæli. Þá sjá þeir ferð jarls ok manna hans, þá tók Þráinn við Hrappi, en lèt skjóta báti, ok fluttist út á skipit. Þráinn mælti: Nú er þetta fylsni helst at brjóta botna úr tunnum tveim, ok skaltu þar fara í. Svâ var gert at hann fór í tunnurnar, ok voru bundnar saman síðan ok látnar fyrir borð. Þá kemr jarl með liði sínu til Njálssona ok spurði ef Hrappr hefði komit þar; þeir sögðu at hann kom. Jarl spurði hvert hann færi þaðan, þeir kváðust eigi reiður hafa á hent. Jarl mælti: Sá skyldi mikla sæmd af mèr hafa, er mèr segði til Hrapps. Grímr mælti hljótt við Helga: Fyrir hví skulum vit eigi segja? ek veit eigi nema Þráinn launi okkr öngu góðu. Eigi skulu vit segja at heldr, segir Helgi, þar er líf hans liggr við. Grímr mælti: Vera kann at jarl snúi á okkr hefndinni, þvíat hann er svâ reiðr at niðr munu nokkur verða at koma. Ekki munu vit at því fara, segir Helgi, en þó skulu vit nú brot leggja skipinu ok í haf þegar gefr; þeir leggja út undir eina ey, ok bíða þar byrjar. Jarl gekk at skipamönnum ok leitaði við alla þá, en allir duldu at nè eitt vissi til Hrapps, þá mælti jarl: Nú munu vèr gánga til Þráins fèlaga míns, ok mun hann selja fram Hrapp ef hann veit nokkut til. Eptir þat tóku þeir lángskip eitt ok fóru út til kaupskipsins. Þráinn kennir ferð jarls ok stendr upp ok heilsar honum blíðliga. Jarl tók því vel ok mælti svâ: Manns þess leitum vèr er heitir Hrappr ok er Íslendskr, hann hefir gert oss hvetvetna illt, viljum vèr nú þess biðja yðr at þèr selit

hann fram eða segit til hans. Þráinn mælti: Vissu þèr at ek drap útlaga yðvarn, herra, ok hætta þar til lífi minu, ok þá ek fyrir þat af yðr stórsæmdir. Meiri sæmdir skaltu nú hafa, segir jarl. Þráinn hugsaði nú fyrir sèr ok þóttist eigi vita hvat jarl myndi mest meta, þrætir þó nú at Hrappr sè þar, ok bað jarl leita; hann hafði litit við þat ok gekk á land einn frá öðrum mönnum ok var þá reiðr mjök, svâ at eingi maðr þorði við hann at mæla. Jarl mælti: Vísi mèr til Njálssona, ok skal ek nauðga þeim til at þeir segi mèr et sanna; þá var honum sagt at þeir höfðu út látit. Ekki má þat þá, segir jarl, en vatnkeruld tvö voru þar við skipit Þráins, ok má þar maðr vel hafa fólgizt i, ok ef Þráinn hefir fólgit hann, þá mun hann þar í vera, ok munu vèr nú fara í annat sinn at finna Þráin. Þráinn sèr þetta at jarl ætlar enn út, ok mælti: Svâ reiðr sem jarl var næstum, þá mun hann nú vera hálfu reiðari, ok liggr nú við líf allra manna þeirra er á skipinu eru, þeir hètu allir at leyna, þvíat hverr var um sik mjök hræddr; þeir tóku sekka nokkura úr búlkanum, en lètu Hrapp koma þar í staðinn, fóru nú aðrir sekkar á hann ofan þeir er lèttir voru. Nú kemr jarl, er þeir höfðu um Hrapp búit. Þráinn kvaddi vel jarl, jarl tók kveðju hans ok ekki skjótliga, sá þeir at jarl var allmjök reiðr. Jarl mælti til Þráins: Sel þú fram Hrapp, þvíat ek veit víst at þú hefir fólgit hann. Hvar mun ek hafa fólgit hann, herra? segir Þráinn. Þèr mun þat kunnigt, segir jarl, en ef ek skal geta til, þá ætla ek at þú hafir áðan fólgit hann í keruldunum. Eigi vilda ek at þèr vændit mik lýgi, heldr vilda ek at þèr leitaðit um skipit; þá fór jarl upp á skipit ok leitaði ok fann eigi. Berr þú mik nú undan? segir Þráinn. Fjarri ferr þat, segir jarl, en eigi veit ek hví vèr finnum hann eigi, en ek þikkjumst sjá allt i gegnum þá er ek kem á land, en þá

sė ek ekki til er ek kem hèr; lætr hann þá róa til lands með sik, hann var svâ reiðr at ekki mátti við hann mæla. Sveinn son hans var þar með honum, hann mælti: Undarligt skaplyndi er þat at láta óverða menn gjalda reiði sinnar. Jarl gekk þá einn í brot frá öðrum mönnum, síðan gekk hann þegar aptr til þeirra ok mælti: Róum vèr enn til þeirra, þeir gerðu svâ. Hvar mun hann fólginn verit hafa? segir Sveinn. Eigi mun þat nú skipta, segir jarl, þvíat hann mun nú í brautu vera þaðan: sekkir tveir lágu þar hjá búlkanum, ok mun Hrappr þar hafa komit í staðinn þeirra í búlkann. Þráinn tók til orða: Fram hrinda þeir enn skipinu, ok munu enn ætla út híngat til vor, skulu vèr nú taka hann úr búlkanum ok koma öðru í staðinn, en þó skulu sekkirnir lausir; þeir gerðu svâ. Þráinn mælti þá: Látum vèr Hrapp nú í seglit, þat var heflat upp við rána, þeir gera svâ. Jarl kemr þá til þeirra Þráins, var hann þá allreiðr ok mælti: Viltu nú selja fram manninn, Þráinn, ok er nú verra enn fyrr. Þráinn svarar: Fyrir löngu selda ek hann fram ef hann væri í minni varðveizlu, eða hvar mun hann verit hafa? Í búlkanum, segir jarl. Hví leituðut þèr hans eigi þar þá? segir Þráinn. Eigi kom oss þat í hug, segir jarl. Síðan leituðu þeir hans um allt skipit ok fundu hann eigi. Vilit èr mik nú undan bera? segir Þráinn. Víst eigi, segir jarl, þvíat ek veit at þú hefir fólgit manninn, þótt ek finna hann eigi, en heldr vil ek at þú níðist á mèr enn ek á þèr, segir jarl, fór hann þá til lands. Nú þikkjumst ek sjá, segir jarl, at Þráinn hefir fólgit Hrapp í seglinu. Þá rann á byrr, ok sigldu þeir Þráinn til hafs, hann mælti þá þetta er lengi hefir uppi verit haft síðan: Látum geisa Gamminn, gerat Þráinn vægja. En er jarl spurði orð Þráins, þá mælti hann: Eigi berr hèr til óvizka mín, heldr þat samband þeirra er þeim dregr báðum til hana. Þráinn var skamma stund í hafi ok kom til Íslands ok fór heim til bús sins. Hrappr fór með Þráni ok var með honum þau misseri; en

um vârit eptir fèkk Þráinn honum bú á Hrappsstöðum, ok bjó hann þar, hann var þó lengstum at Grjótá: hann þótti þar öllu spilla, þat mæltu sumir menn at víngott væri með þeim Hallgerði, ok hann fífldi hana, en sumir mæltu því í móti. Þráinn fékk Merði Úrækju, frænda sínum, Gamminn, sá Mörðr vâ Odd Haldórsson austr í Gautavík i Berufirði. Allir frændr Þráins héldu hann fyrir höfðingja.

*Cap. 89. Hákon jarl barðist við Njálssonu.* — Nú er þar til máls at taka er Hákon jarl misti Þráins, at hann mælti við Svein, son sinn: Tökum vit lángskip fjögur, ok förum at Njálssonum ok drepum þá, þvíat þeir munu vítat hafa með Þráni. Þat er eigi gott ráð, segir Sveinn, at snúa sökinni á úvalda menn, en láta þann undan setja er sekr er. Ek skal þessu ráða, segir jarl; halda þeir nú eptir Njálssonum ok leita þeirra ok finna þá undir eyu einni. Grímr sá fyrr skip jarlsins ok mælti til Helga: Herskip fara hèr, ok kenni ek at hèr er jarl, ok mun hann oss öngan frið bjóða. Þat er mælt, sagði Helgi, at sá sè hverr vaskr er sik verr við hvern sem hann á, skulu vèr ok verja oss. Allir báðu hann fyrir sjá, tóku þeir þá vâpn sín. Jarl kemr nú at, ok kallaði á þá ok bað þá upp gefast Helgi sagði, at þeir mundu verjast meðan þeir mætti. Jarl bauð öllum grið, þeim er eigi vildi verja sik eða Helga, en svâ var Helgi vinsæll at allir vildu deya með honum. Jarl sækir at ok hans menn, en þeir verjast vel, ok voru þeir Njálssynir þar jafnan sem mest var raun. Jarl bauð opt grið, en þeir svöruðu inu sama ok sögðust alldri mundu upp gefast. Þá sótti at þeim fast Áslákr úr Lángeyu ok komst upp á skipit þrim sinnum. Þá mælti Grímr: Þú sækir fast at, ok væri vel at þú hefðir eyrindi. Grímr þreif upp spjót ok skaut undir kverkina, ok hafði Áslákr þegar bana, litlu síðar vâ Helgi Egil, merkismann jarls. Þá sótti at Sveinn Hákonarson ok lèt bera at þeim skjöldu, ok urðu þeir handteknir. Jarl

vildi láta þegar drepa þá, enn Sveinn kvað þat eigi skyldu, ok sagði at væri nótt; þá mælti jarl: Drepi þá á morgin, en bindi þá ramliga í nótt. Svâ mun vera verða, segir Sveinn, en eigi hefi ek vaskari menn fyrir fundit enn þessa, ok er þat hinn mesti mannskaði at taka þá af lífi. Jarl mælti: Þeir hafa drepit tvâ ena vöskustu vora menn, ok skal fyrir þat drepa þá. Menn voru þeir at vaskari, segir Sveinn, en þó mun þetta gera verða sem þú vilt; voru þeir bundnir ok fjötraðir. Eptir þat sofnaði jarl, en þá er menn voru sofnaðir mælti Grímr til Helga: Braut vilda ek komast ef ek mætta. Leitu vit nokkurra bragða þá, segir Helgi. Grímr sèr at þar liggr öx ein, ok horfði upp eggin, Grímr skreið þángat til ok fær skorit af sèr bogastrenginn við öxinni, en þó fekk hann sár mikil á höndunum, þá leysti hann Helga. Eptir þat skreiddust þeir fyrir borð ok komust á land svâ at þeir Hákon urðu eigi varir við, þeir brutu af sèr fjötrana ok gengu annan veg á eyna, tók þá at morna. Þeir fundu þar skip ok kendu, at þar var kominn Kári Solmundarson, fóru þeir þegar á fund hans ok sögðu honum hrakning sína ok sýndu honum sár sín ok kváðu þá jarl mundu í svefni. Kári mælti: Illa verðr slíkt at þèr skulut taka hrakning fyrir vânda menn, eða hvat er nú gert at skapi ykkru? Fara at jarli ok drepa hann, segja þeir. Ekki mun þess auðit verða, segir Kári, en ekki skortir ykkr áhuga, en þó skulu vèr vita hvârt hann er þar nú. Síðan fóru þeir þángat, ok var jarl þá í brotu, þá fór Kári inn til Hlaða á fund jarls ok færði honum skattinn. Jarl mælti: Hefir þú tekit Njálssonu til þín? Svâ er víst, segir Kári. Viltu selja mèr fram Njálssonu? segir jarl. Þat vil ek eigi, sagði Kári. Viltu sverja þess at þú vildir eigi at mèr fara með Njálssonum? segir jarl. Þá mælti Eiríkr jarlsson: Ekki er slíks at leita, hefir Kári jafnan verit vinr vorr, ok skyldi eigi svâ farit hafa ef ek hefða við verit: Njálssynir skyldu hafa haldit öllu, en hinir skyldu haft hafa refsíng er

til höfðu gert; þætti mèr nú sæmiligra at gefa Njálssonum góðar gjafir fyrir hrakningar þær er þeir höfðu ok sárafar. Jarlinn mælti: Svâ mundi vera víst, segir hann, en eigi veit ek hvârt þeir vilja taka sættir; þá mælti jarl at Kári skyldi leita við Njálssonu um sættir. Síðan ræddi Kári við Helga hvârt hann vildi taka sæmdir af jarli eða eigi. Helgi sagði: Taka vil ek af syni hans Eiríki, en ekki vil ek eiga við jarl; þá sagði Kári Eiríki svör þeirra. Svâ skal vera, segir Eiríkr, at hann skal af mèr taka sæmdina, ef honum þikkir þat betra, ok segi þeim þat, at ek býð þeim til mín, ok skal faðir minn þeim ekki mein gera. Þetta þágu þeir ok fóru til Eiríks, ok voru með honum þar til er Kári var búinn vestr at sigla um haf á fund Sigurdar jarls, þá gerði Eiríkr Kára veizlu ok gaf honum gjafir ok svâ Njálssonum. Síðan fór Kári vestr um haf á fund Sigurðar jarls, ok tók hann við þeim allvel, ok voru með jarli um vetrinn. En um vârit bað Kári þá Njalssonu at þeir færi í hernað með honum, en Grímr kvaðst þat mundu gera ef hann vildi fara með honum út til Íslands, Kári hèt því. Fóru þeir þá með honum í hernað, þeir herjuðu suðr um Aungulseyar ok allar Suðreyar, þá hèldu þeir til Saltiris ok gengu þar upp ok börðust við landsmenn ok fengu þar fjár mikils ok fóru til skipa, þaðan fóru þeir suðr til Bretlands ok herjuðu þar. Þá hèldu þeir til Manar, þar mættu þeir Guðröði konúngi úr Mani. ok börðust þeir við hann ok höfðu sigr, ok drápu Dungal, son konúngs, þar tóku þeir fè mikit. Þaðan hèldu þeir norðr til Kolni ok fundu þar Gilla jarl, ok tók hann við þeim vel, ok dvöldust þeir með honum nokkura hríð. Jarl fór með þeim til Orkneya á fund Sigurðar jarls, en um vârit gipti Sigurðr jarl Gilla jarli Nereiði systur sína; fór hann þá í Suðreyar.

*Cap. 90. Útkváma Njálssona ok Kára.* — Þat sumar bjuggust þeir Kári ok Njálssynir til Íslands, ok þá er þeir voru albúnir gengu þeir á fund jarls; jarl gaf þeim góðar

gjafir, ok skildu þeir með mikilli vináttu, láta þeir nú í haf, þeir hafa útivistir skammar, og gaf þeim vel byri, ok komu við Eyrar. Þeir fengu sèr hesta ok ríða frá skipi til Bergþórshvols, en er þeir komu heim urðu allir menn þeim fegnir; þeir fluttu heim fè sitt ok rèðu skipi til hlunns, þar var Kári þann vetr með Njáli. En um vârit bað Kári dóttur Njáls, ok fluttu þeir Grímr ok Helgi með honum, ok lauk svâ at hún var föstnuð Kára, ok var ákveðin brúðlaupsstefna, ok var boðit hálfum mánaði fyrir mitt sumar, ok voru þau þann vetr með Njáli. Þá kaupti Kári land at Dýrhólmum austr í Mýdal ok gerði þar bú, þau fengu þar fyrir ráðamann ok ráðakonu, en þau voru með Njáli jafnan.

*Cap. 91. Deild Njálssona ok Þráins Sigfússonar.* — Hrappr átti bú á Hrappstöðum, en þó var hann at Grjótá jafnan, ok þótti hann þar öllu spilla. Þráinn var vel til hans. Einhverju sinni var þat þá er Ketill úr Mörk var at Bergþórshvoli, þá sögðu Njálssynir frá hrakningum sínum, ok kváðust mikit eiga at Þráni Sigfússyni, nær sem þeir talaði til. Njáll sagði at þat væri bezt at Ketill tali til við bróður sinn Þráin, hann hèt því, gáfu þeir Katli tómstund til at tala við Þráin. Litlu síðar inntu þeir til við Ketil, en hann kveðst fátt myndu herma frá orðum þeirra: þvíat þat fannst á at Þráni þótta ek mikils virða mágsemd við yðr. Síðan hættu þeir talinu, ok þóttust þeir sjá at erviðliga horfði, ok spurðu föður sinn ráðs hversu með skyldu fara, þeir kváðust eigi una at svâ búit stæði. Njáll sagði: Eigi er slíkt svâ úvant, þat mun þikkja um sakleysi ef þeir eru drepnir, ok er þat mitt ráð at skjóta at sem flestum um at tala vid þá, at sem flestum verði heyrinkunnigt ef þeir svara illa um. Þá skal Kári um tala þvíat hann er skapdeildarmaðr, mun þá vaxa óþokki með yðr, þvíat þeir munu hlaða illyrðum saman er menn eiga hlut at; þeir eru menn heimskir. Þat kann ok vera at mælt sè at synir mínir sè seinir til atgerða, ok skulut þèr þat þola um stundar sakir,

þvíat allt orkar tvímælis þá er gert er, en svâ fremi skulut þér orði ákoma, er þer ætlit nokkut at atgera ef yðvar er illa leitat. En ef þér hefðit við mik um ráðit í fyrstu, þá myndi alldri orði á hafa verit komit, ok myndi yðr þá eingi svívirða í vera; en nú hafit þér af ena mestu raun, ok mun þat þó svâ aukanda fara um yðra svívirðing, at þér munut ekki fá atgert fyrr enn þér leggit vandræði á yðr ok vegit með vâpnum, ok er því lánga nótt at at draga. Eptir þat hættu þeir talinu, ok varð hèr margs manns umræða á. Einhverju sinni var þat at þeir bræðr töluðu til at Kári myndi fara til Grjótár. Kára kvaðst önnur ferð þikkja betri, en lèzt þó mundu fara ef þetta væri ráð Njáls. Síðan ferr Kári til fundar við Þráin, tala þeir þá um málit, ok þikkir þeim eigi einn veg báðum. Kári kemr heim, ok spyrja þeir Njálssynir Kára hversu farit hefir með þeim. Kári kvaðst ekki herma myndu orðin: ok er meiri von at mælt sè slíkt svâ at þèr heyrit. Þráinn hafði fimtán karla vígra á bæ sínum, ok riðu átta með honum hvert er hann fór. Þráinn var skrautmenni mikit ok reið jafnan í blárri kápu ok hafði gyltan hjálm ok spjótit jarlsnaut í hendi ok fagran skjöld ok sverði gyrðr, með honum var jafnan í för Gunnarr Lambason ok Lambi Sigurðarson ok Grani, son Gunnars frá Hlíðarenda. Vígahrappr gekk honum þó næst jafnan. Loðinn hèt heimamaðr hans, hann var ok í ferðum með Þráni, Tjörfi hèt bróðir Loðins er enn var í ferðum með honum, þeir lögðu vest til þeirra Njálssona, Hrappr ok Grani, ok völdu mest er þeim var engi sætt boðin. Njálssynir ræddu opt við Kára at hann mundi fara með þeim, ok þat varð um síðir, ok sagði hann at þat var vel at þeir heyrði svör Þráins. Bjuggust þeir þá fjórir Njálssynir ok Kári enn fimti, þeir fara til Grjótár, þar var andyri breitt, ok máttu margir menn standa jafnfram. Kona ein var úti ok sá ferð þeirra ok sagði Þráni, hann bað menn gánga í andyrit ok taka vâpn sín, þeir gerðu svâ: stóð Þráinn í

miðjum dyrum, en þeir stóðu til sinnar handar hvârr, Vigahrappr ok Grani Gunnarsson, þá þar næst Gunnarr Lambason, þá Loðinn ok Tjörfi, þá Lambi Sigurðarson, þá hverr at hendi, þvíat karlar voru allir heima. Þeir Skarphèðinn gánga at neðan, ok gekk hann fyrstr, þá Kári, þá Höskuldr, þá Grímr, þá Helgi; en er þeir komu at neðan þá fèllust þeim allar kveðjur er fyrir voru. Skarphèðinn mælti: Allir sè vèr velkomnir! Hallgerðr stóð í andyrinu ok hafði talat hljótt við Hrapp, hún mælti: Þat mun engi mæla sá er fyrir er, at þèr sèð velkomnir. Skarphèðinn mælti: Ekki munu mega orð þín, þvíat þú ert annathvârt hornkerlíng eða púta. Goldin skulu þèr verða þessi orð, segir hún, áðr þú ferr heim. Helgi mælti: Þik em ek kominn at finna, Þráinn, ef þú vilt gera mer sæmd nokkura fyrir hrakníngar þær er ek hlaut í Noregi fyrir þínar sakir. Þráinn mælti: Alldri vissa ek at þit bræðr myndut gera drengskap ykkarn til fjár, eða hversu lengi skal fjárbón sjá yfir standa? Þat munu margir mæla, segir Helgi, at þú ættir at bjóða sættina, þar sem líf þitt lá við. Þá mælti Hrappr: Þar gerði nú gæfumuninn er sá hlaut skellinn er skyldi, ok dró yðr undir hrakníngina, en oss undan. Litil var þat gæfa, segir Helgi, at bregða trúnaði við jarl, en taka þik við. Þikkist þú eigi at mèr bótina eiga? segir Hrappr, ek mun bæta þèr því sem mèr þikki makligt. Þau ein skipti munu vit eiga, segir Helgi, at þèr mun ekki betr gegna. Skarphèðinn mælti: Skiptit ekki orðum við Hrapp, en gjaldit honum rauðan belg fyrir grán. Hrappr mælti: Þegi þú Skarphèðinn, ekki skal ek spara at bera mína öxi at höfði þèr. Reynt mun slíkt verða, segir Skarphèðinn, hverr grjóti hleðr at höfði öðrum. Farit heim taðskeglíngar, segir Hallgerðr, ok munu vèr yðr svâ jafnan kalla hèðan í frá, en föður yðvarn karl inn skegglausa! Þeir fóru eigi fyrr heim en allir urðu sekir þessa orða, þeir er fyrir voru, nema Þráinn, hann þekkti menn af orðum þessum. Þeir foru í braut

Njálssynir ok fóru þar til er þeir komu heim, þeir sögðu föður sínum. Nefndut þèr nokkura vâtta at orðunum? segir Njáll. Önga, segir Skarphèðinn, vèr ætlum ekki at sækja þetta nema á vâpnaþíngi. Þat mun engi nú ætla, segir Bergþóra, at þèr þorit vâpn at hefja. Hafðu lítit við, húsfreya, segir Kári, at eggja sonu þína, þvíat þeir munu þó ærit framgjarnir. Eptir þat tala þeir lengi hljott allir feðgar ok Kári Solmundarson, mágr þeirra.

*Cap. 92. Víg Þráins Sigfússonar.* — Nú verðr umræða mikil um deild þeirra, ok þóttust allir vita, at ei myndi sognrt sjatna. Runólfr, son Úlfs Aurgoða, austr í Dal, var vin Þráins mikill ok hafði boðit Þráni heim, ok var ákveðit at hann skyldi koma austr er þrjár vikur væri af vetri eða mánaðr. Þráinn bað til þessar ferðar Hrapp með sèr ok Grana, Gunnar Lambason ok Lamba Sigurðarson, Loðin ok Tjörfa, þeir voru átta, þær skyldu ok fara Þórgerðr ok Hallgerðr. Því lýsti ok Þráinn at hann ætlaði at vera í Mörk með Katli bróður sínum, ok kvað á hversu margar nætr hann ætlaði heiman at vera, þeir höfðu allir alvæpni. Riðu þeir austr yfir Markarfljót ok fundu þar konur snauðar, ok báðu at þær skyldi reiða yfir fljótit vestr, þeir gerðu svâ. Þá riðu þeir í Dal ok höfðu þar góðar viðtökur, þar var fyrir Ketill úr Mörk, sátu þeir þar tvær nætr. Runólfr ok Ketill báðu Þráin at hann mundi semja við Njálssonu, en hann kvaðst alldri mundu fè gjalda, ok svaraði styggt, en hann kveðst hvergi þikkjast varbúinn við Njálssonum, hvar sem þeir fyndist. Vera má at svâ se, segir Runólfr, en ek hefi hina skilníng, at engi sè þeirra maki sízt Gunnarr at Hlíðarenda lèzt, ok er þat líkara at hèr dragi öðrumhvârum til bana; Þráinn kvaðst ekki þat myndu hræðast. Þá fór Þráinn upp í Mörk ok var þar tvær nætr, síðan reið hann ofan í Dal ok var hvârtveggja útleystr með sæmiligum gjöfum. Markarfljót fèll í millum höfuðísa, ok voru spengr á hèr ok hvar. Þráinn sagði at hann ætlaði heim at ríða

um kveldit. Runólfr mælti at hann skyldi eigi heim ríða, sagði þat varligra vera at fara eigi sem hann hefði sagt. Þráinn svarar: Hræðsla er þat, ok vil ek þat eigi. Göngukonur þær er þeir reiddu yfir fljótit komu til Bergþórshvols, ok spurði Bergþóra hvaðan þær væri, en þær sögðust vera austan undan Eyafjöllum. Hverr reiddi yðr yfir Markarfljót? sagði Bergþóra. Þeir er mestir oflátar voru, sögðu þær. Hverir voru þeir? sagði Bergþóra. Þráinn Sigfússon, sögðu þær, ok fylgðarmenn hans, en þat þótti oss helzt at, segja þær, er þeir voru svâ fjölorðir ok illorðir híngat til bónda þíns ok sona hans. Bergþóra segir: Margir kjósa ekki orð á sik. Síðan fóru þær í brot, ok gaf Bergþóra þeim gjafir, ok spurði þær hvenær Þráinn myndi heim koma, þær sögðu at hann myndi vera heiman fjórar nætr eða fim. Síðan sagði Bergþóra sonum sinum ok Kára mági sínum, ok töluðu þau lengi leyniliga. En þann morgin hinn sama er þeir Þráinn riðu austan, þá vaknaði Njáll snemma ok heyrði at öx Skarphéðins kom við þilit; stendr þá Njáll upp ok gengr út, ok sèr at synir hans eru með vâpnum allir ok svâ Kári mágr hans. Skarphéðinn var fremstr, hann var í blám stakki ok hafði törguskjöld ok öxi sína reidda um öxl; næst honum gekk Helgi, hann var í rauðum kyrtli, hjálm á höfði ok rauðan skjöld, ok markaðr á hjörtr; næst honum gekk Kári, hann hafði silkitreyu, hjálm, gyltan skjöld, ok var dregit á leo, allir voru þeir í litklæðum. Njáll kallaði á Skarphéðin: Hvert skal fara, frændi? Í sauða leit, sagði hann. Svâ var eitt sinn fyrr, sagði Njáll, ok veiddu þèr þá menn. Skarphéðinn hló at ok mælti: Heyrit þèr hvat karlinn segir, eigi er hann gromlauss! Hvenær mæltu þèr þetta fyrr? segir Kári. Þá vâ ek Sigmund hvíta, frænda Gunnars, segir Skarphéðinn. Fyrir hvat? segir Kári. Hann hafði drepit Þórð leysingjason, fóstra minn. Njáll gekk heim, en þeir fóru upp í Rauðaskriður ok biðu þar, máttu þeir þaðan sjá þegar hinir riðu austan frá Dal, sólskin var

um daginn ok heiðviðri. Nú ríða þeir Þráinn ofan frá Dal eptir eyrunum. Lambi Sigurðarson mælti: Skildir blika við í Rauðaskriðum er sólin skínn á, ok mun þar vera nokkurra manna fyrirsát. Þá skulum vèr snúa ofan með fljótinu, segir Þráinn, ok munu þeir þá til móts við oss ef þeir eiga við oss nokkur eyrindi; snúa þeir þá ofan með fljótinu. Skarphèðinn mælti: Nú hafa þeir sèð oss, þvíat þeir snúa nú leiðinni, ok er oss nú engi annarr til enn hlaupa ofan fyrir þá. Kári mælti: Margir munu fyrir sitja at hafa eigi þannig liðsmun sem vèr, eru þeir átta, en vèr fim. Snúa þeir nú ofan með fljótinu, ok sjá yfir spöng niðri ok ætla þar yfir. Þeir Þráinn námu staðar upp frá spönginni á ísinum. Þráinn mælti: Hvat munu menn þessir vilja? þeir eru fim, en vèr erum átta. Lambi Sigurðarson mælti: Þess get ek at þó mundu þeir tilhætta, þótt manni stæði fleira fyrir. Þráinn ferr af kápunni ok tekr af sèr hjálminn. Þat varð Skarphèðni er þeir hljópu ofan með fljótinu, at stökk í sundr skóþvengr hans, ok dvaldist hann eptir. Hví hvikar þèr svâ, Skarphèðinn? kvað Grímr. Bind ek skó minn, segir hann. Föru vèr fyrir, segir Kári, svâ lízt mèr sem hann muni eigi verða seinni enn vèr; snúa þeir ofan til spángarinnar ok fara mikinn. Skarphèðinn spratt upp þegar er hann var búinn ok hafði uppi öxina Rimmugýgi; hann hleypr at fram at fljótinu, en fljótit var svâ djúpt at lángt var um úfært. Mikit svell var hlaupit upp öðrum megin fljótsins ok svâ hált sem gler, ok stóðu þeir þar á miðju svellinu. Skarphèðinn hefr sik á lopt ok hleypr yfir fljótit meðal höfuðísa ok stöðvar sik ekki ok rennir þegar af fram fótskriðu; svellit var hált mjök, ok fór hann svâ hart sem fugl flygi. Þráinn ætlaði at setja á sik hjálminn. Skarphèðin bar nú at þeim, ok höggr til Þráins með öxinni Rimmugýgi, ok kom í höfuðit, ok klauf ofan í jaxlana svâ at þeir fèllu niðr á ísinn; þessi atburðr varð með svâ skjótri svipan at engi kom höggvi á hann, hann rendi þegar frá óðfluga. Tjörfi rendi fyrir

hann törgu, ok steðjaði hann yfir upp ok stöðst þó ok rennir á enda svellsins, þá koma þeir Kári í móti honum. Karlmannliga er at farit, segir Kári. Eptir er enn yðar hluti, segir Skarphèðinn ok kvað vísu:

> Auðs, kom ek eigi síðar
> enn til vâpna sennu,
> ærr þvíat æskirýri
> allharðan lèt ek falla.
> En þvíat jarl hrauð unnar
> elg fyrir Grím ok Helga,
> nú er eldviðum öldu
> efni slíks at hefna.

Ok þessa aðra:

> Brátt lèt ek brynju hætta
> bengríði fram ríða;
> fyldi heldr á holdi
> hrafn vând gjálpar nafna.
> Veitit Hrapp sem hètut
> hríð á ísi víðum;
> rèð saung rostu ljóðum
> Rimmugýgr til dimmum.

Þat mun nú vel fallit, segir Helgi; snúa þeir þá upp at þeim. Þeir Grímr ok Helgi sjá hvar Hrappr var, ok sneru þegar at honum. Hrappr höggr þegar til Gríms með öxinni. Helgi sèr þetta ok höggr á höndina Hrappi svâ at aftók, en niðr fèll öxin. Hrappr mælti: Þetta hefir þú mikit nauðsynjaverk unnit, þvíat þessi hönd hefir mörgum mönnum mein gert ok bana. Hèr skal nú ok endir á verða, segir Grímr, ok lagði spjóti í gegnum hann, fèll Hrappr þá dauðr niðr. Tjörfi snýr í móti Kára ok skýtr at honum spjóti. Kári hljóp í lopt upp, ok flaug spjótit fyrir neðan fætr Kára. Kári hleypr at honum ok höggr til hans með sverðinu á brjóstit ok þegar á hol, hafði hann þegar bana

Skarphéðinn grípr þá báða, Gunnar Lambason ok Grana Gunnarsson, ok mælti: Tekit hefi ek hèr hvelpa tvâ, eða hvat skal við gera? Kosti áttir þú, segir Helgi, at drepa hvârntveggja ef þú vildir þá feiga. Eigi nenni ek at hafa þat saman at veita Högna enda drepa bróður hans. Koma mun þar einhverju sinni, segir Helgi, at þú mundir hafa viljat drepa hann, þvíat alldri mun hann þèr trúr verða, ok engi þeirra er hèr er nú. Skarphèðinn svarar: Ekki mun ek hræðast þá. Síðan gáfu þeir grið Grana Gunnarssyni ok Gunnari Lambasyni ok Lamba Sigurðarsyni ok Loðni. Eptir þat sneru þeir heim, ok spurði Njáll tíðinda: þeir sögðu honum öll sem gèrst. Njáll mælti: Mikil eru tíðindi þessi, ok er þat likara, at hèr leiði af dauði eins sonar míns, ef eigi verðr meira at. Gunnarr Lambason flutti lík Þráins með sèr til Grjótár, ok var hann þar heygðr.

*Cap. 93. Sáttarfundr eptir víg Þráins.* — Ketill úr Mörk átti Þórgerði, dóttur Njáls, en var bróðir Þráins, ok þóttist hann vant við kominn ok reið til Njáls ok spurði hvârt hann vildi nokkut bæta víg Þráins. Njáll svaraði: Bæta vil ek svâ at vel sè, ok vil ek at þú leitir þessa við bræðr þína, þá er bætr eigu at taka, at þeir taki sættum. Ketill kvaðst þat vilja gera gjarna. Ketill reið heim fyrst, litlu síðar stefndi hann öllum bræðrum sínum til Hlíðarenda: tekr hann þar umræðu við þá, ok var Högni með honum í allri umræðu, ok kom svâ at menn voru til gerðar teknir, ok lagðr til fundr, ok voru ger manngjöld fyrir víg Þráins, ok taka þeir allir við bótum sem lög stóðu til. Síðan var mælt fyrir trygðum, ok búit um sem trúligast; greiddi Njáll fè allt af hendi vel ok sköruliga, var þá kyrt um stund. Einhverju sinni reið Njáll upp í Mörk, ok töluðu þeir Ketill allan dag, reið Njáll heim um kveldit, ok vissi engi maðr hvat í ráðagerð hafði verit. Litlu síðar ferr Ketill til Grjótár, hann mælti til Þórgerðar: Lengi hefi ek mikit unnt Þráni bróður mínum, mun ek þat nú sýna, þvíat ek vil

bjóða Höskuldi til fóstrs, syni Þráins. Gera skal þèr kost á þessu, segir hún: þú skalt veita þessum sveini allt þat er þú mátt þá er hann er roskinn, ok hefna hans ef hann er með vâpnum veginn ok leggja fè til kvânarmundar honum, ok skaltu þó sverja þess. Hann játaði þessu öllu, ferr Höskuldr nú heim með Katli ok er með honum nokkura hríð.

*Cap. 94. Njáll tók við Höskuldi.* — Einhverju sinni ríðr Njáll upp í Mörk, ok var tekit við honum vel, þar var hann um nóttina. Um kveldit kallaði Njáll á sveininn Höskuld, ok gekk hann at honum þegar. Njáll hafði fingrgull á hendi ok sýndi sveininum, hann tók við gullinu ok leit á ok dró á fingr sèr. Njáll mælti: Viltu þiggja gullit at gjöf? Vil ek, segir sveinninn. Veiztu, segir Njáll, hvat föður þínum varð at bana? Sveinninn svarar: Veit ek at Skarphèðinn vâ hann, ok þurfum vit ekki á þat at minnast, er sæzt hefir á verit, ok fullar bætr fyrir komit. Betr er svarat, sagði Njáll, enn ek spurða, ok munt þú verða góðr maðr, segir hann. Góðar þikkja mèr spásögur þínar, segir Höskuldr, þvíat ek veit at þú ert forspárr ok úlýginn. Njáll mælti: Nú vil ek bjóða þèr fóstr ef þú vilt þiggja; hann kvaðst þiggja vilja bæði þann sóma ok annan þann sem hann gerði honum. Urðu þær málalyktir at Höskuldr fór heim með Njáli til fóstrs, hann lèt sveininum ekki í mein ok unni mikit. Synir Njáls leiddu hann eptir sèr ok gerðu honum allt til sóma. Nú líðr þar til er Höskuldr er frumvaxti, hann var bæði mikill ok sterkr, manna fríðastr sýnum ok hærðr vel, blíðr í máli, örlátr, stilltr vel, manna bezt vígr, góðorðr til allra manna ok vinsæll. Njálssonu ok Höskuld skildi aldri á ord nè verk.

*Cap. 95. Frá Flosa Þórðarsyni.* — Maðr er nefndr Flosi, hann var sonr Þórðar Freysgoða. Móðir Flosa var Ingunn, dóttir Þóris af Espihóli, Hámundarsonar Heljarskinns, Hjörssonar, Hálfssonar þess er rèð fyrir Hálfsrekkum, Hjörleifs ins kvensama. Móðir Þóris var Ingunn, dóttir

Helga hins magra er nam Eyafjörð. Flosi átti Steinvöru, dóttur Halls af Síðu, hún var laungetin, ok hèt Sólvör móðir hennar, dóttir Herjólfs hvíta. Flosi bjó at Svínafelli ok var höfðingi mikill, hann var mikill vexti ok styrkr, manna kappsamastr. Bróðir hans hèt Starkaðr, hann var samfeðra við Flosa, móðir Starkaðar var Þraslaug, dóttir Þórsteins Titlings, Geirleifssonar; en móðir Þraslaugar var Uðr, hún var dóttir Eyvindar Karfa, landnámamanns, ok systir Móðólfs ens spaka. Bræðr Flosa voru þeir Þórgeirr ok Steinn, Kolbeinn ok Egill. Hildiguðr hèt dóttir Starkaðar, bróður Flosa, hún var skörúngr mikill ok kvenna fríðust sýnum, hún var svâ hög at fár konur voru jafnhagar henni, hún var allra kvenna grimmust ok skaphörðust, ok drengr góðr, þar sem vel skyldi vera.

*Cap. 96. Frá Síðu-Halli.* — Hallr hèt maðr er kallaðr var Síðu-Hallr, hann var Þórsteinsson Böðvarssonar. Móðir Halls hèt Þórdís ok var Özurardóttir Hroðlaugssonar, Rögnvaldssonar jarls af Mæri, Eysteinssonar Glumru. Þórsteinn hèt bróðir Halls ok var kallaðr Breiðmagi, son hans var Kolr er Kári vegr í Bretlandi. Synir Halls á Síðu voru þeir Þórsteinn ok Egill, Þórvaldr ok Ljótr, ok Þiðrandi þann er sagt er at dísir vægi. Þórir hèt maðr ok var kalladr Holta-Þórir, hans synir voru þeir Þórgeirr Skorargeirr, ok Þórleifr Krákr er Skógverjar eru frá komnir, ok Þórgrimr hinn mikli.

*Cap. 97. Kvânfáng Höskulðar Hvítanes-goða.* — Nú er þar til máls at taka at Njáll talaði við Höskuld fóstra sinn: Kvânfángs vilda ek leita þèr. Höskuldr bað hann fyrir ráða ok spurði hvar hann myndi helzt áleita. Njáll svarar: Kona heitir Hildigunnr ok er Starkaðardóttir, Þórðarsonar Freysgoða, þann veit ek kost beztan. Höskuldr mælti: Sjá þú fyrir fóstri, þat skal mitt ráð sem þú vilt vera láta. Hèr munu vit áleita, segir Njáll. Litlu síðar kvaddi Njáll menn til ferðar með sèr, þar fóru Sigfússynir ok Njálssynir allir

ok Kári Solmundarson, þeir riðu austr til Svínafells, fá þeir þar góðar viðtökur. Um daginn eptir gánga þeir Njáll ok Flosi á eintal, koma niðr ræður Njáls at hann sagði svâ: Þat er erindi mitt híngat at vèr förum bónorðs för at biðja Hildigunnar, frændkonu þinnar. Fyrir hvers hönd? segir Flosi. Fyrir hönd Höskuldar, fóstra míns, segir Njáll. Vel er slíkt stofnat, segir Flosi, en þó hafit þèr hættumikit hvârir við aðra, eða hvat segir þú frá Höskuldi? Gott má ek frá honum segja, segir Njáll, ok skal ek þar til fè leggja svâ at yðr þikki sæmiliga, ef þèr vilit þetta mál at álitum gera. Kalla munu vèr á hana, segir Flosi, ok vita hversu henni lítist maðr; var þá kallat á Hildigunni, ok kom hún þángat. Flosi sagði henni bónorðit, hún kvaðst vera kona skapstór, ok veit ek eigi hversu mèr er hent við þat er þar eru svâ menn fyrir, en þat þó eigi síðr at sjá maðr hefir ekki manna forráð, ok hefir þú þat mælt at þú myndir eigi gipta mik goðorðslausum manni. Þat er ærit eitt til, segir Flosi, ef þú vilt eigi giptast Höskuldi at þá mun ek öngan kost ágera. Þat mæli ek eigi, segir hún, at ek vilja eigi giptast Höskuldi ef þeir fá honum manna forráð, en ella mun ek engan kost ágera. Njáll mælti: Þá vil ek bíða láta mín um þetta mál þrjá vetr. Flosi sagði at svâ skyldi vera. Þann hlut vilda ek til skilja, segir Hildigunnr, ef þessi ráð takast, at vit værim austr hèr. Njáll kvaðst þat vilja skilja undir Höskuld, en Höskuldr kvaðst mörgum vel trúa, en engum jafnvel sem fóstra sínum. Nú ríða þeir austan. Njáll leitaði Höskuldi um manna forráð, ok vildi engi selja sitt goðorð, líðr nú sumarit til alþingis. Þetta sumar voru þíngdeilðir miklar, gerði þá margr sem vant var at fara til fundar við Njál; en hann lagði þat til mála manna sem ekki þótti likligt, at eyddust sóknir ok varnir, ok varð af því þræta mikil er málin máttu eigi lúkast, ok riðu menn heim af þíngi ósáttir: líðr nú þar til er kemr annat þíng. Njáll reið til þíngs, ok er fyrst kyrt þíngit allt þar til er

Njáll talar at mönnum væri mál at lýsa sökum sínum. Margir mæltu at til lítils þætti þat koma, en engi kvæmi sínu máli fram, þótt til alþingis væri stefnt: ok vilju vèr heldr, segja þeir, heimta með oddi ok eggju. Svâ má eigi vera, segir Njáll, ok hlýðir þat hvergi at hafa eigi lög í landi; en þó hafit þèr mikit til yðars máls um þat, ok kemr þat til vor er lögin kunnum ok þeim skulum stýra, at sætta mennina, ok efla friðinn: þikki mèr þat ráð at vèr kallimst saman, allir höfðíngjar, ok talim um; þeir gengu þá til lögrèttu. Njáll mælti: þik kveð ek at þessu, Skapti Þóroddsson, ok aðra höfðíngja, at mèr þikkir sem málum vorum sè komit í ónýtt efni, ef vèr skulum sækja mál í fjórðúngsdómnum, ok verði svâ vafit at eigi megi lyktast nè framgánga. Þætti mèr þat ráðligra at vèr ættim einn fimtardóm ok sæktim þau mál þar í, er eigi mega lyktast í fjórðúngsdómi. Skaltu, sagði Skapti, nefna fimtardóminn er fyrir forn goðorð er nefndr fjórðúngsdómr, þrennar tylftir í fjórðúngi hverjum. Sjá mun ek ráð til þess, segir Njáll, at taka upp ný goðorð, þeir er bezt eru til fallnir úr fjórðúngi hverjum, ok segist þeir í þíng með þeim er þat vilja samþykkja. Þenna kost viljum vèr, segir Skapti, eða hve vandar sóknir skulu hèr vera? Þau mál skulu hèr í koma, segir Njáll, um alla þíngs afglöpun, ef menn bera ljúgvitni ok ljúgkviðu, hèr skulu ok í koma vefángs mál öll, þau er menn vefengja í fjórðúngsdómi, ok skal þeim stefna til fimtardóms, svâ ok ef menn bjóða fè eða taka til liðs sèr: í þessum dómi skulu vera allir enir styrkustu eiðar ok fylgja tveir hverjum eiði, er þat skulu leggja undir þegnskap sinn er hinir sverja. Svâ skal ok, ef annarr ferr með rètt mál, en annarr með rángt, þá skal eptir þeim dæma er rètt fara at sökn. Hèr skal ok sækja hvert mál sem í fjórðúngsdómi, utan þat þá er nefndar eru fernar tylftir í fimtardóm, þá skal sækjandi nefna sex menn úr dómi, en verjandi aðra sex menn; en ef hann vill eigi

nefna úr, þá skal sækjandi nefna þá úr sem hina; en ef sækjandi nefnir eigi úr, þá er ónýtt málit, þvíat þrennar tylftir skulu um dæma. Vèr skulum ok hafa þá lögrèttuskipun at þeir skulu rèttir at ráða fyrir lögum er sitja á miðjum pöllum, ok skal þá velja til þess er vitrastir eru ok bezt at sèr; þar skal ok vera fimtardómr, en ef þeir verða eigi ásáttir er i lögrèttu sitja hvat þeir vilja lofa eða i lög leiða, þá skulu þeir ryðja lögrèttu til, ok skal ráða afl með þeim. En ef sá er nokkurr fyrir utan lögrèttu, at eigi nái inn at gánga, eða þikkist borinn vera máli, þá skal hann verja lýriti svá at heyri i lögrèttu, ok hefir hann þá ónýtt fyrir þeim öll lof þeirra ok allt þat er þeir mæltu til lögskila ok varði lýriti. Eptir þat leiddi Skapti Þóroddsson i lög fimtardóm ok allt þat er upp var talit. Eptir þat gengu menn til lögbergs, tóku menn þá upp ný goðorð; i Norðlendingafjórðúngi voru þessi ný goðorð: Melmanna goðorð i Miðfirði ok Laufæsinga goðorð i Eyafirði. Þá kvaddi Njáll sèr hljóðs ok mælti: Þat er mörgum mönnum kunnigt hversu fór með sonum minum ok Grjótár mönnum, er þeir drápu Þráin Sigfússon, en þó sættumst vèr á málit, ok hefi ek nú tekit við Höskuldi ok ráðit honum kvânfáng ef hann fær goðorð nokkut, en engi vill selja sitt goðorð: vil ek biðja yðr at þèr lofit mèr at taka upp nýtt goðorð á Hvitanesi til handa Höskuldi. Hann fèkk þat af öllum. Siðan tók hann upp goðorð til handa Höskuldi, ok var hann siðan kallaðr Höskuldr Hvitaness-goði. Eptir þat riða menn heim af þingi. Njáll dvaldist skamma stund heima áðr hann riðr austr til Svinafells, ok synir hans, ok vekr bónorðit við Flosa, en Flosi kvaðst efna myndu við þá öll mál: var þá Hildigunnr föstnuð Höskuldi ok kveðit á brúðlaups stefnu, ok lýkr svâ með þeim. Riða þeir þá heim, en i annat sinn riðu þeir til brúðlaups, leysti Flosi út allt fè hennar eptir boðit, ok fór þat vel af hendi. Fóru þau til Bergþórshvols, ok voru þau þar en næstu misseri, ok fór allt vel með þeim Hildigunni ok Bergþóru; en um vârit

eptir keypti Njáll land í Ossabæ ok fær þat Höskuldi, ok ferr hann þángat bygðum sínum. Njáll rèð honum hjón öll, ok svâ var dátt með þeim öllum, at öngum þótti ráð ráðit nema hverr rèðist við annan um; bjó Höskuldr í Ossabæ lengi svâ at hvârir studdu annarra sæmd, ok voru synir Njáls í ferðum með honum. Svâ var ákaft um vináttu þeirra at hvârir buðu öðrum heim hvert haust ok gáfu stórgjafir. Ferr svâ lengi fram.

*Cap. 98. Dráp Höskuldar Njálssonar.* — Maðr hèt Lýtíngr, hann bjó á Sámstöðum, hann átti konu er Steinvör hèt, hún var Sigfúsdóttir, systir Þráins. Lýtíngr var mikill maðr vexti ok styrkr, auðigr at fè ok illr viðreignar. Þat var einhverju sinni at Lýtíngr hafði boð inni á Sámstöðum, hann hafði þángat boðit Höskuldi ok Sigfússonum, ok kvomu þeir allir; þar var ok Grani Gunnarsson ok Gunnarr Lambason ok Lambi Sigurðarson. Höskuldr Njálsson ok móðir hans áttu bú í Holti, ok reið hann jafnan til bús sins frá Bergþórshvoli, ok lá leið hans um garð á Sámstöðum. Höskuldr átti son er Ámundi hèt, hann hafði blindr verit borinn, hann var þó mikill vexti ok öflugr. Lýtíngr átti bræðr tvâ, hèt annarr Hallsteinn, en annarr Hallgrímr, þeir voru enir mestu úreiðumenn, ok voru þeir jafnan með bróður sínum, þviat aðrir komu ekki skapi við þá. Lýtíngr var úti um daginn en stundum gekk hann inn; hann gekk til sætis sins, þá kom kona inn er úti hafði verit, hún mælti: Offjarri voru þèr úti at sjá er oflátinn reið um garð. Hverr ofláti var sá? segir Lýtíngr, er þú segir frá? Höskuldr Njálsson reið hèr um garð, segir hún. Lýtíngr mælti: Opt ríðr hann hèr um gard, ok er mèr eigi skapraunarlaust, ok bjóðumst ek til þess, Höskuldr, at fara með þèr ef þú vilt hefna föður þíns ok drepa Höskuld Njálsson. Þat vil ek eigi, segir Höskuldr, ok launa ek þá verr enn vera skyldi Njáli fóstra mínum, ok þrífstu alldri fyrir heimboð! ok spratt upp undan borðinu ok lèt taka hesta sína ok reið

heim. Lýtingr mælti þá til Grana Gunnarssonar: þú vart hjá er þráinn var veginn, ok mun þèr þat minnisamt, ok svâ þú, Gunnarr Lambason ok Lambi Sigurðarson, vil ek nú at vèr ríðim at honum í kveld ok drepum hann. Nei, segir Grani, ekki mun ek fara at Njálssonum, nè rjúfa sætt þá er góðir menn gerðu. Slíkum orðum mælti hverr þeirra ok svâ Sigfússynir, ok tóku þat ráðs at ríða í brot. þá mælti Lýtingr er þeir voru í brot: þat vita allir at ek hefi við öngum bótum tekit eptir þráin mág minn, skal ek ok alldri una því at engi komi mannhefnd eptir hann. Síðan kvaddi hann til ferðar með sèr bræðr sína tvâ ok húskarla þrjá, þeir fóru á leið fyrir Höskuld ok sátu fyrir honum norðr frá garði í gröf nokkurri, ok biðu þar til þess er var miðr aptan. þá reið at þeim Höskuldr, þeir spretta þá upp allir með vâpnum ok sækja at honum. Höskuldr varðist svâ vel at þeir fá eigi lengi sótt hann, en þar kom um síðir at hann særði Lýting á hendi, en drap heimamenn hans tvâ, ok fèll síðan. þeir særðu Höskuld sextán sárum, en eigi hjuggu þeir höfuð af honum, þeir fóru í skógana fyrir austan Rángá ok fálu sik þar. þetta kveld it sama hafði smalamaðr Hróðnýar fundit Höskuld dauðan, ok fór heim ok sagði Hróðnýu víg sonar hennar; hún mælti: Mun hann dauðr, eða var af höfuðit? Eigi var þat, segir hann. Vita mun ek ef ek sè, segir hún, ok taktu hest minn ok akfæri, hann gerði svâ ok bjó um með öllu, ok síðan fóru þau þángat sem Höskuldr lá; hún leit á sárin ok mælti: Svâ er sem mik varði, segir hún, at hann myndi eigi dauðr með öllu, ok mun Njáll græða stærri sár. Síðan tóku þau líkit ok lögðu í vagarnar ok óku til Bergþórshvols, ok draga þar inn í sauðahús ok láta hann sitja upp við vegginn; síðan gengu þau heim bæði ok drápu á dyr, ok gekk húskarl til dyra. Hún snarar þegar inn hjá honum ok ferr þar til er hún kemr at hvílu Njáls; hún spurði hvârt Njáll

vekti, hann kvaðst sofit hafa til þessa, en sagðist þá vaka: eða hví ertu hèr komin svâ snemma? Hróðný mælti: Stattu upp úr bínginum frá elju minni, ok gakk út ok svâ hún ok synir þínir at sjá Höskuld son þinn! Þau stóðu upp ok gengu út. Skarphèðinn mælti: Töku vèr vâpn vor ok höfum með oss. Njáll lagði ekki til þess, ok hljópu þeir inn ok gengu út vâpnaðir, ferr hún fyrir til þess er þau koma at sauðahúsinu, hún gengr inn ok bað þau gánga eptir, hún vatt upp skriðljósi, hún mælti: Hèr er Höskuldr son þinn, Njáll, ok hefir fengit á sèr sár mörg, ok mun hann nú þurfa lækningar. Njáll mælti: Dauðamörk sè ek á honum, en engi lífsmörk, eða hví hefir þú eigi veitt honum nábjargir, er opnar eru nasirnar? Þat ætlaða ek Skarphèðni, segir hún. Skarphèðinn gekk at veita honum nábjargir. Skarphèðinn mælti við föður sinn: Hverr segir þú at hann hafi vegit? Njáll segir: Lýtingr af Sámstöðum mun hafa vegit hann ok bræðr hans. Hróðný mælti: Þèr fel ek á hendr, Skarphèðinn, at hefna bróður þíns, ok vænti ek at þèr myni vel fara þótt hann sè èigi skilgetinn, ok þú munir mest eptir gánga. Bergþóra mælti: Undarliga er yðr farit, er þèr vegit víg þau er yðr rekr lítit til, en meltit slíkt ok sjóðit fyrir yðr, svâ at ekki verðr af, ok mun þegar spurn koma til Höskuldar Hvítaness-goða, ok mun hann biðja yðr sætta, ok munu þèr veita honum þat, ok er nú til at ráða ef þer vilit. Skarphèðinn mælti: Eggjar móðir vor oss nú lögeggjan. Síðan hljópu þeir út allir. Hróðný gekk inn með Njáli ok var þar um nóttina.

*Cap. 99. Dráp bræðra Lýtings.* — Nú er at segja frá þeim Skarphèðni, at þeir stefna upp til Rángár. Skarphèðinn mælti: Stöndum vèr hèr ok hlýðum, ok förum hljóðliga, þvíat ek heyri mannamál uppi með ánni. Eða hvárt vilit it Helgi eiga við Lýting einn eða við bræðr hans báða? Þeir kváðust heldr vilja eiga við Lýting einn. Í

honum er þó veiðrinn meiri, segir Skarphèðinn, ok þikki mèr illa ef undan berr, en ek treysti mèr bezt at eigi dragi undan. Til skulu vit svâ stefna, segir Helgi, ef vit komumst í færi, at eigi reki undan. Síðan gengu þeir þángat er þeir heyrðu mannamálit, ok sjá hvar þeir Lýtingr eru við læk einn. Skarphèðinn hleypr þegar yfir lækinn ok í melbakkann öðrum megin, þar stendr Hallgrímr á uppi ok þeir bræðr. Skarphèðinn höggr á lærit Hallgrími, svâ at þegar tók undan fótinn, en þrífr Hallkel með annarri hendi. Lýtingr lagði til Skarphèðins. Helgi kom þá at ok brá við skildinum ok kom þar í lagit. Lýtingr tók upp stein ok laust Skarphèðin, ok varð Hallkell lauss. Hallkell hleypr þá upp á melbakkann, ok kemst eigi á upp annan veg enn hann skýtr niðr knjánum. Skarphèðinn slæmir til hans öxinni Rimmugýgi ok höggr í sundr í honum hrygginn. Lýtingr snýr nú undan, en þeir Grímr ok Helgi eptir, ok kemr sinu sári hvârr á hann. Lýtingr komst út á ána undan þeim ok svâ til hrossa ok hleypir til þess er hann kemr í Vorsabæ. Höskuldr var heima ok finnr hann þegar. Lýtingr sagði honum verkin. Sliks var þèr vân, segir Höskuldr: þú fórt rasandi mjök, ok mun hèr sannast þat sem mælt er, at skamma stund verðr hönd höggvi fegin; þikki mèr þèr sè nú ísjávert hvârt þú munt fá haldit þik eða eigi. Svâ var vist, segir Lýtingr, at ek komumst nauðugliga i brot, en þó vilda ek nú, at þú kæmir mèr í sætt við Njál ok sonu hans, ok mætta ek halda búi minu. Svâ skal vera, segir Höskuldr. Siðan lèt Höskuldr söðla hest sinn ok reið til Bergþórshvols við enn sjötta mann, þá voru synir Njáls heim komnir ok höfðu lagizt til svefns. Höskuldr fór þegar at finna Njál, ok gengu á tal. Höskuldr mælti til Njáls: Hingat em ek kominn at biðja fyrir Lýtingi, mági mínum: hefir hann stórt afgert við yðr, rauf sætt ok drap son þinn. Njáll mælti: Lýtingr mun þikkjast mikit

afráð goldit hafa í láti bræðra sinna, en ef ek geri nokkurn kost á, þá mun ek þin láta at njóta, ok mun ek þér þó segja fyrir sættina at bræðr Lýtings skulu úhelgir fallit hafa; Lýtingr skal ok ekki hafa fýrir sár sín, en bæta Höskuld fullum bótum. Höskuldr segir: Þat vil ek at þú dæmir. Njáll segir: Þat mun ek nú gera sem þú vilt. Viltu nokkut, segir Höskuldr, at synir þinir sè við? Njáll segir: Ekki mun þá nærr sættinni enn áðr, en halda munu þeir þá sátt sem ek geri. Þá mælti Höskuldr: Lúku vit málinu, ok sel þú honum grið fyrir sonu þína. Svâ skal vera, segir Njáll. Þat vil ek, segir Njáll, at hann gjaldi tvö hundruð silfrs fyrir víg Höskuldar, en búi á Sámstöðum, ok þikki mèr þó ráðligra at hann seli land ok ráðist í brot, en eigi fyrir því: eigi mun ek rjúfa trygðir á honum nè synir mínir, en þikki mèr vera mega at nokkurr rísi sá upp í sveit at honum sè viðsjávert; en ef svâ þikkir sem ek gera hann hèraðssekjan, þá leyfi ek at hann sè hèr í sveit, en hann ábyrgist mestu til. Síðan fór Höskuldr heim. Þeir vöknuðu Njálssynir ok spurðu föður sinn hvat komit hefði, en hann sagði þeim at Höskuldr var þar, fóstri hans. Hann myndi biðja fyrir Lýtíngi, segir Skarphèðinn. Svá var, segir Njáll. Þat var, segir Grímr, illa. Ekki myndi Höskuldr hafa skotit skildi fyrir hann, segir Njáll, ef þú hefðir drepit hann þá er þèr var þat ætlat. Telim vèr ekki á föður vorn, segir Skarphèðinn. Nú er at segja frá því at þessi sætt hèlzt með þeim síðan.

*Cap. 100. Frá siðaskipti, ok útkváma Þàngbrands.* — Höfðingjaskipti varð í Norvegi: Hákon jarl var liðinn undir lok, en kominn í staðinn Olafr Tryggvason; urðu þau úrlög Hákonar jarls at Karkr þræll skar hann á háls á Rimul í Gaulárdal. Þat spurðist þar með at siðaskipti var orðit í Noregi: höfðu þeir kastat enum forna sið, en Ólafr konúngr hafði kristnat Vestrland, Hjaltland ok Orkneyar ok Færeyar. Þá mæltu margir, svá at Njáll heyrði, at slíkt væri mikil firn at hafna fornum átrúnaði. Njáll sagði þá

Svâ lizt mèr sem enn nýi átrúnaðr muni vera miklu betri, ok sá mun sæll er þann fær heldr, ok ef þeir menn koma út hingat er þann sid bjóða, þá skal ek þat vel flytja; hann fór opt frá öðrum mönnum einn saman ok þuldi. Þetta it sama haust kom skip út austr í fjörðum í Berufirði þar sem heitir Gautavík; hèt Þángbrandr stýrimaðr, hann var son Vilbaldurs greifa úr Saxlandi. Þángbrandr var sendr út hingat af Ólafi konúngi Tryggvasyni at boða trú; með honum fór sá maðr Íslendskr er Guðleifr hèt, hann var son Ara Mássonar, Atlasonar, Úlfssonar ens skjálga, Högnasonar ens hvíta, Ótrygssonar, Óblauðssonar, Hjörleifssonar ens kvensama, Hörðalands konúngs. Guðleifr var vígamaðr mikill ok manna hraustastr ok harðgerr í öllu. Bræðr tveir bjuggu á Berunesi: hèt annarrr Þórleifr en annarr Ketill, þeir voru Hólmsteinssynir, Özurarsonar Breiðdælzka; þeir bræðr lögðu til fund ok bönnuðu mönnum at eiga kaup við þá. Þetta spurði Hallr af Síðu, hann bjó at Þvâttá í Álftafirði. Hann reið til skips við þrjátíu manna, hann ferr þegar á fund Þángbrands ok mælti til hans: Gánga ekki mjök kaupin? hann sagði at svâ var. Nú vil ek segja mitt eyrindi, segir Hallr, at ek vil bjóða yðr öllum heim til mín ok hætta á hvârt ek geta keypt fyrir yðr. Þángbrandr þakkaði honum ok fór til Þvâttár um haustit. Þat var einn morgin at Þángbrandr var úti snemma ok lèt skjóta landtjaldi ok saung messu í ok hafði mikit við, þvíat hátíð var mikil. Hallr mælti til Þángbrands: Í hverja minning heldr þú þenna dag? Þángbrandr segir: Í minning Michaels höfud-engils. Hvat fylgir engli þeim? segir Hallr. Margt gott, segir Þángbrandr, hann skal meta allt þat er þú gerðir vel, ok er hann svâ miskunsamr at hann metr þat allt meira er honum þikkir vel. Hallr mælti: Eiga vilda ek hann mèr at vin. Þat muntu mega, segir Þángbrandr, ok gefst þú honum þá í dag með guði. Þat vil ek þá skilja til, segir Hallr, at þú heitir því fyrir hann at hann sè þá fylgju-engill minn. Því

mun ek heita, segir Þángbrandr. Tók Hallr þá skírn ok öll hjú hans.

*Cap. 101. Frá ferðum Þángbranðs.* — Um vârit eptir fór Þángbrandr at boða kristni, ok Hallr með honum. En er þeir komu vestr um Lónsheiði til Stafafells, þar bjó Þórkell, hann mælti mest í móti trúnni ok skoraði Þángbrand á hólm. Þá bar Þángbrandr róðukross fyrir skjöldinn, ok lauk svâ með þeim at Þángbrandr hafði sigr ok drap Þórkel. Þaðan fóru þeir til Hornafjarðar ok gistu í Borgarhöfn fyrir vestan Heinabergssand, þar bjó Hildir enn gamli; hans son var Glúmr er fór til brennu með Flosa, þar tók við trú Hildir ok hjú hans öll. Þaðan fóru þeir til Fellshverfis ok gistu at Kálfafelli, þar bjó Kolr Þórsteinsson, frændi Halls, ok tók hann við trú ok hjú hans öll. Þaðan fóru þeir til Svínafells, ok tók Flosi prímsigning, en hèt at fylgja þeim á þíngi. Þaðan fóru þeir vestr til Skógahverfis ok gistu í Kirkjubæ, þar bjó Svartr Ásbjarnarson, Þórsteinssonar, Ketilssonar ens fíflska, þeir höfðu allir verit kristnir lángfeðgar. Eptir þat fóru þeir úr Skógahverfi ok til Höfðabrekku, þá spurðist allt um ferðir þeirra. Maðr hèt Galdra-Hèðinn er bjó í Kerlíngardal; þar keyptu heiðnir menn at honum at hann skyldi deyða Þángbrand ok föruneyti hans. Hann fór upp á Arnarstakksheiði ok efldi þar blót mikit, þá er Þángbrandr reið austan. Þá brast í sundr jörðin undir hesti hans, en hann hljóp af hestinum ok komst upp á bakkann, en jörðin svalg hestinn með öllum reiðíngi, ok sá þeir hann alldri síðan, þá lofaði Þángbrandr guð.

*Cap. 102. Frá Þángbrandi ok Guðleifi.* — Guðleifr leitar nú Galdra-Hèðins ok finnr hann á heiðinni ok eltir hann ofan at Kerlíngardal, ok komst í skotfæri við hann ok skýtr spjótinu til hans ok í gegnum hann. Þaðan fóru þeir til Dyrhólma ok áttu þar fund ok buðu þar trú, ok kristnaðist þar Íngjaldr, son Þórkels Háeyrartyrðils. Þaðan fóru þeir til Fljótshlíðar ok bodudu þar trú, þar mæltu mest í

móti Vetrliði skáld ok Ari son hans, ok fyrir þat vâgu þeir Vetrliða. Þaðan fór Þángbrandr til Bergþórshvols, ok tók Njáll við trú ok öll hjú hans, en þeir Mörðr ok Valgarðr gengu mjök í móti, ok fóru þeir þaðan út yfir ár. Þeir fóru í Haukadal ok skírðu þar Hall, ok var hann þá þrjá vetr; þaðan fór hann til Grímsness. Þar efldi flokk í móti honum Þórvaldr hinn Veili ok sendi orð Úlfi Uggasyni, at hann skyldi fara at Þángbrandi ok drepa hann, ok kvað til hans vísu þessa:

Yggs bjálfa mun ek Úlfi
endils ok boð senda
(mèr er við stála stýri
stugglaust) syni Ugga,
at gnýskúta geitis
goðvarg fyrir argan,
þann er við rögn ofrignir
reki hann ek mun annann.

Úlfr kvað aðra vísu í móti.

Tekka ek, sums þótt sendi
sann elboði tanna
hvarfs við hleypi-skarfi
Harbarðs veafjarðar.
Þó at rá-fáka rækinn
raung eru mál á gángi
sè ek fyrir mínu meini
minligt flugu at gína.

Ok ætla ek ekki, segir hann, at vera ginníngarfífl hans, en gæti hann at honum vefist eigi túngan um höfuð; ok eptir þat fór sendimaðr aptr til Þórvalds ens Veila ok sagði honum orð Úlfs. Þórvaldr hafði margt manna um sik ok hafði þat við orð at sitja fyrir þeim á Bláskógaheiði. Þeir Þángbrandr ok Guðleifr riðu úr Haukadal, þeir mættu þar manni einum er reið í móti þeim; spurði sjá at Guðleifi, ok er

hann fann hann, mælti hann: Njóta skaltu þórgils bróður þíns at Reykjahólum, at ek vil gera þèr njósn at þeir hafa margar fyrirsátir, ok þat með at þórvaldr enn Veili er með flokk sinn við hestlæk í Grímsnesi. Ekki skulu vèr ríða at síðr, segir Guðleifr, til fundar við hann; ok sneru þeir síðan ofan til hestlækjar. þórvaldr var kominn yfir lækinn. Guðleifr mælti til þángbrands: Hèr er nú þórvaldr, ok hlaupum nú at honum. þángbrandr skaut spjóti í gegnum þórvald, en Guðleifr hjó á öxlinni ok frá ofan höndina, ok varð þat hans bani. Eptir þat ríða þeir á þíng upp, ok hafði svâ nær at frændr þórvalds mundu gánga at honum; veittu þeir Njáll ok Austfirðingar þángbrandi. Hjalti Skeggjason kvað þá kviðlíng þenna at lögbergi:

Spari ek eigi goð geya,
grey þikki mèr Freya.
Æ mun annat tveggja:
Oðinn grey eða Freya.

Hjalti fór utan um sumarit ok Gizurr Hviti; en skip þángbrands braut austr við Búlandsnes, ok hèt skipit Visund, þeir þángbrandr fóru allt vestr um sveitir. Steinvör kom í móti honum, móðir Skáldrefs: hún boðadi þángbrandi heiðni ok taldi lengi fyrir honum. þángbrandr þagði meðan hún talaði, en talaði lengi eptir ok sneri því í villu er hún hafði mælt. Hefir þú heyrt þat, sagði hún, er þórr bauð Kristi á hólm, ok þorði hann eigi at berjast við þór. Heyrt hefi ek, segir þángbrandr, at þórr var ekki nema mold ok aska, ef guð vildi eigi at hann lifði. Veiztu, segir hún, hverr brotit hefir skip þitt? Hvat segir þú til? segir hann. þat mun ek segja þèr, segir hún:

Braut fyrir bjöllu-gæti,
bönd ráku val strandar,
mögfellandi Mellu
móstalls visund allan.

blífði Kristr þá er knýfði
knör málfeta varra,
lítt get ek at guð gætti
gylfa-hreins at einu.

Ok enn kvað hún aðra vísu:

Þórr brá Þvinnilsdýri
Þángbrands úr stað laungu,
hristi bus ok beysti
barð ok laust við jörðu.
Muna skið um sjá siðan
sundfært atals-grundar,
hregg þvíat hart tók leggja
hánum kennt í spánum.

Eptir þat skildu þau Þángbrandr ok Steinvör, ok fóru þeir vestr til Barðastrandar.

*Cap. 103. Frá Gesti Oddleifssyni.* — Gestr Oddleifsson bjó í Haga á Barðaströnd, hann var manna vitrastr, svâ at hann sá fyrir örlög manna. Hann gerði veizlu í móti þeim Þángbrandi, þeir fóru í Haga við sextíu manna. Þá var sagt at þar væri fyrir tvö hundruð heiðinna manna, ok þángat væri vân berserkja þess er Ótryggr hèt, ok voru allir við hann hræddir. Frá honum var sagt svâ mikit at hann hræddist hvârki egg nè eld, ok voru heiðnir menn hræddir mjök. Þá spurði Þángbrandr ef menn vildi taka við trú, en allir heiðnir menn mæltu í móti. Kosti mun ek yðr gera, segir Þángbrandr, at þèr skulut reyna hvâr betri er trúan: vèr skulum vígja tvâ elda, skulu þèr vígja einn heiðnir menn, en ek annan, en enn þriði skal óvígðr vera; en ef berserkrinn hræðist þann er ek vígða, en vaði hina báda, þá skulut þèr taka við trú. Þetta er vel mælt, segir Gestr, ok mun ek þessu játa fyrir mik ok heimamenn mína; ok er Gestr hafði þetta mælt, þá játuðu miklu fleiri. Þá var sagt at berserkrinn færi at bænum, ok voru þá gervir

eldarnir ok brunnu; tóku menn þá vâpn sín ok hljópu upp í bekkina ok biðu svâ. Berserkrinn hljóp inn með vâpnum, hann kemr í stofuna ok veðr þegar þann eldinn er inir heiðnu menn vígðu, ok kemr at eldinum þeim er þángbrandr hafði vígt, ok þorir eigi at vaða ok kvaðst brenna allr. Hann höggr sverðinu upp á bekkinn, ok kemr í þvertrèit, er hann reiddi hátt. þángbrandr laust með róðukrossi á höndina, ok varð jartegn svâ mikil at sverðit fèll úr hendi berserkinum; þá leggr þángbrandr sverði fyrir brjóst honum, en Guðleifr hjó á höndina svâ af tók, gengu þá margir at ok drápu berserkinn. Eptir þat spurði þángbrandr ef þeir vildi við trú taka. Gestr kvaðst þat eitt um hafa mælt er hann ætlaði at halda. þángbrandr skirði þá Gest ok hjú hans öll ok marga aðra. Rèðst þá þángbrandr um við Gest, hvârt hann skyldi nokkut fara í fjörðu vestr, en hann latti þess, kvað þar vera menn harða ok illa viðreignar: en ef þat er ætlat fyrir at trúa þessi skuli viðgángast, þá mun á alþíngi í lög leidd, ok munu þar þá vera allir höfðíngjar úr hèruðum. Flutta ek á þíngi, segir þángbrandr, ok varð mèr þar erfiðligast um. þú hefir þó mest atgert, segir Gestr, þótt öðrum verði auðit í lög at leiða; en þat er sem mælt er, at eigi fellr trè við et fyrsta högg. Síðan gaf Gestr þángbrandi góðar gjafar, ok fór bann suðr aptr. þángbrandr fór í Sunnlendíngafjórðúng ok svâ til Austfjarða: hann gisti at Bergþórshvoli, ok gaf Njáll honum góðar gjafir. þáðan reið hann austr í Álftafjörð tilmóts við Síðu-Hall, hann lèt bæta skip sitt, ok kölluðu heiðnir menn þat Járnmeis, á því skipi fór þángbrandr utan ok Guðleifr með honum.

*Cap. 104. Frá Gizuri Hvíta ok Hjalta.* — þetta sama sumar varð Hjalti Skeggjason sekr á þíngi um goðgá. þángbrandr sagði Ólafi konúngi frá meingerðum Íslendínga við sik, sagði þá vera svâ fjölkunniga at jörðin spryngi í sundr undir besti hans ok sylgi hestinn. þá varð Ólafr kon-

úngr svâ reiðr, at hann lèt taka alla Íslendska menn ok setja í myrkvastofu ok ætlaði þá til dráps; þá gengu þeir Gizurr Hviti at ok Hjalti ok buðu at leggja sik í veð fyrir þessa menn ok fara út til Íslands ok boða trú. Konúngr tók þessu vel, ok þágu þeir þá alla undan. Þá bjuggu þeir Gizurr ok Hjalti skip sitt til Íslands ok urðu snembúnir, þeir tóku land á Eyrum er tíu vikur voru af sumri. Þeir fengu sèr þegar hesta, en fengu menn til at ryðja skip sitt; ríða þeir þá við þrjátíu manna til þíngs ok gerðu þá orð kristnum mönnum at viðbúnir skyldu vera. Hjalti var eptir at Reyðarmúla, þviat hann hafði spurt at hann var sekr orðinn um goðgá, en þá er þeir komu til Vellankötlu ofan frá Gjábakka, þá kom Hjalti eptir þeim ok kvaðst eigi vilja sýna þat heiðnum mönnum at hann hræddist þá. Riðu þá margir kristnir menn í móti þeim, ok riðu þeir með fylktu liði á þíng; heiðnir menn höfðu ok fylkt fyrir, ok lagði þá svâ nær at allr þíngheimr myndi berjast, en þó varð þat eigi.

*Cap.* ***105.*** *Frá Þórgeiri at Ljósavatni.* — Þórgeirr hèt maðr er bjó at Ljósavatni, hann var Tjörfason Þórkelssonar lángs, Ketilssonar lángháls, hann var kominn frá Grími Loðinkinna, syni Ketils Hængs, Hallbjarnarsonar hálftrölls úr Hrafnistu. Kristnir menn tjölduðu húðir sínar, ok voru þeir Gizurr ok Hjalti í Mosfellínga búð. Um daginn eptir gengu hvârirtveggju til lögbergs, ok nefndu hvârir vâtta, kristnir menn ok heiðnir, ok sögðust hvârir úr lögum annarra, ok varð þá svâ mikit óbljóð at lögbergi, at engi nam mál annars. Síðan gengu menn í brot, ok þótti öllum horfa til inna mestu vafnínga. Kristnir menn tóku sèr til lögsögumanns Hall af Síðu, en Hallr fór at finna Þórgeir goða lögsögumann frá Ljósavatni, ok gaf honum til þrjár merkr silfrs, at hann segði upp lögin, en þat var þó ábyrgðarráð er hann var heiðinn. Þórgeirr lá dag allan ok breiddi feld á höfuð sèr, svâ at engi maðr mælti við hann. En annan dag gengu menn til lögbergs, þá beiddi Þórgeirr sèr hljóðs

ok mælti: Svâ lízt mèr sem málum vorum sé komit í ónýtt efni, ef eigi hafa ein lög allir; en ef sundrskipt er lögunum, þá mun sundrskipt friðinum, ok mun eigi við þat mega búa: nú vil ek þess spyrja kristna menn ok heiðna, hvârt þeir vilja hafa lög þau er ek segi upp. Því játuðu allir. Hann kvaðst vilja hafa svardaga af þeim ok festu at halda; þeir játuðu því allir, ok tók hann af þeim festu. Þat er upphaf laga vorra, sagði hann, at menn skulu allir vera kristnir hèr á landi ok trúa á einn guð, föður ok son ok anda helgan, en láta af allri skurðgoða villu, bera eigi út börn, ok eta eigi hrossaslátr: skal fjörbaugssök á vera ef víst verðr, en ef leyniliga er með farit þá skal vera vítislaust, en þessi heiðni var öll af numin á fárra vetra fresti, at eigi skyldi þetta heldr gera á laun heldr enn opinberliga; hann sagði þá upp um drottinsdaga hald ok föstudaga, jóladaga ok páskadaga ok allra enna stærstu hátíða. Þóttust heiðnir menn mjök sviknir vera; en þá var í lög leidd trúan ok allir menn gervir kristnir hér á landi, fara þeir við þat heim af þingi.

*Cap. 106. Frá Ámunda blinda.* — Sá atburðr varð þrim vetrum síðar á Þíngskálaþíngi at Ámundi enn blindi var á þíngi, Höskuldsson Njálssonar, hann lèt leiða sik búða í millum. Hann kom í búð þá er Lýtíngr var inni af Sámstöðum, hann lætr leiða sik inn í búðina ok þar fyrir sem Lýtingr sat, hann mælti: Er hèr Lýtingr af Sámstöðum? Hvat viltu? segir Lýtingr. Ek vil vita, segir Ámundi, hverju þú vilt bæta mèr föður minn: ek em laungetinn, ok hefi ek við öngum bótum tekit. Lýtingr mælti: Bætt hefi ek víg föður þíns fullum bótum, ok tók við föðurfaðir þinn ok föðurbræðr, en bræðr mínir voru ógildir, ok var bæði at ek hafða illa tilgert, enda kom ek allhart niðr. Ekki spyr ek at því, segir Ámundi, at þú hefir bætt þeim, veit ek at þér erut sáttir, ok spyr ek at því hverju þú vilt mèr bæta. Alls öngu, segir Lýtingr. Eigi skil ek, segir Ámundi, at þat muni rètt fyrir guði svâ nær hjarta sem þú

hefir mér höggvit; enda kann ek at segja þér, ef ek væri heileygr báðum augum, at hafa skylda ek annathvárt fyrir föður minn fébætr eða mannhefndir; enda skipti guð með okkr. Eptir þat gekk hann út, en er hann kom í búðardyrin, snýst hann innar eptir búðinni, þá lukust upp augu hans; þá mælti hann: Lofaðr sè drottinn, sè ek nú hvat hann vill. Eptir þat hleypr hann innar eptir búðinni þar til er hann kemr fyrir Lýting ok höggr með öxi í höfuð honum, svâ at hún stóð á hamri, ok kippir at sèr öxinni. Lýtingr fèll áfram ok var þegar dauðr. Ámundi gengr út i búðardyrin, ok er hann kom í þau en sömu spor sem upp höfðu lokizt augu hans, þá lukust aptr, ok var hann alla æfi blindr síðan. Eptir þat lætr hann fylgja sèr til Njáls ok sona hans, hann sagði þeim víg Lýtings. Ekki má saka þik um þetta, segir Njáll, þvíat slíkt er mjök ákveðit, en viðvörunar vert, ef slíkir atburðir verða, at stinga eigi af stokki við þá er svâ nær standa. Síðan bauð Njáll sætt frændum Lýtings. Höskuldr Hvítaness-goði átti hlut at við frændr Lýtings, at þeir tæki bótina, ok var þá lagit mál í gerð, ok fèllu hálfar bætr niðr fyrir sakastaði þá er hann þótti á eiga. Eptir þat gengu menn til trygða, ok veittu frændr Lýtings Ámunda trygðir. Menn riðu heim af þíngi, ok er nú kyrt lengi.

*Cap. 107. Frá Valgarði hinum grá.* — Valgarðr enn grái kom þetta sumar út, hann var þá enn heiðinn; hann fór til Hofs til Marðar, sonar sins, ok var þar um vetrinn. Hann mælti til Marðar: Riðit hefi ek hèr um bygðina víða, ok þikki mèr eigi mega kenna at en sama sè: kom ek á Hvítanes, ok sá ek þar búðartoftir margar ok umbrot mikil, ek kom ok á þingskálaþing, ok sá ek þar ofanbrotna búð vora alla; eða hví sæta firn slík? Mörðr svarar: Hèr eru tekin upp ný goðorð ok fimtardómslög, ok hafa menn sagt sik úr þíngi frá mèr ok í þing með Höskuldi. Valgarðr mælti: Illa hefir þú launat mèr goðorðit er ek fèkk þèr í hendr, er þú fórt svâ úmannliga með, vil ek at þú launir þeim því at

þeim dragi öllum til bana; en þat er til þess at þú rægir þá saman, ok drepi synir Njáls Höskuld, en þar eru margir til eptirmáls um hann, ok munu þá Njálssynir af þeim málum drepnir verða. Eigi mun ek þat gert geta, segir Mörðr. Ek skal leggja ráðin til, segir Valgarðr: þú skalt bjóða Njálssonum heim ok leysa þá í brot með gjöfum, en svâ fremi skaltu rógit í frammi hafa, er orðin er vinátta með yðr mikil, ok þeir trúa þèr eigi verr enn sèr: máttu svâ hefna við Skarphèðin þess er hann tók fèit af þèr eptir lát Gunnars, muntu svâ fremi taka höfðíngskap er þessir eru allir dauðir; þessa ráðagerð festu þeir með sèr at sjá skyldi framkoma. Mörðr mælti: þat vilda ek faðir, at þú tækir við trú, þú ert maðr gamall. Eigi vil ek þat, segir Valgarðr, heldr vil ek at þú kastir trúnni ok sjá hversu þá fari at. Mörðr kvaðst þat eigi gera mundu, Valgarðr braut krossa fyrir Merði ok öll heilög tákn. Litlu síðar tók Valgarðr sótt ok andaðist ok var hann heygðr hjá Hofi.

*Cap. 108. Af Merði ok Njálssonum.* — Nokkuru síðar reið Mörðr til Bergþórshvols ok fann þá Skarphèðin: hann sló á mikit fagrmæli við þá ok talaði hann dag allan, ok kvaðst við þá margt vilja eiga. Skarphèðinn tók því öllu vel, en kvað hann ekki leitat hafa fyrr. Svâ gerðist at hann kom sèr i svâ mikla vináttu við þá at hvârigum þótti ráð ráðit nema við aðra rèðist um. Njáli þótti jamnan íllt er hann kom þángat, ok fór svâ jafnan at hann amaðist við. Einhverju sinni var þat at Mörðr kom til Bergþórshvols. Mörðr mælti til þeirra Njálssona: Veizlu hefi ek þar stofnat, ok ætla ek at drekka erfi eptir föður minn, en til þeirrar veizlu vil ek bjóða yðr Njálssonum ok Kára, ok því heita at þèr skulut eigi gjafalaust i braut fara. Þeir hètu at fara, ferr hann nú heim ok býrr veizluna, hann bauð þángat mörgum bóndum, ok var veizla sú fjölmenn, koma þángat Njálssynir ok Kári. Mörðr gaf Skarphèðni gullsylgju mikla, en

Kára silfrbelti, en Grími ok Helga góðar gjafir; þeir koma heim ok hrósa gjöfum þessum ok sýna Njáli, hann sagði at þeir myndu fullu keypt hafa: ok hyggit at því at þèr launit eigi því sem hann mundi vilja.

*Cap. 109. Frá rógi Marðar Valgarðssonar.* — Litlu síðar höfðu þeir heimboð með sèr, Njálssynir ok Höskuldr, ok buðu þeir fyrr Höskuldi. Skarphèðinn átti hest brúnan, fjögra vetra gamlan, bæði mikinn ok sjáligan, hann var graðr ok hafði ekki verit framleiddr: þann hest gaf Skarphèðinn Höskuldi ok með merhryssi tvö, allir gáfu þeir Höskuldi gjafir ok mæltu til vináttu. Síðan bauð Höskuldr þeim heim í Ossabæ ok lèt marga fyrir boðsmenn vera ok mikit fjölmenni, hann hafði látit taka ofan skála sinn, en hann hafði útibúr þrjú, ok voru þar búnar upp hvílur í. Þeir koma þar allir er hann hafði boðit, veizlan fór allvel fram, ok er menn skyldu heim fara, valdi Höskuldr mönnum góðar gjafir ok fór á leið með Njálssonum. Sigfússynir fylgðu honum ok fjölmennit allt, mæltu hvárir at öngir skyldu á millum þeirra komast. Nokkuru síðar kom Mörðr í Ossabæ ok kallaði Höskuld til máls við sik, þeir gengu á tal. Mörðr mælti: Mikill mannamunr verðr með yðr Njálssonum: þú gaft þeim góðar gjafir, en þeir gáfu þèr gjafir með miklu spotti. Hvat færir þú til þess? segir Höskuldr. Þeir gáfu þèr hest, er þeir kölluðu vanfola, ok gerðu þat til spots við þik, þvíat þú þóttir þeim ok úreyndr. Ek kann ok þat at segja þèr at þeir öfunda þik um goðorðit, tók Skarphèðinn þat upp á þingi, er þú komt eigi til þings á fimtardóms stefnu, ætlar Skarphèðinn ok alldri laust at láta goðorðit. Eigi er þat satt, segir Höskuldr, ek tók við á leiðmóti í haust. Njáll hefir því voldit þá, segir Mörðr; þeir rufu ok, segir Mörðr, sætt á Lýtingi. Ekki ætla ek þat þeim at kenna, segir Höskuldr. Eigi muntu mæla í móti því, segir Mörðr, þá er þit Skarphèðinn fórut austr at Markarfljóti, fèll öx undan belti honum, ok hafði hann ætlat

at drepa þik. Þat var, segir Höskuldr, viðaröx hāns, ok sá ek er hann lèt undir belti sèr, ok er þèr þat, Mörðr, svâ skjótt frá mèr at segja, segir Höskuldr, at þú segir alldri svâ íllt frá Njálssonum at ek muna því trúa. En þótt því sè at skipta, og segir þú satt, at annathvârt sè at ek drepa þá eða þeir mik, þá skal ek miklu heldr þola dauða af þeim enn veita þeim neitt mein, en þú ert maðr at verri er þú hefir þetta mælt. Síðan fór Mörðr heim. Nokkuru síðar ferr Mörðr at finna Njálssonu, hann talar margt við þá bræðr ok Kára. Sagt er mèr, segir Mörðr, at Höskuldr hafi mælt at þú Skarphèðinn hafir rofit sætt á Lýtingi, en ek varð þess viss at honum þóttir þú hafa haft við hann fjörráð er þit fórut til Markarfljóts. En þó þikki mèr þau eigi minni fjörráð er hann bauð þèr til heimboðs ok skipaði þèr í útibúr þat er first var húsum, ok var þar borinn at viðr alla nóttina, ok ætlaði hann at brenna yðr inni; en þat bar við at Högni Gunnarsson kom um nóttina, ok varð þá ekki af því at þeir gengi at, þvíat þeir hræddust hann. Síðan fylgði hann þèr á leið ok mikill flokkr manna, þá ætlaði hann þèr aðra atgöngu at veita, ok setti til Grana Gunnarsson ok Gunnar Lambason at vega at þèr, en þeim varð bilt, ok þorðu þeir eigi á þik at ráða. En er hann hafði þetta talat, þá mæltu þeir fyrst í móti, en þar kom at þeir trúðu, ok gerðust þá í fáleikar af þeirra hendi til Höskuldar, ok mæltu nær ekki við hann hvar sem þeir fundust, en Höskuldr gaf þeim lítit tillæti, ok fór svâ fram um hríð. Höskuldr fór austr til Svínafells um haustit at heimboði, ok tók Flosi vel við honum. Hildigunnr var þar ok. Flosi mælti til Höskuldar: Þat segir Hildigunnr mèr at fáleikar sè miklir með yðr Njálssonum, ok þikki mèr þat illa, ok vil ek bjóða þèr at þú ríðir eigi vestr, ok mun ek fá þèr bústað í Skaptafelli, en ek mun senda Þorgeir, bróður minn, at búa í Ossabæ. Þá munu þat mæla sumir, segir Höskuldr, at ek

flýa þaðan fyrir hræðslu sakir, ok vil ek þat eigi. Þá er þat líkara, at stór vandræði leiði af, segir Flosi. Illa er þat þá, segir Höskuldr, þvíat heldr vilda ek vera ógildr enn margir hlyti íllt af mèr. Höskuldr bjóst heim fám nóttum síðar, en Flosi gaf Höskuldi skarlats skikkju, ok var hlaðbúin í skaut niðr. Reið Höskuldr heim í Ossabæ, er nú kyrt um hríð. Höskuldr var svâ vinsæll at fáir voru hans úvinir, en in sama er óþykkt með þeim allan vetrinn. Njáll hafði tekit til fóstrs son Kára er Þórðr hèt, hann hafði ok fóstrat Þórhall, son Ásgríms Elliðagrímssonar. Þórhallr var röskr maðr ok harðgerr í öllu, hann hafði numit svâ lög at hann var enn þriði mestr lagamaðr á Íslandi. Nú vârar snemma um vârit, ok færa menn niðr korn sín.

*Cap. 110. Frá Merði ok Njálssonum.* — Þat var einn dag at Mörðr kom til Bergþórshvols, þeir gengu þegar á tal, Njálssynir ok Kári. Mörðr rægir Höskuld at vanda sínum ok hefir nú enn margar nýar sögur, ok eggjar einart Skarphèðin ok þá at drepa Höskuld ok kvað hann mundu verða skjótara ef þeir færi eigi þegar at honum. Gera skal þèr kost á þessu, segir Skarphèðinn, ef þú vilt fara með oss ok gera at nokkut. Þat vil ek til vinna, segir Mörðr, ok bundu þeir þat með fastmælum, ok skyldi hann þar koma um kveldit. Bergþóra spurði Njál: Hvat tala þeir úti? Ekki em ek í ráðagerð með þeim, segir Njáll, sjaldan var ek þá frákvaddr er en góðu voru ráðin. Skarphèðinn lagðist ekki niðr um kveldit ok ekki bræðr hans nè Kári. Þessa nótt ena sömu kom Mörðr ofanverða Valgarðsson, ok tóku þeir vâpn sín, Njálssynir ok Kári, ok riðu í brot, þeir fóru þar til er þeir komu í Ossabæ ok biðu þar hjá garði nokkurum, veðr var gott ok sól upp komin.

*Cap. 111. Dráp Höskuldar Hvítaness-goða.* — Í þenna tíma vaknaði Höskuldr Hvítaness-goði. Hann fór í klæði sín ok tók yfir sik skikkjuna Flosanaut, hann tók kornkippu ok sverð í aðra hönd ok ferr til gerðisins ok sár niðr korn-

inu. Þeir Skarphèðinn höfðu þat mælt með sèr at þeir skyldu allir á honum vinna. Skarphèðinn spratt upp undan garðinum, en er Höskuldr sá hann vildi hann undan snúa. Þá hljóp Skarphèðinn at honum ok mælti: Hirð eigi þá at hopa á hæl, Hvítaness-goði! ok höggr til hans, ok kom í höfuðit, ok fèll hann á knèin. Höskuldr mælti þetta við er hann fèll: Guð hjálpi mèr, en fyrirgefi yðr! hljópu þeir þá at honum allir ok unnu á honum. Eptir þat mælti Mörðr: Ráð kemr mèr í hug. Hvert er þat? segir Skarphèðinn. Þat er ek mun fara heim fyrst, en síðan mun ek fara upp til Grjótár ok segja þeim tíðindin ok láta illa yfir verkinu, en ek veit víst at Þórgerðr mun biðja mik at ek lýsa víginu, ok mun ek þat gera, því at þeim mega þat mest málaspell verða. Ek mun ok senda mann í Ossabæ ok vita hversu skjótt þau taki til ráða, ok mun sá spyrja þar tíðindin, ok mun ek láta sem ek taka af þeim. Farðu svâ með víst, segir Skarphèðinn. Þeir bræðr fóru heim ok Kári, ok er þeir komu heim sögðu þeir Njáli tíðindin. Hörmulig tíðindi eru þetta, segir Njáll, ok er slíkt íllt at vita, þvíat þat er satt at segja, at svâ fellr mèr þetta nær um trega, at mèr þætti betra at hafa látit tvâ sonu mína, ok lifði Höskuldr. Þat er nokkur vârkunn, segir Skarphèðinn, þú ert maðr gamall, ok er vân at þèr falli nær. Eigi er þat síðr enn elli, segir Njáll, at ek veit gerr enn þèr hvat eptir mun koma. Hvat mun eptir koma? segir Skarphèðinn. Dauði minn, segir Njáll, ok konu minnar ok allra sona minna. Hvat spár þú fyrir mèr? segir Kári. Erfitt mun þeim veita at gánga í móti giptu þinni, þvíat þú munt þeim öllum drýgari verða. Sjá einn hlutr var svâ at Njáli fèll svâ nær at hann mátti alldri óklökkvandi um tala.

*Cap. 112. Frá Hildigunni ok Merði Valgarðssyni.* — Hildigunnr vaknaði ok fann at Höskuldr var í brotu úr rúminu, hún mælti: Harðir hafa draumar verit ok eigi góðir, ok leitit þèr at honum Höskuldi; þeir leituðu hans um bæ-

inn ok fundu hann eigi. Þá hafði hún klædda sik, ferr hún þá ok tveir menn með henni til garðsins, finna þau þar Höskuld veginn; þar kom þá ok smalamaðr Marðar Valgarðssonar ok sagði henni at þeir Njálssynir hefði farit neðan þaðan: ok kallaði Skarphèðinn á mik ok lýsti víginu á hönd sèr. Karlmannligt verk væri þetta, segir hún, ef einn maðr hefði at verit. Hún tók skikkjuna ok þerði með blóðit allt ok vafði þar í blóðlifrarnar ok braut svâ saman ok lagði í kistu niðr. Nú sendi hún mann upp til Grjótár at segja þángat tíðindin, þar var Mörðr fyrir ok hafði sagt áðr tíðindin, þar var ok kominn Ketill úr Mörk. Þórgerðr mælti til Ketils: Nú er Höskuldr dauðr, sem vit vitum, ok mun þú nú hverju þú hètst þá er þú tókt hann til fóstrs. Þat má vera, segir Ketill, at ek hafa ærit mörgu heitit þá, þvíat ek ætlaða ekki at þessir dagar mundu verða sem nú eru orðnir: enda em ek við vant um kominn, þvíat náit er nef augum, þar er ek á dóttur Njáls. Hvârt viltu, segir Þórgerðr, at Mörðr lýsi víginu? Eigi veit ek þat, segir Ketill, þvíat fleirum þikki mèr sem illt leiði af honum enn gott. En þegar er Mörðr talaði við Ketil, þá fór honum sem öðrum at svâ þótti sem Mörðr mundi honum vera trúr, ok varð þat ráð þeirra at Mörðr skyldi lýsa víginu ok búa mál at öllu til þíngs. Fór Mörðr þá ofan í Ossabæ, þángat komu níu búar, þeir er næst bjuggu vetfángi. Mörðr hafði tíu menn með sèr, hann sýnir búum sár Höskuldar ok nefnir vâtta at benjum, ok nefnir mann til hvers sárs nema eins, þat lèt hann eigi sem hann vissi hverr því hefði sært, en því hafði hann sjálfr sært; en hann lýsti víginu á hendr Skarphèðni, en sárum á hendr bræðrum hans ok Kára. Síðan kvaddi hann heiman vetfángs búa níu til alþingis, eptir þat reið hann heim; hann fann nær alldri Njálssonu, en þá styggt þá er þeir fundust, ok var þat ráðagerðir þeirra. Víg Höskuldar spurðist um allar sveitir ok mæltist illa fyrir. Þeir Njálssynir fóru at finna Ásgrím Elliðagríms-

son ok báðu hann liðveizlu. Þess megu þèr vân vita, segir hann, at ek mun yðr veita at öllum enum stærrum málum, en þó segir mèr þúngt hugr um málin, þviat margir eru til eptirmáls, ok mælist vig þetta allilla fyrir um allar sveitir. Nú fara Njálssynir heim.

*Cap. 113. Ættartala Guðmundar ríka.* — Maðr er nefndr Guðmundr hinn ríki, er bjó á Möðruvöllum i Eyafirði, hann var Eyólfsson Einarssonar, Auðunarsonar rotins, Þórólfssonar Smjörs. Móðir Eyólfs, föður Guðmundar, var Valgerðr Runólfsdóttir, móðir Valgerðar var Valbjörg, hennar móðir var Jórunn en óborna, dóttir Osvalds konúngs hins helga. Þórlaug hèt kona Guðmundar ens ríka, dóttir Atla ens ramma. Herdis hèt móðir Þórlaugar, dóttir Þórðar at Höfða, Bjarnarsonar Byrðusmjörs, Hróaldssonar, Hróðlaugssonar Hryks, Bjarnarsonar Járnsíðu, Ragnarssonar Loðbrókar, Sigurðarsonar Hríngs. Móðir Herdísar, dóttur Þórðar, var Þórgerðr Skíðadóttir, hennar móðir var Friðgerðr, dóttir Kjarfals Írakonúngs. Guðmundr var höfðingi mikill, auðigr at fè, hann hafði með sèr hundrað hjóna, hann sat yfir virðingu allra höfðingja fyrir norðan land, svâ at sumir lètu bústaði sína, en suma tók hann af lífi, en sumir lètu goðorð sín fyrir honum, ok er frá honum komit allt et mesta mannval á landinu: Oddaverjar ok Sturlúngar ok Hvamverjar ok Fljótamenn ok Ketill biskup ok margir enir mestu menn. Guðmundr var vinr Ásgríms Ellidagrímssonar, ok ætlaði hann þar til liðveizlu.

*Cap. 114. Frá Snorra goða ok ætt hans.* — Snorri hèt maðr er kallaðr var goði, hann bjó at Helgafelli áðr Guðrún Ósvifrsdóttir keypti at honum landit, ok bjó hún þar til elli, en Snorri fór þá til Hvamsfjarðar ok bjó i Sælíngsdals túngu. Þórgrímr hèt faðir Snorra ok var son Þórsteins Þorskabits, Þórólfssonar Mostrarskeggs, Örnólfssonar Fiskreka, en Ari enn fróði segir hann vera son Þórgils Reyðarsíðu. Þórólfr Mostrarskegg átti Ósku, dóttur Þór-

steins ens rauða. Móðir Þórgríms hèt Þóra, dóttir Óleifs Feilans, Þórsteinssonar rauða, Óleifssonar hvíta, Íngjaldssonar, Helgasonar, en móðir Íngjalds hèt Þóra, dóttir Sigurðar orms í auga, Ragnarssonar Loðbrókar, en móðir Snorra goða var Þórdís Súrsdóttir, systir Gísla. Snorri var vinr mikill Ásgríms Elliðagrímssonar, ok ætlaði hann þar til liðveizlu. Snorri var vitrastr maðr á Íslandi, þeirra er eigi voru forspáir, hann var góðr vinum sínum, en grimmr óvinum. Í þenna tíma var þíngreið mikill úr öllum fjórðúngum, ok höfðu menn mörg mál tilbúin.

*Cap. 115. Frá Flosa Þórðarsyni.* — Flosi spyrr víg Höskuldar, ok fær honum þat mikillar áhyggju ok reiði, ok var hann þó vel stiltr. Honum var sagðr málatilbúnaðr sá sem hafðr hafði verit eptir víg Höskuldar, ok lagði hann fátt til; hann sendi orð Halli á Síðu mági sínum ok Ljóti syni hans, at þeir skyldu fjölmenna mjök til þings. Ljótr þótti bezt höfðíngja efni austr þar; honum var þat fyrirspáð, ef hann riði þrjú sumur til þings ok kæmi heill heim, at þá mundi hann verða mestr höfðingi í ætt sinni ok elztr, hann hafði þá riðit eitt sumar til þings, en nú ætlaði hann annat. Flosi sendi orð Kol Þórsteinssyni ok Glúmi, syni Hildis ens gamla, ok Móðólfi Ketilssyni, ok riðu þeir allir til móts við Flosa. Hallr hèt ok at fjölmenna mjök. Flosi reið þar til, er hann kom í Kirkjubæ til Surts Ásbjarnarsonar, þá sendi Flosi eptir Kolbeini Egilssyni, bróðursyni sínum, ok kom hann þar, þaðan reið hann til Höfðabrekku, þar bjó Þórgrímr Skrauti, son Þórkels ens fagra. Flosi bað hann ríða til alþingis með sèr, en hann játaði ferðinni ok mælti til Flosa: Optar hefir þú glaðari verit bóndi enn nú, ok er þó nokkur vârkunn á, þótt svâ sè. Flosi mælti: Þat hefir nú víst at hendi borit, er ek mynda gefa til mína eigu alla at þat hefði eigi framkomit, er ok illu korni til sáð, enda mun illt af gróa. Þaðan reið hann um Arnarstaksheiði ok á Sólheima um kveldit, þar bjó Loðmundr Úlfsson, en

hann var vinr mikill Flosa, ok var hann þar um nóttina; en um morguninn reið Loðmundr með honum i Dal, þar bjó Runólfr, son Úlfs Aurgoða. Flosi mælti til Runólfs: Hèr munu vèr hafa sannar sögur um víg Höskuldar Hvítanessgoða: ertu maðr sannorðr ok kominn nær frètt, ok mun ek því trúa öllu er þú segir mèr frá hvat til saka hefir orðit með þeim. Runólfr mælti: Ekki þarf þat orðum at fegra, at hann hefir meirr enn saklauss veginn verit, ok er hann öllum mönnum harmdauði; þikkir öngum jafnmikit sem Njáli fóstra hans. Þá mun þeim verða íllt til liðveizlu manna, segir Flosi, ok eptirmælanda. Svâ mun þat, segir Runólfr, ef ekki dregr til. Hvat er nú at gert? segit Flosi. Nú eru kvaddir búar ok lýst víginu, segir Runólfr. Hverr gerði þat? segir Flosi. Mörðr Valgarðsson, segir Runólfr. Hve trútt mun þat? segir Flosi. Skyldr er hann mèr, segir Runólfr, en þó mun ek satt frá honum segja at fleiri hljóta íllt af honum enn gott. Þess vil ek nú biðja þik Flosi, at þú gefir ró reiði ok takir þat upp er minnst vandræði standi af, þviat Njáll mun góð boð bjóða ok aðrir enir beztu menn. Flosi mælti: Ríð þú þá til þíngs, Runólfr, ok skulu mikit þín orð mega við mik, nema til verra dragi enn vera skyldi. Síðan hættu þeir talinu, ok hèt Runólfr ferðinni. Runólfr sendi orð Hafri enum spaka, frænda sínum, hann reið þegar þángat. Flosi reið þaðan i Ossabæ.

*Cap. 116. Frá Flosa ok Hildigunni.* — Hildigunnr var úti ok mælti: Nú skulu allir heimamenn minir vera úti er Flosi ríðr í garð, en konur skulu ræsta húsin ok tjalda ok búa Flosa öndugi. Síðan reið Flosi i túnit. Hildigunnr sneri at honum ok mælti: Kom heill ok sæll frændi, ok er fegit orðit hjarta mitt tilkvâmu þinni. Hèr skulu vèr, segir Flosi, eta dagverð ok ríða siðan; þá voru bundnir hestar þeirra. Flosi gekk inn í stofuna ok settist niðr, ok kastaði i pallinn undan sèr hásætinu ok mælti: Hvarki em ek konúngr nè jarl, ok þarf ekki at gera hásæti undir mèr, ok þarf

ekki at spotta mik. Hildigunnr var nærstödd ok mælti: þat er illa ef þèr mislíkar, þvíat þetta gerðum vèr af heilum hug. Flosi mælti: Ef þú hefir heilan hug við mik, þá mun sjálft lofa sik ef vel er, enda mun sjálft lasta sik ef illa er. Hildigunnr hló kaldahlátr ok mælti: Ekki er enn mark at, nærr munu vit gángast enn, áðr lýkr; hún settist niðr hjá Flosa, ok töluðu þau lengi hljótt. Síðan voru borð tekin, en Flosi tók laugar ok lið hans. Flosi hugði at handklæðinu, ok var þat raufar einar ok numit til annars endans, hann kastaði í bekkinn, ok vildi eigi þerra sèr á, ok reist af borðdúkinum ok þerði sèr þar á ok kastaði til manna sinna; síðan settist Flosi undir borð ok bað menn eta. Þá kom Hildigunnr í stofu ok gekk fyri Flosa ok greiddi hárit frá augum sèr ok grèt. Flosi mælti: Skapþúngt er þèr nu frændkona, er þú grætr, en þó er þat vel er þú grætr góðan mann. Hvert eptirmæli skal ek af þèr hafa, segir hún, eða liðveizlu? Flosi mælti: Sækja mun ek mál þitt til fullra laga, eða veita til þeirra sætta, er góðir menn sjá at vèr sèm vel sæmdir af í alla staði. Hún mælti: Hefna myndi Höskuldr þin, ef hann ætti eptir þik at mæla. Flosi svaraði: Eigi skortir þik grimmleik, ok sèð er hvat þú vilt. Hildigunnr mælti: Minna hafði misgert Arnórr Örnólfsson úr Forsárskógum við Þórð Freysgoða föður þinn, ok vâgu bræðr þínir hann á Skaptafèllsþingi, Kolbeinn ok Egill. Hildigunnr gekk þá fram í skálann ok lauk upp kistu sinni; tók hún þá upp skikkjuna Flosanaut, ok í þeirri hafði Höskuldr veginn verit, ok hafði hún þar varðveitt í blóðit allt. Hún gekk þá innar í stofuna með skikkjuna, hún gekk þegjandi at Flosa, þá var Flosi mettr ok afborit af borðinu. Hildigunnr lagði yfir Flosa skikkjuna, dundi þá blóðit um hann allan, hún mælti þá: Þessa skikkju gaf þú Flosi Höskuldi, ok vil ek nú gefa þèr aptr, var hann í þessi veginn: skýt ek því til guðs ok góðra manna, at ek særi þik fyrir alla krapta Krists þins ok fyrir manndóm ok karlmennsku þína, at þú hefnir þeirra

allra sára sem hann hafði á sèr dauðum, eða heit hvers manns niðíngr ella. Flosi kastaði af sèr skikkjunni ok rak i fáng henni ok mælti: Þú ert et mesta forað, ok vildir at vèr tækim þat upp er öllum oss gegnir verst, ok eru köld kvennaráð. Flosa brá svâ við at hanu var í andliti stundum sem blóð, en stundum fölr sem gras, en stundum blár sem hel. Þeir Flosi riðu í brot, hann reið til Holtavaðs ok bíðr þar Sigfússona ok annarra sinna manna. Íngjaldr bjó at Keldum, bróðir Hróðnýar, móður Höskuldar Njálssonar. Flosi sendi orð Íngjaldi at hann kæmi til hans. Íngjaldr fór þegar við enn fimtánda mann, þeir voru allir heimamenn hans. Íngjaldr var mikill maðr ok styrkr ok fálátr ok enn hraustasti karlmaðr ok fèdrengr góðr við vini sina. Flosi fagnaði honum vel ok mælti til hans: Mikill vandi er kominn at hendi oss mágum, ok er nú vant úr at ráða: bið ek þik at þú skilist eigi við mitt mál fyrr en lýkr yfir vandræði þessi. Íngjaldr mælti: Við vant em ek um kominn fyrir teingða sakir við Njál ok sonu hans ok annarra stórra hluta, er hèr hvarfa i milli. Flosi mælti: Þat ætlaða ek þá er ek gipta þèr bróðurdóttur mína, at þú hètst mèr því at veita mèr at hverju máli. Þat er ok likast, segir Íngjaldr, at ek gera svâ, en þó vil ek nú heim ríða fyrst, ok þaðan til þings.

*Cap. 117. Frá Flosa ok Merði ok Sigfússonum.* — Sigfússynir spurðu at Flosi var við Holtavað, ok riðu þángat til móts við hann, ok var þar Ketill úr Mörk ok Lambi bróðir hans, Þorkell ok Mörðr Sigfússynir, Sighvatr, bróðir þeirra, ok Lambi Sigurðarson ok Gunnarr Lambason ok Grani Gunnarsson, Vebrandr Hámundarson. Flosi stóð upp í móti ok fagnaði þeim glaðliga, þeir gengu fram at ánni. Flosi hafði af þeim sannar sögur, ok skildi þá ekki á ok Runólf úr Dal. Flosi mælti til Ketils úr Mörk: Þik kveð ek at þessu: hversu harðsnúinn ertu á þetta mál eða aðrir Sigfússynir? Ketill mælti: Þat vilda ek at sættir yrði

með oss; en þó hefi ek svarit eiða at skiljast eigi við þessi mál fyrr en yfir lýkr með nokkuru móti ok leggja líf á. Flosi mælti: Drengr ertu góðr, ok er slíkum mönnum allvel farit. Þeir tóku báðir senn til orða, Grani Gunnarsson ok Gunnarr Lambason: Sektir viljum vèr at framkomi ok mannráð. Flosi mælti: Eigi er ráðit at bæði sè at vit kjósim ok deilim. Grani mælti: Þat var mèr þá í hug er þeir drápu Þráin við Markarfljót, en síðan Höskuld son hans, at ek mynda alldri sættast við þá heilum sáttum, þvíat ek vilda vera þar gjarna er þeir væri allir drepnir. Flosi mælti: Setit hefir þú svâ nær, at þú mættir hafa hefnt þessa, ef þú hefðir haft til þrek ok karlmennsku; þikki mèr sem þess beiðist þú nú ok margir aðrir, er myndir mikit fè til gefa, at þú hefðir eigi orðit viðstaddr: sè ek þat gerla, þótt vèr drepim Njál eða sonu hans, þá eru þeir svâ mikilsháttar menn ok stórættaðir, at þar mun svâ mikit eptirmál verða, at vèr munum fyrir margs manns knè gánga verða ok biðja oss liðs, áðr vèr komim oss í sætt ok úr þessum vanda: megit þèr ok svâ til ætla at þeir munu margir snauðir, er áðr eigu stór fè, en sumir munu láta bæði fèit ok lífit. Mörðr Valgarðsson reið til fundar við Flosa ok kvaðst ríða vilja til þings með honum með öllu liði sínu. Flosi tók því vel ok hóf bónorð við hann, at hann skyldi gipta Rannveigu, dóttur sína, Starkaði, er bjó at Stafafelli, bróðursyni Flosa. Gekk Flosa þat til at hann þóttist svâ ráða undir sik trúnað hans ok fjölmenni. Mörðr tók vænliga á ok veik undir Gizur Hvíta ok bað tala um á þingi. Mörðr átti Þórkötlu, dóttur Gizurar Hvíta. Þeir Mörðr ok Flosi riðu báðir saman á þíng ok töluðu alla daga, ok vissi engi þeirra ráðagerð.

*Cap. 118. Um viðrtal Njáls ok Skarphèðins.* — Njáll mælti við Skarphèðin: Hverja ráðagerð hafit þèr nú fyrir yðr bræðr ok Kári? Skarphèðinn mælti: Lítt rekjum vèr drauma til flestra hluta, en þèr til at segja þá munu vèr

ríða í Túngu til Ásgríms Elliðagrímssonar ok þaðan til þings; en hvat ætlar þú um ferð þína faðir? Njáll segir: Ríða mun ek til þings, þvíat þat er sómi minn at skiljast eigi við yðvart mál meðan ek lifi: væntir mik þess at margir verpi þar góðum orðum á mik, ok njótit þér mín, en gjaldit hvergi. Þar var Þórhallr Ásgrímsson, fóstri Njáls, þeir Njálssynir hlógu at honum, er hann var í kasti mórendu, ok spurðu hve lengi hann ætlaði at hafa þat? Hann svaraði: Kastat skal ek því hafa þá er ek á at mæla eptir fóstra minn. Njáll mælti: Þá muntu bezt gefast, er mest liggr við. Þeir bjuggust allir heiman þaðan ok voru nær þrjátíu manna, ok riðu þar til er þeir komu til Þjórsár, þá komu þeir eptir, frændr Njáls, Þórleifr Krákr ok Þórgrímr enn mikli, þeir voru synir Holtaþóris, ok buðu lið sitt Njálssonum ok atgöngu, ok þeir þágu þat. Ríða þá allir saman yfir Þjórsá, ok þar til er þeir komu á Laxár bakka ok æja þar, ok kom þar til móts við þá Hjalti Skeggjason, ok tóku þeir Njálssynir þegar tal með sér ok töluðu lengi hljótt. Hjalti mælti: Þat mun ek sýna jafnan at ek em ekki myrkr í skapi: Njáll hefir beðit mik liðveizlu, hefi ek ok i gengit ok heitit honum mínu liðsinni; hefir hann áðr selt mér laun ok mörgum öðrum í heilræðum. Hjalti segir Njáli allt um ferðir Flosa. Þeir sendu Þórhall í Túngu fyrir at segja Ásgrími at þeir mundu þángat um kveldit. Ásgrímr bjóst þegar við ok var úti er Njáll reið í tún. Njáll var í blárri kápu ok hafði þófahött á höfði ok taparöxi í hendi. Ásgrímr tók Njál af hesti ok bar hann inn ok setti hann í sæti; síðan gengu þeir inn allir Njálssynir ok Kári. Ásgrímr gekk þá út. Hjalti vildi snúa í braut ok þótti þar ofmargt vera. Ásgrímr tók í taumana ok kvað hann eigi skyldi ná í braut at ríða, ok lèt taka af hestum þeirra ok fylgði Hjalta inn ok setti hann hjá Njáli, en þeir Þórleifr sátu á annan bekk ok menn þeirra. Ásgrímr settist á stól fyrir Njál ok spurði: Hversu segir þèr hugr um mál vor? Njáll segir: Heldr

þúngliga, þvíat mik uggir at hèr muni eigi gæfumenn í hlut eiga; en þat vilda ek vinr at þú sendir eptir öllum þíngmönnum þínum ok ríðir til þings með mèr. Þat hefi ek ætlat, segir Ásgrímr, ok því mun ek heita þèr með, at úr yðrum málum mun ek alldri gánga meðan ek fæ nokkura menn með mèr; en allir þökkuðu honum, þeir er inni voru, ok kváðu slikt drengiliga mælt. Þar voru þeir um nóttina, en um daginn eptir kom þar allt lið Ásgríms. Síðan ríða þeir allir saman þar til er þeir koma á þíng upp ok tjalda búðir sinar.

*Cap. 119. Liðsbón Ásgríms ok Njálssona.* — Flosi var þá kominn á þíng ok skipaði alla búð sína. Runólfr skipaði Dalverjabúð, en Mörðr Rángæingabúð. Hallr af Síðu var lengst kominn austan, en nær ekki annarra manna. Hallr af Síðu hafði þó fjölmennt mjök ok fór þegar í lið með Flosa ok bað hann sætta ok friðar. Hallr var vitr maðr ok góðgjarn. Flosi svaraði öllu vel ok tók þó litit af. Hallr spurði hverir honum höfðu liðsinni heitit. Flosi nefndi til Mörð Valgarðsson ok kvaðst hafa beðit dóttur hans til handa Starkaði frænda sínum. Hallr kvað góðan kost í henni, en kvað allt illt við Mörð at eiga: ok muntu þat reyna áðr þessu þíngi sè lokit; síðan hættu þeir talinu. Þat var einnhvern dag at þeir Njáll ok Ásgrímr töluðu lengi hljótt, þá spratt Ásgrímr upp ok mælti til Njálssona: Gánga munu vèr ok leita oss vina, at vèr verðim eigi bornir ofliði, þvíat þetta mál mun verða sótt með kappi. Ásgrímr gekk þá út ok næst Helgi Njálsson, þá Kári Solmundarson, þá Grímr Njálsson, þá Skarphèðinn, þá Þórhallr, þá Þórgrímr mikli, þá Þórleifr Krákr; þeir gengu til búðar Gizurar Hvíta ok inn í búðina. Gizurr stóð upp í móti þeim ok bað þá sitja ok drekka. Ásgrímr segir: Eigi veit þannig við, ok skal þetta ekki á mútr mæla: hverja liðveizlu skal ek þar eiga er þú ert, frændi? Gizurr mælti: Þat mundi Jórunn

systir mín ætla, at ek munda eigi undan skerast þèr at veita; skal ok svâ vera nú ok optar at eitt skal yfir okkr gánga. Ásgrímr þakkaði honum ok gekk í brot síðan, þá spurði Skarphèðinn: Hvert skulu vèr nú gánga? Ásgrímr segir: Til búðar Ölvusinga; síðan gengu þeir þángat. Ásgrímr spurði hvârt Skapti Þóroddsson væri at búð, honum var sagt at hann var þar, gengu þeir þá inn í búðina. Skapti sat á pallinum ok fagnaði Ásgrími, hann tók því vel. Skapti bauð Ásgrími at sitja hjá sèr. Ásgrímr kvaðst skamma dvöl eiga myndu: en þó er við þik eyrindit. Lát heyra þat, segir Skapti. Ek vil biðja þik liðsinnis, at þú veitir at málum vorum. Hitt hafða ek ætlat, segir Skapti, at ekki myndi koma vandræði yður í híbýli mín. Ásgrímr segir: Illa er slikt mælt, at verða mönnum þá sízt at liði er mest liggr við. Hverr er sá maðr, segir Skapti, er fjórir menn gánga fyrir: mikill maðr ok fölleitr, ógæfusamligr, harðligr ok tröllsligr? hann svarar: Skarphèðinn heiti ek, segir hann, ok hefir þú sèð mik jafnan á þingi, en vera mun ek því vitrari en þú, at ek þarf eigi at spyrja hvat þú heitir, þú heitir Skapti Þóroddsson, en fyrr kallaðir þú þik Burstakoll þá er þú hafðir drepit Ketil úr Eldu, gerðir þú þèr þá koll ok bar tjöru í höfuð þèr, síðan keyptir þú at þrælum at rista upp jarðarmen, ok skreið þú þar undir um nóttina; síðan fórtu til Þórólfs Loptssonar á Eyrum, ok tók hann við þèr og bar þik út í mjölsekkjum sínum. Eptir þat gengu þeir Ásgrímr út. Skarphèðinn spurði: Hvert skulum vèr nú gánga? Til búðar Snorra Goða, segir Ásgrímr. Síðan gengu þeir til búðar Snorra, þar var einn maðr úti fyrir búðinni. Ásgrímr spurði hvârt Snorri væri í búð, sá sagði at hann væri þar. Ásgrímr gekk inn í búðina ok þeir allir. Snorri sat á palli. Ásgrímr gekk fyrir hann ok kvaddi hann vel. Snorri tók honum blíðliga ok bað hann sitja. Ásgrímr kvaðst þar

skámma dvöl myndu eiga: en við þik er erindit. Snorri bað hann segja þat. Ásgrímr mælti: Ek vilda at þú færir til dóma með mèr ok veittir mèr lið, þvíat þú ert vitr ok framkvæmdarmaðr mikill. Þúngt gánga oss nú málaferlin, segir Snorri goði, ok draga sik nú fram mjök margir í móti oss, ok eru vèr því trauðir at taka vandræði annarra í aðra fjórðúnga. Várkunn er þat, segir Ásgrímr, þvíat þú átt oss ekki varlaunat. Veit ek at þú ert góðr drengr, segir Snorri, ok vil ek því heita þèr, at ek skal hvergi í móti þèr vera, ok eigi veita lið úvinum þínum. Ásgrímr þakkaði honum. Snorri goði mælti: Hverr er sá maðr er fjórir gánga fyrir: föllcitr ok skarpleitr ok glottir við tönn, ok hefir öxi reidda um öxl? Hèðinn heiti ek, segir hann, en sumir menn kalla mik Skarphèðin öllu nafni, eða hvat viltu fleira til mín tala. Snorri goði mælti: Þat at þú þikkir mèr maðr harðligr ok mikilfengligr, en þó get ek at þrotin sè þín en mesta gæfa, ok skamt get ek eptir þinnar æfi. Vel er þat, segir Skarphèðinn, þvíat þá skuld eigu allir at gjalda, en þó er þèr meiri nauðsyn at hefna föður þíns, en spá mèr slíkar spár. Margir hafa þat mælt áðr, segir Snorri, ok mun ek ekki við sliku reiðast. Eptir þat gengu þeir út ok fengu þar öngva liðveizlu. Þaðan fóru þeir til búðar Skagfirðinga, þá búð átti Hafr inn auðgi, þeir Ásgrímr gengu inn í búðina. Hafr sat í miðri búðinni ok talaði við mann. Ásgrímr gekk at honum ok heilsaði á hann, hann tók því vel ok bauð honum at sitja. Ásgrímr mælti: Hins vilda ek biðja þik attu veittir mèr lið ok mágum mínum. Hafr svaraði skjótt ok kvaðst ekki taka mundu undir vandræði þeirra: En þó vil ek spyrja hverr sá er, inn föllciti, er fjórir menn gánga fyrir, ok svâ illiligr sem genginn sè út úr sjávar hömrum. Skarphèðinn mælti: Hirð ekki þú þat, milki þinn, hverr ek em, þvíat ek mun þora þar fram at gánga er þú sitr fyrir, ok munda ek alllítt hræðast þótt slíkir sveinar væri á götu minni; er þèr ok skyldra at

sækja Svanlögu systur þína, er Eydís Járnsaxa ok þau Steðjakollr tóku í braut úr híbýlum þínum, ok þorðir þú ekki at at hafa. Ásgrímr mælti: Göngum út, ekki er hèr vân liðveizlu. Síðan gengu þeir til Möðruvellinga búðar ok spurðu hvârt Guðmundr inn ríki væri í búðinni, en þeim var sagt at hann var þar; þeir gengu þá inn í búðina, hásæti var í miðri búðinni, ok sat þar Guðmundr ríki. Ásgrímr gekk fyrir hann ok kvaddi hann. Guðmundr tók honum vel ok bauð honum at sitja. Ásgrímr mælti: Eigi vil ek sitja, en biðja vil ek þik liðsinnis, þvíat þú ert kappsamr ok mikill höfðingi. Guðmundr mælti: Ekki skal ek móti þèr vera, en ef mèr sýnist at veita þèr lið, þá munu vit vel mega tala um þat síðar; ok tók á öllu vel. Ásgrímr þakkaði honum orð sín. Guðmundr mælti: Maðr er sá einn í liði yðru er ek hefi horft á um hríð, ok lízt mèr ógurligri flestum mönnum, þeim er ek hefi sèð. Hverr er sá? segir Ásgrímr. Fjórir gánga fyrir; er hann, segir Guðmundr, jarpr á hár ok föllitaðr, mikill vöxtum ok ernligr, ok svâ skjótligr til karlmennsku at heldr vilda ek hans fylgi hafa enn tíu annarra, ok er þó maðrinn úgæfusamligr. Skarphèðinn mælti: Veit ek at þú þikkist til mín mæla, ok er eigi einn veg farit ógæfu okkarri: ek hefi ámæli af vígi Höskuldar Hvítaness goða, sem vârkunn er, en þeir gerðu illmæli um þik, Þórkell Hákr ok Þórir Helgason, ok hefir þú af því ina mestu skapraun; gengu þeir þá út. Skarphèðinn mælti þá: Hvert skulu vèr nú gánga? Til Ljósvetninga búðar, segir Ásgrímr; þá búð hafði tjaldat Þórkell Hákr, hann var son Þórgeirs goða, Tjörfasonar, Þórkelssonar lángs, en móðir hans var komin frá Grími Loðinkinna. Þórkell Hákr hafði verit utan ok framit sik í öðrum löndum: hann hafði drepit spellvirkja austr á Jamtaskógi, síðan fór hann austr í Svíþjóð ok fór til lags með Sörkvi karli, ok herjuðu þeir í Austrveg, en fyrir austan Balagarðssíðu átti Þórkell at sækja

þeim vatn eitt kveld, þá mætti hann finngálkni ok varðist því lengi, en svâ lauk með þeim at hann drap finngálknit; þaðan fór hann austr í Aðalsýslu, þar vâ hann at flugdreka. Síðan fór hann aptr til Svíþjóðar ok þaðan til Noregs ok síðan út til Íslands, ok lèt hann gera þrekvirki þessi yfir lokhvílu sinni ok á stóli fyrir hásæti sínu. Hann barðist ok á Ljósvetníngaleið við Guðmund inn ríka með bræðrum sínum, ok höfðu Ljósvetníngar sigr, gerðu þeir síðan illmæli um Guðmund, þórir Helgason ok þórkell Hákr. þórkell mælti svâ, at sá væri eingi á Íslandi at hann myndi eigi gánga til einvígis við ef þyrfti, eða á hæl hopa fyrir: var hann fyrir því kallaðr þórkell Hákr at hann eirði öngu, hvârki í orðum nè verkum, við hvern sem hann átti.

*Cap. 120. Frá Skarphèðni ok þórkatli Hák.* — Ásgrímr ok þeir fèlagar gengu til búðar þórkels Háks. Ásgrímr mælti þá til fèlaga sinna: þessa búð á þórkell Hákr, kappi mikill, ok væri oss mikit undir at vèr fengim liðsinni hans, skulu vèr hèr til gæta í alla staði, þvíat hann er einlyndr ok skapvandr: vil ek nú biðja þik Skarphèðinn, at þú lètir ekki til þín taka um tal vort. Skarphèðinn glotti at ok var svâ búinn at hann var í blám kyrtli ok í blárendum brókum, ok uppháfa svarta skúa á fótum, hann hafði silfrbelti um sik ok öxi þá í hendi er hann hafði drepit þráin með, ok hann kallaði Rimmugýgi, ok törgubúklara ok silkihlað um höfuð ok greitt hárit aptr um eyrun, hann var allra manna hermannligastr, ok kendu því hann allir menn; hann gekk sem honum var skipat ok hvârki fyrr nè síðar. þeir gengu nú inn í búðina innanverða. þórkell sat á miðjum palli ok menn hans alla vega út í frá honum. Ásgrímr kvaddi hann. þórkell tók því vel. Ásgrímr mælti til hans: Til þess erum vèr hingat komnir at biðja þik liðveizlu, attu gángir til dóma með oss. þórkell mælti: Hvat munu þèr þurfa

minnar liðveizlu, þar sem þèr gengut til Guðmundar, ok myndi hann heita yðr liði sínu. Ekki fengu vèr hans liðsinni, segir Ásgrímr. Þórkell mælti: Þá þótti Guðmundi úvinsælt vera málit, ok mun svâ ok vera, þvíat slík verk hafa verst verit unnin, ok veit ek eigi hvat þèr hefir til gengit hingat at fara, at þú ætlaðir at ek mynda vera úhlutvandari enn Guðmundr, ok mynda ek vilja fylgja at raungu máli. Ásgrímr þagnaði þá ok þótti þúngt fyrir. Þórkell mælti: Hverr er sá enn mikli ok enn ferligi er fjórir menn gánga fyrir: fölleitr ok skarpleitr, ógæfusamligr ok illmannligr? Skarphèðinn mælti: Ek heiti Skarphèðinn, segir hann, ok er þèr skuldlaust at velja mèr hæðiyrði, saklausum manni. Hefir mik alldri þat hent at ek hafa kúgat föður minn ok barizt við hann, sem þú gerðir við þinn föður, hefir þú ok lítt riðit til alþingis eða starfat í þingdeildum, ok mun þèr kríngra at hafa ljósaverk at búi þínu enn at Öxará í fásinninu: er þèr ok nærr at stánga úr tönnum þèr rasgarnarendann merarinnar er þú átzt áðr þú reitt til þings, ok sá smalamaðr þinn ok undraðist þat er þú gerðir slíka fúlmennsku. Þórkell spratt þá upp af mikilli reiði ok þreif sax sitt ok mælti: Þetta sax fèkk ek í Svíþjóðu, ok drap ek enn mesta kappa, en síðan vâ ek margan mann með, ok þegar ek nái til þín skal ek reka þat í gegnum þik, ok skaltu þat hafa fyrir fáryrði þín. Skarphèðinn stóð með reidda öxina ok glotti við ok mælti: Þessa öxi hafða ek í hendi þá er ek hljóp tólf álna yfir Markarfljót, ok vâ ek Þráin Sigfússon, ok stóðu þeir átta fyrir, ok fèkk engi þeirra fáng á mèr; hefi ek ok alldri svâ reiðt vâpn at manni at eigi hafi við komit; síðan hratt hann þeim frá, bræðrum sínum ok Kára mági sínum, ok óð fram at Þórkeli. Skarphèðinn mælti þá: Gerðu nú annathvârt, Þórkell Hákr, at þú slíðra saxit ok setst niðr, eða ek keyri öxina

i höfuð þèr ok klýf þik í herðar niðr. Þórkell settist þá niðr ok slíðraði saxit, ok hafði hvârki orðit á fyrir honum áðr nè síðan, þeir Ásgrímr gengu þá út. Skarphèðinn mælti: Hvert skulum vèr nú gánga? Ásgrímr svaraði: Heim til búðar vorrar. Þá föru vèr bónleiðir til búðar, segir Skarphèðinn. Ásgrímr mælti þá: Margstaðar hefir þú verit heldr orðhvass; en hèr er Þórkell átti hlut at, þikki mèr þú þat eitt hafa á hann leikit er makligt er. Gengu þeir þá heim til búðar sinnar ok sögðu Njáli frá öllu sem gerst, hann mælti: Búit dragi til þess sem vera vill. Guðmundr inn ríki spurði nú hversu farit hafði með þeim Skarphèðni ok Þórkatli, ok mælti svâ: Kunnigt er yðr hversu farit hefir með oss Ljósvetníngum, ok hefi ek alldri farit jafnmikla sköm nè sneypu fyrir þeim sem nú fór Þórkell fyrir Skarphèðni, ok er þetta allvel orðit. Hann mælti þá til Einars Þveræings, bróður síns: Þú skalt fara með öllu liði mínu ok veita Njálssonum, þá er dómar fara út; en ef þeir þurfa liðs við annat sumar, þá skal ek sjálfr veita þeim lið. Einarr játaði því ok lèt segja Ásgrími. Ásgrímr mælti: Olíkr er Guðmundr flestum mönnum at höfðingskap, ok sagði síðan Njáli.

*Cap. 121. Af málatilbúnaði.* — Annan dag eptir fundust þeir Ásgrímr ok Gizurr Hvíti, Hjalti Skeggjason ok Einarr Þyeræingr, þar var þá ok Mörðr Valgarðsson, hann hafði þá látit af höndum sökina ok selt í hendr Sigfússonum. Þá mælti Ásgrímr: Þik kveð ek at þessu fyrstan, Gizurr Hvíti ok Hjalti ok Einarr, at ek vil segja yðr í hvert efni komit er málum þessum: yðr mun þat kunnigt at Mörðr hefir sótt málit, en svâ er við vaxit at Mörðr hefir verit at vígi Höskuldar ok sært hann því sári er engi var til nefndr, sýnist mèr sem þetta mál muni ónýtt vera fyrir lagasakir. Þá viljum vèr þat frambera þegar, segir Hjalti. Þórhallr Ásgrímsson mælti: Þat er ekki ráð at eigi fara þetta leynt allt þar til er dómar fara út. Hverju skiptir þat? segir

Hjalti. Þórhallr mælti: Ef þeir vita nú þat þegar at rángt hafi verit tilbúit málit, þá megu þeir svâ bjarga sökinni at senda mann heim af þíngi ok stefna heiman til þíngs, en kveðja búa á þíngi, ok er þá rètt sótt málit. Vitr maðr ertu, Þórhallr, segja þeir, ok skal þín ráð hafa. Eptir þetta gekk hverr til sinnar búðar. Sigfússynir lýstu sökum at lögbergi ok spurðu at þíngfesti ok heimilisfángi, en föstunóttina skyldu fara út dómar til sóknar, er nú kyrt þíngit þar til. Margir leituðu um sættir með þeim, ok var Flosi erfiðr, en aðrir þó miklu orðfleiri, ok þótti óvænliga horfa. Nú kemr at því sem dómar skyldu útfara föstukveldit, gekk þá allr þíngheimr til dóma. Flosi stóð sunnan at Rángæíngadómi ok lið hans, þar var með honum Hallr af Síðu ok Runólfr úr Dal, sonr Úlfs Aurgoða, ok aðrir, þeir sem Flosa höfðu liði heitit, en norðan at Rángæíngadómi stóðu þeir Ásgrímr Elliðagrímsson ok Gizurr Hvíti, Hjalti Skeggjason ok Einarr Þveræingr; en Njálssynir voru heima við búð ok Kári ok Þórleifr Krákr ok Þórgeirr Skorargeirr ok Þórgrímr mikli; þeir sátu allir með vâpnum, ok var þeirra flokkr óárenniligr. Njáll hafði beðit dómendr at gánga í dóminn. Sigfússynir sækja nú málit: þeir nefndu vâtta ok buðu Njálssonum at lýða til eiðspjalls sins, síðan unnu þeir eið, þá sögðu þeir fram sök, þá lètu þeir frambera lýsingar vætti, þá buðu þeir búum í setu, þá buðu þeir til ruðningar um kviðinn. Þá stóð upp Þórhallr Ásgrímsson ok nefndi vâtta ok varði lýriti kviðburðinn, fann þat til at sá hafði lýst sökinni, er sannir lagalestir voru á, ok sjálfr var útlagi. Til hvers mælir þú þetta? segir Flosi. Þórhallr mælti: Mörðr Valgarðsson fór til vígs Höskuldar með Njálssonum ok særði hann því sári, er engi maðr var tilnefndr, þá er vâttar voru nefndir at benjum: megut èr eigi í móti mæla at ónýtt sè málit.

*Cap. 122. Frá sættargerð þeirra Flosa ok Njáls.* — Njáll stóð þá upp ok mælti: Þess bið ek Hall af Síðu ok

Flosa ok alla Sigfússonu ok alla vora menn, at þèr gangit eigi í brot ok heyrit mál mitt; þeir gerðu svâ, hann mælti þá: Svâ sýnist mèr sem mál þetta sè komit í ónýtt efni, ok er þat at líkindum, þvíat af illum rótum hefir upprunnit. Vil ek yðr þat kunnigt gera, at ek unna meira Höskuldi enn sonum mínum, ok er ek spurða at hann var veginn þótti mèr slökkt et sætasta ljós augna minna, ok heldr vilda ek mist hafa allra sona minna ok lifði hann. Nú bið ek þik, Hallr af Síðu ok Runólfr úr Dal, Hjalti Skeggjason ok Einarr þveræingr ok Hafr inn spaka, at ek ná at sættast á víg Höskuldar fyrir hönd sona minna, ok vil ek at geri um þeir er bezt eru til fallnir. Þeir Gizurr ok Hafr ok Einarr töluðu sitt eyrindi hverr þeirra ok báðu Flosa sættar ok hètu honum sinni vináttu í móti. Flosi svaraði þá öllu vel, en hèt þó eigi. Hallr af Síðu mælti þá til Flosa: Viltu nú efna orð þín ok veita mèr bæn mína, er þú hefir áðr heitit mèr, þá er ek kom utan Þórgrími syni Digrketils, frænda þínum, er hann hafði vegit Halla inn rauða? Flosi mælti: Veita vil ek þèr mágr, þvíat þú munt þess eins biðja at mín sæmd sè þá meiri en áðr. Hallr mælti: Þá vil ek at þú sættist skjótt ok látir góða menn gera um, ok kaupir þú þèr svá vináttu góðra manna. Flosi mælti: Þat vil ek yðr kunnigt gera, at ek vil gera fyrir orð Halls mágs míns ok annarra enna beztu drengja, at hann geri um ok enir beztu menn af hvârra liði lögliga til nefndir: þikki mèr Njáll makligr vera at ek unna honum þess. Njáll þakkaði honum ok þeim öllum, ok aðrir þeir er hjá voru ok kváðu Flosa vel farit hafa. Flosi mælti: Nú vil ek nefna mína gjörðarmenn: nefni ek fyrstan Hall mág minn, Özur frá Breiðá, Surt Ásbjarnarson úr Kirkjubæ, Móðólf Ketilsson, hann bjó þá í Ásum, Hafr inn spaka ok Runólf úr Dal, ok mun þat einmælt at þessir sè bezt tilfallnir af öllum mínum mönnum; bað hann nú Njál nefna sína gerðarmenn. Njáll stóð þá upp ok mælti: Til þessa nefni ek fyrstan Ásgrím Elliðagrímsson ok Hjalta Skeggja-

son, Gizur Hvíta, Einar Þveræing, Snorra goða ok Guðmund inn ríka. Síðan tókust þeir í hendr, Njáll ok Flosi ok Sigfússynir, ok handsalaði Njáll fyrir alla sonu sína ok Kára mág sinn þat sem þessir tólf menn dæmdi, ok mátti svâ atkveða at allr þíngheimr yrði þessu feginn. Voru þá sendir menn eptir Snorra ok Guðmundi, þvíat þeir voru í búðum sínum; var þá mælt, at dómendr skyldu sitja í lögréttu, en allir aðrir gengi í braut.

*Cap. 123. Frá dómendum.* — Snorri goði mælti svá: Nú eru vèr hèr tólf dómendr er málum þessum er til skotit; vil ek nú biðja yðr alla at vèr hafim öngva trega í málum þessum, svâ at þeir megi eigi sáttir verða. Guðmundr mælti: Vilit èr nokkut hèraðsektir gera eða utanferðir? Öngva, segir Snorri, þvíat þat efnist opt illa, ok hafa menn fyrir þat drepnir verit ok orðit úsáttir, en gera vil ek fèsætt svâ mikla, at engi maðr hafi dýrri verit hèr á landi enn Höskuldr; hans orð mæltust vel fyrir. Síðan töluðu þeir um málit ok urðu eigi ásáttir, hverr fyrst skyldi uppkveða hversu mikil fèsekt vera skyldi, ok kom svâ at þeir hlutuðu um, ok hlaut Snorri upp at kveða. Snorri mælti: Ekki mun ek lengr yfir þessu sitja: mun ek nú segja yðr hvat mitt ákvæði er, at ek vil Höskuld bæta láta þrennum manngjöldum, en þat eru sex hundruð silfrs, skulut èr nú atgera ef yðr þikkir ofmikit eða oflítit; þeir svöruðu at þeir skyldu hvergi atgera; þat skal ok fylgja at hèr skal allt fèit uppgjaldast á þínginu. Þá mælti Gizurr Hvíti: Þetta þikki mèr varla vera mega, þvíat þeir munu hafa lítinn einn hlut at gjalda fyrir sik. Guðmundr inn ríki mælti: Ek veit hvat Snorri vill, þat vill hann, at vèr gefim til allir gerðarmenn slíkt sem vorr er drengskapr til, ok mun þar þá margr eptir gera. Hallr af Síðu þakkaði honum ok kvaðst gjarna vilja til gefa sem sá er mest gæfi til, játuðu því þá allir gerðarmenn. Eptir þat gengu þeir í braut, ok ræddu þat með sèr, at Hallr skyldi segja upp gjörðina at lögbergi, eptir þat var

hríngt, ok gengu allir menn til lögbergs. Hallr af Síðu stóð upp ok mælti: Mál þat er vèr höfum gert um, höfum vèr orðit vel ásáttir, ok böfum vèr gert sex hundruð silfrs: skulu vèr gjalda upp helmínginn gerðarmenn, ok skal hèr allt uppgjaldast á þínginu, en þat er bænarstaðr minn til allrar alþýðu at nokkurn hlut gefi til fyrir guðs sakir; því svöruðu allir vel, nefndi Hallr þá vátta at gerðinni, at hana skyldi engi rjúfa mega. Njáll þakkaði þeim gerðina. Skarphèðinn stóð hjá ok þagði ok glotti við. Gengu menn þá frá lögbergi ok til búða sinna; en gerðarmenn báru saman i búanda kirkjugarði fè þat sem þeir höfðu heitit til at leggja. Njálssynir seldu fram fè þat er þeir höfðu ok svâ Kári, ok var þar hundrað silfrs, Njáll tók þat fè er hann hafði, ok var þat annat hundrað silfrs. Síðan var fè þetta borit allt saman i lögrèttu, ok gáfu menn þá svâ mikit til at öngvan pening vantaði á. Njáll tók þá silkislæður ok bóta ok lagði á hrúgnna ofan. Síðan mælti Hallr til Njáls at hann skyldi gánga eptir sonum sínum: en ek mun gánga eptir Flosa, ok veiti nú hvârir öðrum trygðir. Njáll gekk þá heim til búðar sinnar ok mælti til sona sinna: Nú er málum vorum komit i gott efni: vèr erum nú menn sáttir, en fè allt komit i einn stað; skulu nú hvârirtveggju gánga til ok veita öðrum grið ok trygðir; vil ek þess nú biðja yðr sonu mína, at þèr spillit i öngu um. Skarphèðinn strauk um ennit ok glotti við. Gánga þeir nú allir til lögrèttu. Hallr gekk til móts við Flosa ok mælti: Gaktu nú til lögrèttu, þvíat nú er fèit allt vel af hendi goldit ok saman komit i einn stað. Flosi bað þá Sigfússonu gánga til með sèr, gengu þeir þá út allir, þeir gengu austan, Njáll gekk vestan at lögrèttu ok synir hans. Skarphèðinn gekk á meðalpallinn ok stóð þar. Flosi gekk i lögrèttu at hyggja at fènu ok mælti: Þetta fè er bæði mikit ok gott ok vel af höndum greitt sem vân er at. Síðan tók hann upp slæðurnar ok veifði ok spurði hverr þær mundi hafa til gefit, en engi

svaraði honum. Í annat sinn veifði hann slæðunum ok spurði hverr til mundi hafa gefit, ok hló at, ok svaraði honum engi. Flosi mælti þá: Hvárt er at engi yðvar veit hverr þenna búning hefir átt, eða þori þér eigi at segja mér? Skarphéðinn mælti: Hvat ætlar þú hverr til hafi gefit? Flosi mælti: Ef þú vilt þat vita þá mun ek segja þér, at ek ætla at til hafi gefit faðir þinn, karlinn skegglausi, þvíat margir vita eigi er hann sjá, hvárt hann er heldr kona eða karlmaðr. Skarphéðinn mælti: Slíkt er illa mælt at sneiða honum afgömlum, er engi hefir áðr til orðit dugandi manna; megit ér þat ok vita at hann er karlmaðr, þvíat hann hefir sonu átt við konu sinni, hafa fáir vorir frændr legit úbættir hjá garði vorum svâ at vér hafim eigi hefnt; ok áttust þeir orðum við þartil er Flosi hratt fénu ok kvaðst þá öngvan penning hafa skyldu af, kvað þá vera skyldu annathvárt, at Höskuldr skyldi vera ógildr ella skyldu þeir hefna hans. Vildi þá Flosi engi grið selja ok engi taka ok mælti til Sigfússona: Göngum vér nú heim, eitt skal yfir oss líða alla. Síðan gengu þeir heim til búðar. Hallr mælti: Hölzti miklir ógæfumenn eiga hér í hlut at. Þeir Njáll ok synir hans gengu heim til búðar. Njáll mælti: Nú kemr þat fram sem mér sagði laungu hugr um at oss mundi þúngt falla þessi mál. Eigi er þat, segir Skarphéðinn, þeir megu alldri sækja oss at landslögum. Þá mun þat fram koma, segir Njáll, er öllum oss mun verr gegna. Þeir menn töluðu um er gefit höfðu féit, at þeir mundu í brot taka. Guðmundr inn ríki mælti: Þá sköm kýs ek mér eigi til handa at taka þat aptr er ek gef, hvárki hér nè annarstaðar. Vel er þetta mælt, sögðu þeir, vildi þá ok engi í brot taka. Snorri goði mælti: Þat er mitt ráð at Gizurr Hvíti ok Hjalti Skeggjason varðveiti féit til annars alþíngis, segir mér svâ hugr um at eigi muni lángt líða áðr til muni þurfa at taka þessa fjár. Hjalti tók ok varðveitti helming fjárins, en Gizurr sumt, gengu menn þá heim til búða sinna.

*Cap. 124. Ráðin atför við Njál ok sonu hans.* — Flosi stefndi öllum sínum mönnum upp í Almannagjá ok gekk þángat sjálfr, þá voru þar komnir allir hans menn, ok voru þat tíu tigir manna. Flosi mælti til Sigfússona: Hversu veiti ek yðr þá at málum þessum at yðr sè skapfelligast? Gunnarr Lambason mælti: Ekki líkar oss fyrr enn þeir bræðr eru allir vegnir Njálssynir. Flosi mælti: Því vil ek heita Sigfússonum at skiljast eigi fyrr við þetta mál en aðrir hvárir hníga fyrir öðrum, vil ek ok þat vita hvárt nokkurr er sá hèr, at oss vili eigi veita at þessu máli; en allir kváðust honum veita vilja. Flosi mælti: Gángi nú allir til mín ok sveri eiða at engi skerist úr þessu máli; þá gengu allir til Flosa ok svörðu honum eiða. Flosi mælti: Vèr skulum ok allir hafa handtak at því, at sá skal hafa fyrirgjört fè ok fjörvi, er úr þessu máli gengr fyrr enn yfir lýkr. Flosi mælti til Sigfússona: Takit èr yðr nú höfðíngja þann er yðr þikkir bezt tilfallinn, þvíat einnhverr mun þurfa at vera fyrir málinu. Ketill úr Mörk svaraði: Ef undir oss bræðr skal koma kjörit, þá munu vèr þat skjótt kjósa at undir þik falli sá vandi; heldr þar margt til þess: þú ert maðr ættstórr ok höfðíngi mikill, harðdrægr ok vitr, virðu vèr ok svâ at þú setist fyrir vora nauðsyn í málit. Flosi mælti: Þat er líkast at ek játumst undir þetta sem bæn yður stendr til, mun ek nú ok ákveða hverja atferð vèr skulum hafa, ok er þat mitt ráð at hverr maðr ríði heim af þíngi ok sjái um bú sitt í sumar meðan töður manna eru undir. Ek mun ok heim ríða ok vera heima í sumar, en drottinsdag þann er átta vikur eru til vetrar, þá mun ek láta sýngja mèr messu heima ok ríða síðan vestr yfir Lómagnúpssand. Hverr vor maðr skal hafa tvâ hesta, ekki mun ek lið auka úr því sem nú hefir til eiða gengit, þvíat ver höfum ærit margt ef oss kæmi þat vel at haldi. Ek mun ríða drottinsdaginn ok svâ nóttina með, en annan aptan vikunnar

mun ek ríða á Þríhyrníngs hálsa fyrir miðjan aptan, skulut þèr þar þá allir komnir er eiðsvarar erut við þetta mál. En ef nokkurr er sá eigi þar kominn er í mál þessi hafa gengit, þá skal öngu fyrirtýna nema lífinu, ef vèr megum ráða. Ketill mælti: Hversu má þat saman fara attu ríðir drottinsdag heiman, en komir annan dag vikunnar á Þríhyrníngshálsa? Flosi mælti: Ek mun ríða upp úr Skaptártúngu ok fyrir norðan Eyafjalla-jökul ok ofan í Goðaland, ok mun þetta endast ef ek ríð hvatliga. Mun ek nú ok segja yðr alla mína fyrirætlan, at þá er vèr komum þar saman, skulum vèr ríða til Bergþórshvols með öllu liðinu ok sækja Njálssonu með eldi ok járni, ok gánga eigi fyrr frá enn þeir eru allir dauðir: skulut þèr þessi ráðagerð leyna, þvíat líf vort allra liggr við; munu vèr nú leita til hesta vorra ok ríða heim. Gengu þeir þá allir til búða sinna. Síðan lèt Flosi söðla hesta sína, ok biðu öngra manna ok ríða síðan heim. Flosi vildi eigi finna Hall mág sinn, þvíat hann þóttist vita at Hallr mundi letja allra stórvirkja. Njáll reið heim af þíngi ok synir hans, voru þeir heima um sumarit. Njáll spurði Kára mág sinn, hvárt hann mundi nokkut ríða austr til Dyrhólma til bús síns. Kári svaraði: Ekki skal ek austr ríða, þvíat eitt skal gánga yfir mik ok sonu þína. Njáll þakkaði honum ok kvað sliks at honum vân; þar var jafnan nær þrjátíu vígra karla með húskörlum. — Þat var einhverju sinni at Hróðný Höskuldsdóttir, móðir Höskuldar Njálssonar, kom til Keldna. Íngjaldr bróðir hennar fagnaði henni vel; hún tók ekki kveðju hans, en bað hann þó gánga út með sèr. Íngjaldr gerði svâ at hann gekk út með henni, ok gengu úr garði bæði saman, síðan þreif hún til hans, ok settust þau niðr bæði. Hróðný mælti: Hvárt er þat satt at þú hefir svarit eið at fara at Njáli ok drepa hann ok sonu hans? Hann svaraði: Satt er þat, segir hann. Allmikill níðingr ertu, segir hún, þar sem Njáll hefir þrisvar laust þik úr skógi.

Svâ er nú þó komit, segir Íngjaldr, at líf mitt liggr við, ef ek geri eigi þetta. Eigi mun þat, segir hún, lifa muntu allt at einu ok heita at betri maðr, ef þú svíkr eigi þann er þú átt beztr at vera. Hún tók þá línhúfu úr pússi sínum, alblóðga alla ok raufótta, ok mælti: þessa húfu hafði Höskuldr Njálsson ok systrson þinn á höfði sèr, þá er þeir vâgu hann, þikki mèr þèr því verr fara at veita þeim er þaðan standa at. Íngjaldr svarar: Svâ mun ok fara at ek mun eigi vera í mót Njáli hvat sem á bak kemr, en þó veit ek at þeir munu at mèr snúa vandræðum. Hróðný mælti: þá máttu nú mikit lið veita Njáli ok sonum hans, ef þú segir honum þessa ráðagerð alla. þat mun ek eigi gera, segir Íngjaldr, þvíat þá em ek hvers manns níðíngr, ef ek segi þat er þeir trúðu mèr til; en þat er karlmannligt bragð at skiljast við þetta mál, þar sem ek veit vissar hefndar vân; en seg þat Njáli ok sonum hans at þeir sè varir um sik þetta sumar allt, þvíat þat er þeim heilræði, ok hafi margt manna. Síðan fór hún til Bergþórshvols ok sagði Njáli þessa viðræðu alla. Njáll þakkaði henni ok kvað hana vel hafa gjört: þvíat honum mundi helzt misgert í vera at fara at mèr allra manna. Hún fór heim, en hann sagði þetta sonum sínum. — Kerlíng var sú at Bergþórshvoli er Sæunn hèt, hún var fróð at mörgu ok framsýn, en þá var hún gömul mjök, ok kölluðu Njálssynir hana gamalæra, er hún mælti margt, en þó gekk þat sumt eptir. þat var einn dag at hún þreif lurk í hönd sèr ok gekk upp um hús at arfasátu einni, hún laust arfasátuna ok bað hana alldri þrífast, svâ vesöl sem hún var. Skarphèðinn hló at ok spurði hví hún abbaðist uppá arfasátuna. Kerlíngin mælti: þessi arfasáta mun tekin ok kveyktr við eldr, þá er Njáll bóndi er innibrendr ok Bergþóra fóstra mín; ok beri þèr hana á vatn, segir hún, eða brennit hana upp sem skjótast. Eigi munu vèr þat gera, segir Skarphèðinn, þvíat fást mun annat til eldkveykna ef þess verðr

auðit, þótt hún sè eigi. Kerling klifaði allt sumarit um arfasátuna at inn skyldi bera, ok fórst þat fyrir ávalt.

*Cap. 125. Af fyrirburðum.* — At Reykjum á Skeiðum bjó Runólfr Þórsteinsson, Hildiglúmr hèt son hans. Hann gekk út drottinsdagsnótt, þá er níu vikur voru til vetrar, hann heyrði brest mikinn, svâ at honum þótti skjálfa bæði jörð ok himinn; síðan leit hann í vestrættina, hann þóttist sjá þángat hring ok eldslit á, ok í hrínginum mann á grám hesti, hann bar skjótt yfir, ok fór hann hart. Hann hafði loganda eldbrand í hendi, hann reið svâ nær honum at hann mátti gjörla sjá hann, hann var svartr sem bik, hann kvað vísu þessa með mikilli raust:

Ek ríð hesti
helugbarða,
úrigtoppa,
ills valdanda.
Eldr er í endum,
eitr er í miðju,
svâ er um Flosa ráð
sem fari kefli;
ok svâ er um Flosa ráð
sem fari kefli.

Þá þótti honum hann skjóta brandinum austr til fjallanna fyrir sik, ok þótti honum hlaupa upp eldr mikill í móti, svâ at hann þóttist ekki sjá til fjallanna fyrir, honum sýndist sjá maðr ríða austr undir eldinn, ok hvarf þar. Síðan gekk hann til rúms síns ok fékk lángt úvit ok rètti þó við úr því, hann mundi allt þat er fyrir hann hafði borit ok sagði föður sínum, en hann bað hann segja Hjalta Skeggjasyni. Hann fór ok sagði Hjalta, en hann kvað hann sèð hafa gandreið, ok er þat jafnan fyrir stórtíðindum.

*Cap. 126. Heimanferð Flosa.* — Flosi bjó sik austan þá er tveir mánaðir voru til vetrar, ok stefndi til sín öllum sínum mönnum, þeim sem honum höfðu liði ok ferð heitit,

hverr þeirra hafði tvâ hesta ok góð vâpn, þeir komu allir til Svínafells ok voru þar um nóttina. Flosi lèt snemma veita sèr tíðir drottinsdaginn, en síðan gekk hann til borðs, hann sagði fyrir öllum heimamönnum sínum hvat hvergi skyldi starfa meðan hann væri í brotu, síðan gekk hann til hesta sinna. Þeir Flosi riðu fyrst vestr á Sand. Flosi bað þá fyrst ekki allákaft ríða ok kvað þó hinn veg lúka myndu, hann bað alla bíða ef nokkurr þyrfti at dveljast. Þeir riðu vestr til Skógahverfis ok komu í Kirkjubæ. Flosi bað alla menn koma til kirkju ok biðjast fyrir, menn gerðu svâ. Síðan stigu þeir á hesta sína ok riðu á fjall ok svâ til Fiskivatna, ok riðu nokkuru fyrir vestan vötnin ok stefndu svâ vestr á Sandinn. Lètu þeir þá Eyafjalla-jökul á vinstri hönd sèr, ok svâ ofan í Goðaland, ok svâ til Markarfljóts, ok komu um nónskeið annan dag vikunnar á Þríhyrningshálsa ok biðu til miðs aptans; komu þar þá allir nema Íngjaldr frá Keldum. Sigfússynir töluðu á hann mjök, en Flosi bað þá ekki ámæla Íngjaldi meðan hann væri eigi hjá: en þó skulu vèr gjalda honum síðar.

*Cap. 127. Frá fyrirburðum at Bergþórshvâli.* — Nú er þar til máls at taka at Bergþórshvoli, at þeir Grímr ok Helgi fara til Hóla, þar voru þeim fóstruð börn, ok sögðu móður sinni at þeir myndu ekki heim koma um kveldit. Þeir voru í Hólum allan dag, þar komu fátækar konur ok kváðust komnar at lángt, þeir bræðr spurðu þær tíðinda. Þær kváðust engi tíðindi segja kunna; en segja kunnu vèr nýlundu nokkura. Þeir spurðu hver sú væri, ok báðu þær eigi leyna. Þær sögðu svâ vera skyldu: Vèr komum at ofan úr Fljótshlíð, ok sá vèr Sigfússonu alla ríða með alvæpni, þeir stefndu upp á Þríhyrníngshálsa ok voru fimtán í flokki; vèr sám ok Grana Gunnarsson ok Gunnar Lambason, ok voru þeir fim saman, þeir stefndu ina sömu leið, ok kalla má at nú sè allt á för ok flugum um hèraðit. Helgi Njálsson mælti: Þá mun Flosi kominn austan, ok munu þeir allir

komnir til móts við hann, ok skulu vit Grímr vera þar Skarphéðinn er. Grímr kvað svâ vera skyldu, ok fóru þeir heim. Þenna aptan enn sama mælti Bergþóra til hjóna sinna: Nú skulu þèr kjósa yðr mat i kveld at hverr hafi þat er mest fýsir til, þvíat þenna aptan mun ek bera síðast mat fyrir hjón mín. Þat skyldi eigi vera, segja þau. Þat mun þó vera, segir hún, ok má ek miklu fleira afsegja ef ek vil, ok mun þat til merkja at þeir Grímr ok Helgi munu heim koma áðr menn eru mettir í kveld, ok ef þetta gengr eptir, þá mun svâ fara fleira sem ek segi. Síðan bar hún mat á borð. Njáll mælti: Undarliga sýnist mèr nú: ek þikkjumst sjá um alla stofuna, ok þikki mèr sem undan sè gaflveggrinn, en blóð eitt allt horðit ok matrinn. Þá fannst öllum mikit um þetta nema Skarphèðni, hann bað menn ekki syrgja nè láta öðrum herfiligum látum svâ at menn mætti orð á því gera: ok mun oss vandara gert enn öðrum at vèr berim oss vel, ok er þat at vânum. Þeir Grímr ok Helgi komu heim áðr borðin voru ofan tekin, ok brá mönnum mjök við þat. Njáll spurði hví þeir færi svâ hverft, en þeir sögðu slíkt sem þeir höfðu frètt. Njáll bað öngvan mann til svefns fara ok vera vara um sik.

*Cap. 128. Heimsókn til Bergþórshvols.* — Nú talar Flosi við sína menn: Nú munu vèr ríða til Bergþórshvols ok koma þar fyrir matmál; þeir gera nú svâ. Dalr var í hvâlinum ok riðu þeir þángat ok hundu þar hesta sína, ok dvöldust þar til þess er mjök leið á kveldit. Flosi mælti: Nú skulu vèr gánga heim at bænum ok gánga þraungt ok fara seint, ok sjá hvat þeir taki til ráðs. Njáll stóð úti ok synir hans ok Kári ok allir heimamenn ok skipuðust fyrir á hlaðinu, ok voru þeir nær þrjátíu. Flosi nam stað ok mælti: Nú skulu vèr at hyggja hvat þeir taka ráðs, þvíat mèr lízt svâ ef þeir standa úti fyrir sem vit munim þá alldri sótta geta. Þá er vor för ill, segir Grani Gunnarsson, ef vèr skulum eigi þora at at sækja. Þat skal ok eigi vera, segir

Flosi, ok munu vèr at sækja þótt þeir standi úti, en þat afráð munn vèr gjalda at margir munu eigi kunna frá at segja hvârir sigrast. Njáll mælti til sinna manna: Hvat sjái þèr til hversu mikit lið þeir hafa? Þeir hafa bæði mikit lið ok harðsnúit, segir Skarphèðinn, en því nema þeir þó nú stað at þeir ætla at þeim muni illa sækjast at vinna oss. Þat mun ekki vera, segir Njáll, ok vil ek at menn gángi inn, þvíat illa sóttist þeim Gunnarr at Hlíðarenda, ok var hann einn fyrir, en hèr eru hús ramlig sem þar voru, ok munu þeir eigi skjótt sækja. Þetta er ekki þannveg at skilja, segir Skarphèðinn, þvíat Gunnar sóttu heim þeir höfðíngjar er svâ voru vel at sèr, at heldr vildu frá hverfa enn brenna hann inni, en þessir munu þegar sækja oss með eldi, er þeir megu eigi annan veg, þvíat þeir munu allt til vinna at yfirtaki við oss: munu þeir þat ætla sem eigi er ólíkligt, at þat sè þeirra bani ef oss dregr undan; ek em ok þess ófúss at láta svæla mik inni sem melrakka í greni. Njáll mælti: Nú mun sem optar, at þèr munu bera mik ráðum, synir mínir, ok virða mik engis; en þá er þèr vorut yngri gjörðut þèr þat eigi, ok fór yðart ráð þá betr fram. Helgi mælti: Gerum vèr sem faðir vorr vill, þat mun oss bezt gegna. Eigi veit ek þat víst, segir Skarphèðinn, þvíat hann er nú feigr; en vel má ek gera þat til skaps föður míns at brenna inni með honum, þvíat ek hræðumst ekki dauða minn. Hann mælti þá við Kára: Fylgjumst vel mágr, svâ at engi skilist við annan. Þat hefi ek ætlat, segir Kári, en ef annars verðr auðit, þá mun þat verða fram at koma, ok mun ek ekki mega við því gera. Hefndu vor, en vèr þín, segir Skarphèðinn, ef vèr lifum eptir. Kári kvað svâ vera skyldu. Gengu þeir þá inn allir ok skipuðust í dyrin. Flosi mælti: Nú eru þeir feigir er þeir hafa inn gengit, ok skulu vèr heim gánga sem skjótast ok skipast sem þykkvast fyrir dyrin ok geyma þess at engi komist í braut, hvârki Kári nè Njálssynir, þvíat þat er vorr bani. Þeir Flosi komu nú heim ok skipuðust umhverfis

húsin ef nokkurar væri laundyr á, Flosi gekk framan at húsunum ok hans menn. Hróaldr Özurarson hljóp þar at sem Skarphèðinn var fyrir ok lagði til hans. Skarphèðinn hjó spjótit af skapti fyrir honum ok hjó til hans, ok kom öxin ofan í skjöldinn, ok bar at Hróaldi þegar allan skjöldinn, en hyrnan sú in fremri tók andlitit, ok fèll hann á bak aptr ok þegar dauðr. Kári mælti: Lítt dró enn undan við þik, Skarphèðinn, ok ertu vor fræknastr. Eigi veit ek þat víst, segir Skarphèðinn, ok brá við grönum ok glotti at. Kári ok Grímr ok Helgi lögðu út mörgum spjótum ok særðu marga menn, en Flosi ok hans menn fengu ekki atgert. Flosi mælti: Vèr höfum fengit mikinn mannskaða á mönnum vorum: eru margir sárir, en sá veginn er vèr myndum sízt til kjósa, er nú þat sèð at vèr getum þá eigi með vâpnum sótta; er nú sá margr er eigi gengr jafnsköruliga at sem lètu, en þó eggjuðu mest: mæli ek þetta mest til Grana Gunnarssonar ok Gunnars Lambasonar, er sèr lètu verst eira. En þó munu vèr nú verða at gera annat ráð fyrir oss; eru nú tveir kostir til, ok er hvârgi góðr: sá annarr at hverfa frá, ok er þat vorr bani, hinn annarr at bera at eld ok brenna þá inni, ok er þat stórr ábyrgðarhlutr fyrir guði, er vèr erum menn kristnir sjálfir, en þó munu vèr þat bragðs taka.

*Cap. 129. Njálsbrenna.* — Þeir tóku nú eld ok gerðu bál mikit fyrir dyrunum, þá mælti Skarphèðinn: Eld kveykit þèr nú sveinar, eða hvârt skal nú búa til seyðis? Grani Gunnarsson svaraði: Svâ skal þat vera, ok skaltu eigi þurfa heitara at baka. Skarphèðinn mælti: Því launar þú mèr sem þú ert maðr til, er ek hefnda föður þíns, ok virðir þat meira er þèr er óskyldara. Þá báru konur sýru í eldinn ok slökktu niðr fyrir þeim, sumar báru vatn eða hland. Kolr Þórsteinsson mælti til Flosa: Ráð kemr mèr í hug: ek hefi sèð lopt í skalanum á þvertrjám, ok skulu vèr þar inn-

bera eldinn ok kreykja við arfasátu, þá er hèr stendr fyrir ofan húsin. Síðan tóku þeir arfasátuna ok báru í eld, fundu þeir eigi fyrr er inni voru enn logaði ofan allr skálinn, gerðu þeir Flosi þá stór bál fyrir öllum dyrum. Tók þá kvennafólkit illa at þola, þat sem inni var. Njáll mælti til þeirra: Verðit vel við ok mælit eigi æðru, þviat èl eitt mun vera, ok skyldi lángt til annars sliks; trúit þèr ok því at guð er svâ miskunnsamr, at hann mun oss eigi bæði brenna láta þessa heims ok annars. Slikar fortölur hafði hann fyrir þeim ok aðrar hraustligri. Nú taka öll húsin at loga. Þá gekk Njáll til dyra ok mælti: Hvârt er Flosi svâ nær at hann megi heyra mál mitt? Flosi kvaðst heyra mega. Njáll mælti: Vilt þú nokkut taka sættum við sonu mina, eða leyfa nokkurum mönnum útgöngu? Flosi svarar: Eigi vil ek við sonu þina sættum taka, ok skal nú yfir lúka með oss, ok eigi fyrr frá gánga enn þeir eru allir dauðir; en lofa vil ek útgöngu konum ok börnum ok húskörlum. Njáll gekk þá inn ok mælti við fólkit: Nú er þeim útat gánga öllum er leyft er, ok gakk þú út, Þórhalla Ásgrimsdóttir, ok allr lýðr með þèr så er lofat er. Þórhalla mælti: Annarr verðr nú skilnaðr okkar Helga, en ek ætlaða um hríð; en þó skal ek eggja föður minn ok bræðr, at þeir hefni þessa mannskaða er hèr er gerr. Njáll mælti: Vel mun þèr fara, þviat þú ert góð kona. Síðan gekk hún út, ok margt lið með henni. Ástríðr af Djúpárbakka mælti við Helga Njálsson: Gakktu út með mèr, ok mun ek kasta yfir þik kvennskikkju ok falda þik með höfuðdúki; hann taldist undan fyrst, en þó gerði hann þetta fyrir bæn þeirra. Ástríðr vafði höfuðdúki at höfði Helga, en Þórhildr, kona Skarphèðins, lagði yfir hann skikkjuna, ok gekk hann út á meðal þeirra, ok þá gekk út Þórgerðr Njálsdóttir ok Helga systir hennar ok margt annat fólk. En er Helgi kom út mælti Flosi: Sú er há kona ok mikil um herðar er þar fór, takit ok haldit henni. En er Helgi heyrði þetta, kastaði hann skikkjunni, hann

hafði haft sverð undir hendi sèr, ok hjó til manns, ok kom í skjöldinn ok af sporðinn ok fótinn af manninum; þá kom Flosi at ok hjó á hálsinn Helga, svâ at þegar tók af höfuðit. Flosi gekk þá at dyrum ok kallaði á Njál, ok kvaðst vildu tala við hann ok Bergþóru. Njáll gerir nú svâ. Flosi mælti: Útgöngu vil ek bjóða þèr, Njáll bóndi, þvíat þú brennr ómakligr inni. Njáll mælti: Eigi vil ek útgánga, þvíat ek em maðr gamall ok lítt tilbúinn at hefna sona minna, en ek vil eigi lifa við sköm. Flosi mælti þá til Bergþóru: Gakktu út húsfreya, þvíat ek vil þik fyrir öngan mun inni brenna. Bergþóra mælti: Ek var úng gefin Njáli, hefi ek því heitit honum at eitt skyldi gánga yfir okkr bæði. Síðan gengu þau inn bæði. Bergþóra mælti: Hvat skulu vit nú til ráða taka? Gánga munu vit til hvílu okkarrar, segir Njáll, ok leggjast niðr; hefi ek lengi værugjarn verit. Hún mælti þá við sveininn Þórð Kárason: Þik skal útbera, ok skaltu eigi inni brenna. Hinu hefir þú mèr heitit, amma, segir sveinninn, at vit skyldim alldri skilja, meðan ek vilda hjá þèr vera; en mèr þikkir miklu betra at deya með ykkr Njáli enn lifa eptir; hún bar þá sveininn til hvílunnar. Njáll mælti við brytja sinn: Nú skaltu sjá hvar vit leggjumst niðr ok hversu ek bý um okkr, þvíat ek ætla hèðan hvergi at hrærast, hvârt sem mèr ángrar reykr eða bruni; máttu nú nær geta hvar beina okkarra er at leita; hann sagði svâ vera skyldu. Þar hafði slátrat verit uxa einum, ok lá þar húðin. Njáll mælti við brytjann at hann skyldi breiða yfir þau húðina, ok hann gerði svâ; þau leggjast nú niðr bæði í rúmit ok leggja sveininn í millum sín, þá signdu þau sik ok sveininn ok fálu guði önd sína á hendi, ok mæltu þat síðast svâ menn heyrði; þá tók brytinn húðina ok breiddi yfir þau ok gekk út síðan. Ketill úr Mörk tók í móti honum ok kipti honum út, hann spurði vandliga at Njáli mági sínum, en brytinn sagði allt it sanna. Ketill mælti: Mikill harmr er at

oss kveðinn, er vèr skulum svâ mikla ógæfu saman eiga. — Skarphèðinn sá er faðir hans lagðist niðr, ok hversu hann bjó um sik, hann mælti þá: Snemma ferr faðir vorr i rekkju, ok er þat sem vân er: hann er maðr gamall. Þá tóku þeir Skarphèðinn ok Kári ok Grímr brandana, jafnskjótt sem ofan duttu, ok skutu út á þá, og gekk því um hríð, þá skutu þeir spjótum inn at þeim, en þeir tóku öll á lopti ok sendu út aptr. Flosi bað þá hætta at skjóta: þvíat oss munu öll vâpnaskipti þúngt gánga við þá, megu þèr nú vel bíða þess er eldrinn vinnr þá; þeir gera nú svâ. Þá fèllu ofan stórviðirnir úr ræfrinu. Skarphèðinn mælti þá: Nú mun faðir minn dauðr vera, ok hefir hvârki heyrt til hans styn nè hósta. Þeir gengu þá í skálaendann, þar var fallit ofan þvertrè ok brunnit mjök í miðju. Kári mælti til Skarphèðins: Hlauptu hèr út, ok mun ek beina at með þèr, en ek mun hlaupa þegar eptir, ok munu vit þá báðir í brott komast ef vit breytum svâ, þvíat hingat leggr allan reykinn. Skarphèðinn mælti: Þú skalt hlaupa fyrr, en ek mun þegar á hæla þèr. Ekki er þat ráð, segir Kári, þvíat ek komumst vel annarsstaðar út, þótt hèr gángi eigi. Eigi vil ek þat, segir Skarphèðinn, hlauptu út fyrir, en ek mun þegar eptir. Þat er hverjum manni boðit at leita sèr lífs meðan kostr er, segir Kári, ok skal ek ok svâ gera; en þó mun þó sá skilnaðr með okkr verða, at vit munum alldri sjást síðan, þvíat ef ek hleyp úr eldinum, þá mun ek eigi hafa skap til at hlaupa inn aptr í eldinn til þín, ok mun þá sína leið fara hvârr okkar. Þat hlægir mik, segir Skarphèðinn, ef þú kemst í brot, mâgr, attu mun hefna mín. Þá tók Kári einn setstokk loganda í hönd sèr ok hleypr út eptir þvertrènu, slaungvir hann þá stokkinum ut af þekjunni, ok fèll hann at þeim er úti voru fyrir, þeir hlupu þá undan, þá loguðu klæðin öll á Kára ok svâ hárit. Hann steypir sèr þá út af þekjunni ok stiklar svâ með reykinum. Þá mælti einn maðr er þar var næstr: Hvârt hljóp þar maðr út af þekjunni? Fjarri

fór þat, segir annarr, heldr kastaði þar Skarphèðinn eldstokki at oss. Siðan grunuðu þeir þat ekki. Kári hljóp til þess er hann kom at læk einum, hann kastaði sèr þar í ofan ok slökkti á sèr eldinn, síðan hljóp hann með reykinum í gröf nokkura ok hvílði sik, ok er þat síðan kölluð Kára gröf.

*Cap. 130. Líflát Skarphèðins.* — Nú er at segja frá Skarphèðni at hann hleypr út á þvertrèit þegar eptir Kára, en er hann kom þar er mest var brunnit þvertrèit, þá brast niðr undir honum. Skarphèðinn kom fótum undir sik ok rèð þegar til í annat sinn ok rennr upp vegginn, þá reið at honum brúnássinn, ok hrataði hann inn aptr. Skarphèðinn mælti þá: Sèð er nú hversu vera vill; gekk hann þá fram með hliðvegginum. Gunnarr Lambason hljóp upp á vegginn ok sèr Skarphèðin, hann mælti svâ: Hvârt grætr þú nú, Skarphèðinn? Eigi er þat, segir Skarphèðinn, en hitt er satt at súrnar í augunum; en hvârt er sem mer sýnist, hlærðu? Svâ er vist, segir Gunnarr, ok hefi ek alldri fyrr hlegit síðan þú vâtt Þráin á Markarfljóti. Skarphèðinn mælti þá: Er þèr hèr nú minjagriprinn! tók hann þá jaxl úr pússi sínum er hann hafði höggvit úr Þráni ok kastaði til Gunnars, ok kom í augat svâ þegar lá úti á kinninni, fèll Gunnarr þá ofan af þekjunni. Skarphèðinn gekk þá til Gríms, bróður síns, hèldust þeir þá í hendr ok tráðu eldinn; en er þeir komu í miðjan skálann, þá fèll Grímr dauðr niðr. Skarphèðinn gekk þá til enda hússins, þá varð brestr mikill, brast þá ofan þekjan; varð Skarphèðinn þá þar í millum ok gaflaðsins, mátti hann þá þaðan hvergi hrærast. — Þeir Flosi voru við eldana þar til er mornat var mjök. Þá kom þar maðr einn ríðandi at þeim. Flosi spurði hann at nafni, en hann nefndist Geirmundr ok kvaðst vera frændi Sigfússona. Þèr hafit mikit stórvirki unnit, segir hann. Flosi mælti: Bæði munu menn þetta kalla stórvirki ok illvirki, en þó má nú ekki at hafa. Hversu margt hefir hèr fyrirmanna látizt? segir Geirmundr. Flosi svarar: Hèr hefir

látizt Njáll ok Bergþóra ok synir þeirra allir, Þórðr Kárason, Kári Solmundarson, en þá vitu vèr ógjörla um fleiri menn, þá er oss eru ókunnari. Geirmundr mælti: Dauðan segir þú þann nú er vèr höfum hjalat við i morgin. Hverr er sá? segir Flosi. Kára Solmundarson fundu vit Bárðr, búi minn, segir Geirmundr, ok fèkk Bárðr honum hest sinn, ok var brunnit af honum hárit ok svâ klæðin. Hafði hann nokkut vâpna? segir Flosi. Hafði hann sverðit Fjörsvafni, segir Geirmundr, ok var blánaðr annarr eggteinninn, ok sögðu vit Bárðr at dignat mundi hafa; en hann svaraði því at hann skyldi herða i blóði Sigfússona eða annarra brennumanna. Flosi mælti: Hvat sagði hann til Skarphèðins? Geirmundr svarar: Á lífi sagði hann þá Grím báða þá er þeir skildu, en þó kvað hann þá nú mundu dauða. Flosi mælti: Sagt hefir þú oss þá sögu er oss mun eigi setugrið bjóða, þvíat sá maðr hefir nú á brot komizt er næst gengr Gunnari at Hlíðarenda um alla hluti. Skulut èr nú þat vita, Sigfússynir ok aðrir brennumenn, at svâ mikit eptirmál mun hèr verða um brennu þessa, at margan mun þat gera höfuðlausan, en sumir munu gánga frá öllu fènu. Grunar mik nú þat at engi yðvar Sigfússona þori at sitja i búi sínu, ok er þat rètt at vânum: vil ek nú bjóða yðr öllum austr til mín ok láta eitt yfir oss gánga alla. Þeir þökkuðu honum boð sitt ok kváðust þat þiggja mundu. Þá kvað Móðólfr Ketilsson vísu:

Stafr lifir einn þar er inni
unnfors viðir brunnu,
synir ollu því snjallir
Sigfúss, Niáls húsa.
Nú er gollnis son goldit,
gekk eldr of sjót rekka,
ljóss brann hyrr i húsum,
Höskulds bani ens röskva.

Öðru nokkuru munu vèr hælast mega, enn því er Njáll hefir

inni brunnit, þviat þat er engi frami, segir Flosi. Hann gekk þá upp á gaflaðit ok Glúmr Hildisson ok nokkurir menn aðrir, þá mælti Glúmr: Hvârt mun Skarphèðinn dauðr? en aðrir sögðu hann fyrir laungu dauðan mundu vera. Þar gauss upp stundum eldrinn, en stundum sloknaði niðr, þeir heyrðu þa niðri i eldinum fyrir sèr at kveðin var visa:

Mundit Mellu kindar,
Miðjúngs brúar iðja
gunnar um geira-sennu
galdrs, bráregni halda,
er hræstykkis hlakka
hrausts sins vinir minir,
tryggvi ek óð, ok eggjar
undgengin spor dundu.

Grani Gunnarsson mælti: Hvârt mun Skarphèðinn hafa kveðit visu þessa lifs eða dauðr? Öngum getum mun ek um þat leiða, segir Flosi. Leita viljum vèr Skarphèðins, segir Grani, eða annarra manna þeirra sem hèr hafa inni brunnit. Eigi skal þat, segir Flosi, ok eru slikt heimskir menn sem þú ert, þar sem menn munu samna liði um allt hèraðit; mun sá allr einn er nú á dvalar, ok þá mun verða svâ hræddr at eigi mun vita hvert hlaupa skal, ok er þat mitt ráð at vèr riðim allir i braut sem skjótast. Flosi gekk þá skyndiliga til hesta sinna ok allir hans menn. Flosi mælti þá til Geirmundar: Hvârt mun Íngjaldr heima at Keldum? Geirmundr kvaðst ætla at hann mundi heima vera. Þar er sá maðr, segir Flosi, er rofit hefir eiða við oss ok allan trúnað. Flosi mælti þá til Sigfússona: Hvern kost vili þèr nú gera Íngjaldi, hvârt vilit þèr gefa honum upp, eða skulu vèr nú fara at honum ok drepa hann? Þeir svöruðu allir at þeir vildu nú fara at honum ok drepa hann. Flosi hljóp þá á hest sinn ok allir þeir ok riðu i braut. Flosi reið fyrir ok stefndi upp til Rángár ok upp með ánni, þá sá hann mann

ríða ofan öðrum megin árinnar, hann kendi at þar var Íngjaldr frá Keldum. Flosi kallar á hann, Íngjaldr nam þá staðar ok sneri við fram at ánni. Flosi mælti til hans: Þú hefir rofit sátt við oss, ok hefir þú fyrirgert fè ok fjörvi: eru hèr nú Sigfússynir ok vilja gjarna drepa þik, en mèr þikkir þú við vant um kominn, ok mun ek gefa þèr líf ef þú vilt selja mèr sjálfdæmi. Fyrr skal ek nú ríða til móts við Kára enn selja þèr sjálfdæmi, en ek vil því svara Sigfússonum, at ek skal eigi hræddari við þá enn þeir eru við mik. Flosi mælti: Bíð þú þá ef þú ert eigi ragr, þvíat ek skal senda þèr sendíng. Bíða skal ek víst, segir Íngjaldr. Þórsteinn Kolbeinsson, bróðurson Flosa, reið fram hjá honum ok hafði spjót í hendi, hann var röskvastr maðr með Flosa einnhverr ok mest verðr. Flosi þreif af honum spjótit ok skaut til Íngjalds, ok kom á ina vinstri hlíðina ok í gegnum skjöldinn fyrir neðan mundriðann, ok klofnaði hann allr í sundr, en spjótit hljóp í lærit fyrir ofan knèskelna ok svâ í söðulfjölna ok nam þar staðar. Flosi mælti þá til Íngjalds: Hvârt kom á þik? Á mik kom víst, segir Íngjaldr, ok kalla ek þetta skeinu, en ekki sár. Íngjaldr kipti þá spjótinu úr sárinu ok mælti til Flosa: Bíðu nú, ef þú ert eigi blauðr! Hann skaut þá spjótinu aptr yfir ána. Flosi sèr at spjótit stefnir á hann miðjan, hopar hann þá hestinum undan, en spjótit fló fyrir framan hestinn Flosa ok misti hans, spjótit kom á Þórstein miðjan, ok fèll hann þegar dauðr af hestinum. Íngjaldr hleypir nú í skóginn, ok náðu þeir honum ekki. Flosi mælti þá til sinna manna: Nú höfum vèr fenginn mannskaða, megu vèr nú ok vita er þetta hefir atborizt hvert heillaleysi vèr höfum. Er þat nu mitt ráð at vèr ríðim á Þríhyrníngshálsa, megum vèr þaðan sjá mannareið um allt hèraðit, þvíat þeir munu nú hafa sem mestan liðsamnað, ok munu þeir ætla at vèr hafim riðit austr til Fljótshlíðar af Þríhyrníngshálsum, ok munu þeir þá ætla at vèr ríðim norðr á fjall ok svâ austr til hèraða;

mun þángat eptir ríða mestr hluti liðsins, en sumir munu ríða it fremra austr til Seljalandsmúla, ok mun þeim þó þikkja þángat vor minni vân. En ek mun nú gera ráð fyrir oss, ok er þat mitt ráð, at vèr ríðim upp í fjallit Þríhyrning ok bíðum þar til þess er þrjár sólir eru af himni.

*Cap. 151. Frá Kára Sölmundarsyni.* — Nú er at segja frá Kára at hann fór úr gröf þeirri er hann hafði hvílt sik þar til er hann mætti Bárði, ok fóru svâ orð með þeim sem Geirmundr hafði sagt. Reið Kári þaðan til Marðar ok sagði honum tíðindin, ok harmaði mjök. Kári kvað þá annat karlmannligra enn gráta þá dauða, ok bað hann heldr samna liði ok koma til Holtsvaðs. Síðan reið hann í Þjórsárdal til Hjalta Skeggjasonar, ok þá er hann kom upp með Þjórsá sèr hann mann ríða eptir sèr hvatliga. Kári beið mannsins ok kennir at þar var Íngjaldr frá Keldum, hann sèr at hann var allblóðugr um lærit. Kári spurði Íngjald hverr hann hefði særðan, en hann sagði. Hvar fundust þit? segir Kári. Við Rángá, segir Ingjaldr, ok skaut hann yfir ána til min. Gerðir þú nokkut í móti? segir Kári. Aptr skaut ek spjótinu, segir Íngjaldr, ok sögðu þeir er maðr yrði fyrir, ok var sá þegar dauðr. Vissir þú eigi, segir Kári, hverr fyrir varð? Likt þótti mèr vera Þorsteini bróðursyni Flosa, segir Íngjaldr. Njóttu heill handa, segir Kári. Síðan riðu þeir báðir saman til móts við Hjalta Skeggjason ok sögðu honum tíðindin, hann tók illa á verkum þessum ok kvað hina mestu nauðsýn at ríða eptir þeim ok drepa þá alla; síðan samnaði hann liði ok kveðr upp almenning. Ríða þeir Kári nú við þetta lið til móts við Mörð Valgarðsson, ok fundust þeir við Holtsvað, var Mörðr þar fyrir allmiklu liði. Þá skiptu þeir leitinni, fóru sumir it fremra austr til Seljalandsmúla, en sumir upp til Fljótshlíðar, en sumir et efra til Þríhyrníngshálsa ok svâ ofan í Goðaland, þaðan riðu þeir nordr til Sands, en sumir til Fiskivatna ok hurfu þar aptr, sumir it fremra austr í Holt

ok sögðu þórgeiri tíðindin ok spurðu hvârt þeir hefði ekki þar um riðit. þórgeirr mælti: þann veg er, þótt ek sè ekki mikill höfðíngi, þá mun Flosi annat ráð taka enn ríða fyrir augu mèr, þar sem hann hefir drepit Njál föðurbróður minn ok bræðrúnga mína, ok er yðr eingi annarr ágjörr enn snúa aptr, þvíat þèr munut hafa leitat lángt um skamt fram. En segit þat Kára at hann ríði hingat til mín ok veri hèr með mèr, ef hann vill þat; en þótt hann vili eigi austr hingat, þá mun ek annast um bú hans at Dýrhólmum, ef hann vill; en segit honum þat at ek mun veita honum ok ríða til alþíngis; mun hann ok vita þat at vit bræðr erum aðilar um eptirmálit: ætlum vèr ok svâ at at gánga málinu, at sektir skyli verða, ef vèr megum ráða, ok síðan mannhefndir; en ek fer af því hvergi nú með yðr at ek veit at ekki mun gera, ok munu þeir nú vera sem varastir um sik. Ríða þeir nú aptr ok fundust allir at Hofi ok töluðu þar um með sèr, at þeir hefði svívirðíng af fengit er þeir höfðu eigi fundit þá; Mörðr kvað þat ekki vera. þá eggjuðu margir at fara skyldi til Fljótshlíðar ok taka upp bú þeirra allra er at þessum verkum höfðu verit, en þó var því vikit til atkvæða Marðar, hann kvað þat vera et mesta úráð. þeir spurðu hví hann mælti þat. því, segir hann, ef bú þeirra standa, þá munu þeir vitja þeirra ok kvenna sinna, ok mun þá þar mega veiða á er stundir líða: skulut þèr nú ekki efa yðr at ek skal yðr Kára trúr í öllum ráðum, þvíat ek á fyrir sjálfan mik at svara; Hjalti bað hann svâ gera sem hann hèt. þá bauð Hjalti Kára til sín, hann kvaðst þángat mundu fyrst ríða. þeir sögðu hvat þórgeirr hafði boðit honum, en hann lèt þess boðs síðar neyta skyldu, en kvað sèr vel hug um segja ef slíkir væri margir; dreifðu þeir þá öllu liðinu. þeir Flosi sá öll tíðindi þar sem þeir voru í fjallinu. Flosi mælti: Nú skulu vèr taka hesta vora ok ríða í brot, þvíat nú mun oss þat duga. þeir Sigfússynir spurðu hvârt þeim myndi duga at koma til búa sinna ok

segja fyrir. Þat mun Mörðr ætla, segir Flosi, at þèr munit vitja kvenna yðarra, ok er þat geta mín at þat sè ráð hans at standa skyli bú yður úrænt; ok er þat nú mitt ráð at eingi skilist við annan, ok ríði allir austr með mèr; tóku þeir þat ráðs allir. Riðu þeir þá allir austr ok fyrir norðan jökul ok svâ unz þeir komu til Svínafells. Flosi sendi þegar menn at draga at faung, svâ at öngan hlut skyldi skorta. Flosi hældist alldri um verkin; enda fann engi bræðslu á honum, ok var hann heima allan vetrinn fram um jól.

*Cap. 132. Fundin bein Njáls ok Bergþóru.* — Kári bað Hjalta at fara at leita beina Njáls: þvíat því munu allir trúa, er þú segir frá ok þèr sýnist. Hjalti kvaðst þat gjarna gera vilja at flytja bein Njáls til kirkju. Þaðan riðu fimtán menn, þeir riðu austr yfir Þjórsá ok kvöddu þar menn með sèr til þess er þeir höfðu hundrað manna með nábúum Njáls, þeir komu til Bergþórshvols at hádegi dags. Hjalti spurði Kára hvar Njáll mundi undir liggja, en Kári vísaði þeim til, ok var þar mikilli ösku af at moka. Þar fundu þeir undir húðina, ok var sem hún væri skorpnuð við eld; þeir tóku upp húðina, ok voru þau óbrunnin undir, allir lofuðu guð fyrir þat, ok þótti stór jartegn i vera. Síðan var tekinn sveinninn er legit hafði i millum þeirra, ok var af honum brunninn fingrinn, er hann hafði rètt út undan húðinni. Njáll var útborinn ok svâ Bergþóra. Síðan gengu til allir menn at sjá líkami þeirra. Hjalti mælti: Hversu lítast yðr líkamir þessir? þeir svöruðu: Þinna atkvæða viljum vèr at bíða. Hjalti mælti: Ekki mun mèr um þetta einarðarfátt verða: líkami Bergþóru þikki mèr at líkindum, ok þó vel; en líkami Njáls ok ásjóna sýnist mèr svâ bjartr, at ek hefi engis dauðs manns líkama sèð jafnbjartan. Allir sögðu at svâ sýndist. Þá leituðu þeir Skarphèðins, þar vísuðu þeir heimamenn til sem þeir Flosi heyrðu at vísan var kveðin, ok var þar þekjan fallin at gaflinum, ok þar mælti Hjalti at til skyldi leita. Síðan gera þeir svâ ok fundu

líkama Skarphèðins þar, ok hafði hann staðit upp við gaflaðit, ok voru brunnir fætr af honum mjök svâ neðan til knjá, en allt annat óbrunnit á honum: hann hafði bitit á kampinum, augu hans voru opin ok óþrútin, hann hafði rekit öxina í gaflaðit svâ fast at gengit hafði upp á miðjan fetann, ok var hún ekki af því dignuð, síðan var út brotin öxin. Hjalti tók upp öxina ok mælti: þetta er fágætt vâpn, ok munu fáir bera mega. Kári mælti: Sè ek mann til, hverr bera skal öxina. Hverr er sá? segir Hjalti. Þórgeirr Skorargeirr, segir Kári, sá er ek ætla nú mestan mann í þeirri ætt vera. Þá var Skarphèðinn flettr af klæðunum, þvíat þau voru ekki brunnin; hann hafði lagit hendr sínar í kross, ok á ofan ena hægri; díla fundu þeir á honum í millum herðanna, en annan á bringunni, ok var hvârtveggi brendr í kross, ok ætluðu menn at hann myndi sik sjálfr brennt hafa: allir menn mæltu þat at betra þætti hjá Skarphèðni dauðum enn þeir ætluðu, þvíat engi maðr hræddist hann. Þeir leituðu beina Gríms ok fundu bein hans í miðjum skálanum, þeir fundu þar gegnt honum undir hliðvegginum Þórð leysingja, en í vefjarstofunni fundu þeir Sæunni kerlíngu ok þrjá menn aðra; alls fundu þeir þar bein af níu mönnum, fluttu þeir nú líkin til kirkju; þá reið Hjalti heim ok Kári með honum. Blástr kom í fótinn Íngjaldi, fór hann þá til Hjalta ok var þar græddr, ok var hann þó jafnan haltr síðan. Kári reið í Túngu til Ásgríms Elliðagrímssonar, þá var Þórhalla heim komin, ok hafði hún þá sagt áðr tíðindin. Ásgrímr tók við Kára báðum höndum ok bað at hann skyldi vera þar öll þau misseri, Kári kvað svâ vera skyldu. Ásgrímr bauð því öllu liði til sín, er at Bergþórshvoli hafði verit, Kári kvað þat vel boðit ok lètst þat þiggja myndu fyri þeirra hönd; var þá flutt þángat allt liðit. Þórhalli Ásgrímssyni brá svâ við er honum var sagt at Njáll fóstri hans var dauðr ok hann hafði inni brunnit, at hann þrútnaði allr ok blóðbogi stóð úr hvârtveggja eyranu, ok varð eigi

eigi stöðvat, ok fèll hann í úvit, ok þá stöðvaðist. Eptir þat stóð hann upp ok kvað sèr lítilmannligá verða: en þat mynda ek vilja at ek hefnda þessa á þeim nokkurum, er hann brendu inni, er nú hefir mik hent; en aðrir sögðu at engi mundi honum þetta virða til skammar, en hann kvaðst eigi taka mega af því hvat mælt væri. Ásgrímr spurði hvers trausts Kári myndi vân eiga af þeim fyrir austan árnar. Kári sagði at Mörðr Valgarðsson ok Hjalti Skeggjason myndu veita honum slíkan styrk sem þeir mætti, ok Þórgeirr Skorargeirr ok þeir allir bræðr. Ásgrímr sagði þat mikinn afla. Hvern styrk skulu vèr af þèr hafa? segir Kári. Allan þann sem ek má veita, segir Ásgrímr, ok skal ek líf á leggja. Gerðu svâ, segir Kári. Svâ er at segja frá Kára at hann mátti ekki sofa nm nætr. Ásgrímr vaknaði eina nótt ok heyrði at Kári vakti. Ásgrímr mælti: Hvârt verðr ekki svefnsamt á næturnar? Kári kvað þá vísu þessa:

Kemrat Ullr um allar
álmsímar mèr grímur
(beðhlínar man ek bænir
bauga) svefn á augu,
sízt brandviðir brendu
bauðvar nausts á hausti
(ek em at mínu meini
minnigr) Niál inni.

Öngra manna gat Kári jafnopt sem Njáls ok Skarphèðins ok Bergþóru ok Helga; alldri ámælti hann óvinum sínum, ok alldri heitaðist hann við þá.

# Saga

af

## Sigurði konúngi Jórsalafara ok bræðrum hans.

*Cap. 1. Upphaf sona Magnúss konúngs.* — Eptir fall Magnúss konúngs Berfætts tóku synir hans konúngdóm í Noregi, Eysteinn, Sigurðr ok Ólafr; hafði Eysteinn enn norðra hlut lands, en Sigurðr enn syðra. Ólafr konúngr var þá fjögurra eða fim vetra, en þann þriðjúng lands er hann átti höfðu þeir báðir til varðveizlu. Sigurðr konúngr var til konúngs tekinn þá er hann var þréttán vetra eðr fjórtán, en Eysteinn var vetri eldri. Þá er synir Magnúss konúngs voru teknir til konúnga komu utan úr Jórsalaheimi, ok sumir úr Miklagarði, þeir menn er farit höfðu með Skopta Ögmundarsyni, ok voru þeir hinir frægstu ok kunnu margskonar tíðindi at segja; en af þeim nýnæmum girntist fjöldi manns í Noregi til þeirrar ferðar: þat var ok sagt, at í Miklagarði fengu Norðmenn fullsælu fjár, þeir er á mála vildu gánga. Þá báðu menn konúnga at annarrhvárr þeirra, Eysteinn eða Sigurðr, skyldi fara ok vera fyrir liði því, er til útferðar réðst, en konúngar játuðu því ok bjuggu ferð þá með beggja þeirra kostnaði. Til þeirrar ferðar réðust margir ríkismenn, bæði lendir menn ok bændur; en er ferðin var búin þá var þat af-

ráðit at Sigurðr skyldi fara, en Eysteinn skyldi hafa landráð af beggja þeirra hendi.

*Cap. 2. Ferð Sigurðar konúngs úr landi.* — Fjórum vetrum eptir fall Magnúss konúngs fór Sigurðr konúngr við liði sínu úr Noregi, þá hafði hann sextíu skipa. Svâ segir Þórarinn Stuttfeldr:

Svâ kom fylkis
framt lið saman
margt spaks mikit,
mildíngi vilt,
at skip við skip
skarfögur of lög
hreins grams héðan
hnigu sextigir.

Sigurðr konúngr sigldi um haustit til Englands, þá var þar konúngr Heinrekr, son Vilhjálms Bastarðar, var Sigurðr þar um vetrinn.

*Cap. 3. Ferð Sigurðar konúngs.* — Sigurðr konúngr hélt eptir um vârit liðinu vestr til Vallands ok kom fram um haustit út á Galizulandi, ok dvaldist þar annan vetr. En þat var með þeim atburð at jarl sá, er þar réð fyrir landi, gjörði sætt við Sigurð konúng, ok skyldi jarl láta setja torg þeim Sigurði konúngi til matkaupa allan vetrinn, en þat endist eigi lengr enn til jóla, ok gjörðist þá illt til matar, þvíat landit er skarpt ok lítit matland. Þá fór Sigurðr konúngr með miklu liði til kastala þess er jarl átti, ok flýði jarl undan, þvíat hann hafði lítit lið. Sigurðr konúngr tók þar vist mikla ok mikit herfáng annat ok lét flytja til skipa sinna, bjóst siðan í brot ok fór vestr fyrir Spán. Þá er Sigurðr konúngr sigldi fyrir Spán barsk þat at, at víkíngar nokkurir þeir er fóru at féfángi komu í móti honum með galeiðaher, en Sigurðr konúngr lagði til orrustu við þá: hóf þar sína fyrstu orrostu við heiðna menn ok vann af þeim átta galeiður. Siðan hélt

Sigurðr konúngr til kastala þess er Sintre hèt, ok barðist þar aðra orrostu, hann er á Spáni; þar sat í heiðit fólk ok herjaði þaðan á kristna menn: hann vann kastalann ok drap þar allt fólk, þvíat eigi vildi kristnast láta, ok tók þar fè mikit.

*Cap. 4. Unnin Lissibon.* — Eptir þat hèlt Sigurðr konúngr liðinu til Lissibonar, þat er borg mikil í Spáni ok hálf kristin en hálf heiðin: þar skilr Spån hinn kristna ok Spán heiðna, eru þau hèruð heiðin öll er vestr liggja. Þar átti Sigurðr konúngr orrostu hina þriðju við heiðna menn ok hafði sigr, fèkk hann þar fè mikit. Þá hèlt Sigurðr konúngr liðinu vestr fyrir Spán heiðna ok lagði til borgar þeirrar er kölluð er Alkassi, ok átti þar ena fjórðu orrostu við heiðna menn ok vann borgina ok drap þar margt fólk, svâ at hann eyddi borgina. Þeir fengu þar ofa fè mikit.

*Cap. 5. Orrosta í Forminteru.* — Þá hèlt Sigurðr konúngr fram ferðinni ok lagði út til Njörfasunda; en í sundunum var fyrir honum víkíngaherr mikill, ok lagði konúngr til orrostu við þá ok átti þessa hina fimtu orrostu við heiðna menn frá því er hann sigldi af Noregi, ok hafði sigr. Svâ segir Haldórr Skvaldri:

Treystust egg fyrir austan
(yðr tjóði guð) rjóða
ná-skarri fló nýrra,
Njörfasund, til unda.

Síðan lagði Sigurðr konúngr herinum fram hit syðra með Serklandi ok kom til eyar þeirrar er kölluð er Formintera, þar hafði þá setzt herr mikill blámanna heiðinna í helli nokkurn ok sett fyrir framan hellisdyrin sterkan steinvegg; var ok hátt upp at múrnum, svâ at hverr sem upp vildi gánga varð hrakinn í brot með grjóti ok skotum: þeir herjuðu víða um landit ok fluttu til hellisins allt herfáng. Sigurðr konúngr veitti uppgöngu í ey þeirri ok fór

til hellisins, ok var hann í bergi nokkuru, ok var hátt at gánga upp hallinn til steinveggsins, en bjargit skútti yfir fram steinvegginn. Heiðingjar vörðu steinvegginn ok hræddust eigi vâpn Norðmanna, þvíat þeir máttu bera grjót ok skot niðr undir fætr sèr ofan á Norðmenn. Norðmenn rèðu ok eigi til uppgöngunnar at svâ búnu. þá tóku heiðingjar pell ok aðra dýrgripi ok báru út á vegginn ok skóku at Norðmönnum, æptu á þá, eggjuðu ok frýðu þeim hugar. þá leitaði Sigurðr konúngr sèr ráða: hann lèt taka tvâ skipbáta er barkar heita, ok draga upp á bergit yfir hellis-dyrnar ok lèt drengja með strengjum digrum allt undir innviðuna ok um stafnana. Síðan gengu menn þar í, svâ sem rúm höfðu: lètu þeir síga skipin ofan fyrir hellinn með strengjunum, skutu þeir þá ok grýttu, er á skipunum voru, svâ at heiðingjar hrukku inn af steinvegginum. þá gekk Sigurðr konúngr með herinn upp í bergit, undir steinvegginn ok gátu brotit hann ok komust svâ upp í hellinn, en heiðingjar flýðu undan inn um steinvegginn, þann er settr var um þveran hellinn. þá lèt konúngr bera í hellinn viðu stóra ok kasta bál mikit í hellis-dyrunum ok slá eldi í. En heiðingjar, er eldr ok reykr sótti þá, lètu sumir lífit, sumir flýðu, sumir gengu á vâpn Norðmanna, sumt fólk var drepit, en sumt brennt. þar fengu Norðmenn et mesta herfáng, þess er þeir hefði tekit í þessi ferð. Svâ segir Haldórr Skvaldri:

Varð fyrir stafni
styrjargjörnum
friðraskaðar
Formintera:
þar var eggjar
ok eld þola
Blámanna lið,
áðr bana fengi.

Enn segir Þórarinn Stuttfeldr:

Bað gramr guma
gunn-hagr draga
byrvarga á bjarg
blásvarta tvâ,
þá er í reipum
ramdýr þrama
sigu fyrir hellis
hlið dyr með lið.

*Cap. 6. Gefit Hroðgeir jarli konúngs nafn.* — Sigurðr konúngr kom um vârit til Sikileyar ok dvaldist þar lengi. Þar var þá Hroðgeirr hertogi, hann fagnaði vel konúngi ok baud honum til veizlu. Sigurðr konúngr kom þángat ok mikit lið með honum, var þar dýrligr fagnaðr, ok hvern dag at veizlunni stóð Hroðgeirr hertogi ok þjónaði fyrir borði Sigurðar konúngs, ok hinn sjöunda dag veizlunnar, þá er menn voru komnir til borðs ok höfðu tekit laugar, þá tók Sigurðr konúngr í hönd hertoganum ok leiddi hann upp í hásætit ok gaf honum konúngsnafn ok þann rètt at jafnan skyldi konúngr vera yfir Sikileyar-veldi; en áðr höfðu jarlar ok hertogar verit yfir því ríki.

*Cap. 7. Jórsalaferð Sigurðar konúngs.* — Um sumarit sigldi Sigurðr konúngr út um Grikklandshaf til Jórsalalands; hann kom af hafi við Akrsborg ok lèt þar eptir skipin, fór þaðan landveg upp til Jórsalaborgar. Ok er þat frètti Baldvini, Jórsala konúngr, at Sigurðr konúngr mundi sækja til borgar, lèt hann sækja dýrðlig klæði ok breiða niðr á veginn, ok því meir vönduð er nærr var borginni, ok mælti síðan: Þat viti þèr at nú mun koma vor at vitja frægr konúngr norðan úr heimi, eru nú mörg hans snildarbrögð sögð ok ágætlig verk: skulum vèr honum vel fagna; en í þessum hlut er nú gjörum vèr, munum vèr marka stórmennsku hans ok ríkdóm: ríðr hann rèttan veg at borginni ok lætr sèr lítils þykkja vert um þenna fyrirbúning, þá

virði ek sem hann muni slikra hluta gnótt eiga í sinu riki; en ef hann ríðr af réttum veg, virði ek minna konúngs-sóma hans. Sigurðr konúngr ríðr nú at borginni með miklu drambi, ok sèr hann hversu fyrir er búit: ríðr hann fram á klæðin ok svâ biðr hann alla sina menn gjöra. Baldvini konúngr fagnaði Sigurði konúngi forkunnar vel ok reið með honum út til árinnar Jórdánar ok síðan aptr til Jórsalaborgar. Sigurðr konúngr dvaldist mjök lengi á Jórsalalandi um haustit ok öndurðan vetr.

*Cap. 8. Unnin Sætt.* — Baldvini konúngr gjörði veizlu fagra Sigurði konúngi ok liði miklu með honum. Þá gaf Baldvini konúngr Sigurði konúngi marga helga dóma, ok þá var tekinn spánn af krossinum helga, at ráði Baldvina konúngs ok patriarcha, ok svörðu þeir báðir at helgum dómi, at þetta trè var af hinum helga krossi, er guð sjálfr var píndr á. Síðan var sá heilagr dómr gefinn Sigurði konúngi með því at hann svarði áðr ok tólf menn með honum aðrir, at hann skyldi fremja kristni með öllum mætti sinum, ok erkibiskups stóli koma í land í Noregi ef hann mætti, ok at krossinn skyldi þar vera, sem hinn helgi Ólafr konúngr hvíldi, ok at hann skyldi tiund fremja ok sjálfr gjöra. Sigurðr konúngr fór síðan aptr til skipa sinna í Akrsborg, ok þá bjó Baldvini konúngr her sinn at fara til Sýrlands til borgar þeirrar, er Sætt hèt, meina sumir þat hafa verit Síðon á Sýrlandi; sú borg var heiðin, ok vildi hann vinna hana frá heiðíngjum ok undir þá christnu. Til þeirrar farar rèðst Sigurðr konúngr með honum, með öllu liði sínu ok sextiu skipum, ok þá er konúngar höfðu litla hríð setit um borgina, gáfust heiðnir menn upp, ok eignuðust þá konúngar borgina ok ofa fè mikit, en liðsmenn annat herfáng. Sigurðr konúngr gaf Baldvina konúngi sinn hluta í borginni. Eptir þat fór Sigurðr konúngr til skipa sinna ok bjóst brot af Jórsalalandi. Þeir sigldu norðr til eyarinnar Kýpr ok

dvaldist Sigurðr konúngr þar nokkura hríð, fór síðan til Grikklands ok lagði at öllu liðinu út við Engilsnes ok lá þar hálfan mánað, ok var hvern dag hraðbyri at sigla norðr eptir hafinu; en Sigurðr konúngr vildi bíða þess byrjar er þverskytíngr væri, ok seglum öllum mætti aka at endilanngum skipum, fyr ir því at öll segl hans voru sett pellum, bæði þat er fram vissi ok aptr; fyrir því at hvârugir, frambyggjar eðr aptrbyggjar, vildu sjá et ófegra seglanna, ok vildu þess byrjar bíða.

*Cap. 9. Ferð Sigurðar konúngs í Miklagarð.* — Þá er Sigurðr konúngr sigldi inn til Miklagarðs, sigldi hann nær landi, þar eru allt á landit upp borgir ok kastalar ok þorp, svâ at hvergi slitr. Þá sá af landinu í bug allra seglanna, ok bar hvergi í milli, svâ sem einn garðr væri. Allt fólk stóð úti, þat er sjá mátti siglíngina Sigurðar konúngs. Spurt hafði Kirjalax keisari ok til ferðar Sigurðar konúngs, ok lèt hann upplúka borgarhlið þat á Miklagarði er Gullvarta heitir, þat hlið skal innríða keisarinn, þá er hann hefir lengi áðr í brot verit frá Miklagarði ok farit herferðir ok hafi vel sigrazt; ok þá lèt keisarinn breiða pell um öll stræti borgarinnar frá Gullvörtu ok til Laktjarna, svâ heita keisarans hallir inar ágætstu. Sigurðr konúngr mælti til sinna manna at þeir skyldi ríða drambsamliga í borginaok láta sèr litit um finnast alla nýbreitni er þeir sá, ok svâ gjörðu þeir. Keisari lèt fara allt í móti þeim með leika ok saungva: reið Sigurðr konúngr ok allir hans menn við þvílíkan prís í Miklagarð. Svâ segja menn at Sigurðr konúngr lèt skúa hest sinn með gulli áðr hann reið í borgina, ok skyldi svâ tilhaga at undan skyldi stökkva einnhverr skórinn á strætinu, ok skyldi eingi hans manna tillíta; ok er þeir Sigurðr konúngr komu til hallar hinnar ágætstu var þar allt vel fyrirbúit. En er menn Sigurðar konúngs voru komnir í sæti ok búnir til drykkju komu í höllina sendimenn keisara, ok báru milli sín í stórum töskum gull ok silfr, ok sögðu at

keisarinn sendi Sigurði konúngi, en konúngr leit eigi til fjárins ok bað menn sina skipta með sèr. Sendimenn fóru ok sögðu keisara, hann svarar: Sá konúngr mun vera stórum ríkr ok auðigr, er hann vill eigi til slíkra hluta hneigjast eðr gjalda lofiig orð fyrir; biðr þá enn fara með stóra cistera fulla af gulli. Þeir koma enn fyrir Sigurð konúng ok segja honum, at þessar gjafir ok sendingar eru honum sendar af stólkonúngi. Sigurðr konúngr mælti: Þetta er mikit fè ok fagurt, ok skipti þèr með yðr þessu, menn minir! Sendimenn fóru aptr ok sögðu keisara, hann svarar: Tveim skiptir um þennan konúng, at hann mun vera yfir öðrum konúngum at riki ok fè, eða hann mun eigi vera at jöfnum vitrleik sem konúngi sæmdi: farit nú í þriðja sinn ok færit honum inn dýrasta purpura ok hrokaða þessa cistera af gulli, ok þar lagði hann á ofan tvâ gullhringa. Nú fara sendimenn ok koma fyri Sigurð konúng ok sögðu at stólkonúngr sendi þetta it mikla fè Sigurði konúngi, hann stóð þá upp ok tók hringana ok dró á hönd sèr, siðan talaði hann snjallt erindi á Grisku ok þakkaði keisara fögrum orðum allan sóma sinn ok stórlyndi, ok skipti nú þessu fè með mönnum sínum við miklum sóma. Sigurðr konúngr dvaldist þar nokkura hríð. Þá sendi Kirjalax keisari menn til hans ok lèt spyrja hvârt hann vildi þiggja at keisaranum sex skippund af rauðu gulli, eða vildi hann at keisarinn lèti efna til leiks þess er hann var vanr at láta leika á Padreimi. Sigurðr konúngr kaus leikinn, en sendimenn sögðu at keisarann kostaði eigi minna fè leikinn enn þetta gull var. Þá lèt keisarinn efna til leiks, ok var þá leikit at vanda, ok veittu allir leikar betr konúngi þann dag enn drotníngu, þvíat drotníng á jafnan hálfan leikinn, ok keppast í öllum leikum menn þeirra, ok segja Grikkir at þá er konúngr vinnr fleiri leika á Padreimi enn drotníng, þá mun konúngr vinna sigr, er hann ferr herferðir. Þat segja menn þeir er verit hafa í Miklagarði at Padreimr sè á þá leið gjör, at veggr hár sè settr um einn völl, svâ til

at jafna sem túnsvið kringlótt, ok garðr umhverfis með steinveggjum, ok sitja menn þar á er leikrinn er á vellinum, eru þar skrifuð margskonar forntíðindi: Æsir, Volsúngar ok Gjúkúngar; er þat steypt af kopar ok málmi með svâ miklum hagleik, at þat þikkir allt kvíkt vera, ok sýnist mönnum sem þeir komi i leikinn; er leikrinn settr með svâ miklum brögðum ok vélum, at svâ sýnist sem menn riði i lopti, ok skoteldr er þar við ok allskonar hörpuleikar ok saungfæri.

*Cap. 10. Sigurðr konúngr helt snæðíng Miklagarðs keisara.* — Þat er sagt at Sigurðr konúngr skyldi veita snæðing einn dag keisaranum, ok bað hann sina menn ætla til skörugliga alla hluti er hafa þyrfti til þeirrar veizlu. Ok þá er til var fengit allra hluta sem ríkum mönnum sômdi at veita tignum mönnum, þá bað Sigurðr konúngr sína menn gánga at því stræti í borginni er viðr væri keyptr, sagði at þeir mundi mikinn þurfa. Þeir sögðu at konúngr þyrfti eigi ugga at viðinn mundi skorta, þvíat mörgum lössum viðar var ekit í borgina hvern dag; en er þeir þurftu til at taka, var á brot allr viðrinn, ok sögðu þeir þat konúngi, hann svaraði: Farit ok vitit þá ef þér fáit valhnetur, eigi munum vér þeim síðr kunna at elda; þeir fóru ok fengu svâ miklar sem þeir vildu. Því næst kom keisarinn ok hans höfðingjar ok hirð ok settust saman, ok er þar margfaldr sómi, ok veitir Sigurðr konúngr með mikilli prýði ok miklu kappi; ok er þat finnr keisarinn ok drotning at ekki skortir, þá sendir hún menn at vita hverju þeir elda, ok nú koma þeir at húsi einu ok sjá, at þar var fullt af valhnötum, fóru síðan ok sögðu þat drotníngu, hún mælti: Víst er konúngr sá stórlyndr, ok mun fátt til spara síns sóma, engi viðr logar betr enn þetta. Hún hafði þetta til raunar gjört, hver rád Sigurðr konúngr tæki ef hún léti bera fra honum eldiviðinn.

*Cap. 11. Frá heimferð Sigurðar konúngs Jórsalafara.* — Eptir þetta bjóst Sigurðr konúngr til heimferðar, gaf hann keisaranum öll skip sín, ok voru höfuð þau en fé-

miklu, er voru á konúngs skipinu, sett upp á Petrskirkju, eru þar síðar til sýnis. Kirjalax keisari gaf síðan Sigurði konúngi marga hesta ok fèkk honum leiðtoga um allt ríki sitt, ok lèt setja honum torg til matarkaupa ok drykkjar um sitt ríki. Fór þá Sigurðr konúngr brot af Miklagarði, en eptir dvaldist mikill fjöldi Norðmanna er gekk þar á mála. Sigurðr konúngr fór utan fyrst um Bolgaraland ok þá af Úngaraland ok af Pannonia ok Svafa ok Beiara; fann hann Lozarium keisara af Rómaborg í Svafa, ok fagnaði hann honum forkunnar vel ok fèkk honum leiðtoga allt um sitt ríki ok lèt halda honum torg, svâ sem þeir þurftu til allra kaupa. En er Sigurðr konúngr kom í Slèsvík í Danmörk, þá veitti Eylifr jarl honum dýrliga veizlu, þat var um miðsumars skeið. Í Heiðabý hitti hann Nikolás Danakonúng, ok fagnaði hann honum afarvel, ok gjörði hann fyrir honum veizlu mikla ok fylgði honum sjálfr norðr á Jótland og gaf honum skip með öllum búnaði. Fór þá Sigurðr konúngr heim til Noregs, ok var honum vel fagnat, er hann kom heim í ríki sitt: var þat mál manna at eingi hefði verit farin meiri virðingarför úr Noregi enn þessi er Sigurðr konúngr fór, ok þá var hann tvítugr at aldri, hann hafði þrjá vetur verit í þessi ferð. Ólafr konúngr bróðir hans var þá tólf vetra gamall at aldri.

*Cap.* **12.** *Frá athöfn Eysteins konúngs.* — Eysteinn konúngr hafði ok margt starfat í landinu þat er nytsamligt var, meðan Sigurðr konúngr var í ferðinni. Hann lèt gjöra í Björgyn höll hina miklu, er mest ok frægst herbergi hefir verit í Noregi; hann hóf múnklífi í Norðnesi í Björgyn ok lagði þar til fè mikit, þar lèt hann gjöra Mikjalskirkju, it vegligsta steinmusteri; hann lèt ok gjöra þar í konúngsgarði Postulakirkju, þar lèt hann ok gjöra höllina miklu er vegligast trèhús hefir gjört verit í Noregi; hann lèt ok gjöra kirkju á Agðanesi ok þar virkit ok höfn, er áðr var öræfi; hann lèt ok gjöra í Niðarósi í konúngsgarði Nikoláskirkju,

ok var þat hús allmjök vandat at skurðum ok allri smíð; hann lèt ok gjöra kirkju norðr í Vâgum á Hálogalandi ok lagði provendu til.

*Cap. 12. Frá Eysteini konúngi.* — Eysteinn konúngr gjörði orð hinum vitrustum mönnum til Jamtalands ok hinum ríkustum, bauð þeim til sín, en fagnaði öllum er komu með blíðu mikilli ok leiddi brot með vingjöfum ok teygði þannig til vináttu við sik. En er þeir vöndust margir at fara til hans ok þágu gjafir hans, en sumum sendi hann gjafir, þeir er eigi kvâmu sjálfir, þá kom hann sèr í fullkomna vináttu við alla þá menn er mest rèðu fyrir landinu. Síðan talaði hann fyrir þeim ok sagði, at Jamtir hefðu þat illa gjört, er þeir höfðu snúizt undan Noregs konúngum í hlýðni eða skattgjöfum: tók þar til máls er Jamtir höfðu gengit undir ríki Hákonar Aðalsteinsfóstra ok verit lengi síðan lýdskyldir undir Noregs konúnga, innti ok þat hversu mörg þarfindi þeir máttu hafa af Noreg, eða hversu mikil ómakandi þeim væri at sækja til Svíakonúngs þat er þeir þurftu; ok kom hann svâ sínum ræðum at Jamtir sjálfir buðu honum ok báðu hann, at þeir vildi snúast til hlýðni við hann, ok kölluðu þat vera þurft sína ok nauðsýn: dró svâ saman þeirra fèlagsskap at Jamtir gáfu landit allt undir ríki Eysteins konúngs. Tóku fyrst til þessa máls ríkismenn ok höfðu þar trúnaðar eyða af öllu fólki, síðan fóru þeir til Eysteins konúngs ok svörðu honum landit, ok hefir þat haldizt lengi síðan: vann Eysteinn konúngr með viti Jamtaland, en eigi með áhlaupum, sem sumir forellrar hans.

*Cap. 13. Frá atgjörfi Eysteins konúngs.* — Eysteinn konúngr var maðr hinn fríðasti sýnum, bláeygr ok nokkut opineygr, bleikhvítr á hár ok hrokkinhár, ekki hár, meðalmaðr á vöxt, spekingr at viti, fróðr at öllum lögum ok dæmum ok mannfróðr, ráðsnjallr ok orðsspakr ok hinn snjallasti ok mildastr af fè, manna glaðastr ok lítillátastr, hugþekkr ok ástsæll allri alþýðu. Eysteinn konúngr hafði

i marga staði bætt rètt landsmanna, ok hèlt hann upp mjök lögunum, hann gjörði sèr kunnig öll lög i Noregi, hann var ok spekingr mikill at viti. — Á þeima hlut má nokkut marka hverr dýrðarmaðr Eysteinn konúngr var, eða hversu hann var vinhollr ok hugkvæmr eptir at leita við vini sína, hvat þeim væri at harmi. Sá maðr var með honum er Ívarr hèt Íngimundarson, Íslendskr maðr, vitr ok ættstorr ok skáld, var konúngr vel til hans ok ástsamliga, svâ sem sýndist i þessum hlut. Ivarr tók ógleði, ok er konúngr fann þat, heimti hann Ívar til máls við sik ok spurði hví hann væri svâ óglaðr: en fyrrum er þú vart með oss var oss margskonar skemtan at þinum ræðum; hugnar þèr eigi til vor? Ívarr kvað þat eigi vera. Konúngr svaraði: Eigi leita ek af því eptir, veit ek at þú munt vera svâ vitr maðr, at ek hafi öngan hlut gjört af við þik, seg mèr hvat þat er. Hann svaraði: Þat sem er, herra, má ek eigi frá segja. Þá mælti konúngr: Geta mun ek þá til: eru menn þeir nokkurir er þèr getist eigi at? hann kvað eigi þat. Konúngr svarar: Þikkist þú af mèr hafa minna sóma enn þú vildir? hann sagði eigi þat vera. Konúngr mælti: Hefir þú sèð nokkura þá hluti, er þèr hefir svâ mikit um fundizt, at þèr þikkir þat illa? hann kveðr eigi þat vera. Konúngr mælti: Fýsir þik til nokkurra manna eða annarra höfðingja at fara? hann kvað eigi þat vera. Konúngr mælti: Vandast nú getan: eru nokkurar konur þær hèr eða á öðrum löndum er þèr er eptirsjá at? hann sagði at þat er. Konúngr mælti: Ver eigi þar um hugsjúkr, þegar er vârar far þú til Íslands, ok mun ek fá þèr fè ok mikinn sóma, brèf ok innsigli til þeirra manna er ráðin eigu, ok veit ek eigi þeirra manna vánir, at eigi mundi hneigjast fyrir mínum ummælum eða ógnarorðum. Ívarr svaraði: Þúngligar er farit, herra: bróðir minn á þessa konu. Þá mælti konúngr: Hverfum þar frá, sè ek þar ráð til. Eptir jól mun ek fara á veizlur, ok far þú með mèr: muntu þá sjá kurteisar konur margar,

ok ef eigi eru þær konúngbornar, mun ek fá þèr i hendr ok gipta þèr einahverja. Ivarr svaraði: Herra, því er þúngligar komit, at jafnan er ek sè fagrar konur ok dýrligar þá minnir mik hinnar konunnar, ok er því harmr minn at meiri. Konúngr mælti: þá mun ek gefa þèr nokkut forræði ok eignir með at skemta þèr. Hann svaraði: Eigi uni ek því. Þá mælti konúngr: Þá fæ ek þèr fè, ok far þú þángat til landa sem þú vilt. Hann kveðst eigi þat vilja. Þá mælti konúngr: Vandast mèr nú eptir at leita, ok hefi ek nú leitat nær sem ek kann; en einn er nú hlutr eptir, ok er sá lítils verðr hjá þessum er ek hefi boðit þèr: far þú hvern dag er borð er uppi á minn fund, ok ef ek sit eigi yfir vandamálum mun ek tala við þik ok ræða um konu þessa á alla vega, þess er mèr má i hug koma, ok mun ek gefa mèr tóm: þat verðr stundum at mönnum verðr harms lèttara ef um er rætt; þat skal ok fylgja at aldregi skaltu gjaflaust á brot fara. Hann svarar: Þenna vil ek, herra, ok hafit þökk fyrir eptirleitanina. Ok nú gjöra þeir svâ jafnan er konúngr sitr eigi yfir vandamálum, þá talar konúngr við hann, ok lèttist honum nú harms síns, ok gleðst hann.

*Cap. 14. Frá Sigurði konúngi.* — Sigurðr konúngr var maðr mikill ok sterkr, jarpr á hár, sköruligr, eigi fagur, vel vaxinn, fámæltr ok optast eigi þýðr, vingóðr ok fastúðligr, eigi talaðr mjök, siðlátr ok veglátr. Sigurðr konúngr var maðr stjórnsamr ok refsíngasamr, hèlt vel lögin, mildr af fè, ríkr konúngr ok ágætr. Ólafr konúngr, bróðir hans, var maðr hár ok mjór, fríðr sýnum, glaðr ok lítillátr ok vinsæll. Þá er þeir bræðr allir, Eysteinn, Sigurðr ok Olafr, voru konúngar í Noregi, þá tóku þeir af margar álögur, þær er Danir höfðu lagt á lýðinn, þá er Sveinn Alfífuson rèð Noregi, ok urðu þeir af því vinsælir stórum við alþýðu ok stórmenni.

*Cap. 15. Draumr Sigurðar konúngs Jórsalafara.* — Sigurðr konúngr tók ógleði mikla, svâ at lítt mátti njóta

tals hans, sat hann ok skömmum við drykkju. Þat þótti ráðamönnum þúngt ok vinum hans ok hirðinni, ok biðja síðan Eystein konúng leggja til nokkur ráð, at hann fengi vitat hverju gegndi, er menn fengu öngva úrskurði mála sinna, er Sigurð konúng sóttu at, þótt fyrir hann bæri. Eysteinn konúngr svarar: Vant er at ræða ok leita eptir slikum hlutum við konúng; en þó at bæn margra manna varð þat at hann hèt. Ok eitthvert sinn er þeir voru báðir saman, vekr Eysteinn konúngr til við bróður sinn ok spurði hví gegnir ógleði hans; er þat nú, herra, margs manns hrygð er þèr erut svâ óglaðir, vildum vèr vita hvat er veldr: eða hafi þèr nokkur tíðindi fregit er þat sè stórra hluta vert? Sigurðr konúngr segir at eigi er þat. Er þat þá bróðir, segir Eysteinn konúngr, vilit þèr úr landi ok afla yðr meira ríkis, sem faðir vorr? hann kvað eigi þat vera. Eru nokkurir menn þeir í landi hèr er fyrir reiði þinni sè orðnir? Konúngr sagði eigi þat vera. Þat vil ek þá vita ef yðr hefir dreymt nokkut, þat er þèr fær áhyggju. Konúngr sagði at svâ var. Seg mèr þá bróðir, segir Eysteinn konúngr, drauminn. Sigurðr konúngr mælti: Eigi mun ek segja þèr, nema þú ráðir eptir því sem vera mun, ok mun ek þat allglöggt vita mega, hvárt þú ræðr rètt eða eigi. Eysteinn konúngr svaraði: Þat er, herra, mikill vandi á báðar hendur: sitja fyrir reiði þinni, er á mun liggja ef eigi verðr ráðit, eða ágáng múgsins ef ek geri eigi úr nokkut, en þar til mun ek þó heldr ráða at hætta á yðar miskunn, þó at eigi verði ráðit eptir því sem yðr líkar. Sigurðr konúngr svarar: Þat dreymdi mik, at mèr þótti sem vèr bræðr þrír sætim allir á einum stóli fyrir Kristskirkju norðr í Þrándheimi, ok þá sýndist mèr sem gengi út úr kirkjunni hinn helgi Ólafr konúngr, frændi vorr, skryddr konúngs skrúði, ljómandi ok vegsamligr, hann var með hinni dýrligstu ásjónu ok mjök bliðligr. Hann gekk at Ólafi konúngi, bróður okkrum ok tók á hönd honum ok mælti við hann bliðliga: Far þú með mèr frændi, sagði

hann: hann sýndist mèr standa upp ok gánga með honum inn í kirkjuna. Ok nokkuru síðar kom hinn helgi Olafr konúngr út af kirkjunni, ok þó eigi svâ bliðr ok vegsamligr sem áðr, gekk hann at þèr, bróðir, ok mælti við þik at þú skyldir gánga með sèr: leiddi hann þik með sèr, ok gengu þit síðan inn í kirkjuna. Þá hugsaða ek ok vænta ek at hann mundi einnin út til min koma ok í móti mèr, en þat varð eigi, þar af varð ek hryggr, ok þá sló yfir mik hræðslu mikilli ok ómegni, ok varð ek með öllu máttlauss, ok vaknaði ek í því. Eysteinn konúngr svarar: Herra, sagði hann, svâ ræð ek draum þenna at stóllinn jartegnir ríki vort bræðra; en er þèr sýndist Ólafr konúngr koma með bliðu yfirbragði í móti Ólafi konúngi bróður okkrum, þar mun hann lifa skemst vor bræðra, ok mun hann eiga gott fyrir höndum, því at hann er vinsæll ok úngr at aldri, mun fátt yfirliðit, ok mun hinn heilagi Ólafr konúngr hjálpa honum. En þar er þèr sýndist hann mèr í móti koma ok eigi með jafnmikilli bliðu, þar mun ek lifa nokkurum vetrum lengr ok verða þó eigi gamall, ok væntir mik at hans ásjá mun yfir mèr standa; en þat hann kom í móti mèr, þar var hann eigi með jamnmiklum blóma sem við Ólaf konúng bróður okkrum, mun þat fyrir því at margt hefir mik hent til afgjörða ok boðorða brota. En þar sem þèr þótti frestast kvâma hans þèr í móti, þat get ek at eigi muni marka heimvon þína, heldr þitt lánglíf; en vera kann at þú mætir nokkru þúngu áfelli, er þèr þótti sem nokkur óbirta legðist yfir þik ok ótti; ok get ek at þú verðr vor elztr ok ráðir lengst ríki þessu. Þá mælti Sigurðr konúngr: Vel er ráðit ok vitrliga, ok er mest von at gángi eptir þessu: tekr konúngr nú at gleðjask.

*Cap. 16. Hèr hefr þinga-þátt.* — Sigurðr Hranason, mágr konúngs, var missáttr við Sigurð konúng, hann átti Skjaldvöru, systur Magnúss konúngs Berfætts sammæðra. Hann hafði haft finnför af hendi konúnga fyrir sakir tengda

ok lángrar vináttu ok margra góðra hluta er Sigurðr Hranason veitti konúngum, ok var hann hinn merkiligasti maðr ok hinn vinsælasti. En þat bar svâ at sem opt kann verða, at vândir menn ok öfundsjúkir rægðu hann við konúng meir enn sannorðir, ok báru þat í eyru Sigurði konúngi at Sigurðr Hranason mundi meira eigna sèr af finnskattinum enn hófi gegndi; ræða þar til hèr um at Sigurðr konúngr lagði á hann fjandskap ok reiði sína ok sendir eptir honum; ok er hann kemr á konúngs fund, berr konúngr þetta á hann ok segir at hann varði eigi þat, at þú mundir svâ launa mèr, sagði hann, mikit lén ok sóma, at eigna þèr konúngs eign ok hafa meira hlut af enn þèr var leyft. Þá svarar Sigurðr Hranason: Eigi er þat satt er yðr er frá sagt: slíkan hlut hefi ek þar af sem yðart er leyfi til. Sigurðr konúngr mælti: Eigi muntu því einu fyrir hlíta, ok rætt mun áðr málit verða með meiri freku, enn lèttir; ok skiljast at því. Litlu síðar með umtölum vina sinna sótti Sigurðr konúngr Sigurð Hranason um þetta mál á móti í Björgyn ok vildi gjöra hann útlaga. Ok er í þat efni var komit ok svâ mikinn vanda, þá ferr Sigurðr Hranason á fund Eysteins konúngs ok segir honum, með hversu miklu áfelli Sigurðr konúngr vildi heimta málit af honum, ok biðr hann nú ásjá. Eysteinn konúngr svarar: Þat er vant mál er þú beiðir, at veita mótmæli bróður sínum; segir lángt þess í milli, hvârt hann veitir at málinu eða gengr í móti; kvað þá bræðr báða jafnt eiga þetta mál, Sigurð konúng ok sik: en fyrir sakir nauðsynjar þinnar ok mágsemdar okkrar, þá mun ek tilleggja nokkur orð. Nokkru síðar hittir Eysteinn konúngr Sigurð konúng ok biðr hann eirðar manninum: sagði skyldu þá sem var, at Sigurðr Hranason átti Skjaldvöru, föðursystur þeirra, ok segir hann bæta vilja þat sem konúngi mislíkar, þó at eigi teldi hann sik sannan at sökinni: bað konúng minnast á lángt vinfengi þeirra. Sigurðr konúngr sagði þat meiri stjórn at refsa slíka hluti. Þá svarar Eysteinn kon-

úngr: Ef þú vilt, bróðir, lögum at fylgja ok eptir landsstjórn refsa slikt, þá er þat munrèttligast, at Sigurðr Hranason njóti vitna sinna, ok á mál þetta á þíngi at dæma, en eigi á móti, þvíat sökin veit til landslaga, en eigi til Bjarkeyar rèttar. Þá mælti Sigurðr konúngr: Vera má at svâ viti sökin, Eysteinn konúngr, sem þú segir, ok ef þetta eru eigi lög, þá munu vèr málit á þíngi sækja; siðan skildust konúngar, ok þótti mjök sinn veg hvârum þeirra. Þá stefndi Sigurðr konúngr máli þessu til Arnarnessþíngs ok ætlar þar fram at hafa. Eysteinn konúngr kom ok þángat ok sótti þíngit, ok er sökin fór fram i dóm, þá gekk at Eysteinn konúngr, áðr enn dómr fèlli á Sigurð Hranason, þá beiddi Sigurðr konúngr lögmenn at þeir feldi dóm á. En Eysteinn konúngr svarar á þá leið: Þat hygg ek at hèr muni vera menn svâ vitrir, ok kunnig lögin i Noregi at eigi á at dæma lendan mann útlagan á þessu þíngi; ok flytr hann nú svâ málit til laga at öllum má þat skiljast sannligt. Þá mælti Sigurðr konúngr: Kapp leggr þú, Eysteinn konúngr, mikit á mál þetta, ok vera má at meiri starf verði fyrir, áðr enn þetta mál gángist við, enn til var hugat, en eigi fyrir því at síðr skal framhalda; ok gjarnan vilda ek nú at hann yrði sekr i sinum átthaga. Þá mælti Eysteinn konúngr: Fátt mun þat vera at eigi verði framgegnt ef þèr vilit fylgja, ok er þess vân, svâ marga ok stóra hluti sem þèr hafit unnit, en hèr er vân at i móti standi fáir menn ok smáir; skiljast þeir at svâ búnu, svâ at eigi syslast at málinu. Eptir þat stefnir Sigurðr konúngr Gulaþíng ok sækir til sjálfr, ok stefnir at sèr mörgum dýrum höfðíngjum, þar kemr ok Eysteinn konúngr með sinar sveitir, ok eru nú margir fundir at áttir ok stefnur at málinu af vitrum mönnum, ok málit rannsakat fyrir lögmönnum. Nú flytr Eysteinn konúngr þetta fram, at allir þeir menn er fyrir sökum voru hafðir voru i Frostaþíngslögum, ok sakir höfðu gerst á Hálogalandi: lýkst með því þíngit at eigi er atgjört, ok eyðir hann sökina með

þessu, ok skiljast konúngar at því ok voru mjök reiðir; ferr þá Eysteinn konúngr norðr til Þrándheims. Sigurðr konúngr stefnir at sèr öllum lendum mönnum ok lendra manna húskörlum ok nefnir úr hverju fylki lið mikit búanda allt sunnan úr landi, ok dróst at honum herr mikill; stefnir hann liðinu öllu norðr með landi, sækir svâ allt norðr á Hálogaland ok vill svâ greipiliga at gánga at gjöra Sigurð Hranason útlaga þar í frændhaga sinum, ok stefnir hann til sín Háleygjum ok Raumdælum ok stefnir þing í Hrafnistu. Eysteinn konúngr bjósk úr kaupángi með liði miklu ok sækir til þingsins, hann tekr þá með handfesti sókn ok vörn af Sigurði Hranasyni. Á þessu þingi flutti hvârtveggi konúnga fram sitt mál, þá leitar Eysteinn konúngr við lögmenn hvar þau lög eru sett í Noregi at bændum sè rètt at dæma konúnga mál, ef annarr sækir mál af öðrum: flyt ek mál þat með vitnum fram at Sigurðr hefir mèr á hendr fengit málit, nú á Sigurðr konúngr við mik málit, en eigi við Sigurð Hranason. Lögmenn segja at konúnga málum ætti at skipta á Eyraþíngi í Níðarósi. Eysteinn konúngr svarar: Þat hugða ek at svâ mundi vera, ok þángat mun sökin horfa; ok segist konúngr ok vilja þar rèttan dóm falla láta um mál Sigurðar Hranasonar. Þá mælti Sigurðr konúngr: Svâ mjök sem þú vilt þýngja ok óhægja fyrir mèr of þetta mál þá skal ek því þráligar fylgja; ok skilja þeir at svâ búnu: sækja nú hvârirtveggju suðr til kaupángs, var þar stefnt átta fylkna þíng. Eysteinn konúngr var þá í bænum ok hafði allmikit lið, en Sigurðr konúngr lá á skipum; en er til þings skyldi gánga þá voru grið sett. Ok er þar var komit fólk allt ok málit skyldi kæra, þá stóð upp Bergþorr Bokkr, son Sveins Bryggjufóts ok bar fram vitni sitt at Sigurðr Hranason hefði leynt af finnskattinum. Eysteinn konúngr stóð þá upp ok svaraði: Þó at þessi sök væri sönn, er þú berr nú fram, sem ek veit þó eigi með sannindum hverr vitnisburðr þetta er, ok þó at svâ væri at þat

sannaðist, þá hefir þessi sök nú verit eydd á þremr lögþingum ok móti enu fjórða: nú kref ek lögréttumenn at dæma Sigurð sýknan sakarinnar at lögum; ok svâ var gjört. Þá mælti Sigurðr konúngr: Sè ek, Eysteinn konúngr, at þú hefir flutt fram lögkróka, en mèr er eigi þat kunnigt: nú er sú ein sóknin eptir, er ek mun vera vanari enn þú, Eysteinn konúngr, skal þá nú ok fram hafa! ok sneri síðan á brot til skipa sinna, ok lèt færa af tjöld ok lagði liðinu út til Hólms, átti þar þíng ok sagði svâ liðinu at um morguninn eptir skyldu þeir leggja árdegis inn til Íluvalla ok gánga upp ok berjast við Eystein konúng. En um kveldit, er Sigurðr konúngr sat at matborði á skipi sínu ok snæddi, þá varð hann eigi fyrr varr við enn maðr lèt fallast niðr á þiljurnar i fyrirrúminu ok tók um fót honum: þar var Sigurðr Hranason, ok bað þá Sigurð konúng gjöra af sinu ráði slikt er hann vildi, kvaðst eigi vilja at af honum hlytist nokkur vandræði meðal þeirra bræðra. Gekk þá til Magni biskup ok Málmfriðr drotning ok báðu griða Sigurði Hranasyni, ok með þeirra bæn tók Sigurðr konúngr hann upp ok tók af honum festur, ok setti hann með mönnum sínum ok hafði hann með sèr suðr i land. Um haustit fèkk Sigurðr konúngr Sigurði Hranasyni orlof at fara heim norðr til eigna sinna, ok gaf honum þá sýslu af sinni hendi ok var jafnan síðan vinr hans. Eptir þetta var aldregi margt um milli þeirra bræðra, nè blíða með ástsemd.

*Cap. 17. Dauði Ólafs konúngs.* — Á þrettánda ári ríkis þeirra bræðra tók Olafr konúngr Magnússon sótt, þá er hann leiddi til bana, ok er hann jarðaðr i Niðarósi at Kristskirkju: var hann mörgum mjök harmdauði. Móðir Olafs konúngs var Sigríðr, dóttir Saxa i Vík, systir Kára Austráðs, er kallaðr var konúngsfóstri, hann var ríkr maðr ok vinsæll; önnur dóttir Saxa úr vík var Þóra, hún gat son er Sigurðr hèt Slembidjákn, er síðan kallaðist sonr Magnúss konúngs Berfætts. Síðan rèðu þeir tveir konúngar landi,

Eysteinn ok Sigurðr, en áðr höfðu þeir bræðr þrír verit konúngar yfir Noreg tólf vetur, fim síðan er Sigurðr konúngr kom í land, en sjö áðr. Ólafr konúngr var sautján vetra þá er hann andaðist, en þat var ellifta Kalendas Januarii. Þá er Eysteinn konúngr hafði verit einn vetr austr í landi, en Sigurðr konúngr var þá norðr, þá sat Eysteinn konúngr lengi um vetrinn í Sarpsborg.

*Cap. 18. Fæddr Magnús blindi.* — Bóndi ríkr er nefndr Ólafr í Dali, auðigr maðr, hann bjó í Aumorð í Dali mikla. Hann átti tvö böru, son hans hét Hákon Faukr, en Borghildr dóttir: hún var kvenna fríðust ok vitr kona ok fróð mjök. Þau Ólafr ok börn hans voru lengi um veturinn í Borg, ok var Borghildr jafnan á tali við Eysteiu konúng, ok mæltu menn illmisjafnt um vinfengi þeirra. En eptir um sumarit fór Eysteinn konúngr norðr í land, en Sigurðr konúngr fór þá austr, ok annan vetur eptir var Sigurðr konúngr austr í landi ok sat laungum í Konúngahellu ok efldi stórmjök þann kaupstað: þar gerði hann kastala mikinn af torfi ok grjóti ok lét grafa um díki mikit, hann lét húsa í kastalanum ok gjöra þar kirkju. Krossinn helga lét hann vera í Konúngahellu, ok hélt hann eigi í því eiða sína, er hann hafði svarit á Jórsalalandi, en hann framdi tíundir ok flest allt annat þat er hann hafði svarit; hann setti krossinn fyrir því austr við landsendann at hann hugði þat vera mundu alls lands gæzlu, en þat varð at hinu mesta óráði at setja þann helgan dóm svâ mjök undir vald heiðinna manna, sem síðan reyndist. — Borghildr Ólafsdóttir heyrði þann kvitt, at menn illmæltu þau Eystein konúng um tal sitt ok vináttu, þá fór hún til Borgar ok fastaði þar til járns, ok bar járn þar fyrir þetta mál ok varð vel skír. En er þetta spurði Sigurðr konúngr þá reið hann þat á einum degi er miklar voru tvær dagleiðir, ok kom fram í Dali at Ólafs, var þetta um nótt, þá tók hann Borghild frillutaki ok hafði

hana brot með sèr; þeirra son var Magnús, hann var brátt sendr til fóstrs norðr á Hálogaland í Bjarkey, til Viðkunns Jónssonar, ok fæddist hann þar upp. Magnús var allra manna fríðastr, bráðgjörr á vöxt ok á afl.

*Cap. 19. Mannjafnaðr konúnga.* — Eysteinn konúngr ok Sigurðr konúngr fóru einn vetr báðir at veizlum á Upplöndum, ok átti sin bú hvârr þeirra; en er skamt var milli þeirra bæa er konúngar skyldu veizlur taka, þá gerðu menn þat ráð at þeir skyldu báðir vera samt at veizlunum ok sínu sinni at hvârs búum: voru þeir fyrst báðir samt at því búi er Eysteinn konúngr átti. En of kveldit er menn tóku at drekka, þá var munngát ekki gott, ok voru menn hljóðir. Þá mælti Eysteinn konúngr: Þó eru menn hljóðir, hitt er ölsiðr meiri at menn geri sèr gleði; fám oss ölteiti nokkura, mun þá enn áreitast gaman manna. Sigurðr bróðir! þat mun öllum sæmst þykkja at vit hefim nokkurar skemtunarræður. Sigurðr konúngr svarar heldr styggt: Ver þú svâ málugr sem þú vilt, en lát mik ná at þegja fyrir þèr! Eysteinn konúngr mælti: Sá ölsiðr hefir opt verit at menn taka sèr jafnaðarmenn, vil ek hèr svâ vera láta. Þá þagði Sigurðr konúngr. Sè ek, segir Eysteinn konúngr, at ek verð at hefja þessa teiti, mun ek taka þik, bróðir, til jafnaðarmanns mèr: færi ek þat til at jafnt nafn höfum vit báðir ok jafna eign, geri ek ok engi mun ættar okkarrar eða uppfæðslu. Þá svarar Sigurðr konúngr: Mantu þat eigi er ek braut þik á bak ef ek vilda, ok vartu vetri eldri? Eysteinn konúngr svaraði: Eigi man ek hitt siðr, er þú fèkkt ekki leikit þat er mjúkleikr var í. Þá mælti Sigurðr konúngr: Mantu hversu of sundit fór með okkr? ek mátta kefja þik, ef ek vilda. Eysteinn sagði: Ekki svam ek skemra enn þú, ok eigi var ek verr kafsyndr; ek kunna ok á ísleggjum, svâ at öngan vissa ek þann er keppði við mik, en þú kunnir þat eigi heldr enn naut. Sigurðr konúngr svarar: Höfðíngligri íþrótt ok nytsamligri þykki mèr sú at

kunna vel við boga; ætla ek at þú nýtir eigi boga minn, þóttu spyrnir fótum i. Eysteinn segir: Ekki em ek bogsterkr svâ sem þú, en minna mun skilja beinskeiti okkra, ok miklu kann ek betr enn þú á skíðum, ok hafði þat enn verit kallat fyrr góð iþrótt. Sigurðr segir: Þess þykkir mikill munr at þat er höfðingligra, at sá er yfirmaðr skal vera annarra manna sè mikill í flokki, sterkr ok vâpnfærr betr enn aðrir, auðsær ok auðkendr þá er margir eru saman. Eysteinn segir: Eigi er þat síðr einkanna hlutr at maðr sè fríðr sýnum, ok er sá ok auðkendr i mannfjölda, þikki mèr þat ok höfðingligt, þvíat friðleikinum samir hinn bezti búnaðr; kann ek ok miklu betr til laga enn þú, ok svâ hvat sem vit skulum tala em ek miklu slèttorðari. Sigurðr svarar: Vera kann at þú hafir numit fleiri lögprettu, þvíat ek átta þá annat at starfa, ok engi frýr þèr slèttmælis, en hitt mæla margir at þú sèr ekki allfastorðr, ok litit mark sè hverju þú heitir, ok mælir eptir þeim er þá eru hjá, ok er þat ekki konúngligt. Eysteinn svarar: Þat berr til þess er menn bera mál sín fyrir mik, þá hugsa ek þat fyrst at lúka svâ hvers manns máli at þeim mætti bezt þikkja; þá kemr opt annarr, sá er mál á við hann, verðr þá jafnan dregit til ok miðlat svâ at báðum skyldi lika. Hitt er ok at ek heit því er ek em beðinn, þvíat ek vilda at allir færi fegnir af mínum fundi: sè ek hinn kost ef ek vil hafa sem þú gerir, at heita öllum illu, en engi heyri ek efndanna frýa. Sigurðr svarar: Þat hefir verit mál manna, at ferð sú er ek fór úr landi væri heldr höfðinglig, en þú satzt heima meðan sem dóttir föður þíns. Eysteinn svarar: Nú greiptu á kýlinu; eigi mynda ek þessa ræðu vekja, ef ek kynna hèr öngu um at svara: nær þótti mèr hinu, at ek gerða þik heiman sem systur mína áðr þú yrðir búinn til fararinnar. Sigurðr svarar: Heyrt muntu þat hafa, at ek átta orrostur margar i Serklandi ok fèkk i öllum sigr ok margskonar gersimar, þær

er eigi hafa slikar komit híngat í land; þótta ek þar mest verðr er ek fann göfgasta menn, en ek hygg at eigi hafir þú enn hleypt heimdreganum. Fór ek til Jórsala, segir hann, ok kom ek við Púl, ok sá ek þik eigi þar, bróðir. Ek gaf konúngdóm Hroðgeiri jarli hinum ríka, vann ek átta orrostur, ok vartu at öngarri. Fór ek til grafar drottins, ok sá ek þik eigi þar, bróðir. Fór ek í ána Jórdán, þar sem drottinn var skírðr í, ok svam ek út yfir ána, ok sá ek þik ekki þar, en út á bakkanum var kjarr nokkut, ok knýtta ek þér þar knút á kjarrinu, ok biðr þín þar, ok mælta ek svâ fyrir at þú skyldir leysa, bróðir, eða hafa ellar þvílikan formála sem þar var álagðr. Þá mælti Eysteinn konúngr: Smátt mun ek hafa hèrímóti. Norðr í Vâgum setta ek fiskimannabúðir, at fátækir menn mætti nærast til lífshjálpar, ok setta ek þar prestvist, ok lagða ek fè til kirkju þeirrar, er náliga var allt heiðit áðr; munu þeir menn muna, at Eysteinn konúngr hefir verit í Noregi. Um Dofrafjall var för úr Þrándheimi, urðu menn þar jafnan úti, ok fóru þar margir menn hörðum förum: lèt ek þar sæluhús gera ok fè tilleggja, ok munu þeir vita at Eysteinn konúngr hefir verit í Noregi. Fyrir Agðanesi voru öræfi ok hafnleysi, fórust mörg skip, þar er nú höfn ger ok gott skipalægi ok kirkja gjör. Síðan lèt ek vita gera á háfjöllum, nú munu þess njóta allir menn innanlands. Höllina lèt ek gera í Björgyn ok Postulakirkju ok rið milli: munu konúngar þeir muna nafn mitt er eptir koma. Mikjalskirkju lèt ek gera ok múnklífi; skipaða ek ok lögunum, bróðir, at hverr mætti hafa rèttindi við annan, ok ef þau eru haldin þá mun betr fara landsstjórnin. Stöpulinn lèt ek gera í Sinhólmssundi með járnhríngum. Þeim Jamtum höfum vèr ok snúit undir þetta ríki, meir með bliðum orðum ok viti enn með ágáng eðr ófriði. Nú er þetta smátt at telja, en eigi veit ek víst at landsbúunum sè þetta óhallkvæmara, enn þótt

þú brytjaðir blámenn fyrir fjandann á Serklandi ok hrapa þeim svâ til helvítis; en þar sem þú hrósaðir góðgerníngum þínum, ætla ek mèr eigi minna til sálubótar staði þá er ek lèt setja hreinlífismönnum. En þar sem þú reitt mèr knútinn, ok mun ek þann eigi leysa, en ríða mátta ek þèr þann knút ef ek vilda, at þú værir aldregi konúngr í Noregi, þá er þú sigldir einskipa í her minn, er þú komt í land. Líti nú vitrir menn hvat þú hefir umfram, ok vita skulut þèr þat, gullhálsarnir, at menn munu enn jafnast við yðr í Noregi. Eptir þat þögnuðu þeir báðir, ok var hvârtveggi reiðr. Fleiri hlutir urðu þeir í skiptum þeirra bræðra, er þat fannst, at hvârr dró sik fram ok sitt mál ok vildi vera öðrum meiri, en þó hèlzt friðr millum þeirra meðan þeir lifðu. — Þat er sagt eitt sinn, at Sigurðr konúngr var kominn í sæti sitt, en Íngibjörg Guttormsdóttir, kona Eysteins konúngs, mælti til Sigurðar konúngs: Mörg ok mikil stórvirki munu lengi uppi vera, þau er þèr hafit unnit, Sigurðr konúngr, í útlöndum. Hann svaraði með vísu:

Skjótt bar ek skjöld enn hvíta
(skáld biðr at guð valdi)
ár til eggjaskúrar
ótrauðr, en frá rauðan.
Þar hefi ek högg of höggvit
handvíst á Blálandi,
(guð ræðr sókn ok sigri)
svanni, þínum manni.

*Cap. 20. Frá kerlaugu.* — Þat er sagt, at Sigurðr konúngr var at veizlu nokkurri á Upplöndum, en þar voru laugar gjörvar. En er konúngr var í lauginni ok var tjaldat yfir kerit, þá þótti honum renna fiskr í kerinu hjá sèr; þá sló á hann hlátri svâ miklum, at þar fylgði staðleysi ok vitleysi, ok kom þat síðar mjök optliga at honum.

*Cap. 21. Skipsmiði Eysteins konúngs ok dauði hans.* — Eysteinn konúngr lèt gjöra skip mikit í Niðarósi, þat var gjört at vexti ok með hætti eptir því sem Ormrinn Lángi hafði verit, er Ólafr konúngr Tryggvason hafði gjöra látit, var þar ok drekahöfuð á framan, en krókr aptr ok hvârttveggja gullbúit; skipit var barðmikit, en stafnarnir þóttu nokkuru minni enn bezt væri. Hann lèt ok gjöra þar í Niðarósi naust bæði mörg ok svâ stór at afrek var í, ok gjör með hinum beztum faungum ok smíðuð agæta vel. — Sex vetrum eptir andlát Ólafs konúngs barsk þat at, þá er Eysteinn konúngr var á veizlu á Stinn ok Hustöðum, þar fèkk hann bráða sótt, þá er hann leiddi skjótt til bana. Hann andaðist fjórða Kalendas Septembris, ok var lík hans flutt norðr til Kaupángs ok jarðat at Kristskirkju; ok er þat mál manna at yfir enskis manns grepti hafi jamnmargir menn í Noregi jamnhryggvir staðit sem Eysteins konúngs, síðan er andaðr var Magnús konúngr góði, sonr Ólafs hins Helga. Eysteinn var konúngr tuttugu vetr at Noregi, en eptir andlát hans var Sigurðr bróðir hans einn konúngr í landi meðan hann lifði.

*Cap. 22. Kristnuð Smálönd.* — Nikolás Danakonúngr, son Sveins Úlfssonar, fèkk siðar Margrètar drottníngar, dóttur Ínga konúngs, er fyrr hafði átt Magnús konúngr Berfættr, ok hèt son þeirra Nikoláss Magnús hinn sterki. Nikolás konúngr sendi orð Sigurði konúngi Jórsalafara ok bað hann veita sèr lið ok styrk allan af sínu ríki ok fara með sèr austr fyrir Svíaveldi til Smálanda, at kristna þat fólk, þvíat þeir er þar bygðu hèldu eigi kristni, þó at sumir hefði við skírn tekit: var þann tíma víða í Svíaveldi margt fólk heiðit og margt illa kristit, þvíat þá voru nokkurir konúngar þeir er kristni köstuðu ok hèldu uppi blótum, svâ sem Blót-Sveinn gjörði eða síðan Eiríkr enn ársæli. Sigurðr konúngr hèt ferð sínni, ok gjörðu konúngar stefnulag sitt í Eyrarsundi; síðan bauð

Sigurðr konúngr almenningi út af öllum Noreg, bæði at liði ok skipum, en er saman kom herr sá, þá hafði hann vel þrjú hundruð skipa. Nikolás konúngr kom miklu fyrr til stefnunnar ok beið þar lengi, þá kurruðu bændr illa ok sögðu at Norðmenn mundu eigi koma, síðan rufu þeir Danir leiðángrinn, fór konúngr brot ok allr herrinn. Nokkru síðar kom Sigurðr konúngr þar, ok líkaði honum illa, hèldu þó austr í Sumarós ok áttu þar húsþíng, ok talaði Sigurðr konúngr um lausmæli Nikoláss konúngs, ok kom þat ásamt með Norðmönnum at þeir skyldu gjöra nokkut hervirki í landi hans fyrir þessa sök. Þá tóku þeir upp þorp þat er heitir Tumaþorp, er skamt liggr frá Lundi, ok hèldu síðan austr til kaupbæar, þess er heitir Kalmarnar, ok herjuðu þar ok svâ á Smálöndum, ok lögðu vistagjöld á Smálönd fimtán hundruð nauta, ok tóku Smálendingar við kristni. Siðan vendir Sigurðr konúngr herinum aptr ok kom í sitt ríki með mörgum stórum gersimum ok fjárhlutum, er hann hafði aflat í þeirri ferð, ok var sá leiðángr kallaðr Kalmarna-leiðángr; þat var sumri fyrr enn myrkrit mikla. Þenna einn leiðángr reri Sigurðr konúngr meðan hann lifði ok var konúngr.

*Cap. 23. Frá Þórarni Stuttfeld.* — Þat barsk at eitt sinn þá er Sigurðr konúngr gekk frá skytníngi ok til aptansaungs, ok voru menn drukknir mjök ok kátir, ok sátu margir úti fyrir kirkjunni ok súngu aptansaunginn, ok var saungrinn ógreiðr, þá mælti konúngr: Hvat karla er þat er ek sè þar stendr hjá kirkjunni í feldi nokkurum? Þeir svöruðu, kváðust eigi þat vita. Þá mælti konúngr:

> Villir hann vísdóm allan,
> veldr því karl í feldi.

Karl gengr fram ok mælti:

> Hykk at hèr megi þekkja
> heldr í stuttum feldi

oss, en ek læt þessa
óprýði mèr hlýða.
Værir mildr ef mæra
mik vildir þú skikkju,
(hvat hafi heldr enn tötra)
hildíngr, muni vildri.

Þá mælti konúngr: Kom til mín at morni þar er ek drekk! Líðr nú af nóttin. Um morguninn ferr Íslendíngr, er síðan var kallaðr Þórarinn Stuttfeldr, ok kemr at drykkjustofunni, en maðr stóð úti fyrir stofunni ok hafði horn í hendi, ok mælti: Íslendíngr, segir hann, þat mælti konúngr at þú skyldir yrkja vísu áðr þú gengir inn, ef þú vildir þiggja nokkura vingjöf at honum, ok kveða um þann mann er Hákon Serksson heitir, er kallaðr er Mörstrútr, ok geta þess í vísunni. Sjá maðr er við hann ræddi hèt Árni Fjöruskeifr. Síðan gánga þeir inn, ok gengr Þórarinn fyrir konúng ok kvað vísu:

Þú vændir mèr, Þrænda
þengill, ef ek stef fenga
frænda Serks at fundi,
fólkrakkr, gefa nakkvat.
Lètztu at Hákon heiti,
hildíngr enn fèmildi,
enn samir mèr at minnast,
Mörstrútr, á þat gjörva.

Þá mælti konúngr: Þat sagða ek aldregi, ok muntu vera spottaðr, ok er þat ráð at Hákon skapi þèr viti fyrir, ok farir þú í sveit hans. Hákon mælti þá: Vel skal hann hèr kominn með oss, ok sè ek, hvaðan þetta er at komit; ok setr Íslendíng it næsta sèr á milli þeirra, ok voru þeir nú allkátir. Þá er áleið daginn, ok nokkut tók at fá á þá drykkrinn, þá mælti Hákon: Þikkist þú nokkut, Íslendíngr, eiga bótþarfa við mik, eða þótti þèr eigi heldr sett vèlræði fyrir þik? Þórarinn svarar: Víst þikkjumst ek þèr bæta

eiga. Hákon svarar: Þá munu vit sáttir, ef þú yrkir vísu aðra um Árna. Hann kveðst þess albúinn; gánga síðan yfir þar sem Árni sat, ok kvað Þórarinn vísu:

Fullvíða hefir fræðum
Fjöruskeifr of hèr veifat
lystr ok leiri kastat
lastsamr ara hins gamla;
ok vanntu eina kráku
orðvandr á Serklandi
(skeifr bartu högna húfu
hræddr) varliga brædda.

Árni hljóp upp þegar ok brá sverði, ok vildi ráða til hans. Hákon bað hann hætta ok vera kyrran, ok bað hann á þat mega minnast, at hann mundi lægra hlut bera ef þeir ættist við. Þórarinn gekk síðan fyrir konúng ok segir at hann hafði drápu ort um hann, ok bað hann hlýða, ok þat veitti konúngr honum, ok er þat kölluð Stuttfeldar-drápa. Þá spyrr konúngr hvat Þórarinn vill ráðs síns, en hann kvaðst suðr hafa ætlat at gánga til Rúms. Þá fèkk konúngr honum fè mikit ok bað hann til sín vitja er hann kæmi aptr, ok kvaðst þá mundu gjöra sóma hans, en hèr skilr eigi um þat, hvârt þeir fundust síðan.

*Cap. 24. Frá Sigurði konúngi ok Ottari Birting.* — Þat er mál manna, at eigi hafi meiri skörúngr verit nè stjórnsamligri konúngr í Noregi enn Sigurðr konúngr, en þó var þat er áleið stundina at varla fèkk hann gætt skaplyndis síns nè hugar, at eigi yrði þat stundum með miklu áfelli ok þúngligum atburðum; en ávalt þótti hann merkiligr höfðíngi ok dýrðligr af ferð sinni. — Þat er frásagt einn hatíðardag Hvítasunnu, at Sigurðr konúngr sat yfir borðum við miklu fjölmenni með mörgum vinum sínum, ok þá er hann kom í hásæti sitt, sá menn at hann sat með miklu vanmegni ok þúngu yfirbragði: voru menn hræddir um hann, hvern veg at reiða mundi. Konúngr leit á lýðinn ok örgaði augunum

ok sá umhverfis sik á pallana, en eingi af mönnum hans þorði at tala til hans. Hann tók þá upp bókina dýru, er hann hafði haft í land, hún var öll ritin gullstöfum svâ at eigi hafði meira gersimi komit í einni bók í Noreg. Drottníng hans sat þá hjá honum. Þá mælti Sigurðr konúngr: Margt kann skipast, segir hann, á manns æfinni. Ek átti tvâ hluti, þá er mèr þóttu beztir, er ek kom í land, þat var bók þessi ok drottníngin, en nú þikki mèr hvârr öðrum verri ok andstyggiligri; þetta á ek nú svâ í eigu minni at mèr þikkir verst allra hluta. Drottníng fiðr eigi hvernug hún er svâ ferlig, þvíat geitarhorn stendr úr höfði henni, ok því betri sem mèr þótti hún, því öllu verri þikki mèr hún nú, en bók þessi dugir til enskis! Því næst kastaði hann bókinni á eldinn fram er gjörr var á hallargólfinu, en laust drottnínguna kinnhest hjá auganu; drottníng grèt, ok þó konúngs mein meir enn af högginu eðr mótgerð sèr veittri. Sá maðr stóð upp fyrir konúnginum er hèt Óttarr Birtíngr, bondason ok var þó kertisveinn konúngs, ok skyldi þá þjóna um daginn: hann var lítill vexti ok kurteiss, vaskligr, djarfr ok skemtiligr, en svartr á hár ok hörund, því þótti honum auknefni gefit er hann var Birtíngr kallaðr; hann hljóp til ok greip bókina úr eldinum, er konúngr hafði kastat á eldinn, ok hèlt á ok mælti til konúngs: Úlikir dagar voru þeir, herra, er þèr sigldut með fegurð ok prýði at Noregi, ok komst hèr til lands með mikilli frægð ok vegsemd, því þá runnu allir vinir þínir í móti þèr með fagnaði ok fögnuðu komu þinni, ok játuðu allir þèr at konúngi ok vildu hafa þik yfir sèr með hinni mestu vegsemd ok sæmd; en nú eru komnir yfir oss hrygðardagar, þvíat á þessari ágætu hátíð eru hèr komnir til þín vinir þínir margir ok megu eigi kátir vera fyrir þínum harmi ok vanmegni: þat væri æskjandi at þèr gætut verit glaðir með þeim, ok ger nú svâ vel, góði konúngr, þigg þetta heilræði ok sættist nú fyrst við drottnínguna ok gleðit hana með blíðskap, er þú hefir

nikit afgert við, ok síðan út í frá alla höfðíngja þína, vini ok þjónustumenn, þat er mitt ráð. Þá sagði Sigurðr konúngr: Hvat muntu kenna mèr ráð, hin nherfiligsti kotkarlsson, fíflskufullr bóndaúngi, ok hinnar minnstu ættar, ok af allra leiðasta ok armasta kyni kominn! ok hljóp hann þá upp síðan ok brá sverði ok reiddi at honum báðum höndum ok lèt sem vildi hann höggva hann, en Óttarr stóð kyrr ok rèttr ok hrærðist eigi úr stað, brá sèr eigi við nè blöskraði, eins ok væri hann með öllu óttalauss, en konúngr brá flötu sverðinu, er ofan reið at höfði Óttari ok sló linliga utan á herðar honum. Því næst þagnaði hann ok settist niðr í hásætit, þögnuðu þá ok allir menn sem í höllinni voru, því eingi þorði at yrkja orði á hann, þá litaðist konúngr um, ok hógligar enn it fyrra sinn, ok mælti síðan: Seint má reyna mennina, hvilikir eru: hèr sátu vinir mínir ok lendir menn ok stallarar, skutilsveinar ok allir hinir beztu menn í landinu, ok var eingum jafnvel til mín sem þessum, er yðr mun þikkja lítilsverðr hjá yðr, en hann unni mèr nú mest. Ek kom hèr inn örr maðr, ok vildag spilla gersimi minni: hann bætti þat með mèr, ok annarri hendi hræddist hann eigi banann, talaði síðan fagurt erindi, stilti orðunum svâ at mèr yrði at virðing, en eigi taldi hann þá hlutina er minn harmr aukaðist við, þat feldi hann allt niðr, er þó mátti með sönnu umræða, en svâ var þó sköruglig hans ræða, at engi var svâ vitr maðr hjá, at snjallara mundi mæla. En síðan hljóp ek upp örvita ok lèt ek sem ek vilda höggva hann, en hann var svâ fullhugi sem engi ótti væri um at vera, en þá er ek sá þat lèt ek þetta verk fyrirfarast, svâ ómakligr sem hann var. Nú skulu þèr vinir mínir vita hverju ek mun launa honum: hann er áðr kertisveinn, nú skal hann vera lendr maðr minn, ok mun þat þó fylgja er eigi mun minna vera, at hann mun merkiligasti maðr vera af stundu lendra manna minna. Þá þakkaði konúngr bóndasyni í allra þeirra nærveru, at hann hefði stillt geð hans

með vitrligum orðum ok djörfum huga ok gert þat sem lènshöfðingjar hans hefði eigi þorat: gjörði konúngr hann at sínum æðsta lènshöfðingja. Opt var Sigurðr konúngr með þesskonar skaplesti ok undarligum siðum, ok hverir sem þá af hans fátækum þènurum vildu áminna hann, þeim hlýddi hann hezt ok gaf þeim góts ok garða þar fyrir. Óttarr gjörðist síðan hinn merkiligsti maðr í Noregi af mörgum góðum hlutum ok dýrligum.

*Cap. 25. Draumr Sigurðar konúngs.* — Ofarliga á dögum Sigurðar konúngs var hann at veizlu á búi sínu einu. En um morguninn þá er konúngr var klæddr var hann fámáligr ok ókátr, ok hræddust vinir hans at þá mundi enn at honum koma vanstillit. En ármaðrinn var vitr maðr ok djarfr, hann kvaddi konúng máls ok spurði ef hann hefði nokkut tíðinda fregnat, þau er svâ væri mikils verð at honum stæði þat fyrir gleði, eða væri þat at veizlan hugnaði honum eigi vel, eða væri nokkurir þeir hlutir er menn mætti bætur á ráða. Sigurðr konúngr sagði at öngir hlutir hèldu þeir til er hann ræddi um: en þat heldr til, segir hann, at ek hugsa draum þann er fyrir mik bar í nótt. Herra, segir hann, góðr draumr skyldi sá vera, en heyra vilda ek hann gjarna. Konúngr mælti: Ek þóttumst vera úti staddr hèr á Jaðri ok sjá út í haf, leit ek þángat sorta mikinn, ok var för í, ok er nálgaðist híngat þá sýndist mèr þat mikit trè eitt, ok óðu limarnar uppi en ræturnar í sjá. En er trèit kom við landit, þá braut þat, ok rak brot trèsins víða um landit bæði um meginland ok um úteyar, sker ok strandir, ok þá gaf mèr sýn, svâ at ek þóttumst sjá of allan Noreg it ytra með sjánum, ok sá ek at í hverja vík var rekit brot af þessu trè, ok voru sum smá, en sum stærri. Þá svaraði ármaðrinn: Þat þikkir mèr líkast um þenna draum at þèr sjálfir munut bezt skilja, ok vildu vèr at þèr rèðit sjálfir. Þá mælti konúngr: Þat þikkir mèr líkast um draum þenna, at vera muni fyrir tilkvâmu manns nokkurs í land

þetta, ok mun hann hèr staðfestast, ok hans afspríngr mun víða dreifast um land þetta ok vera mjök misstórt, sem í drauminum var.

*Cap. 26. Frá Ásláki Hana.* — Svâ bar at eitt sinn er Sigurðr konúngr sat með mörgum göfugum mönnum í stríðum hug, var þat frjákveld eitt at dróttsetinn spurði hvat til matar skyldi búa; konúngr svarar: Hvat nema slátr? en svâ mikil ógn var af orðum hans, at eingi þorði honum í móti at mæla. Voru nú allir ókátir, bjuggust menn nú til borða, komu inn sendíngar, heitt slátr, ok voru allir menn hljóðir ok hörmuðu konúngs mein. En áðr enn matrinn væri signdr þá tók sá maðr til orða er Áslákr Hani hèt, hann hafði verit lengi með Sigurði konúngi í útferðinni, eigi var hann ættstórr maðr, hvatr ok litill vexti; ok er hann sá í hvert efni komit var, ok at eingi mundi svara konúnginum, þá mælti hann ok spurði: Hvat rýkr á diskinum fyrir yðr, herra? Konúngr svarar: Hvat vildir þú, Áslákr Hani, eða hvat sýnist þèr? hann svarar: Þat sýnist mèr, herra, sem ek vilda eigi at væri, at slátr sè. Konúngr mælti: En þótt svâ sè, Áslákr Hani? Áslákr svarar: Hörmuligt er slikt at vita, er svâ mjök skal missýnast þeim ágæta konúngi, er svâ mikinn sóma hefir fengit í veröldinni af ferð sinni; ok öðru hètst þú þá er þú steigt úr Jórdán, ok hafðir laugazt í því vatni sem guð sjálfr, ok hafðir pálm í hendi ok kross á bríngu enn þú mundir slátr eta frjádag, ok ef smærri menn gjörði slikt væri stórrefsínga fyrir vert; ok eigi er svâ vel skipuð höllin, sem likligt væri, er eingi verðr til nema ek einn litill maðr um slikt at ræða. Konúngr þagnaði ok tók eigi til matarins, ok er áleið matmálit bað konúngr brot taka slátrdiskinn, kom þá fram sá matr er honum hæfði vel at hafa, ok tók konúngr nokkut at kætast heldr er áleið matmálit ok drakk. Menn mæltu at Áslákr skyldi forða sèr, en hann kvaðst eigi mundu þat gjöra: veit ek eigi hvat þat mun tjóa, er sannast at nú er gott at deya er ek hefi því framkomit sem ek vilda, at firra

konúnginn glæp, en hann á þat heimilt at láta drepa mik, ef hann vill. Um kveldit kallaði konúngr á hann ok mælti: Hverr eggjaði þik, Áslákr Hani, at mæla slíkum beryrðum við mik í mannfjölda? Eingi, herra, sagði hann, nema ek sjálfr. Konúngr mælti: Vita muntu nú vilja hvat þú skalt fyrir hafa þína dirfð, eða hvers þú þikkist verðr? hann svarar: Viltu vel launa, herra, þá em ek feginn, en ef öðruvís verðr, þá er þat þitt. Þá mælti konúngr: Þú munt minni laun fyrir taka enn makligt er: ek mun gefa þèr þrjú bú; en þann veg skipti hèr til sem úlikligara mátti þikkja er þú firðir mik miklu úhappi, heldr enn lendir menn er ek átta mikit gott at. Lauk svâ þessu.

*Cap. 27. Haraldr Gilli kom í Noreg.* — Hallkell Húkr, son Jóns Smjörbalta, var lendr maðr á Mæri, hann fór vestr um haf ok allt til Suðreya, þar kom til fundar við hann, utan af Irlandi, sá maðr er hèt Gilli-Kristr ok sagðist vera son Magnúss konúngs Berfætts, móðir hans fylgði honum ok sagði at hann hèt Haraldr öðru nafni. Hallkell tók við þessum manni ok flutti með sèr til Noregs, ok fór þegar á fund Sigurðar konúngs með Haraldi ok móður hans. Þau bera fram sitt erindi fyrir konúngi, ræddi Sigurðr konúngr þetta mál fyrir höfðingjum, at hverr legði til eptir sínu skaplyndi; en menn lögðu hèr allmisjafnt til, ok allir báðu þó konúng ráða sjálfan fyrir; en fleiri voru þeir er í móti risu, ok tók konúngr meir sitt einræði. Þá lèt Sigurðr konúngr kalla til sín Harald ok sagði honum svâ, at hann vill eigi synja honum at Haraldr fremi skírslu til faðernis sèr, með því at hann vill þat vera láta í festu, þótt honum berist þat faðerni er hann segir, at Haraldr skal eigi beiðast konúngdóms meðan Sigurðr konúngr eða Magnús konúngr lifa, ok fóru þessar festar fram með svardögum. Sigurðr konúngr sagði at Haraldr skyldi troða slár til faðernis sèr, en sú skírsla þótti mönnum heldr frek, þvíat hann skyldi þá skírslu fremja til faðernis sèr, en eigi til konúngdóms. En

Haraldr játti þessu ok fastaði til járns, ok hefir sú skírsla mest gjör verit í Noregi: níu plógjárn glóandi voru niðrlögð, ok gekk Haraldr þar eptir berum fótum, ok leiddu hann biskupar tveir; hann kallaði á hinn helga Columban meðan, þar var ok gjör rekkja hans. Þá mælti Magnús, son Sigurðar konúngs: Eigi treðr hann hugmannliga járnin. Konúngr svarar: Illa mælir þú ok grimmliga, þvíat hann hefir sköruliga framit. Síðan lèt Haraldr fallast í rekkjuna, ok eptir þrjá daga síðan er skírslan var framin, var skírslan reynd: voru þá fætr hans óbrunnir. Eptir þat tók Sigurðr konúngr vel við frændsemi Haralds, en Magnús, son hans, óþokkaðist mjök við hann, ok margir höfðíngjar sneru mjök eptir honum. Sigurðr konúngr treystist svâ mjök vinsæld sinni við allt landsfólk at hann beiddist þess at allir menn skyldu þat sverja, at Magnús, son Sigurðar konúngs, skyldi einn vera konúngr eptir hann, ok fèkk hann þá svardaga af öllu landsfólki.

*Cap. 28. Veðjan Haralds ok Magnúsar.* — Haraldr Gilli var maðr hár ok grannvaxinn, hálslángr, heldr lángleitr, svarteygr, dökkhárr, skjótligr ok fráligr ok hafði mjök Írskan búnað: stuttklæddr ok lèttklæddr. Haraldi var stirt mjök um Norrænt mál, ok kyfldi mjök til orðanna, ok höfðu margir menn þat mjök at spotti, enn Sigurðr konúngr lèt þat eigi duga, þegar hann var við. Þat var vandi at Haraldr fylgði Sigurði konúngi til svefns á kvöldum, ok eitt sinn bar svâ til at þeir Magnús gátu hann eptir dvalit, ok sátu þeir lengi ok drukku. Haraldr talaði við annan mann: sagði hann vestan af Írlandi, ok var þat í ræðu hans at þeir menn voru á Írlandi, at svâ voru fóthvatir at eingi hestr tók um þá á skeiði. Magnús konúngsson heyrði þetta ok mælti: Nú lýgr hann enn, sem hann er vanr. Haraldr svarar: Satt er þetta, at þeir menn munu finnast á Írlandi at eingi hestr í Noregi mun hlaupa um þá; ræddu þar um nokkurum orðum, þeir voru báðir drukknir. Magnúsi hafði verit sendr

hestr gautskr, gersimi mikil ok skjótr mjök: ræddu þeir um er við voru at eingi mundi hestr vera jafnskjótr, ok viku til Haralds. Þá mælti Magnús: Hèr skaltu veðja fyrir höfði þínu, ef þú rennr eigi jamnhart sem ek ríð hesti mínum, en ek mun leggja í móti gullhríng minn. Haraldr sagði: Eigi sagði ek, at ek renna svâ hart, heldr þat, at finna mun ek þá menn á Írlandi er svâ hart munu renna, ok má ek veðja um þat. Magnús konúngsson svarar: Eigi mun ek fara til Írlands, hèr skulu vit veðja, en eigi þar. Haraldr gekk þá brot at sofa ok vildi eigi eiga fleira við hann; þetta var í Osló. En eptir um morguninn, þá er lokit var formessum, reið Magnús upp í götur ok gjörði þá orð Haraldi at koma þannug. En er Haraldr kom var hann svâ búinn: hafði skirtu ok ilbanda brækur, stuttan möttul, hött Írskan á höfði, spjótskapt í hendi. Magnús markaði skeiðit, Haraldr mælti: Oflángt ætlar þú skeiðit; Magnús ætlaði þegar miklu lengra ok sagði þó vera ofskamt; margt var hjá manna. Þá tóku þeir skeið fram, ok fylgði Haraldr jafnan frambæginum, en er þeir komu til skeiðsenda mælti Magnús: Þú hèlzt í gagntakit, ok dró hestrinn þik. Magnús hafði gautskan hest allskjótan. Þeir tóku annat skeið aptr, rann þá Haraldr allt skeið fyrir hestinum, en er þeir komu til skeiðsenda, þá spurði Haraldr: Hèlt ek nú í gagntakit? Magnús svarar: Nú tókt þú fyrri til. Lèt Magnús þá blása hestinn um hríð, en er hann var búinn þá keyrði hann sporum hestinn, ok kom hann skjótt á hlaup. Haraldr stóð þá kyrr, þá leit Magnús aptr ok kallaði: Renn nú! segir hann; þá hljóp Haraldr ok skjótt fram um hestinn ok lángt fyrir fram ok svâ til skeiðsenda: kom hann svâ miklu fyrr, at hann lagðist niðr ok spratt upp, ok heilsaði þá Magnúsi frænda sínum, þvíat hann kom þá. Ok eptir þat fóru þeir heim til bæar. En Sigurðr konúngr hafði verit meðan at hámessu, ok vissi hann þetta eigi fyrr enn eptir mat um daginn; þá

mælti hann reiðuliga til Magnúsar: Þèr kallit Harald heimskan, en mèr þikkir þú vera meira fól, eigi kann þú utanlands siðu manna: vissir þú þat eigi fyrr at menn utanlands temja sik meir við aðrar íþróttir enn at kýla öl eða gjöra sik æran ok ófæran ok vita þá eigi til manns: ok fá Haraldi hríng sinn, ok gabba hann alldri síðan, meðan mitt höfuð er fyrir ofan mold, ok ek á at ráða.

*Cap. 29. Frá sundfæri.* — Þat bar til eitt sinn, þá er Sigurðr konúngr var úti á skipum, ok lágu þeir í höfn, ok kaupskip nokkut hjá þeim, íslandsfar. Haraldr Gilli var í fyrirrúmi á konúngs skipi, en næst honum fram frá lá Sveinn Hrimhildarson, hann var son Knúts Sveinssonar af Jaðri. Sigurðr Sigurðarson var ok þar, lendr maðr ágætr, hann stýrði þar skipi. Þat var einn fagran veðrdag, var heitt skin, ok fóru menn margir á sund, bæði af lángskipunum ok af kaupskipinu. Íslendskr maðr einn, sá er á sundi var, henti gaman at því at færa niðr þá menn er verr voru syndir, ok hlógu menn at því. Sigurðr konúngr sá þetta ok heyrði, síðan kastaði hann klæðum af sèr ok hleypr á sund ok lagðist at Íslendíngi, grípr hann ok færði í kaf ok hèlt niðri, ok þegar annat sinn er Íslendíngr kom upp, færði konúngr hann niðr, ok hvert sinn eptir annat. Þá mælti Sigurðr Sigurðarson: Skulu vèr konúng láta deyða manninn? maðr svarar, segir at eingi var allfúss til at fara. Sigurðr svarar, at verða mundi maðr til ef Dagr Eylifsson væri hèr; síðan hljóp Sigurðr fyrir borð ok svam til konúngs, tók til hans ok mælti: Týn eigi manninum, herra, sjá nú allir at þú ert miklu betr syndr. Konúngr mælti: Lát mik lausan Sigurðr, ek skal bana honum, þvíat hann vill kefja menn vora. Sigurðr svarar: Vit skulum nú leika fyrst, en þú, Íslendíngr, leita til lands; ok hann gjörði svâ. En konúngr lèt Sigurð lausan, ok svam hann til skips síns, svâ fór ok Sigurðr, en konúngr bað Sigurð eigi vera svâ

djarfan at koma í augsýn sèr; þat var sagt Sigurði, ok gekk hann á land upp.

*Cap. 30. Frá Haraldi ok Sveini Hrímhildarsyni.* — Þá um kveldit er menn fóru at sofa, lèku sumir menn uppi á landi. Haraldr var í leikinum á landi ok bað skósvein sinn fara út á skipit ok búa hvílu sína ok bíða sín þar. Sveinninn gjörði sem honum var boðit. Konúngr var sofa farinn, en er sveininum þótti Haraldr seinn, þá lagðist hann upp í rúmit Haralds. Sveinn Hrimhildarson mælti: Skömm mikil er at fara til þess heiman frá búum sínum dugandis mönnum at draga knapa hèr upp jamnhátt sèr. Sveinninn svarar ok kvað Haraldr vísaði honum þángat. Sveinn Hrímhildarson svarar: Oss þikkir eingi ofgæðakostr í at Haraldr liggi hèr, þó at hann dragi eigi híngat þræla upp eða stafkarla; ok greip upp riðvöl ok laust sveininn í höfuðit, svâ at blóð fèll um hann. Sveinninn hljóp þegar upp á land ok segir Haraldi hvat í var orðit. Haraldr gekk þegar á skipit út ok aptr í fyrirrúmit, hann hjó með handöxi til Sveins ok veitti honum sár mikit á höndina, gekk Haraldr siðan á land upp. Sveinn hljóp þegar á land eptir honum, drifu þá til frændur Sveins ok tóku Harald höndum ok ætluðu at hengja hann; en er þeir bjuggu þar um þá gekk Sigúrðr Sigurðarson út á skip konúngs ok vakti hann. En er konúngr hrá augum í sundr ok kendi Sigurð, þá mælti konúngr: Fyrir þetta sama skaltu deya er þú komt í augsýn mèr, þvíat þú vissir ek bannaða þèr þat; ok hljóp konúngr upp. Sigurðr mælti: Kostr mun þess, konúngr, þegar þèr vilit, en aðrar sýslur eru yðr nú fyrst skyldari: far sem skjótast máttu upp á land, ok hjálpa Haraldi bróður þínum, þvíat Rýgir vilja nú hengja hann. Þá mælti konúngr: Guð gæti nú til, Sigurðr, kalla nú lúðrsvein minn ok lát blása liðinu upp til móts við mik! Konúngr hljóp upp á land, en allir er hann kendu fylgðu með honum, ok þar til er gálginn var búinn: tók konúngr Harald þegar til sín; en allt fólk þusti þegar

til konúngs með alvæpni er lúðrinn hafði við kveðit. Þá sagði konúngr, at Sveinn ok allir hans fèlagar skyldu útlagir fara; en við bæn manna fèkst þat af konúngi at þeir skyldu hafa landsvist ok eignir sínar, en sárit bótalaust. Þá spurði Sigurðr Sigurðarson, ef konúngr vildi at hann færi þá í brot. Þat vil ek eigi, sagði konúngr, aldregi má ek þín án vera.

*Cap. 31. Sigurðr konúngr fær Ceceliu.* — Þá er áleið æfi Sigurðar konúngs gjörðist sú nýlynda um ráð hans at hann vill láta eina drottnínguna ok fá þeirrar konu er Cecelja hèt, hún var ríks manns dóttir: lætr hann búa til veizlu mikillar ok ætlar at fá at brúðlaupi í Björgyn. En er þat spyrr Magni biskup gjörðist hann úkátr, ok einn dag gengr biskup til hallarinnar ok með honum prestr hans einn er Sigurðr hèt, er síðan var biskup í Björgyn. En er þeir komu at höllinni, sendir biskup konúngi orð at hann vill hitta hann, ok bað konúng útgánga til hans, ok hann gjörði svá, gekk út ok hafði brugðit sverð í hendi, ok tók hann vel við biskupi ok býðr honum inn til drykkju með sèr. Biskup svarar: Annat erindi hefi ek nú: er þat satt, herra, sem mèr er sagt, at þú ætlar at kvångast, ok láta eina drottnínguna, en taka aðra konu? konúngr kvað þat satt vera. Biskup tók þá at þrútna mjök ok svarar mæðiliga: Því sýnist yðr, herra, at gjöra slíkt í vorri biskupssýslu, at svívirða svâ mjök guðs boð ok rètt ok helga kirkju! undrar mik at þèr foraktit svâ mjök vort biskupligt embætti ok konúngdóm þinn; nú vil ek þat gjöra sem ek em skyldr til: banna þèr af guðs hálfu ok hins helga Ólafs konúngs ok Pètrs postula ok allra heilagra manna þetta óráð! ok meðan hann mælti þetta stóð hann rèttr, ok sem hann rètti halsinn undir höggit ok væri búinn, ef konúngr reiddi ofan sverðit; en svâ hefir Sigurðr prestr síðan sagt, er siðar var biskup, at eigi þótti honum himininn meiri enn kálfskinn, svâ þótti honum konúngrinn

ógrligr. Síðan gekk konúngr aptr inn i höllina ok svaraði öngu, en biskup fór aptr til sinna heimkynna: var þá svâ bliðr ok kátr, at hann kvaddi hvert barn hlæandi ok lèk við fingur sèr. Þá spurði Sigurðr prestr hví þat sætti, ok mælti svâ: Þó eru þèr nú kátir, herra, kemr yðr eigi þat nú í hug, at konúngr muni leggja reiði á yðr, ok mun þat vænna ráð at leita undan? Þá mælti biskup: Líkligra þikki mèr þat, at hann muni eigi svâ gjöra, en hverr væri dauðdaginn betri eða æskiligri enn láta líf sitt fyrir guðs dýrð eða deya fyrir heilaga christni ok eigit embætti: at banna þat er eigi er við sæmandi; ok því em ek nú kátr, er ek hefi þat gjört er ek átta. Því næst gerðist þyss mikill i bænum: bjóst konúngr þá þaðan strax eptir þetta ok flutti með sèr mikit korn ok malt ok hunáng; hèlt síðan suðr í Stafángr ok efnar þar til veizlu, at láta sik þar samanvígja við Cecelju. Ok er biskup spyrr þat, sá er þar rèð fyrir, hittir hann konúng ok spyrr ef þat er satt, at konúngr ætli at kvângast at lifandi drottníngunni; konúngr kvað svâ vera. Biskup svarar: Ef svâ er herra, þá megu þèr sjá hversu mjök þat er bannat enum smærrum mönnum: nú er þat eigi úlikligt at þèr ætlit yðr heimilla, er meira hafa valdit, at láta yðr slika hluti sóma, en þat er þó mjök í móti rèttu, ok veit ek eigi hví þèr vilit þat gjöra i vorum biskupsdómi at vanvirða svâ guðs boðorð ok heilaga kirkju ok vorn biskupsdóm: nú munu þèr nokkura stóra hluti vilja tilleggja þessa staðar i fjárhlutum ok bæta svâ við guð ok við oss. Þá mælti konúngr: Tak þar fè vort sem þu vilt, furðu úlíkir urðu þèr Magna biskupi! Gekk konúngr í brot, ok líkaði eigi betr við þenna, enn við hinn er forboðit lagði á. Eptir þat fèkk konúngr þessar konu ok hafði hana i miklum kærleikum ok unni mikit.

*Cap. 52. Efldr kaupstaðr i Konúngahellu.* — Sigurðr konúngr lèt svâ mjök efla kaupstaðinn i Konúngahellu, at þá var eingi ríkari i Noregi: sat hann þar laungum til landsgætslu. Hann lèt húsa konúngsgarð i kastalanum, hann

lagði þat á öll hèruð, þau er í nánd voru kaupstaðinum, ok svâ bæarmennina, at á hverjum tólf mánuðum skyldi hverr maðr, níu vetra gamall eða ellri, bera til kastalans fim vâpnsteina eða aðra fim staura, ok skyldi þá gjöra hvassa í annan enda ok fim álna háfa. Þar í kastalanum lèt Sigurðr konúngr gjöra Krosskirkju, hún var trèkirkja ok þó mjök vönduð at efnum ok smíð; þá er Sigurðr hafði konúngr verit tuttugu ok fjóra vetr var vígð Krosskirkja, þá lèt konúngr þar vera krossinn helga ok marga aðra helga dóma. Sú var kölluð Kastalakirkja, þar setti hann fyrir háaltara tabulam, er hann hafði gjöra látit í Grikklandi, ok var gjör af eiri ok silfri ok gylt öll ok fagrliga sett smeltum gimsteinum; þar var ok skrín, er Eiríkr Eymuni, Danakonúngr, hafði sendt Sigurði konúngi, ok plenaríum ritat gullstöfum, er patríarkinn hafði gefit Sigurði konúngi.

*Cap. 33. Andlát Sigurðar konúngs.* — Þrim vetrum síðar er krosskirkja var vígð, þá er Sigurðr konúngr var staddr í Vík austr, tók hann sótt: báðu þá vinir hans at hann lèti konuna af hendi, ok hún sjálf vildi þá viðskiljast ok bað konúnginn þá í sóttinni at hún færi brot, ok þat mætti honum þá bezt gegna. Konúngr segir: Eigi kom mèr þat í hug, at þú mundir fyrirláta mik sem aðrir; ok snerist frá henni ok gerði dreyrrauðan, en hún gekk í brot: sækir hann nú sóttin, ok í þeirri sótt fær hann bana, ok var lík hans flutt til grafar í Osló; hann andaðist einni nótt eptir Maríumessu í föstu, hanu var jarðaðr at Hallvarðskirkju ok var lagðr í steinvegginn, utar frá kórnum ennm syðra megin. Magnús son hans var þar þá í bænum, tók hann þegar allar fèhirðslur konúngs, er Sigurðr konúngr andaðist. Sigurðr var konúngr yfir Noregi eptir dauða Magnúsar konúngs Berfætta, föður sins, sjö vetr ok tuttugu, hann var þá at aldri fertugr, ok var hans öld góð landsfólkinu, var þá bæði ár ok friðr.

# Brot af Kóngs skuggsjá.

*Brot 1.* — *Faðir.* Ef þú vilt nema mannvit þá vil ek sýna þèr þann grundvöll er upphaf er allrar speki, eptir því sem einn höfuðspekíngr hefir mælt: þat er upphaf speki at hræðast almáttkan guð! en hann skal þó eigi hræðast svâ sem úvin, heldr með ástarhræðslu, svâ sem guðs sonr sjálfr lærði þann er spurði, hvat at væri upphaf boðorða, en guðs son visaði honum til þeirrar *ritníngar* er svâ mælir: Elska þú guð af öllu hjarta þínu ok af öllu afli þínu ok af öllum mætti þínum. Nú skal guði unna umfram hvervetna, en hræðast hann hvert sinni er maðr girnist rángra hluta, ok láta laust ránga girnd fyrir guðs sakir, þó at maðr hafi dirfd á at halda fyrir manna sakir. Nú með því at þú leitar hvat stafrof er eðr grundvöllr til spektarnáms, þá er þetta eitt satt upphaf ok ekki annat, en sá er þetta nemr ok gætir, þá missir hann eigi sannrar spektar ok allrar gæðsku.

*Sonr.* Þetta er víst ástsemdarráð sem af yðr er vân, ok er þó gott ok auðnæmiligt hverjum er gipta fylgir; en þar munu þó margir hlutir fylgja verða, þeir er til íþrótta heyra, ef maðr skal vitr heita.

*Faðir.* Þetta er upphaf allra góðra hluta ok stafrof, en af stafrofi kynnast allar bóklistir, ok er æ því betr er

fleiri góðar íþróttir fylgja þessum, þvíat af íþróttum verðr maðr fróðr með hverju athæfi er hann vill síðan lifa, hvert er hann heldr vill vera konúngsmaðr eðr bóndi eðr kaupmaðr.

*Sonr.* Meðr því at ek em nú á lèttasta aldri, þá fýsunst ek at fara landa á meðal, þvíat ek treystunst eigi til hirðar at leita fyrr enn ek hefi sèð annarra manna siðu áðr: nú er þetta fýsi mín, nema þèr leggit annat ráð til.

*Faðir.* Þó at ek heldr hafa kóngsmaðr verit enn kaupmaðr, þá vil ek þá iðn eigi fyrir þèr lasta, þvíat til þess veljast opt hinir beztu menn; en þat varðar mjök miklu hvârt maðr likist heldr þeim er kaupmenn eru rèttir eðr þeim er sèr gefa kaupmanns nafn ok eru þó mángarar eðr falsarar, selja ok kaupa rángliga.

*Sonr.* Þat mundi mèr vel gegna at likjast þeim er vel væri, því þat mun sýnast verr enn vân væri til ef yðarr son likist þeim er eigi væri vel; en hvers sem mèr verðr af auðit, þá fýsir mik þó at þèr gjörit mèr kunna þeirra manna siðu er vel þikkja vera í þeirri iþrótt.

*Faðir.* Þá maðr skal kaupmaðr vera þá verðr hann at leggja sik í margan lífsháska, stundum í hafi en stundum í heiðnum löndum, en nærsta jafnan með úkunnum þjóðum, ok þarf jafnan þat at hugsa at hann sè þar vel staddr sem hann er. Nú þarf hann í hafi mikinn oflèttleik ok hraustleik. En ef þú ert staddr í kaupstöðum eðr hvar sem þú ert, þá gjör þik siðsaman ok blíðan, þat gjörir mann vinsælan við alla góða menn. Ven þik árvakran um morgna ok gakk þegar fyrst til kirkju, þar sem þèr þikkir bezt tilfallit at hlýða tiðum, ok hlýð þar öllum dagtiðum ok messu, þegar eptir óttusaung, ok bið þá meðan fyrir þèr með psálmum ok þeim bænum er þú kant. En at loknum tiðum gakk þú út ok skygn um kaup þín, en ef úkunn eru þèr kaup í bænum, þá hugsa þú vandliga at hversu þeir fara með sínum kaupum er mestir kaupmenn ok

beztir eru kallaðir. Þat skaltu ok varast um allan þann varning er þú kaupir ok selr, at hann sè allr úspilltr ok flærðarlauss ok fyrri rannsakaðr enn þú festir kaup þitt til fulls; en öll þin kaup er þú kaupir þá hafðu jafnan nokkura skilamenn hjá, þá er vottar sè hversu því kaupi var keypt. Nú skaltu at kaupum fara allt til dagverðarmáls eðr miðdegis, ef svâ berr nauðsyn til, en síðan gakk þú til matar þins. Borð þitt skaltu vel búa með hvítum dúkum ok hreinni fæðslu ok góðum drykk. Get þèr vel at borði þinu ef þú átt þess kosti, ok eptir mat þá gjörðu annathvârt, at þú sofna litla hríð eðr ella gakk þú um hríð nokkra at skemta þèr: sjást um hvat aðrir kaupmenn góðir hafast at, eðr nokkur nýr varningr komi sá til bæar at þèr sè nauðsynligr at kaupa; en þá þú kemr aptr til herbergis þins, þá rannsaka þú varning þinn, at eigi verði síðan fyrir spellum er þèr í hendr kemr. En ef spell verða á varningi þinum, ok skaltu þann varning selja, þá leyn þú þann aldrei er kaupir: sýn honum þau spell er á eru, ok semit síðan kaup ykkar sem þit kunnit, ok heitir þú þá eigi svikari. Met ok varning þinn allan í gott verð ok þó nær því er þú sèr at taka mun, en eigi úr hófi, þá heitir þú eigi mángari. En þat skaltu víst hugleiða at hverri tíð, er þú mátt þik tiltæma, at minnast á nám þitt, allra mest um lögskrár, þvíat þat er raunar, at allra er annarra minna vit enn þeirra er af bókum hafa mannvit, því þeir hafa flest vitni til sins fróðleiks er bezt eru lærðir. Gjörðu þèr allar lögbækur kunnar, en meðan þú vilt kaupmaðr vera, þá þarftu þèr öngan rètt einna meir kunnan at gjöra enn Bjarkeyarrètt. En ef þèr eru lög kunn þá verðr þú ekki úlögum beittr, ef þú átt málum at skipta við jafnoka þinn, ok kanntu at lögum at svara öllum málum. En þó at ek ræði nú flest um lög þá verðr eingi til fulls varr, nema hann kunni góðan skilníng ok góðan hátt á öllum siðum þar sem hann verðr staddr; ok ef þú vilt fullkominn vera i fróðleik, þá nem þú allar

túngur, en allrahelzt Latinu og Völsku, þvíat þær túngur gánga víðast, en týn þó eigi at heldr þinni túngu.

*Brot 2.* — *Faðir.* Eigi em ek fúsastr at tala um undr þau er hèr eru norðr með oss, ok veldr því litill hlutr: þvíat þat er siðr margra manna at tortryggja ok kalla flest allt logit þat er þeir hafa eigi augum sèð; ok þikki mèr þat íllt í ræðu at færa ef ek skal síðan vera kallaðr lýgimaðr af, þótt ek vita víst at satt sè: sumt þat er ek hefi með augum sèð sjálfr, en þat sumt er ek á hveru dag kost at spyrja af þeim er sèð hafa ok rannsakat ok vita til víss at satt er, ok vitum vèr þó úlýgna vera. En ek mæli því þessi andyrði at ein litil bók, er komit hefir fyrir skömmu híngat til lands vors, er kallat er at gjör væri á Indíalandi ok ræðir um Indíalands undur, ok er svâ mælt í bókinni at send hafi verit Emanúeli Grikkjakóngi: nú er þat orð flestra manna er heyra bókina, at þat megi ekki vera, ok þat sè ekki nema lýgi er þar segir í þeirri litlu bók. En ef gjörla skal hèr rannsaka í vorum löndum, þá eru ekki hèr þeir hlutir færri enn hinnig eru ritaðir, er jafnundarligir munu þikkja, eðr enn undarligri í öðrum löndum, þeim sem ekki eru slikir hlutir sènir eða dæmi til. Nú köllum vèr fyrir því þá hluti lýgiliga vera at þeir eru ekki hèr sènir, ok ekki fyrr heyrðir heldr enn hèr hafa verit ritaðir í þeirri bók; en sú litla bók hefir þó víða verit borin, þó at hún hafi jafnan tortryggð verit ok lýgi vænd, ok þikki mèr eingi sæmd hinum hafa í verit er segja hana ljúga, nè þeim er ritaði, þó at víða hafi borin verin bók hans til eyrnagamans ok skemtanar, með því at æ hefir verit logit kallat þat sem á var ritat.

*Sonr.* Eigi er mèr kunnigt hversu víðfleig vor ræða vill gjörast um vora daga eðr eptir, en þó vil ek enn með tilmæli eptirleita þessari skemtan at vèr tölum lengur um þá hluti er vèr ætlum at undarligir munu þikkja í

öðrum löndum, ok vèr vitum hèr til sanns at úlognir eru. En ekki tökum vèr mikit af at mistrúa þá bók er gjör var á Indíalandi, þó at þar sè margt undarligt í sagt, þvíat margir hlutir eru þeir hèr með oss, er oss, þikkja ekki undarligir, en þar mundu undarligir þikkja ef vor ræða mætti lángt fljúga, at hún kæmi þángat sem þess er eingi von. En ef ek skylda yfir einhverjum hlut undarliga láta, þeim sem þar er mælt, þá sýnist mèr þat ekki sízt undur at smáir menn megu temja þá enu sterku flugdreka er þar eru í fjöllum ok eyðimörkum, svâ sem bók sú ræðir um, til þess at þeir megi ríða þeim hvert er þeir vilja svâ sem hestum, jafngrimmt sem mèr er sagt þat kvikindi vera ok eitursfullt ok öngva náttúru tilhafa at maðr megi í nánd koma, enn síðr til áþjánar eðr tamníngar.

*Faðir.* Bæði eru slíkir hlutir ok margir aðrir, þeir er þar í eru mæltir, er undarligir þikkja, ok láta margir menn tortryggiliga yfir, ok sýnist mèr þat eigi nauðsyn at jafna þeim hlutum saman er þar eru í ritaðir, ok þeim er hèr eru með oss, er jafnundarligir munu þikkja þar sem oss þikkja þessir hlutir er nú ræddum vèr um. Þvíat þat mætti vera at temja mætti dýrin eðr önnur kvikindi, þó at þau væri grimm eðr torreifilig um at væla; en þetta má þikkja undur, ef svâ er frásagt, sem er, um þá menn er þat kunnu at temja trè ok fjalir til þess, at sá maðr er eigi er fimari á fæti enn aðrir menn, þá hann hefir ekki annat enn skó sína eina á fótum, en jafnskjótt sem hann bindr fjalir undir fætur sèr, annathvârt átta eða níu álnir lángar, þá sigrar hann fugl á flugi eðr mjóhunda at rás, þeir sem mest kunna at hlaupa eðr renna, eðr hrein, þvíat sá er mikill fjöldi manna er kann svâ á skíðum, at hann stíngr í einni rennsl sinni níu hreina með spjóti eðr fleiri. Nú mun þessi hlutr þikkja útrúligr ok undarligr á öllum löndum þeim er ekki vitu menn með hverri list eðr vèl slíkt má verða, at fjölin mætti tömd verða til svâ mikils fljótleika á

fjöllum uppi at ekki vætta má forðast rás þess manns ok skjótleik er fjalirnar hefir á fótum sèr, þat sem jörðu fylgir, en þegar hann lætr fjalirnar af fótum sèr þá er hann ekki fimari enn aðrir menn; ok mun þat mikit undur þikkja þar sem menn eru eigi sliku vanir, en oss þikkir eigi undarligt þat vera, þvíat vèr erum sliku vanir. En þar sem menn eru eigi sliku vanir þá mun varla finnast svâ fimr maðr, at eigi mun af honum taka allan fimleik þegar slik trè eru bundin við fætr honum. Nú vitum vèr til sanns ok eigum kost um vetr þegar snjór er, at sjá gnótt þeirra manna er slikar listir kunna. Nú gátum vèr fyrir skömmu þeirra hluta er allmikil undur munu þikkja í flestum stöðum öðrum, fyrir því at þat er í gegn allri náttúru er flest lönd önnur hafa um dægra-skipti, þvíat sólin skin jafnbjört hèr ok með jöfnum yl, jafnvel um nótt sem um dag, mikinn hluta sumars. Þat má ok undarligt þikkja hèr í landi á Mæri um mýri eina, þá er Bjarkadals mýri er kölluð, at hvatki trè er þar er íkastat, ok liggr þat þar þrjá vetur, þá verðr þat at steini, ok hafnar svâ trèit sinni náttúru, ok þó at því sè kastat í eld þá glóar þat síðan sem steinn, en áðr brann þat sem trè, ok höfum vèr þá steina sèna marga ok i höndum hafða, er hálft hefir verit trè, þat sem upp hefir staðit úr mýrinni en hitt steinn, þat niðr hefir staðit í mýrina. Nú má þat þó undarligt kalla, þviat sú mýr er í þeirri mörku sem allskyns ærinn viðarvöxtr er, ok sakar þat ekki meðan trèit er í vexti ok grænt, en þegar þat er höggvit, ok þat tekr at þorna, ok er því kastat í mýrina, þá snýst þat til steins náttúru ok hafnar très náttúru.

*Sonr.* Þessir hlutir eru mèr allir kunnir, þvíat þeir eru hèr í landi, ok hefi ek alla sèna, en hinir eru mèr allir úkunnir er annattveggja eru á Grænlandi eðr á Íslandi eðr Írlandi, þvíat þar hefi ek spurdaga til haft, eðr í höfum þeim er þar eru umhverfis.

*Faðir.* So at vèr skulum fleira um þessi lönd ræða, þá

eru þau með ýmissum háttum, ok eru þau ekki öll með einum hætti, þvíat þau undur er annattveggja eru á Grænlandi eðr á Íslandi, þá eru bæði með ofurgángi frosts ok jökla eða elligar elds ok bruna, eðr með stórum fiskum ok kynmörgum hafskrimslum; ok er hvârttveggja þat land svâ illt ok snauðt at þat er náliga úbyggjanda fyrir þá sök. En Írland er náliga landa bezt, þat er menn vitu, þó at þar vaxi ekki vín á, ok eru þar þó margir hlutir þeir er undarligir munu þikkja; ok þó sumir at þat land mun kallat vera helgara enn önnur lönd af þeim hlutum er þar þikkja undarligir í. Þat liggr á þeirri heimsins síðu er svâ vel er temprat saman með hita ok kulda, at þar verðr aldrei ofheitt nè ofkalt, því þar verðr aldrei ofurhiti at meini um sumar ok ekki ofurkuldi at meini um vetur; þvíat öllum vetrum fæðist þar allt búfè úti, bæði sauðir ok naut, ok náliga eru menn þar klæðlausir bæði vetur ok sumar. En þat land er svâ heilagt umfram önnur lönd at þar má ekki eiturkvikindi áþrífast, hverki ormr nè padda, ok þó at þat sè flutt þángat af öðrum löndum þá deyr þat þegar er þat kennir jörð eðr stein. Ok þó at nokkut sè tekit úr því landi, annathvârt trè eðr mold eðr sandr ok flutt í önnur þau lönd er eiturkvikindi eru í, ok er þeim sandi eðr moldi sáit íkríngum þau, þar sem þá liggja þau, þá komast þau aldrei út yfir hrínginn, ok þar liggja þau öll dauð í; svâ ok ef þú tekr trè þat er úr landi því er, ok dregr þat í hríng um eiturkvikindi svâ at þú skerir jörðina með trènu, þá liggja þau jamvel dauð í þessum hríng. Þat er ok mælt um Írland, at jafnlítit eyland sem þat er, þá vitu menn þat varla at jamnmargr sè heilagr maðr sem þar; þat er ok mælt, at sú þjóð er þat land byggvir er bæði grimm í sèr ok þar með drápgjörn ok mjök úsiðug, en svâ drápgjörn sem hún er, ok svâ margir sem þar eru helgir í því landi, þá hafa þeir þó öngvan af þeim drepit, ok allir þeir helgir menn sem þar eru, þá hafa þeir allir sóttdauðir orðit, þvíat þeir hafa heilhugaðir verit við

alla góða menn ok helga, þó at þeir hafi verit grimmir sín á millum. Vatn eitt er þar í því landi, er heldr undarligt er sagt ífrá náttúru þess, en þat vatn er kallat á þeirra túngu Loehegag. Þat vatn er vel mikit at vexti, en sú er náttúra þessa vatns, ef þú tekr trè þat, er sumir menn kalla beinviði en sumir hulfur, en á Latinu aerifolium, ok setr þú þat niðr í vatnit, svâ at sumt stendr í jörðunni, en sumt í vatninu, en sumt upp úr vatninu, þá verðr þat at járni er niðr stendr í jörðina, en þat at steini er í vatninu er, en þat trè sem uppstendr úr vatninu þá er þat trè sem áðr var þat: en þó at þú takir annarskonar trè enn þetta til freystni, þá hafnar þat ekki sinni náttúru, þó at þú setir þat í þetta vatn. Þá eru þar enn keldur tvær í fjalli því er Blandina heitir, ok er þat náliga eitt eyðifjall, en þær keldur hafa undarliga náttúru. Önnur keldan hefir þá náttúru, ef þú tekr annathvârt hvítan sauð eðr naut eða hross eða mann, þann er hefir hvítt hár, ok þvær þú einhverjum hlut þessarra í þessu vatni, þá verðr þegar kolsvart; en þat er náttúra annarrar keldunnar, ef maðr þvær sèr þar í, hvârt sem hann er rauðr eða hvítr eðr svartr, þá verðr hann síðan snjóhvítr af hærum svâ sem hann sè afgamall. Þat vatn er ok eitt í því landi, er þeir kalla á sína túngu Logheeha; en í því vatni er hólmi einn lítill svâ sem flotahólmr sè, hann flýtr umhverfis vatnit innan ok kemr hèr ok hvar at landi, stundum svâ nær at maðr má stíga í hólminn, ok verðr þat optast á drottinsdegi. En sú er náttúra á hólma þessum: ef sá maðr stígr í þann hólma er sjúkr er, hvatki sótt er hann hefir, ok neytir hann grasa þeirra er í hólmanum vaxa, þá verðr hann þegar heill; þat fylgir ok þeirri náttúru at aldrei koma fleiri senn í enn einn, þó at margir vili því ná, þvíat hólmrinn flýtr þegar frá landi, þegar einn maðr er íkominn. Sú náttúra fylgir ok þessum hólma at hann flýtr sjö vetur samfast í þessu vatni, en þegar sjö vetur eru liðnir þá flýtr hann til lands í einhverjum stað ok grær við annat land, svâ

sem hann hefði jafnan þar við verit; en meðan sá tími er þá heyrist mönnum sem gnýr mikill komi, líkr reiðarþrumu, ok eptir liðna þrumuna þá sjá menn slíkan hólma í vatninu, með sama hætti, vexti ok náttúru sem fyrr, ok ferr svâ hverja sjö vetur eptir aðra, at æ sem annar grær við meginland þá kemr annar, ok veit þó eingi hvaðan kemr. — Þá er þar enn ein ey lítil í því landi er heitir á þeirra túngu L'Hisglum, þar er mjök mikil mannabygð í ey þeirri, ok er þar ein kirkja í, þvíat mikit fólk er í eyunni sem vera mun ein kyrkjusókn; en þó at menn andist þar, þá eru þeir ekki í jörð grafnir, heldr eru þeir reistir upp umhverfis kirkjuna eða við kirkjugarðinn, ok standa þar upp sem kvikir menn með þornuðum öllum limum ok úsköddu öllu hári ok nöglum, ok fúna aldrei, ok ekki falla þeir, ok aldrei setst þar fugl á; ok má þar hverr fram á leið kenna, sá er eptirlifir, sinn föður ok allar sínar kynkvíslir, þar sem hann er af kominn. Þá er þar enn vatn eitt mikit, þat heitir Loghri, en í því vatni liggr ey ein lítil, þar eru hreinlífismenn, þá er kalla má hvert er vill, kanúnka eðr herimita, ok eru þeir með svâ miklum fjölda, at þar er fullt allt af, stundum eru þeir fleiri enn stundum. En svâ er sagt frá ey þeirri, at hún er heilsusöm ok eigi sótthætt, ok seinna eldast menn í ey þeirri enn í öðrum stöðum á meginlandi; en þegar menn eldast svâ mjök eðr sykjast, at þeir sjá sinn endadag af gudi ætlaðan, þá verðr at flytja þá úr eyunni til lands, þar þeir skulu andast, þvíat einginn má í eyunni liflátinn verða af sóttum, en sykjast má maðr þar, en ekki deya fyrr enn úr er fluttr. Þá er þar enn eitt mikit vatn er þeir kalla á sína túngu Logherne: í því vatni er þesskonar mikill fiskafjöldi er menn kalla laxa, en sá fiskr gengr svâ gnógr um allt land þeirra at þeir hafa ærinn til síns borðs. Eyar eru þar margar í því vatni, en ein er sú ey þar er þeir kalla á sína túngu Kjartenag. Sú ey væri hæfilig at byggja fyrir mikilleyka sakir ef menn þyrðu at byggja hana; en þat er

mælt úm þá ey, at djöflar hafa jafnmikit vald yfir helmingi eyar þeirrar sem í sjálfu helvíti, ok þeim sinnum er freystnir menn hafa þat gjört til raunar, þá hafa þeir svâ síðan frá sagt, at jafnmargar þrautir ok píslir hafa þeir þar þolat af kvölum, sem sagt er frá at sálir þoli í helvíti. En í öðrum helmingi eyarinnar þá er þar kyrkja ok kyrkjugarðr um, ok er þó nú hvârtveggi helmingr auðr, en svâ er sagt frá at yfir þeim helmingi eyarinnar er kyrkjan stendr í, þá hafa djöflar ekki vald. Þat gerðist enn á því landi er undarligt mun þikkja, at menn veiddu í skógi eitt þat kvikindi er eingi kunni frá at segja, hvârt heldr var maðr eðr annat dýr, þvíat menn fengu eigi mál af því, ok ekki urðu menn varir við at þat skildi manna mál, en þat var þó at öllu vaxit sem maðr ok hafði bæði hendr ok fætr ok manns andlit, en hári var vaxinn allr líkamr þess utan, sem annarra dýra, en manstæði at endilaungu baki ok þar á fax sem á hrossi, ok fèll baðumegin hryggjar ofan, svâ sítt at slæddi jörð, þegar er þat kvikindi gekk bjúgt. Þat vænti ek at ek hafi nú getit flestra þeirra hluta er þar eru orðnir af sjálfri landsins náttúru, svâ at menn þikkist fyrir víst sannindi af hafa.

Þar er í því landi staðr sá einn er Themar er kallaðr, ok var sá staðr svâ forðum sem hann væri höfuðsæti ok kongs borg, en hann er nú þó auðr fyrir því at menn þora ekki at hyggja hann. En sá atburðr gjörðist til þess at staðrinn varð auðr at allt fólkit, þat er í var landinu, trúði því, at sá kongr, er þar sæti at þeim stað, skyldi jafnan dæma rètta dóma ok öngvan annan; en þó at þeir væri heiðnir annarskostar ok hefðu eigi rètta trú til guðs, þá höfðu þeir þó þenna átrúnað svâ staðfastan, at þeir hugðu þat hvervetna rèttdæmi vera er sá kongr dæmdi, ok aldrei hugðu þeir at rángr dómr mundi dæmast á því kongssæti. En þar sem hæð þótti borgarinnar vera, þá átti kóngrinn þar kastala fagran ok vel gjörfan, í þeim kastala átti hann fagra höll ok mikla, ok í þeirri höll var hann vanr

at sitja yfir dómum manna. En svâ gjörðist til at þau mál komu fyrir kong ok í hans dóm, er í annan veg áttu vinir hans ok kunnir menn hlut at, ok vildi hann þeirra máli fylgja ok fulltíngja um alla hluti, en annan veg áttu at málinu hlut þeir menn er honum var illa við, ok hann var þeirra mikill úvin, ok gjörðist þá svâ til at kóngrinn hallaði dóminum eptir vilja sínum, en eigi eptir rèttindum; en fyrir því at þaðan kom rángdæmi er öll alþýða hugði at rèttdæmi mundi koma, þá sneri um sæti því fyrir sakir átrúnaðar fólksins, ok snerist þá höllin um ok kastalinn með öllum sínum grundvelli, ok svâ jörðin, þviat þat snerist upp er áðr vissi niðr, ok hefir svâ verit síðan. En fyrir því at svâ mikill undarligleikur varð, þá þora menn eigi síðan þann stað at byggja, ok eingi kóngr þorir síðan sitt sæti þar at setja, ok er þar þó hinn fegursti staðr er á þeirri jörðu er, ok menn vita. Þat er ok mælt, ef menn vildu þann stað byggja, at sá dagr mundi ekki yfirkoma at ekki mundi mega sjá nýtt undr. Þá er þar enn einn sá hlutr er mönnum má þikkja undarligt, en þat segja þeir menn er landit byggja at hann er víst sannr, ok varð þat fyrir sakir reiði eins heilags manns. Svâ er sagt at þá hinn helgi Patricius boðaði kristni í landi því, þá var þat eitt kyn er honum var miklu gagnstæðiligra enn annat fólk er í landinu var, ok leituðu þeir menn við at gjöra margskyns háðúng, bæði í mót guði ok þeim helga manni; en þá er hann bauð þeim kristni svâ sem öðrum mönnum, ok hann kom á þeirra fund ok þar sem þeir höfðu þíng sín, þá tóku þeir þat til ráðs at ýla at honum sem vargar. En þá er hann sá þat at hann mundi litlu sínu eyrindi framkoma við þetta fólk, þá varð hann mjök reiðr ok bað hann guð at hefna á þeim með nokkurum þeim bardaga, er þær kynkvíslir mætti jafnan síðan taka í minníng móti sinni úhlýðni. En þær kynkvíslir fengu síðan mikla hefnd ok makliga ok þó mjök undaraliga, þviat svâ er frásagt at allir þeir menn er af þeim ættum

koma, þá eru þeir jafnan nokkura stund vargar ok renna í skógum ok hafa slíka fæðslu sem vargar, ok eru því verri at þeir hafa mannsvit til allra véla sinna, en slíkan gróða til manna sem til annarra kvikinda; en svâ er sagt at sumir fá þetta sjöunda hvern vetr ok eru menn þess á millum, en sumir hafa þetta svâ lengi at þeir hafa sjö vetrum samt ok fá aldrei síðan optar. Þar er ok einn hlutr er undarligr mun þikkja, er gjörðist í borg þeirri er Kloena heitir; í þeirri borg er kirkja, sú er vígð er í minníng þess heilaga manns er Kiranus heitir. En þar gjörðist svâ til einn sunnudag, er fólk var at tíðum ok hlýddi messu, þá kom þar sigandi úr lopti ofan eitt akkeri, svâ sem því væri úr skipi kastat, þvíat þar var streingr við, ok kræktist akkerisfleinninn í bogann á kirkjudyrunum, en fólkit gekk allt út úr kirkjunni ok undraði, ok sá i lopt upp eptir streinginum. Þeir sáu skip fljóta fyrir streinginum ok menn á, því nærst sáu þeir úr því skipi mann einn fyrir borð hlaupa, ok kafaði niðr til akkerisins ok vildi leysa þat; hans atferð sýndist þeim eptir því vera, bæði handa læti ok fóta, sem þess manns er í sjó sveymar. En er hann kom niðr til akkerisins, þá leitaði hann við at leysa þat, en því nærst hlupu menn til at taka manninn. En kirkja sú er akkerit stóð fast í, þá var þar biskupsstóll einn: biskup var viðstaddr þenna atburð, ok fyrirbauð hann mönnum at halda þeim manni, ok sagði at hann mundi bana hafa, sem honum væri í vatni haldit. En þegar er hann varð lauss þá skundaði hann ferð sinni upp aptr til skipsins, en þegar hann kom upp þá hjuggu þeir streinginn ok fóru síðan leiðar sinnar úr augliti manna; en akkerit hefir síðan legit þar til vitnisburðar í kirkju þeirri.

*Brot 5. — Faðir.* Þat er mælt um Grænlands haf at þar sèu skrimsl í, ok ætla ek þau þó eigi opt sèn vera, en fyrir því kunnu menn frá at segja, at nokkrir munu sèð

hafa ok varir viðorðit. Svâ er sagt um skrimsl þat er menn kalla Hafstramb, at þat sè sèð í Grænlands hafi. Þat skrimsl er mikit at vexti ok at hæð ok hefir staðit rètt upp úr hafinu, þat hefir svâ sýnzt sem þat hafi haft manns andlit, herðar, háls ok höfuð, munn ok augu ok nef ok höku svâ sem maðr, en upp frá augum ok brúnum hefir verit því líkast sem maðr hafi haft á höfði sèr hvassan hjálm eðr kumbl; axlir hefir þat haft sem maðr, en öngvar hendr, ok svâ hefir þat sýnzt sem þegar hafi þat sveingzt frá öxlum ofan, ok æ því mjórra ok minna sem þat hefir neðar meir sèð verit. En þat hefir eingi sèð hversu enn neðri endi hefir verit skapaðr á því, hvert heldr hefir verit sporðr sem á fiski, eða hefir hvast niðr verit sem hæll, en líkami þess hefir þvílíkr verit at ásýnd sem jökull. Eingi hefir glöggt sèð þat, hvert þat hefir haft hreistr eða húð sem maðr. Jafnan þegar þetta skrimsl hefir sèð verit, þá hafa menn vitat vísan storm í hafi eptir; þat hafa menn ok mjök markat hversu þat hefir horft eðr fallit síðan á sjá þá er þat hefir steypzt, ok hafi þat horft at skipi ok þángat steypzt, þá hafa menn víst vitat sèr manntjón á því skipi, en ef þat hefir horft frá skipi ok þángat steypzt, þá hafa menn verit í góðri vilnun, at þeir mundi halda mönnum, þó at þeir hitti í stóran sjá ok storma mikla. — Þat hefir ok verit eitt skrimsl er menn kalla Margýga. Þess vöxtr hefir svâ sýnzt sem þat hafi kvennmannligt verit upp ífrá lindastað, þvíat þat skrimsl hefir haft á brjósti sèr stóra spena, so sem kona, lángar hendr ok síðt hár, ok svâ at öllum hlutum um háls ok höfuð sem maðr. Hendr hafa mönnum sýnzt miklar á því skrimsli ok eigi með sundrslitnum fíngrum, heldr samteingir fíngr með þvílíkri fit sem tær tengjast saman á fitfuglum. En niðr ífrá lindastað hefir þat skrimsl sýnzt líkt fiski bæði með hreistri ok sporði ok sundfjöðrum. Þetta skrimsl hefir svâ verit sem hitt fyrra, at sjaldan

hefir þat sýnzt nema fyrir stórum stormum. Þetta hefir verit athæfi þessa skrimsls at þat hefir opt kafat, ok jafnan svâ uppkomit at þat hefir haft fiska í höndum sèr, ok ef þat hefir horft at skipum ok leikit sèr við fiska eðr kastat fiskum at skipum, þá hafa menn verit hræddir um þat at þeir mundi fá stór manntjón. Þat skrimsl hefir sýnzt reiðuligt ok mikit í andliti með hvössum augum ok breiðu enni, mjök mynnt ok með hroknum kinnum. En ef skrimsl þat etr sjálft fiska eðr kastar á haf út frá skipi, þá hafa menn verit í góðri von, at þeir mundi halda mönnum þó at þeir fengi stóra storma. — Nú er þat enn eitt undr í Grænlands hafi, er ek em ekki enn fróðastr um með hverjum hætti þat er, þat kalla menn hafgirðínga, en þat er því líkast sem allr hafstormr ok allar bárur, þær sem í því hafi eru, safnist saman í þrjá staði, ok gjörist af því þrjár bárur. Þær þrjár girða allt hafit, svâ at menn vita hvergi hlið á vera: ok eru þær stórum fjöllum hærri, líkar bröttum gnípum, ok vitu menn fá dæmi til at þeir menn hafi úr höfum komizt, er þar hafa í verit staddir þá þessir atburðir hafa orðit; en því munu sögur vera af gjörfar, at guð mun æ nokkura þaðan hafa frelsat, þá sem þar hafa verit i staddir, ok mun þeirra ræða síðan dreifzt hafa ok flutzt manna á millum, hvert sem nú er svâ frá sagt sem þeir hafa helzt um rætt, eðr er ræða þeirra nokkut aukin eða vönuð, ok munum vèr fyrir því varliga um þá hluti ræða at vèr höfum þá fá hitta nýliga er þaðan hafa komizt ok oss kunna þessi tiðindi at segja.

*Brot 4.* — *Faðir.* Nú kemr þú þar er kóngr er fyrir staddr með þeim öröndum at þú vilt þýðast hann, þá skaltu spyrjast fyrir vandliga, hverir þeir menn eru með kóngi, er optast eru vanir at fylgja þeim er þurfu, ok flytja mál manna fyrir kóngi svâ at honum líki bezt þeirra ræða. En þegar er þú verðr sannfróðr hverir þeir

eru, þá skaltu þá fyrst þýðast ok gjöra þèr þá fyrst at vinum, en því næst sýna þeim þitt erindi ok biðja þá þitt mál fram at flytja við kóng; en ef þeir taka við þínu máli, þá kunnu þeir bezt tíma ok stundar at leita til kóngs fundar ok viðræðu, er optast eru á tali við hann. En ef þat verðr um þann tíma er kóngr sitr undir borðum, at þá skulir þú þíns máls leita, þá haf þú á því góða njósn at kóngr sè þá í blíðu skapi ok i góðum hug; en ef þú verðr þess varr at hugr hans sè nokkut úblíðr, eða er hann reiðr um nokkut mál, eða hefir hann nokkur skylðarmál þau at ræða at þú ætlar eigi þitt mál ræða mega fyrir þá sök, þá lát þú þín mál hvílast þann dag, ok leita ef þú mátt finna hann í betra skapi annan dag. En ef þú verðr þess varr at kóngr er í blíðu skapi, ok hann hefir eingi nauðsynjamál um at vèla, þau at eigi megir þú vel flytja þitt erindi fyrir þá sök, þá bið þú þó þess at, er hann er náliga mettr. En klæðabúnaði þínum skaltu áðr hafa svâ háttat at þú sèr klæddr öllum góðum gángvera, þeim sem þú hefir vildastan til, vel hosaðr ok skúaðr, eigi skaltu ok kyrtilslauss vera, haf ok þvilika yfirhöfn sem þú hefir vildasta til. Vel þèr þau klæði jafnan til hosna er brún eru at lit, þat þikkir ok eigi illa bera, at maðr hafi svart skinn til hosna, en ekki önnur klæði þá, nema skarlat sè. Kyrtil máttu ok vel hafa með brúnum lit eða með grænum eða rauðum ef þèr sýnist þat betr fallit, ok eru þau góð klæði ok sæmilig. En línklæði þín þá skaltu láta gjöra af góðu lèrepti ok þó lítil efni í, gjör stutta skirtu þína ok línklæði þín öll lètt vel; ætla jafnan góðan mun styttri skirtu þína enn kyrtil, þvíat eingínn maðr hæverskr má sik prýddan fá gjört af hör eðr hampi. Skegg þitt ok hár skaltu láta virðuliga gjöra áðr enn þú gengr fyrir kóng eptir þeim siðum er þá eru í hirð er þú leitar til hirðar; en þá ek var innan hirðar þá var þat siðr í hirð at hár var skorit stuttara enn eyrnahlöð ok kembt svâ síðan umhverfis sem hvert hár vildi bezt falla,

ok var síðan skorinn stuttr toppr yfir brúnum, en um skegg var þat siðr þá at gjöra stutt skegg ok snöggvan kamp, ok var rakat síðan jaðarskegg á þýðversku, ok eigi er víst at síðar komi sá siðr at fegri sè eðr betri sómi i herliði at hafa. En nú berr svá at, at þú þykkist búinn vera til kóngs fundar, hvárttveggja at klæðabúnaði ok öðrum hlutum, ok kemr þú í góðan tíma, ok fær þú leyfi til inngöngu af dyraverði, þá verðr þú svo at hátta þarkomu þinni at þèr fylgi nokkur liðligr þjónustumaðr. En þó at þit fáit báðir leyfi til inngöngu, þá láttu hann ekki fylgja þèr lengra enn innan dyra eða innar at stallara stóli hit lengsta, ok lát hann-gæta skikkju þinnar; ok þó þit fáit eigi báðir leyfi til inngöngu þá geym þú yfirhöfn þína þó úti, en þú gakk skikkjulauss inn fyrir kóng ok haf áðr kembt hár þitt slètt ok strokit skegg þitt vel. Hverki skaltu hafa hött nè húfu nè kveif á höfði, heldr skaltu úhuldu hári ok berum höndum fyrir ríkismenn ganga, með bliðu andliti ok hreinsuðum öllum líkama ok limum, þá menn skaltu ok hafa í göngu með þèr er þitt mál skulu framflytja. Ven þik at bera höfuð þitt rètt, ok svâ allan líkham þinn þá ven þú vel rèttan; þegar þú gengr þá ven þik gángprúðan vel ok þó eigi einkar seint at gánga. En er þú kemr fyrir kóng, þá skaltu hneigja honum lítillátliga, ok heilsa honum þessum orðum: Guð gefi yðr góðan dag, herra kóngr! En ef kóngr sitr yfir borði þá er þú kemr fyrir hann, þá láttu þik eigi þat henda er margan hendir skamvísan, at þú styðist við kóngs borð, enn siðr leggist þú á fram, svâ sem úsiðug fól gjöra, heldr nem þú staðar svâ fjarri borði, at alla þá þjónustu er til kóngs borðs byrjar megi vel flytja, at ærnu rúmi, meðal borðs ok þin; en ef eigi eru borð fyrir kóngi, þá gakk þú svâ nærri kóngs sæti, at ærit sè rúm til allrar þjónustu millum þín ok fótskamla þeirra, er fyrir eru kóngs sæti. Hendr þínar skaltu svâ láta liggja, er þú stendr nærri kóngi, at hin hægri greip spenni um hinn vinstra

úlflið, ok lát síðan hendr þínar í tómi rekjast niðr fyrir þik, sem þeim er hægast. Því nærst skulu þeir menn flytja erindi þitt fyrir kóngi, er til þess eru ætlaðir. En ef þú berr svâ gæfu til at þat má þegar fremjast eptir þínum vilja, þá skaltu gánga til handa kóngi ok því nærst í lauguneyti við hirð hans, eptir þeirri siðvenju, sem þeir kenna þèr er þitt mál flytja. En ef kóngr heitir þèr ok nefnir þèr stefnudag, nær þat skal lykt, þá verðr þar til at standa. En ef kóngr skýtr því máli á frest ok mælir svâ sem eigi er minnst von, at mèr er þessi maðr úkunnigr bæði at sýn ok siðum, ok kann ek því máli eigi svâ bráðliga at andsvara fyrr enn ek sè gjör spekt hans ok aðrar meðferðir, þá er því máli lokit at því sinni, en þú verðr at leita þíns máls at tómi, ef þèr sýnist, ok vita ef þú hittir eitthvert sinni í þat lagi at þín vild gángi heldr fram. En þá hrið er þú vilt til þess stunda, þá þarftu víst þess við at þýðast hina beztu menn ok hina vitrustu, ok verða þeim í nánd optast kendr er kóngi eru kærastir; ok tak þó alla neytslu, þá er þú þarft, af sjálfs þíns kostnaði, meðan þú ert lengst í þeirri raun, nema þèr verði nokkuru sinni boðit af kóngs hendi til hans borða, ok láttu þó þik eigi þat henda sem margan úfróðan hendir, at þú girnist því öllu meir annars kostnaðar, sem þú sèr at þèr verðr optar tilboðit, at eigi beri svâ at at ráðvandir menn virði þèr til sinku ok offramsækni, ok verðr þú af því úvin þeirra manna, er þú mættir þik elligar fela í vináttu þeirra. Nú vertu lastvarr ok athugall um slíka hluti, at þeir eigi berist þèr til handa fyrir gáleysis þíns sakir.

Þat skaltu ok vandliga leiða at huga meðan þú stendr fyrir kóngi at þú ræðir ekki við aðra menn meðan, svâ at þú gefr eigi góðan gaum at öllu því sem kóngr talar, at eigi berist þat svâ til handa, ef hann talar nokkut til þín, at þú þurfir annat sinni at spyrja hvat hann talar, þvíat þat þykkir jafnan illa atbera, at maðr sè svâ gálauss at triklífa

þarf hvert orð at honum áðr enn hann heyri, en miklu þykkir þat þó verst bera ok heimskligast fyrir ríkismönnum. En allopt kann þó svâ til at bera meðan maðr er staddr fyrir kóngi eðr ríkismönnum, at aðrir menn þyrpast at manni ok spyrja mann þá margs meðan; ok má þar gánga til stundum skamsýni þeirra er þat gjöra, stundum má ok þat tilgánga, at þeim er þat gjörir þækti ekki þá verr, at nokkut væri þat er at mætti finna hinum er sitt mál þarf at flytja. Nú ef þèr kann þat til handa at bera, þá þú verðr svâ staddr fyrir kóngi, at einnhverr vill á meðan slást á nokkurn spurdaga við þik eðr nokkúrar aðrar ræður, þá skaltu hafa blið orð í munni ok svara honum þó á þessa leið: Bið litla hrið, góðr maðr, meðan ek hlýði stund eina ræðu kóngsins, en ek vil síðan gjarna við þik ræða slikt er þèr þyki sjálfum gott. En þó at hann hafi nokkur orð um síðan fleiri, þá ræð þú þó 'ekki at því sinni fleiri við hann fyrr enn kóngr hefir lokit sinni ræðu. Nú kann svâ til at bera at kóngr talar til þín nokkur orð, þá skaltu þat varast vandliga í andsvörum þínum, at eigi margfaldir þú þau atkvæði er til þín horfa, þó at þú margfaldir, svâ sem til byrjar, öll þau atkvæði er til hans horfa; en enn heldr skaltu þat varast, sem fól kann stundum at henda, at eigi margfaldir þú þau atkvæði er til þín horfa, en þú einfaldir þau er til kóngsins horfa. En ef svâ kann til at bera at kóngr mæli til þín nokkur orð, þau er þú nemir eigi, ok þarftu annat sinni eptir at spyrja hvat hann segir, þá skaltu hvarki segja haa! nè hu! eða hvat? heldr skaltu eigi meira við hafa enn kveða svâ at orði: Herra? en ef þú vilt heldr spyrja með fleirum orðum, þá skaltu svo mæla: Herra minn, látit yðr eigi fyrir þikkja, þó at ek spyrja í annat sinn hvat þèr mæltut til mín, þvíat ek nam eigi gjörla! ok lát þik þó sem færstum sinnum þat henda at kóngr þurfi optar enn um sinn orð sín at herma fyrir þèr áðr enn þú nemir.

*Brot 6. — Faðir.* Þar er þú leitar eptir því hví ormrinn fékk mál, eða hví hann leiddi konuna til lögbrota, þá er þat nú skiranda. En þat er upphaf þeirrar skíríngar at guð hafði fyrri skapat englana enn manninn. Þeir voru allir skapaðir með mikilli fegurð, údauðligir andar, fyrir utan allan likamligan breyskleik, þó voru þeir skapaðir með mikilli fegurð undir þessarra laga gætslu, at þeir skyldu halda hlýðni ok ástúð við skapara sinn með lítillæti ok án allrar flærðar. Var þeim þá heitit at þeir skyldu halda allri fegurð ok allri annarri sæmd þeirri er hann hafði gefit þeim, æ meðan þeir gæti þessarra laga, þó gaf hann þeim frjálsligt sjálfræði at þeir skyldu mega gjöra lögbrot ef þeir vildu, ok mælti guð svâ við þá: Með því at þèr vorut í senn skapaðir, en eingi af öðrum getinn, þá skal hverr yðar fyrir sjálfum sèr gera, en eingi fyrir öðrum, hvârt sem heldr verðr gætt þeirra laga sem nú hefi ek sett, eða verða þau brotin. En ef nokkurir eru þeir er þau brjóta, þá skulu þeir verða reknir úr þessu sældarlífi; en þeir er gæta, þá hafi jafnan úþrjótanliga sælu ok endalaust líf í sæmiligri minni þjónustu. En því gef ek yðr öllum sjálfræði á hvârt er þèr vilit heldr brjóta þetta lögmál eða halda, at þeir er halda, þá eru þeir valdir mèr til kosinna gersima, en þeir er brjóta, þá verða þeir fyrir hatri ok reknir til kvalsamligrar ánauðar ok óvingjarnligrar þjónustu. Þessir englar voru allir fagrir, ok þó var einn fegri öllum þeim, ok var hann fyrir því Lúcifer kallaðr, ok var hann skipaðr höfðingi yfir öllum englum, ok hneig mikill fjöldi engla til hans með mikilli þjónustu ok allri vináttu. En þá er guð hafði lokit þessarri ræðu, þá hvarf Lúcifer svâ sem í norðr frá guði með öllum sínum fylgjurum ok mælti svâ: Hví skulum vèr þola hart af guði fyrir þjónustu vora, þar sem vèr höfum sjálfir yfrinn krapt ok fjölda ok fegurð at halda sæmd vorri? Nú mun ek setja mèr annat hásæti, líkt guði, í nyrðra hlut himins, ok varðveita með ágætri stjórn annan helming him-

ins eða meira. Þá svaraði guð ok mælti við Lúcifer: Með því at þú hefir lögbrot gert með svikligri uppreist, þá máttu eingva staðfestu lengr með oss hafa, ok með því at þú vilt ríkis gætslu hafa, þá far þú nú til ríkis þess, er þér er nú búit, ok skaltu nú hafa nauð fyrir frelsi, en vesöld fyrir sælu, ok hverskyns harm án alla huggan: fylgi þeir þér allir er eigi voru gagnstæðligir þinni ráðagerð! En þá er guð leit til þeirra reiðugliga, þá skulfu allir himnar í augliti guðs, en úvinir hans flýðu með ógrligu niðrfalli, ok gerðu leiðinlig litaskipti með brotvarpinni sæmd ok fegurð. Því næst hittu þeir alla þá staði er þeim var tilvísat, ok dreifðust þeir þá um allar helvítis holur, skipaðir með ýmisligu embætti, ok skildist með því myrkr ok ljós. En þegar eptir þat er guð hafði manninn skapaðan, ok hann var skipaðr í sældarlífi í Paradísu, þá mælti Lúcifer til sinna félaga: Þessum mun guð gefa ríki þat sem hann rak mik ifrá, ef hann gerir eigi misbrygði igegn hans vilja; en þó at hann skipaði öðrum englum i vort ríki, þá mættum vér þat aldrei þola ef vér fengim nokkut atgjört, en þetta er oss ofmikil skömm, er maðr sá, er gjörr var af leiri eða saurgu jarðardupti, skal vera leiddr í þá eylífa sælu er vér vorum fráreknir. Fyrir því skulum vér jafnan berjast við hvern þann er þann veg stundar, ok hefna vors skaða með grimmligri heipt á öllum þeim er vér getum sigrat; fyrir því skal ek viðrleita at vinna sigr á enum fyrsta manni er guð hefir skapat, at þá megi aðrir mínir félagar hafa þau dæmi við hina er síðar koma. Því næst skrýddist hann með sjö höfuðvélum, þeim er hann vænti sér fulltings af, ein var eiturlig öfund, önnur brennandi heipt, þriðja villusamlig slægð, fjórða glyssamlig flærð, fimta drambsamlig yfirgirnd, sétta eigingjarnlig sinka, sjöunda bergisamlig lostasemi. Því næst mælti hann við sjálfan sik: Með því at ek em nú úsýniligr andi, þá má ek eigi sýniliga koma i tal við líkamligan mann, nema ek skrýði mína ljótliga ásýn

með nokkurri líkamligri fegurð. Nú mun ek gánga inn í orm þenna er guð hefir skapat mað meyligu andliti, ok líkastr er mannligri fegurð, ok mun ek tala með hans munni við Evu, konu Adams, ok vita af henni, hvárt þau eru sköpuð í fullu frelsi fyrir utan alla lagagætslu, eða hefir guð nokkut lögmál skipat þeim, svâ at ek mætti þaðan af spilla þeirra sætt við hann. Því nærst hitti sá hinn öfundarfulli andi orm þann er nú er kallaðr aspis, ok í þann tíma gekk á tveim fótum, með upprèttum líkham svâ sem maðr, ok með meyligu andliti svâ sem fyrr sögðum vèr, ok þó með draganda sporði. En þá er sá hinn illgjarni andi kom til Evu, huldr með líkham þess orms, þá neytti hann vèlar þeirrar er kölluð er glyssamlig flærð, þar er hann mælti við Evu með flærðsamligri bliðu, þá er hann kvað svâ at orði: Sæll er bóndi þinn ok svâ sjálf þú. Þetta lof veitti hann þeim eigi af gæðsku, heldr lofaði hann fyrir því þeirra sælu, at hann vildi draga þau til vesældar með heipt ok öfund. En þar neytti hann villusamligrar slægðar er hann bað Evu segja sèr, hvârt guð hefði gefit þeim Adami forræði ok neytslu, fyrir utan alla viðrsýn á öllum hlutum. En þegar er hann fèkk vísinda-svör af Evu fyrir blíðyrði sín, ok hann heyrði at þeim var dauða heitit ef þau gerðu lögbrot, þá varð hann feginn, ok neytti hann þá drambsamligrar yfirgirndar, er hann sagði þat Evu, at þau mundu í þeim hlut guði líkjast í fróðleik sínum, at vita alla grein millum góðra hluta ok illra. En þar neytti hann bergisamligrar lostasemi, er hann bað hana freysta, hversu sætt var eða vel þefjat fróðleiks epli þat, er henni var áðr bannat. En í því neytti hann eigingjarnligrar sinku, er hann kom Evu til þess at eignast þat er guð hafði áðr bannat henni, því at guð hafði gefit allt annat í vald Adams ok Evu utan þetta trè, ok girntust þau eptir at hafa þetta fyrir utan leyfi, þar sem allt annat var í þeirra vald gefit. Þessa

eina grein vissu þau millum illra hluta ok góðra, at betra var gott enn íllt, ok þau hræddust dauða þann er þeim var heitinn. En fyrir því at þau höfðu öngva beiskju illra hluta bergða, þá kunnu þau eigi þetta, hversu mikla vesöld er þau mundu þola fyrir lögbrot, heldr þókti þeim mikit upphaf í ef þau væru guði lík i fróðleik sínum, at þau vissi alla grein millim illra hluta ok góðra. En þá er ormrinn eggjaði Evu at eta af fróðleiks eplum, þá hræddist hún dauða ok mælti svâ við orminn: Ek hræðunst ef ek et, at ek mun deya, með því at guð hèt mèr því. Nú et þú fyrri svâ at ek sjái, ok ef þú deyr eigi, þá mun ek eta, þvíat þetta aldin mun jafnvel öðrum kvikindum skapat til bana sem mèr, ef þat hefir dauðligan krapt með sèr. En andinn, sá er leyndist i orminum, svaraði með sjálfum sèr, svâ at Eva heyrði eigi: Ek má vel eta eplit, þvíat ek em eigi at sekari nè dauðligri, þar sem ek em áðr i fullri reiði við guð. Því nærst tók Eva eitt eplit ok lagði í munn orminum, ok át hann þat þegar; en þá er hún sá þat at hann sakaði ekki, þá tók hún þegar annat epli ok át sjálf, ok þókti vera afarsætt, sem ormrinn hafði sagt henni. Því nærst hvarf ormrinn frá augliti Evu, en hún kallaði Adam, bónda sinn, ok sagði honum þessa hluti. En með því at Adam hræddist ok dauða, eptir því sem guð hafði heitit honum, þá vildi hann eigi eta, nema hann sæi sjálfr at Eva æti fyrri, ok tók þá Eva enn tvö epli ok át þegar annat sjálf djarfliga, þvíat hún hafði áðr kennt sættleik eplisins, ok girnti hana optar at eta, heldr enn hún skemmdist þess er hún hafði áðr gert; en þegar Adam sá þat at hana sakaði ekki, heldr kenndi listiligan sætleik úr munni hennar, þá tók hann við því epli er hún bauð honum, ok át eigi siðr enn hún. En þá er þau höfðu eplin etit, þá lukust upp augu þeirra til meira fróðleiks enn áðr höfðu þau, svâ sem ormrinn sagði, þvíat þá kunnu þau þegar at skammast naktra lima, þar sem þau

sáu fugla likhami hulda vera með fjöðrum, en dýra likhami með hári, en þau sáu sjálfra sinna likhami nakta vera, ok skömmuðust þau þess mjök, en allra mest voldi þat þessari skömm, at þau vissu sik í söknm vera við guð fyrir brotit lögmál, ok báru þau hræddan allan likham sinn ok skömmuðust naktra lima. Því næst fóru þau at fela sik millim trjá ok gáfu oss dæmi sinnar dulrænu, þvíat þau gáðu þess eigi, at guði voru svâ kunn handaverk sín ok allt smíði þat er hann hafði gjört, at eigi myndi hrís eða skógar fela þau í hans augliti, þar sem leyniligar róar helvítis fylsna eru berar ok sýniligar í hans augliti á hverri stundu.

*Brot 6. — Faðir.* Í öllum stöðum ok dómum skal gæta rèttlætis ok jafngirndar endimerkja, ok má vel segja til þess ein dæmi, ef vill. En sá var einn kóngr, er mèr sýnist helzt frá at segja í þessarri ræðu til dæma: hann var maðr ágætr ok ríkr ok vellærðr til alls mannvits ok sjálfr rèttlátr í öllum dómum, ok kom á hverjum degi mikill fjöldi þeirra mála fyrir hann er hann þurfti at dæma um annarra manna nauðsynjar, ok sat hann hvern dag lánga stund í dómsæti sínu til þess at dæma mál manna, ok þeir spekíngar með honum, er hann fann at vitrastir voru ok bezt viljaðir til slikra nauðsynja. En þá er kóngr sat á þessarri stefnu ok þeir spekíngar er hann hafði til þess nefnda með sèr, þá voru vâpnaðir riddarar fyrir utan húsit, at gæta at kóngrinn sæti þar í fullum friði. Þessi kóngr átti mjök marga syni, en þó var honum einn kærastr af þeim öllum, þvíat sá elskaði hann mest ok girntist at vera optarst nærst föðr sínum, ok var optligast allra sona kóngsins í dómsetu með honum. Þat var náttúra þessa kóngs at vera seinn í atkvæðum um dóma sína; ok ræddu þeir menn þat með sèr er skjótlyndir voru í geði sínu, at kóngr mundi skjótara lýsa dómum sínum eðr leysa mál manna, ef hann væri allvitr. Þessarri ræðu samþykktist son hans ok margir aðrir af hans spekíngum, ok svâ gjörðist þetta mál fjölræðt í þeirra munni at

kóngr sjálfr varð áskynja þessarrar ræðu. Þá gerðist svâ til eitthvert sinn, at kóngr var í þyrmslum eptir blóðlát sitt, ok kom þá mikill fjöldi á þeirri stundu, þeirra manna er mál sitt vildu kæra fyrir kóngi. Þá kallaði kóngr til sín son sinn, þann er vanr var at sitja í dómum með honum, ok mælti við hann: Kalla þú spekínga mína, þá er vanir eru at sitja í dómum með mèr, ok gángit í dómhús mitt, ok setzt þú í sæti mitt í dag, ok leysit mál manna svâ margra, sem flestra getit þèr leyst. Þat var gert sem kóngr bauð. En er þau mál voru framborin fyrir þeim, þá sýndist þeim svâ sem þeir mundu skjótliga fá leyst þau öll; en þá er kóngs son var búinn fram at segja lausnir þeirra manna mála er þá voru uppborin fyrir hann, þá sýndust honum þar fram gánga þrír úngir menn, fríðir at ásýn ok þó ógrligir; tveir settust niðr fyrir fætr honum, á sína hönd hverr. Annar þeirra hafði með at fara mörg brèf, ok var á þeim brèfum skráð öll mál, þau er sætt skyldu vera á þeim degi, ok þó ein sök á hverju brèfi; en annar þeirra hafði skálir með at fara, þær sýndust honum svâ vægar, at ef hár lítit væri lagt í, þá mundu þær eptir láta. Sá hèlt upp skálunum, er þær hafði; en sá er brèfit hafði, þá lagði hann í aðra skál þau brèf er voru af hendi sakar ábera, en í aðra skál þau brèf sem voru af hendi þess er svara skyldi, ok sýndist honum sem skálirnar mætti aldrei jafnvægar vera. Því nærst sýndist honum sem þau brèf kæmi fram sem úrlausnir voru áritaðar ok ákveðnir dómar, eptir því sem hann ætlaði upp at segja, ok allir spekíngar lögðu ráð til, ok þá er þau brèf voru lögð í skálirnar, þá máttu þær aldrei jafnvægar verða, þá heldr enn áðr. En þá er kóngs son sá þessa hluti, þá hugði hann at, hvat sá hinn þriði úngi maðr gjörði, ok sá hann at hann stóð þar nærri honum með brugðnu sverði ok búinn við at höggva, þat sverð var snarpeggjat ok svâ ógrligt, at honum þókti eldr brenna úr báðum eggjum: þat sá hann víst, ef hann lyki upp dómum fyrr enn skálirnar voru jafnvægar, at

sverð þessa únga manns kæmi þegar á háls honum. Þá varð honum litit niðr undir fætr sèr, ok sá hann þar opnaða jörðina niðr í gegnum: hann sá þar helvíti brennanda undir með gapanda munni, svâ sem væntandi at hann mundi þar koma. En þegar kóngs son sá alla þessa hluti, þá dvaldist ræða hans ok upplokning dómanna, en þá er spekingar hans vöktu til þessa máls, at dómarnir skyldu vera uppsagðir, kallaði hann þá til sín, en hverr sá er til hans kom, þá sá hann þessa hluti alla sem nú höfum vèr frá sagt, ok treystist eingi þeirra síðan upp at segja dómana, þvíat skálir hins únga manns urðu aldrei jafnvægar, ok varð engum málum lokit á þeim degi, ok undraði eingi þeirra síðan, þó kóngr væri seinn í uppsögu dómanna.

---

# ÖNNUR DEILD,

TEKIN ÚR

# EDDU OK ÖDRUM SKÁLDMÆLUM.

# Brot af Snorra Eddu.

*Brot 1.* — Þat er upphaf þessar sögu, at Baldr enn góða dreymdi drauma stóra ok hættliga um líf sitt. En er hann sagði Ásunum draumana, þá báru þeir saman ráð sín, ok var þat gert at beiða griða Baldri fyrir allskonar háska, ok Frigg tók svardaga til þess at eyra skyldu Baldri eldr ok vatn, járn ok allskonar málmr, steinar, jörðin, viðirnir, sóttirnar, dýrin, fuglarnir, eitr, ormar. En er þetta var gert ok vitat, þá var þat skemtun Baldrs ok Ásanna at hann skyldi standa upp á þingum, en allir aðrir skyldu sumir skjóta á hann, sumir höggva til, sumir berja grjóti; en hvat sem at var gert sakaði hann ekki, ok þótti þetta öllum mikill frami. En er þetta sá Loki Laufeyarson, þá líkaði honum illa er Baldr sakaði ekki: hann gekk til Fensalar til Friggjar ok brá sèr í konu líki; þá spyrr Frigg, ef sú kona vissi hvat Æsir höfðust at á þinginu; hún sagði at allir skutu at Baldri, ok þat at hann sakaði ekki. Þá mælti Frigg: Eigi munu vâpn eða viðir granda Baldri: eiða hefi ek þegit af öllum þeim. Þá spyrr konan: Hafa allir hlutir eiða unnit at eyra Baldri? Þá svarar Frigg: Vex viðar-teinúngr einn fyrir austan Valhöll, sá er Mistilteinn kallaðr, sá þótti mèr úngr at krefja eiðsins.

Því næst hvarf konan á braut, en Loki tók Mistiltein, sleit upp ok gekk til þings. En Höðr stóð utarliga í mannhríng-inum, þvíat hann var blindr, þá mælti Loki við hann: Hví skýtr þú ekki at Baldri? Hann svarar: Þvíat ek sè ei hvar Baldr er, ok þat annat at ek em vâpnlauss. Þá mælti Loki: Gerðu þó i liking annarra manna, ok veit Baldri sæmd sem aðrir menn; ek mun vísa þèr til hvar hann stendr, skjót at honum vendi þessum. Höðr tók Mistilteininn ok skaut at Baldri at tilvisun Loka: flaug skotit igegnum hann, ok fèll hann dauðr til jarðar, ok hefir þat mest óhapp verit unnit með goðum ok mönnum. Þá er Baldr var fallinn þá fèllust öllum Ásum orðtök, ok svâ hendr at taka til hans, ok sá hverr til annars, ok voru allir með einum hug til þess er unnit hafði verkit, en engi mátti hefna, þar var svâ mikill griðastaðr. En þá er Æsirnir freistuðu at mæla, þá var hit þó fyrr at grátrinn kom upp, svâ at engi mátti öðrum segja með orð-unum frá sínum harmi; en Óðinn har þeim mun verst þenna skaða sem hann kunni mesta skyn, hversu mikil aftaka ok missa Ásunum var í fráfalli Baldrs. En er goðin vitkuðust, þá mælti Frigg ok spurði, hverr sá væri með Ásum er eignast vildi allar ástir hennar ok hylli, ok vili hann ríða á helveg ok freista ef hann fái fundit Baldr, ok bjóða Helju útlausn ef hún vill láta fara Baldr heim í Ásgarð. En sá er nefndr Hermóðr enn hvati, sveinn Óðins, er til þeirrar farar varð, þá var tekinn Sleipnir, hestr Óðins, ok leiddr fram, ok steig Hermóðr á þann hest ok hleypti braut.

En Æsirnir tóku lík Baldrs ok fluttu til sævar. Hríng-horni hèt skip Baldrs, hann var allra skipa mestr, hann vildu goðin framsetja ok gera þar á bálför Baldrs, en skipit gekk hvergi fram. Þá var sent í Jötunheima eptir gýgi þeirri er Hyrrokkin hèt; en er hún kom ok reið vargi ok hafði höggorm at taumum, þá hljóp hún af hestinum, en Óðinn kallaði til berserki fjóra at gæta hestsins, ok fengu þeir ei haldit nema þeir feldi hann. Þá gekk Hyrrokkin á

framstafn nökkvans ok hratt fram í fyrsta viðbragði, svâ at eldr hraut úr hlunnunum ok lönd öll skulfu: þá var þórr reiðr ok greip hamarinn ok mundi þá brjóta höfuð hennar, áðr enn goðin öll báðu henni friðar. þá var borit út á skipit lik Baldrs, ok er þat sá kona hans, Nanna Neps dóttir, þá sprakk hún af harmi ok dó: var hún borin á bálit, ok slegit í eldi. þá stóð þórr at ok vígði bálit með Mjölni, en fyrir fótum hans rann dvergr nokkurr, sá er Litr nefndr, en þórr spyrndi fæti sínum á hann ok hratt honum í eldinn, ok brann hann. En þessa brennu sótti margskonar þjóð: fyrst at segja frá Óðni, at með honum fór Frigg ok valkyrjur ok hrafnar hans, en Freyr ók i kerru með gelti þeim er Gullinbursti heitir eða Slíðrugtanni, en Heimdallr reið hesti þeim er Gulltoppr heitir, en Freya köttum sínum, þar kemr ok mikit fólk Hrímþursa ok Bergrisar. Óðinn lagði á bálit gullhríng þann er Draupnir heitir, honum fylgði síðan sú náttúra, at hina níunda hverja nótt drupu af honum átta gullhringar jafnhöfgir. Hestr Baldrs var leiddr á bálit með öllu reiði.

En þat er at segja frá Hermóði at hann reið níu nætr dökkva dala ok djúpa, svâ at hann sá ekki fyrr enn hann kom til árinnar Gjallar ok reið á Gjallar-brúna; hún er þökkt lýsigulli. Móðguðr er nefnd mær sú er gætir brúarinnar, hún spurði hann at nafn eða ætt, ok sagði at hinn fyrra dag riðu um brúna fim fylki dauðra manna: en eigi dynr brúin minnr undir einum þér, ok ei hefir þú lit dauðra manna; hví ríðr þú hér á helveg? Hann svarar: At ek skal ríða til Heljar at leita Baldrs, eða hvârt hefir þú nokkut sét Baldr á helvegi? en hún sagði at Baldr hafði þar riðit um Gjallar-brú: en niðr ok norðr liggr helvegr. þá reið Hermóðr þar til er hann kom at helgrinðum, þá stè hann af hestinum ok gyrði hann fast, steig upp ok keyrði hann sporum, en hestrinn hljóp svâ hart yfir grindina, at hann kom hvergi nær. þá

reið Hermóðr heim til hallarinnar ok steig af hesti, gekk inn í höllina, sá þar sitja í öndugi Baldr, bróður sinn, ok dvaldist Hermóðr þar um nóttina. En at morni þá heiddist Hermóðr af Helju, at Baldr skyldi ríða heim með honum, ok sagði hversu mikill grátr var með Ásum. En Hel sagði, at þat skyldi svâ reyna, hvârt Baldr var svâ ástsæll sem sagt er: ok ef allir hlutir í heiminum, kykvir ok dauðir, gráta hann, þá skal hann fara til Ása aptr, en haldast með Helju ef nokkurr mælir við eða vill ei gráta. Þá stóð Hermóðr upp, en Baldr leiðir hann út úr höllinni, ok tók hrínginn Draupni ok sendi Óðni til minja, en Nanna sendi Frigg ripti ok enn fleiri gjafar, Fullu fingrgull. Þá reið Hermóðr aptr leið sina, ok kom í Ásgarð ok sagði öll tíðindi, þau er hann hafði sèt ok heyrt.

Því næst sendu Æsir um allan heim erindreka, at biðja at Baldr væri grátinn úr helju; allir gerðu þat, mennirnir ok kykvinðin ok jörðin ok steinarnir ok trè ok allr málmr, svâ sem þú munt sèt hafa at þessir hlutir gráta, þá er þeir koma úr frosti ok í hita. Þá er sendimenn fóru heim ok höfðu vel rekit sín eyrindi, finna þeir í helli nokkurum hvar gýgr sat, hún nefndist Þökk, þeir biðja hana gráta Baldr úr helju, hún svarar:

Þökk mun gráta
þurrum tárum
Baldrs hálfarar:
kyks nè dauðs nautka ek
karls sonar.
Haldi Hel því er hefir!

En þess geta menn at þar hafi verit Loki Laufeyarson, er flest hefir íllt gert með Ásum.

Þá mælti Gángleri: Allmiklu kom Loki á leið, er hann olli fyrst því er Baldr var veginn, ok svâ því er hann varð ei leystr frá helju, eða hvârt varð honum þessa nokkut hefnt? Hár svarar: Goldit var honum þetta svâ at hann

mun lengi kennast. Þá er goðin voru orðin honum svâ reið sem von var, hljóp hann á braut ok fal sik i fjalli nokkuru, gerði þar hús ok fjögur dyr, at hann mátti sjá úr húsinu i allar áttir. En opt um daga brá hann sèr í laxlíki ok falst þá þar sem heitir Franángrs fors, þá hugsaði hann fyrir sèr, hverja vèl Æsir mundu tilfinna at taka hann i forsinum; en er hann sat i húsinu tók hann lín ok garn ok reið á möskva, svâ sem net er síðan, en eldr brann fyrir honum. Þá sá hann at Æsir áttu skammt til hans, ok hafði Óðinn sèt úr Hliðskjálfinni hvar hann var: hann hljóp þegar upp ok út í ána ok kastaði netinu fram á eldinn. En er Æsir koma til hússins, þá gekk sá fyrst inn er allra var vitrastr, er Kvásir heitir, ok er hann sá á eldinum fölskann er netit hafði hrunnit, þá skildi hann at þat mundi vèl vera til at taka fiska, ok sagði Ásunum. Því næst tóku þeir ok gerðu sèr net, eptir því sem þeir sá á fölska at Loki hafði gert, ok er búit var netit, þá fara Æsir til árinnar ok kasta neti í forsinn: hèlt Þórr enda öðrum, ok öðrum hèldu allir Æsir ok drógu netit. En Loki fór fyrir ok leggst niðr i milli steina tveggja, drógu þeir netit yfir hann ok kendu at kykt var fyrir. Ok fara í annat sinn upp til forsins ok kasta út netinu, ok binda við svâ þúngt at ei skyli undir mega fara: ferr þá Loki fyrir netinu, en er hann sèr at skamt var til sævar, þá hleypr hann upp yfir þenulinn ok rennir upp i forsinn. Nú sá Æsirnir hvar hann fór; fara enn upp til forsins ok skipta liðinu i tvâ staði, en Þórr veðr þá eptir miðri ánni, ok fara svâ til sævar. En er Loki sèr tvâ kosti: var þat lífsháski at hlaupa á sæinn, en hit var annar at hlaupa enn yfir netit, ok þat gerði hann: hljóp sem snarast yfir netþenulinn. Þórr greip eptir honum ok tók um hann, ok rendi hann í hendi honum svâ at staðar nam höndin við sporðinn, ok er fyrir þá sök laxinn aptrmjór. Nú var Loki tekinn griðalauss, ok farit með hann i helli nokkurn: þá tóku þeir þrjár hellur ok settu á egg ok lustu rauf á hellunni hverri. Þá voru teknir synir

Loka, Vali ok Nari eða Narfi: brugðu Æsir Vala í vargs líki, ok reif hann Narfa, bróður sinn, þá tóku Æsir þarma hans ok bundu Loka með yfir þá þrjá steina, einn undir herðum, annar undir lendum, þriði undir knésbótum, ok urðu þau bönd at járni. Þá tók Skaði eitrorm ok festi upp yfir hann, svâ at eitrit skyldi drjúpa úr orminum í andlit honum; en Sigyn, kona hans, stendr hjá honum ok heldr mundlaugu undir eitrdropa; en þá er full er mundlaugin, þá gengr hún ok slær út eitrinu, en meðan drýpr eitrit í andlit honum, þá kippist hann svâ hart við at jörð öll skelfr, þat kallit þér landskjálfta. Þar liggr hann í böndum til ragnarökkurs.

Þá mælti Gángleri: Hver tíðindi eru at segja frá um ragnarökkr? Þess hefi ek eigi fyrr heyrt getit. Hár svarar: Mikil tíðindi eru þaðan at segja ok mörg: þau en fyrstu at vetr sá kemr er kallaðr er fimbulvetr, þá drífr snær úr öllum ættum, frost eru þá mikil ok vindar hvassir, ekki nýtr sólar: þeir vetr fara þrír saman ok ekki sumar milli; en áðr gánga svâ aðrir þrír vetr, at þá eru um alla veröld orustur miklar, þá drepast bræðr fyrir ágirni sakar, ok engi þyrmir föðr eða syni í manndrápum ok sifjasliti. Svâ segir í Völuspá:

Bræðr munu berjast
ok at bönum verðast,
munu systr úngar
sifjum spilla:
hart er með höldum,
hórdómr mikill,
skeggöld, skálmöld,
skildir klofnir,
vindöld, vargöld,
áðr veröld steypist.

Þá verðr þat er mikil tíðindi þikkja, at úlfrinn gleypir sólina, ok þikkir mönnum þat mikit mein, þá tekr annar úlfrinn túnglit, ok gerir sá ok mikit úgagn, stjörnurnar

hverfa af himninum. Þá er ok þat til tíðinda at svâ skelfr jörð öll ok björg, at viðir losna úr jörðu upp, en björgin hrynja, en fjötrar allir ok bönd brotna ok slitna: þá verðr Fenris-úlfr lauss, þá geysist hafit á löndin fyrir því at þá snýst Miðgarðs-ormr í jötunmóð ok sækir upp á landit, þá verðr ok þat at Naglfar losnar, skip þat er svâ heitir, þat er gert af nöglum dauðra manna; ok er þat fyrir því varnanar vert, ef maðr deyr með óskornum nöglum, at sá maðr eykr mikit efni til skipsins Naglfars, er goðin ok menn vildi seint at gert yrði; en í þessum sævargáng flýtr Naglfar. Hrymr heitir jötun er stýrir Naglfara; Fenris-úlfr ferr með gapanda munn, ok er hinn efri kjöptr við himni, en hinn neðri við jörðu: gapa mundi hann meira ef rúm væri til, eldar brenna úr augum hans ok nösum. Midgarðs-ormr blæss svâ eitrinu at hann dreifir lopt öll ok lög, ok er hann allógrligr ok er hann á aðra hlið úlfinum. Í þessum gný klofnar himininn, ok ríða þaðan Muspells synir: Surtr ríðr fyrst, ok fyrir honum ok eptir bæði eldr brennandi, sverð hans er gott mjök, af því skínn bjartara enn af sólu, en er þeir ríða Bifiöst, þá brotnar hún, sem fyrr er sagt. Muspells megir sækja fram á þingvöll er Vigriðr heitir, þar kemr ok þá Fenris-úlfr ok Miðgarðs-ormr, þar er ok þá Loki kominn ok Hrymr ok með honum allir Hrímþursar, en Loka fylgja allir Heljar sinnar, en Muspells synir hafa einir sèr fylking, er sú björt mjök. Völlrinn Vígriðr er hundrað rasta víðr á hvern veg.

En er þessi tíðindi verða, þá stendr upp Heimdallr ok blæss ákaflaga í Gjallarhorn ok vekr upp öll goðin ok eiga þau þing saman. Þá ríðr Óðinn til Mimis brunns ok tekr ráð af Mimi fyrir sèr ok sínu liði, þá skelfr askr Yggdrasils, ok engi hlutr er þá óttalauss á himni eða jörðu. Æsir herväða sik ok allir einherjar ok sækja fram á völluna: ríðr fyrstr Óðinn með gullhjálm ok fagra brynju ok geir sinn er Gúngnir heitir, stefnir hann móti Fenris-úlf, en Þórr fram

á aðra hlið honum, ok má hann eigi duga honum, þvíat hann hefir fullt fáng at berjast við Miðgarðs-orm. Freyr berst móti Surti, ok verðr harðr samgángr áðr Freyr fellr, þat verðr hans bani er hann missir þess hins góða sverðs, er hann gaf Skirni. Þá er ok lauss orðinn bundrinn Garmr, er bundinn er fyrir Gnípahelli, hann er hit mesta forað, hann á víg móti Tý, ok verðr hvârr öðrum at skaða. Þórr berr banaorð af Miðgarðs-ormi ok stígr þaðan braut níu fet, þá fellr hann dauðr til jarðar fyrir eitri því er orminn blæss á hann. Úlfrinn gleypir Óðin, verðr þat hans bani, en þegar eptir snýst fram Víðar ok stígr öðrum fæti í neðra keypt úlfsins, á þeim fæti hefir hann þann skó er allan aldr hefir verit til samnat, þat eru bjórar, þeir er menn sníða úr skóm sínum fyrir tám eða hæl, því skal þeim bjórum brautkasta sá maðr er at því vill hyggja at koma Ásunum at liði; annarri hendi tekr hann enn efra keypt úlfsins ok rífr sundr gin hans, ok verðr þat úlfsins bani. Loki á orustu við Heimdall, ok verðr hvârr annars bani. Því næst slýngr Surtr eldi yfir jörðina ok brennr allan heim. Hèr segir svâ:

Vígriðr heitir völlr
er finnast vígi at
Surtr ok en svasu goð:
hundrað rasta
hann er á hverjan veg,
sá er þeim völlr vitaðr.

Þá mælti Gángleri: Hvat verðr þá eptir er brendr er himin ok jörð ok heimr allr, ok dauð goðin öll ok allir einherjar ok allt mannfólk? ok hafit þèr áðr sagt at hverr maðr skal lifa í nokkurum heimi um allar aldir. Þá svarar Hár: Margar eru þá vistir góðar ok margar illar: bazt er þá at vera á Gimli á himni; ok allgott er til góðs drykkjar, þeim er þat þikkir gaman, í þeim sal er Brimir heitir, hann stendr ok á himni; sá er ok góðr salr er stendr á Niðafjöllum, gjör

af rauðu gulli, sá heitir Sindri: í þessum sölum skulu byggja góðir menn ok siðlátir. Á náströndum er mikill salr ok illr, ok horfa norðr dyr, hann er ok ofinn allr ormahryggjum, en ormahöfuð öll vitu inn í húsit ok blása eitri, svâ at eptir salnum renna eitrár, ok vaða þær ár eiðrofar ok morðvargar. En í Hvergelmi er verst:

Þar kvelr Niðhöggr
nái framgengna.

Þá mælti Gángleri: Hvârt lifa nokkur goðin þá, eða er þá nokkur jörð eða himin? Hár svarar: Upp skýtr jörðunni þá úr sænum, ok er þá græn ok fögr, vaxa þá akrar ósánir. Viðarr ok Vali lifa, svâ at eigi hefir særin ok Surtalogi grandat þeim, ok byggja þeir á Íðavelli þar sem fyrr var Ásgarðr; ok þar koma þá synir Þórs, Móði ok Magni, ok hafa þar Mjölni. Því næst koma þeir Baldr ok Höðr frá Heljar, setjast þá allir samt ok talast við ok minnast á rúnar sinar ok ræða of tiðindi þau er fyrrum höfðu verit ok Miðgarðs-orm ok um Fenris-úlf; þá finna þeir í grasinu gulltöflur þær, er Æsirnir höfðu átt. En þar sem heitir Hoddmimis holt leynast menn tveir í Surta-loga er svâ heita: Líf ok Leifþrasir, ok hafa morgindöggvar fyrir mat; en af þessum mönnum kemr svâ mikil kynslóð at byggvist heimr allr, svâ sem hèr segir:

Líf ok Leifþrasir,
en þau leynast munu
í holti Hoddmimis;
morgindöggvar
þau er at mat hafa,
en þaðan af aldir alast.

Ok hit mun þèr undarligt þykkja, er sólin hefir getit dóttur eigi ófegri enn hún er, ok ferr sú þá stigu móður sinnar, sem hèr segir:

Eina dóttur
berr Álfröðull

áðr hana Fenrir fari,
sú skal ríða,
er regin deya,
móður brautir mær.

En nú ef þú kannt lengra fram at spyrja, þá veit ek ei hvaðan þèr kemr þat, fyrir því at öngan mann heyrða ek lengra segja fram aldarfarit, ok njóttu nú sem þú namt!

Því næst heyrði Gángleri dyni mikla hvern veg frá sèr ok leit út á hlið sèr, ok þá er hann sèst meir um, þá stendr hann úti á slèttum velli, sèr þá önga höll ok önga borg: gengr hann þá leið sína braut, ok kemr heim í ríki sitt, ok segir þau tíðindi er hann hefir sèt ok heyrt, ok eptir honum sagði hverr maðr öðrum þessar sögur.

*Brot 2.* Skjöldr hèt sonr Óðins, er Skjöldúngar eru frá komnir, hann hafði atsetu ok rèð löndum þar sem nú er kölluð Danmörk, en þá var kallat Gotland. Skjöldr átti þann son er Friðleifr hèt er löndum rèð eptir hann. Sonr Friðleifs hèt Fróði, hann tók konúngdóm eptir föðr sinn í þann tíð er Augústus keisari lagði frið of heim allan: þá var Kristr borinn; en fyrir því at Fróði var allra konúnga ríkastr á norðrlöndum, þá var honum kendr friðrinn um alla danska túngu, ok kalla norðmenn þat Fróða frið. Engi maðr grandaði öðrum þótt hann hitti fyrir sèr föðrbana eða bróðrbana lausan eða bundinn, þá var ok engi þjófr eða ránsmaðr, svâ at gullhríngr einn lá á Jalángrs heiði lengi. Fróði konúngr sótti heimboð í Svíþjóð til þess konúngs er Fjölnir er nefndr, þá keypti hann ambáttir tvær er hètu Fenja ok Menja, þær voru miklar ok sterkar. Í þann tíma fannst í Danmörk kvernsteinar tveir svâ miklir, at engi var svâ sterkr at dregit gæti, en sú náttúra fylgði kvernunum, at þat mólst á kverninni sem sá mælti fyrir er mól; sú kvern hèt Grótti; Hengikjaptr er sá nefndr er Fróða konúngi gaf kvernina. Fróði konúngr lèt leiða ambáttirnar til kvernarinnar ok bað þær mala gull ok frið ok sælu Fróða, þá gaf

hann þeim ei lengri hvíld eða svefn enn gaukrinn þagði eða ljóð mátti kveða. Þá er sagt at þær kvæði ljóð þau er kallat er Grótta-saungr, ok áðr lètti kvæðinu mólu þær her at Fróða, svâ at á þeirri nótt kom þar sá sækonúngr er Mýsíngr hèt ok drap Fróða, tók þar herfáng mikit; þá lagðist Fróða friðr. Mýsingr hafði með sèr Grótta ok svâ Fenju ok Menju, ok bað þær mala salt, ok at miðri nótt spurðu þær ef ei leiddist Mýsíngi salt, hann bað þær mala lengr: þær mólu litla hríð áðr niðr sukku skipin ok var þar eptir svelgr i hafinu er særinn fellr i kvernar augat, þá var sær saltr.

Nú eru komnar
til konúngs húsa
framvísar tvær,
Fenja ok Menja:
þær eru at Fróða,
Friðleifs sonar,
máttkar meyar
at mani hafðar.

Þær at lúðri
leiddar voru,
ok grjóts grjá
gángs of beiddu;
hèt hann hvârigri
hvíld nè yndi,
áðr hann heyrði
hljóm ambátta.

Þær þyt þulu
þögn-horvinnar
leggjum lúðra,
lèttum steinum,
bað hann enn meyar
at þær mala skyldu.

Súngu ok slúugu
snúðga steini,
svâ at Fróða man
flest sofnaði;
þá kvað þat Menja,
var til melds komin:

Auð mölum Fróða,
mölum alsælan,
fjöld fjár
á fegins lúðri.
Siti hann á auði,
sofi hann á dúni,
vaki hann at vilja,
þá er vel malit!

Hèr skyli engi
öðrum granda,
til böls búa
nè til bana orka,
nè höggva því
hvössu sverði,
þó at bana bróðr
bundinn finni!

(En hann kvað ekki
orð it fyrra:
Sofit ei þit
nè of sal gaukar,
eða lengr enn svâ
ljóð eitt kveða'k).

Varattu, Fróði,
fullspakr of þik,
málvinr manna,
er þú man keyptir;
kauss þú at afli
ok at álitum,
en at ætterni
ekki spurðir.

Harðr var Hrúngnir
ok hans faðir,
þó var þjassi
þeim öflgari,
Íði ok Örnir,
okkrir niðjar,
bræðr bergrisa,
þeim erum bornar.

Komi-a Grótti
úr grjá fjalli,
nè sá hinn harði
hallr úr jörðu,
nè móli svâ
mær bergrisa,
ef vissi átt
vætr til hennar.

Vær vetr níu
vorum leikur,
öflgar alnar
fyrir jörð neðan:
stóðu meyar
at meginverkum,
færðum sjálfar
setberg úr stað.

Veltum grjóti
of garð risa,
svâ at fold fyrir
fór skjálfandi:
svâ slöngðum vit
snúðga steini,
höfga halli,
at halir tóku.

En vit síðan
á Svíþjóðu,
framvísar tvær,
í fólk stigum:
bræddum björnu,
en brutum skjöldu,
gengum ígegnum
gráserkjat lið,
steyptum stilli,
studdum annan,
veittum góðum
Gothormi lið,
vara kyrrseta
áðr knúi fèlli.

Fram hèldum því
þau misseri,
at vit at köppum
kendar voru,

þar skorðu vit
skörpum geirum
blóð úr benjum,
ok brand ruðum.

Nú erum komnar
til konúngs húsa,
miskunnlausar
ok at mani hafðar:
aurr etr iljar,
en ofan kuldi,
drögum dólgs sjötul,
daprt er at Fróða.

Hendr skulu hvílast,
hallr standa mun,
malit hefi ek fyrir mik
mitt of leiti.
Nú muna höndum
hvíld vel gefa
áðr fullmalit
Fróða þykki.

Hendr skulu halda
harðar trjónur,
vápn val-dreyrug:
vaki þú Fróði!
vaki þú Fróði,
ef þú hlýða vilt
söngum okkrum
ok sögum fornum.

Eld sè ek brenna
fyrir austan borg,
vígspjöll vaka,
þat mun viti kallaðr:
mun herr koma,
hinig at bragði,
ok brenna bæ
fyrir buðlúngi.

Munattu halda
Hleiðrar stóli,
rauðum hríngum
nè regingrjóti.
Tökum á möndli
mær skarpara:
eruma vafnar
í val-dreyra!

Mól míns föður
mær ramliga;
því at hún feigð fira
fjölmargra sá:
stukku stórar
steðr frá lúðri
í Arnarfjörð.
Mölum enn framar!

Mölum enn framar:
mun Yrsu sonr,
niðr Hálfdanar,
hefna Fróða:
sá mun hennar
heitinn verða
burr ok bróðir,
vitum báðar þat.

Mólu meyar,
megins kostuðu,
voru úngar
í jötun-móði;

skulfu skapttrè,
skautst lúðr ofan,
hrautt hinn höfgi
hallr sundr í tvö.
En bergrisa
brúðr orð um kvað:
Malit höfum Fróði,
senn munum hætta,
hafa fullstaðit
fljóð at meldri!

*Brot 3.* — Konúngr einn í Danmörk er nefndr Hrólfr Kraki, hann er ágætastr fornkonúnga, fyrst af mildi ok fræknleik ok litillæti. Þat er eitt mark um lítillæti hans er mjök er fært í frásagnir, at einn litill sveinn ok fátækr er nefndr Vöggr, hann kom í höll Hrólfs konúngs, þá var konúngrinn úngr at aldri ok grannligr á vöxt; þá gekk Vöggr fyrir hann ok sá upp á hann. Þá mælti konúngrinn: Hvat viltu mæla sveinn, er þú sèr á mik? Vöggr svarar: Þá er ek var heima, heyrðak sagt at Hrólfr konúngr at Hleiðru var mestr maðr á norðrlöndum, en nú sitr hèr í hásæti kraki einn litill, ok kalla þeir hann konúng sinn. Þá svarar konúngrinn: Þú sveinn hefir gefit mèr nafn, at ek skal heita Hrólfr Kraki, en þat er títt at gjöf skal fylgja nafnfesti: nú sè ek þik önga gjöf hafa til at gefa mèr at nafnfesti, þá er mèr sè þægilig, nú skal sá gefa öðrum er til hefir! tók gullhríng af hendi sèr ok gaf honum. Þá mælti Vöggr: Gef þú allra konúnga heilastr, ok þess strengi ek heit at verða þess manns bani er þinn banamaðr verðr. Þá mælti konúngr ok hló við: Litlu verðr Vöggr feginn.

Annat mark var þat sagt frá Hrólfi Kraka um fræknleik hans, at sá konúngr rèð fyrir Uppsölum er Aðils hèt, hann átti Yrsu, móður Hrólfs Kraka. Hann hafði úsætt við þann konúng er rèð fyrir Noregi, er Ali hèt: þeir stefndu orustu milli sín á ísi vats þess er Væni heitir. Aðils konúngr sendi boð Hrólfi Kraka, mági sínum, at hann kvæmi til liðveitslu við hann, ok hèt mála öllum her hans meðan þeir væri í ferðinni, en konúngr sjálfr skyldi eignast þrjá kostgripi, þá er hann kaus, úr Svíþjóð. Hrólfr konúngr

mátti ei fara fyrir úfriði, þeim er hann átti við Saxa, en þó sendi hann Aðilsi berserki sina tólf, þar var einn Böðvar Bjarki okHjalti hugprúði,Hvítserkr hvati, Vöttr, Viðseti, þeir bræðr Svipdagr ok Beiguðr. Í þeirri orustu fèll Ali konúngr ok mikill hluti liðs hans; þá tók Aðils konúngr af honum dauðum hjálminn Hildisvín ok hest hans Hrafn. Þá beiddust þeir berserkir Hrólfs Kraka at taka mála sinn, þrjú pund gulls hverr þeirra, ok umfram beiddust þeir at flytja Hrólfi Kraka kostgripi, þá er þeir kuru til handa honum: þat var hjálmrinn Hildigöltr ok brynjan Finnsleif er hvergi festi vâpn á, ok gullhringr sá er kallaðr var Svíagrís, er átt höfðu lángfeðgar Aðils. En konúngr varnaði allra gripanna, ok ei heldr galt hann málann: fóru herserkirnir hraut ok undu illa sinum hlut; sögðu svâ búit Hrólfi Kraka, ok jafnskjótt byrjaði hann ferð sína til Uppsala ok með honum tólf herserkir hans, allir griðalausir. Yrsa, móðir hans, fagnaði honum ok fylgði honum til herbergis ok ei til konúngs hallar, voru þá gervir eldar stórir fyrir þeim ok gefit öl at drekka. Þá komu menn Aðils konúngs inn ok báru skiðin á eldinn ok gerðu svâ mikinn at klæði brunnu af þeim Hrólfi, ok mæltu: Er þat satt at Hrólfr Kraki ok berserkir hans flýa hvârki eld nè járn? Þá hljóp Hrólfr Kraki upp ok allir þeir, þá mælti hann:

Aukum enn elda
at Aðils húsum!

tók skjöld sinn ok kastaði á eldinn ok hljóp yfir eldinn meðan skjöldrinn brann, ok mælti enn:

Flýra sá eld
er yfir hleypr!

Svâ fór hverr at öðrum hans manna, tóku þá er eldinn höfðu aukit, ok köstuðu þeim á eldinn. Þá kom Yrsa ok fèkk Hrólfi Kraka dýrshorn fullt af gulli ok þar með hringinn Svíagrís ok bað þá braut ríða til liðsins: þeir hljópu á

hesta sína ok riðu ofan á Fýrisvöllu; þá sá þeir at Aðils konúngr reið eptir þeim með her sinn alvâpnaðan, ok vill drepa þá. Þá tók Hrólfr Kraki hægri hendi gullit ofan í hornit ok söri allt um götuna, en er Svíar sjá þat hlaupa þeir úr söðlunum, ok tók hverr slíkt er fékk, en Aðils konúngr bað þá ríða, ok reið sjálfr ákafliga, Slúngnir hét hestr hans, allra hesta skjótastr. Þá sá Hrólfr Kraki at Aðils konúngr reið nær honum, tók hann þá hrínginn Svíagrís ok kastaði til hans ok bað hann þiggja at gjöf. Aðils konúngr reið at hrínginum ok tók til með spjóts oddinum ok rendi upp á falinn. Þá veik Hrólfr Kraki aptr ok sá er hann laut niðr, þá mælti hann: Svínbeygt hefi ek nú þann er ríkastr er með Svíum; svâ skildust þeir. Af þessi sök er gull kallat sáð Kraka eða Fýrisvalla.

*Brot 4.* Konúngr sá er Högni er nefndr, átti dóttur er Hildr hét, hana tók at herfángi konúngr sá er Héðinn hét, Hjarranda son, þá var Högni konúngr farinn í konúnga stefnu; en er hann spurði at herjat var í ríki hans, ok dóttir hans var í braut tekin, þá fór hann með sínu liði at leita Héðins, ok spurði til hans at Héðinn hafði siglt norðr með landi. Þá er Högni konúngr kom í Noreg, spurði hann at Héðinn hafði siglt vestr of haf, þá siglir Högni eptir honum allt til Orkneya, ok er hann kom þar sem heitir Háey var þar fyrir Héðinn með lið sitt. Þá fór Hildr á fund föður síns ok bauð honum men í sætt af hendi Héðins, en í öðru orði sagði hún at Héðinn væri búinn at berjast, ok ætti Högni af honum öngrar vægðar vân. Högni svarar stirt dóttur sinni, en er hún hitti Héðin, sagði hún honum at Högni vildi önga sætt, ok bað hann búast til orustu, ok svâ gera þeir hvârirtveggju, gánga upp á eyna ok fylkja liðinu: þá kallar Héðinn á Högna, mág sinn, ok bauð honum sætt ok mikit gull at bótum. Þá svarar Högni: Ofsíð bauðtu þetta, ef þú vilt sættast, þvíat nú hefi ek dregit Dáinsleif er dvergarnir gerðu, er manns

bani skal verða hvert sinn er bert er, ok aldri bilar í höggi, ok ekki sár grær ef þar skeinist af. Þá svarar Hèðinn: Sverði hælir þú þar, en ei sigri; þat kalla ek gott hvert er drottinholt er. Þá hófu þeir orustu þá er Hjaðningavíg er kallat, ok börðust þann dag allan, ok at kveldi fóru konúngar til skipa. En Hildr gekk of nóttina til valsins ok vakti upp með fjölkýngi alla þá er dauðir voru; ok annan dag gengu konúngarnir á vígvöllinn ok börðust, ok svâ allir þeir er fèllu hinn fyrra daginn: fór svâ sú orusta hvern dag eptir annan, at allir þeir er fèllu ok öll vâpn, þau er lágu á vígvelli, ok svâ hlífar urðu at grjóti; en er dagaði stóðu upp allir dauðir menn ok börðust, ok öll vâpn voru þá nýt. Svâ er sagt í kvæðum at Hjaðningar skulu svâ bíða ragnarökkurs.

---

# Völu-Spá.

1. Hljóðs bið ek allar
helgar kindir,
meiri ok minni,
mögu Heimdallar:
vilda 'k Valföður
vèl framtelja,
fornspjöll fira,
þau ek fremst of-nam.

2. Ek man jötna
ár of borna,
þá er forðum
mik frædda höfðu;
níu man ek heima,
níu íviði,
mjötvið mæran
fyrir mold neðan.

3. Ár var alda
þá er Ymir bygði,
-var-a sandr nè sær
nè svalar unnir,
jörð fannst æva,
nè upphimin,
gap var Ginnúnga,
en gras hvergi.

4. Áðr Burs synir
bjóðum ypðu,
þeir er miðgarð
mæran skópu:
sól skein sunnan
á salar steina,
þá var grund gróin
grænum lauki:

5. Sól varp sunnan,
sinni mána,
hendi hinni hægri
um himin-jódýr;
sól þat nè vissi
hvar hún sali átti,
stjörnur þat nè vissu
hvar þær staði áttu,

máni þat nè vissi
hvat hann megins átti.

6. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginheilug goð,
ok um þat gættust:
nótt ok niðjum
nöfn um gáfu,
morgin hètu
ok miðjan dag,
undurn ok aptan,
ár um at telja.

7. Hittust Æsir
á Íðavelli,
þeir er hörg ok hof
há timbruðu,
afla lögðu,
auð smiðuðu,
afls kostuðu,
alls freistuðu,
tángir skópu
ok tól gjörðu,

8. Tefldu i túni,
teitir voru,
var þeim vettugis
vant úr gulli,
unz þrjár kvomu
þursa meyar,
ámáttkar mjök,
úr Jötunheimum.

9. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginheilug goð,
ok um þat gættust,
hverr skyldi dverga
drótt um skepja
úr brimis blóði
ok úr blám leggjum.

10. Þar var Mótsognir
mæstr um orðinn
dverga allra,
en Durinn annarr,
þeir mannlikun
mörg of gjörðu,
dverga úr jörðu,
sem Durinn sagði.

11. Nýi ok Niði,
Norðri ok Suðri,
Austri ok Vestri,
Alþjófr, Dvalinn,
Nár ok Náinn,
Nippingr, Dáinn,
Bivör, Bavör,
Bömbur, Nori,
An ok Anar,
Ái, Mjöðvitnir,
Veigr ok Gandálfr,
Vindálfr, Þráinn,
Þekkr ok Þorinn,
Þrór, Vitr ok Litr,
Nár ok Nýráðr:
nú hefi ek dverga,
Reginn ok Ráðsviðr,
rètt um talda.

12. Fili, Kili
Fundinn, Nali,
Hepti, Vili
Hanarr, Svíorr,
Billíngr, Brۣni,
Bildur, Búri
Frár, Hornbori,
Frægr ok Lóni,
Aurvángr, Jari,
Eikinskjaldi.

13. Mál er dverga
í Dvalins liði
ljóna kindum
til Lofars telja,
þeir er sóttú
fra salar steini
aurvánga sjöt
til Jóruvalla.

14. Þar var Draupnir
ok Dólgþrasir,
Hár, Haugspori,
Hlævángr, Glói,
Skirvir, Virvir,
Skafiðr, Ái,
Álfr ok Yngvi,
Eitr ok Óinn,
Fjalar ok Frosti,
Finnr og Ginnarr,
Hèri, Höggstari,
Hljóðólfr, Móinn;
þat mun uppi
meðan öld lifir
lángniðja tal
Lofars hafat.

15. Unz þrír kvomu
úr því liði
öflgir ok ástgir
Æsir at húsi,
fundu á landi
litt megandi
Ask ok Emblu,
örlöglausa.

16. Önd þau nè áttu,
óð þau nè höfðu,
lá nè læti
nè litu góða:
önd gaf Óðinn,
óð gaf Hænir,
lá gaf Lóðurr
ok litu góða.

17. Ask veit ek standa,
heitir Yggdrasill,
hárbaðmr ausinn
hvita auri:
þaðan koma döggvar,
þær's í dala falla,
stendr æ yfir grænn
Urðar brunni.

18. Þaðan koma meyar
margs vitandi
þrjár úr þeim sæ
er und þolli stendr:
Urð hètu eina,
aðra Verðandi,

skáru á skiði
Skuld hina þriðju:
þær lög lögðu,
þær líf kuru,
alda börnum
örlög at segja.

19. Þat man hún fólkvíg
fyrst í heimi
er Gullveig
geirum studdu,
ok í höll Hárs
hana brendu:
þrisvar brendu
þrisvar borna,
opt, ósjaldan,
þó hún enn lifir.

20. Heiði hana hètu,
hvar's til húsa kom,
völu velspá,
vitti hún ganda,
seið hún kunni,
seið hún leikin,
æ var hún ángan
illrar þjóðar.

21. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginheilug goð,
ok um þat gættust,
hvárt skyldu Æsir
afráð gjalda,
eðr skyldu goðin öll
gildi eiga.

22. Fleigði Oðinn
ok í fólk um skaut,
þat var enn fólkvíg
fyrst í heimi.
Brotinn var borðvegr
borgar Ása,
knáttu Vanir vígspá,
völlu sporna.

23. Þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginheilug goð,
ok um þat gættust,
hverir hefði lopt allt
lævi blandit,
eðr ætt jötuns
Óðs mey gefna.

24. Þórr einn þar var,
þrúnginn móði,
hann sjaldan sitr
er hann slíkt um fregn:
á gengust eiðar,
orð ok særi,
mál öll meginlig
er á meðal fóru.

---

25. Veit hún Heimdallar
hljóð um fólgit
undir heiðvönum
helgum baðmi,
á sèr hún ausast
aurgum fossi
af veði Valföðurs.
Vitut èr enn eða hvat?

26. Ein sat hún úti,
þá er hinn aldni kom
Yggjúngr Ása
ok í augu leit:
Hvers fregnit mik?
hví freistit mín:
allt veit ek Óðinn,
hvar þú auga falt þitt
í enum mæra
Mímis brunni:
drekkr mjöð Mímir
morgin hverjan
af veði Valföðurs.
Vitut èr enn eðr hvat?

27. Valdi henni Herföður
hrínga ok men,
fèspjöll spaklig
ok spá-ganda;
sá hún vítt ok um vítt
of veröld hverja.

28. Sá hún valkyrjur
vítt of komnar,
görvar at ríða
til Goðþjóðar:
Skuld hèlt skildi,
en Skögul önnur,
Gunnr, Hildr, Göndul,
ok Geir-Skögul;
nú eru taldar
nönnur Herjans,
görvar at ríða
grund valkyrjur.

29. Ek sá Baldri,
blóðgum tívor,
Oðins barni,
örlög fólgin.
Stóð um vaxinn,
völlu hærri,
mjór ok mjök fagr
Mistilteinn.

30. Varð af þeim meiði
er mèr sýndist,
harmflög hættlig,
Höðr nam skjóta.

31. Baldurs bróðir
var of borinn snemma,
sá nam Óðins sonr
einnætr vega:
þó hann æva hendr
nè hár um kembði,
áðr á bál um bar
Baldurs andskota;
en Frigg um grèt
í Fensölum
vâ Valhallar.
Vitut èr enn eðr hvat?

32. Hapt sá hún liggja
undir hvera lundi,
lægjarn liki,
Loka áþekkjan.
Þar sitr Sigyn
þeigi um sínum
ver vel glýuð.
Vitut èr enn eða hvat?

33. Þá kná Vala
hapt-bönd snúa,

heldr um-harðgjör
höpt, úr þörmum.
Fjöld veit hin fróða,
fram sè ek lengra
um ragna rök
ok val sigtíva.

34. Á fellr austan
um eitrdala
saurum ok sverðum,
Slíðr heitir sú.

35. Stóð fyrir norðan
á Niðafjöllum
salr úr gulli
Sindra ættar;
en annarr stóð
á Ókólni,
bjórsalr jötuns,
en sá Brimir heitir.

36. Sal sá hún standa
sólu fjarri,
Ná-ströndu á,
norðr horfa dyr:
fèllu eitrdropar
inn um ljóra,
sá er undinn salr
orma hryggjum.

37. Sá hún þar vaða
þúnga strauma
menn morðvarga
ok meinsvara,
ok þann annars glepr
eyra rúnu;

þar sug Niðhöggr
nái framgengna,
sleit vargr vera.
Vitut èr enn eðr hvat?

38. Austr sat hin aldna
í Járnviði
ok fæddi þar
Fenris kindir;
verðr af þeim öllum
einna nokkurr
túngls tjúgari
í trölls hami.

39. Fyllist fjörvi
feigra manna,
rýðr ragna sjót
rauðum dreyra;
svört verða sólskin
of sumur eptir,
veðr öll vâlynd.
Vitut èr enn eðr hvat?

40. Sat þar á haugi
ok sló hörpu
gýgjar hirðir,
glaðr Egðir:
gól um honum
í gagl-viði
fagr-rauðr hani,
sá er Fjalarr heitir.

41. Gól um Ásum
Gullinkambi
sá vekr hölda
at herjaföðurs;

en annarr gelr
for jörð neðan
sótrauðr hani
at sölum Heljar.

42. Geyr Garmr mjök
for Gnipa helli,
festr mun slitna,
en Freki renna.
Fjöld veit hún fræða,
fram sè ek lengra
um ragna rök
röm sigtíva.

43. Bræðr munu berjast
ok at bönum verða,
munu systr úngar
sifjum spilla:
hart er með höldum,
hórdómr mikill,
skeggöld, skálmöld,
skildir 'ru klofnir,
vindöld, vargöld,
áðr veröld steypist:
mun engi maðr
öðrum þyrma.

44. Leika Míms synir,
en mjötuðr kyndist,
at enu gjalla
Gjallar-horni:
hátt blæss Heimdallr,
horn er á lopti,
mælir Óðinn
við Mímis höfuð.

45. Ymr it aldna trè,
en jötunn losnar,
skelfr Yggdrasils
askr standandi;
hræðast allir
á helvegum
áðr Surtar þann
sefi of gleypir.

46. Hrymr ekr austan,
hefist lind fyri;
snýst Jormungandr
í jötunmóði;
ormr knýr unnir;
en ari hlakkar,
slítr nái nef-fölr;
Naglfar losnar.

47. Kjöll ferr austan,
koma munu Muspells
um lög lýðir,
en Loki stýrir:
fara fífls megir
með Freka allir,
þeim er bróðir
Býleips í för.

48. Hvat er með Ásum?
hvat er með Álfum?
gnýr allr Jötunheimr,
Æsir 'ru á þingi,
Stynja dvergar
for steindurum,
veggbergs vísir.
Vitut èr enn eðr hvat?

49. Surtr ferr sunnan
með sviga læfi,
skínn af sverði
sól valtífa:
grjótbjörg gnata,
en gífur rata,
troða halir helveg,
en himin klofnar.

50. Þá kemr Hlínar
harmr annarr fram,
er Óðinn ferr
við úlf vega;
en bani Belja
bjartr at Surti,
þá mun Friggjar
falla ángantýr.

51. Þá kemr inn mikli
mögr Sigföður,
Viðarr, vega,
at valdýri:
lætr hann megi hveðrúngs
mund um standa
hjör til hjarta,
þá er hefnt föður.

52. Þá kemr inn mæri
mögr Hlóðynjar,
gengr Óðins sonr
við úlf vega:
drepr hann af móði
Miðgarðs veor,
(munu halir allir
heimstöð ryðja)
gengr fet níu
Fjörgynjar burr,
neppr frá naðri
níðs ókvíðnum.

53. Sól tekr sortna,
sígr fold í mar,
hverfa af himni
heiðar stjörnur;
geisar eimr
við aldurnára,
leikr hár hiti
við himin sjálfan.

---

54. Sér hún uppkoma,
öðru sinni
jörð úr ægi
iðja græna:
falla forsar,
flýgr örn yfir,
sá er á fjalli
fiska veiðir.

55. Finnast Æsir
á Íðavelli
ok um moldþinur
máttkan dæma,
ok minnast þar
á megindóma
ok á Fimbultýs
fornar rúnar.

56. Þar munu eptir
undrsamligar
gullnar töflur
í grasi finnast,
þær's í árdaga

áttar höfðu
fólkvaldr goða
ok Fjölnis kind.

57. Munu ósánir
akrar vaxa,
böls mun alls batna,
Baldur mun koma:
búa þeir Höðr ok Baldur
Hropts sigtoptir,
vè valtíva.
Vitut èr enn eða hvat?

58. Þá kná Hænir
hlut við kjósa,
ok burir byggja
bræðra tveggja
vindheim víðan.
Vitut èr enn eða hvat?

59. Sal sèr hún standa
sólu fegra,
gulli þakðan,
á Gimli.
Þar skulu dyggvar
dróttir byggja
ok um aldrdaga
yndis njóta.

60. Þá kemr hinn ríki
at regindómi,
öflugr ofan,
sá er öllu ræðr:
semr hann dóma
ok sakar leggr,
vèsköp setr,
þau er verá skulu.

61. Þar kemr inn dimmi
dreki fljúgandi,
naðr fránn neðan
Niðafjöllum:
berr sèr í fjöðrum
(flýgr völl yfir)
Níðhöggr nái.
Nú mun hún seykkvast!

# Vafþrúðnis-mál.

Oðinn.

1. Ráð þú mèr nú Frigg,
alls mik fara tiðir
at vitja Vafþrúðnis;
forvitni mikla
kveð ek mèr á fornum stöfum
við þann inn alsvinna jötun.

Frigg.

2. Heima letja
ek munda Herjaföður
í görðum goða,
þvíat engi jötun
ek hugða jafnramman
sem Vafþrúðni vera.

Óðinn.

3. Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaða,
fjöld ek reynda regin,
hit vil ek vita
hve Vafþrúðnis
sala-kynni sè.

Frigg.

4. Heill þú farir,
heill þú aptr komir,
heill þú Ásynjum ser;
æði þèr dugi,
hvar's þú skalt or aldaföður
orðum mæla jötun!

---

5. Fór þá Óðinn,
at freista orðspeki
þess ins alsvinna jötuns,
at höllu hann kom
er átti Ims faðir,
inn gekk Yggr þegar.

Óðinn.

6. Heill þú nú Vafþrúðnir,
nú em ek í höll kominn
á þik sjálfan sjá:
hit vil ek fyrst vita
ef þú fróðr sèr
eðr alsviðr, jötunn.

Vafþrúðnir.
7. Hvat er þat manna
er í mínum sal
verpum'k orði á?
út þú nè komir
orum höllum frá,
nema þú inn snotrari sèr.

Óðinn.
8. Gángráðr ek heiti,
nú em'k af göngu kominn
þyrstr til þinna sala,
laðar þurfi
hefi ek lengi farit
ok þinna andfánga, jötunn!

Vafþrúðnir.
9. Hví þú þá Gángráðr
mælist of gólfi fyr?
farðu í sess í sal!
þá skal freista
hvârr fleira viti,
gestr eðr inn gamli þulr.

Gángráðr.
10. Óauðigr maðr
er til auðigs kemr
mæli þarft eðr þegi:
ofrmælgi mikil
hygg ek at illa geti
hveim er við kaldrifjaðan
kemr.

---

Vafþrúðnir.
11. Segðu mèr Gángráðr,
alls þú á gólfi vilt
þíns um freista frama,
hve sá hestr heitir
er hverjan dregr
dag of dróttmögu?

Gángráðr.
12. Skínfaxi heitir
er inn skíra dregr
dag um dróttmögu,
hesta beztr þykkir
hann með reiðgotum,
æ lýsir mön af mari.

Vafþrúðnir.
13. Segðu þat Gángráðr,
alls þú á gólfi vilt
þíns um freista frama,
hve sá jór heitir
er austan dregr
nótt of nýt regin?

Gángráðr.
14. Hrímfaxi heitir
er hverja dregr
nótt of nýt regin,
meldropa fellir hann
morgin hvern,
þaðan kemr dögg um dala.

Vafþrúðnir.
15. Segðu þat Gángráðr,
alls þú á gólfi vilt
þíns um freista frama,
hve sú á heitir
er deilir með jötna sonum
grund ok með goðum?

Gángráðr.
16. Ífing heitir á
er deilir með jötna sonum

grund ok með goðum;
opin renna hún skal
um aldr daga,
verðr-at ís á á.

Vafþrúðnir.

17. Segðu mèr Gángráðr,
alls þú á gólfi vilt
þins um freista frama,
hve sá völlr heitir
er finnast vígi at
Surtr ok in svasu goð?

Gángráðr.

18. Vígriðr heitir völlr
er finnast vígi at
Surtr ok in svasu goð:
hundrað rasta
hann er á hverjan veg,
sá er þeim völlr vitaðr.

Vafþrúðnir.

19. Fróðr ertu nú gestr,
far þú á bekk jötuns
ok mælumk í sessi saman:
höfði veðja
vit skulum höllu á,
gestr, um geðspeki!

---

Gángráðr.

20. Segðu þat it eina,
ef þitt æði dugir,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan jörð um kom
eðr upphimin
fyrst? inn fróði jötunn!

Vafþrúðnir.

21. Úr Ymis holdi
var jörð um sköpuð,
en úr beinum björg,
himin úr hausi
ins hrimkalda jötuns,
en úr sveita sjór.

Gángráðr.

22. Segðu þat annat,
ef þitt æði dugir,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan máni um kom,
sá er ferr menn yfir,
eðr sól it sama?

Vafþrúðnir.

23. Mundilföri heitir,
hann er mána faðir
ok svâ sólar it sama:
himin hverfa
þau skulu hverjan dag,
öldum at ártali.

Gángráðr.

24. Segðu þat it þriðja,
alls þik svinnan kveða,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan dagr um kom,
sá er ferr drótt yfir,
eðr nótt með niðum?

Vafþrúðnir.

25. Dellingr heitir,
hann er dags faðir,
en nótt var Nörvi borin;
ný ok nið

skópu nyt regin
öldum at ártali.

Gángráðr.

26. Segðu þat it fjórða,
alls þik fróðan kveða,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan vetr um kom
eðr varmt sumar
fyrst með fróð regin.

Vafþrúðnir.

27. Vindsvalr heitir,
hann er vetrar faðir,
en Svasuðr sumars;
ár of bæði þau
skulu æ fara
unz rjúfast regin.

Gángráðr.

28. Segðu þat it fimta,
alls þik fróðan kveða,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hverr Ása elztr
eðr Ymis niðja
yrði í árdaga.

Vafþrúðnir.

29. Oræfi vetra
áðr væri jörð sköpuð,
þá var Bergelmir borinn:
Þrúðgelmir
var þess faðir,
en Örgelmir afi.

Gángráðr.

30. Segðu þat it sjötta,
alls þik svinnan kveða,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan Örgelmir kom
með jötna sonum
fyrst, inn fróði iötunn?

Vafþrúðnir.

31. Úr Elivâgum
stukku eitrdropar,
svâ óx unz varð af jötunn,
þar orar ættir
komu allar saman
því er þat allt atalt;
en sium fleygði
úr suðheimi,
hyrr gaf hrími fjör.

Gángráðr.

32. Segðu þat it sjönda,
alls þik svinnan kveða,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hve sá börn gat,
enn baldni jötunn,
er hann hafði-t gýgjar gaman.

Vafþrúðnir.

33. Undir hendi vaxa
kváðu Hrímþursi
mey ok mög saman;
fótr við fæti gat
ins fróða jötuns,
sèr höfðaðan son.

Gángráðr.

34. Segðu þat it átta,
alls þik fróðan kveða,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvat þú fyrst of namt,
eðr fremst um veitzt;
þú ert alsviðr, jötunn!

Vafþrúðnir.
35. Orófi vetra
áðr væri jörð um sköpuð,
þá var Bergelmir borinn:
þat ek fyrst um man
er sá inn fróði jötunn
var á lúðr um lagiðr.

Gángráðr.
36. Segðu þat it níunda,
alls þik svinnan kveða,
ok þú, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan vindr um kemr,
svâ at ferr vâg yfir;
ei menn hann sjálfan um sjá.

Vafþrúðnir.
37. Hræsvelgir heitir
er sitr á himins enda
jötunn í arnar ham:
af hans vængjum
kveða vind koma
alla menn yfir.

Gángráðr.
38. Segðu þat it tiunda,
alls þú tíva rök
öll, Vafþrúðnir, vitir:
hvaðan Njörðr um kom
á Nóatúnum:
hofum ok hörgum
hann ræðr hundmörgum,
ok varð-at hann Ásum alinn.

Vafþrúðnir.
39. Í Vanaheimi
skópu hann vís regin
ok seldu at gíslíngu goðum:
í aldar rök
hann mun aptr koma
heim með vísum Vönum.

Gángráðr.
40. Segðu þat et ellefta,
alls þú tíva rök
öll, Vafþrúðnir, vitir:
hvat einherjar vinna
Herjaföðurs at,
unz rjúfast regin.

Vafþrúðnir.
41. Allir einherjar
Óðins túnum í
höggvast hverjan dag:
val þeir kjósa
ok ríða vígi frá,
öl með Ásum drekka
ok seðjast Sæhrímni,
sitja meir um sáttir saman.

Gángráðr.
42. Segðu þat it tólfta,
hví þú tíva rök
öll, Vafþrúðnir, vitir;
frá jötna rúnum
ok allra goða
segðu it sannasta,
inn alsvinni jötunn!

Vafþrúðnir.
43. Frá jötna rúnum
ok allra goða
ek kann segja satt;
því at hvern hefi ek
heim um komit,
níu fór ek heima

for Niflhel neðan,
hinnig deya úr helju halir.

Gángráðr.

44. Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek reynda regin!
hvat lifir manna,
þá er inn mæri líðr
Fimbulvetr með firum?

Vafþrúðnir.

45. Líf ok Lifþrasir,
en þau leynast munu
í holti Hoddmimis:
morgin-döggvar
þau sèr at mat hafa,
þaðan af aldir alast.

Gángráðr.

46. Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek reynda regin!
hvaðan kemr sól
á inn slètta himin,
þá er þessa hefir Fenrir farit?

Vafþrúðnir.

47. Eina dóttur
berr álfröðull,
áðr hana Fenrir fari:
sú skal ríða,
þá er regin deya,
móður brautir mær.

Gángráðr.

48. Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek reynda regin!
hverjar 'ru þær meyar
er líða mar yfir
fróðgeðjaðar fara?

Vafþrúðnir.

49. Þrjár þjóðár falla
þorp yfir
meya Mögþrasis:
hamingjur einar
þeirra í heimi eru,
þó þær með jötnum alast.

Gángráðr.

50. Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek reynda regin!
hverir ráða Æsir
eignum goða,
þá er sloknar Surta logi?

Vafþrúðnir.

51. Víðarr ok Vali
byggja vè goða,
þá er sloknar Surta logi;
Móði ok Magni
skulu Mjölni hafa
ok vinna at vígþroti.

Gángráðr.

52. Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek reynda regin!
hvat verðr Óðni
at aldrlagi,
þá er rjúfast regin?

Vafþrúðnir.

53. Úlfr gleypa mun
alda föður,

þess mun Víðarr reka:
kalda kjafta
hann klyfja mun
vitnis vígi at.

Gángráðr.

54. Fjöld ek fór,
fjöld ek freistaðak,
fjöld ek reynda regin!
hvat mælti Óðinn,
áðr á bál stigi,
sjálfr í eyra syni?

Vafþrúðnir.

55. Ei manns þat veit
hvat þú í árdaga
sagðir í eyra syni.
Feigum munni mælta'k
mína forna stafi
ok um ragna rök.
Nú ek við Óðin deildak
mína orðspeki:
þú ert æ vísastr vera!

---

# Vegtams-Kvíða.

1. Senn voru Æsir
allir á þingi
ok Ásynjur
allar á máli,
ok of þat rèðu
rikir tivar
hvi væri Baldri
ballir draumar.

2. Mjök var hapti
höfugr blundr,
heillir í svefni
horfnar sýndust:
spurðu jötnar
spár framvísar,
ef þat mundi
ögrs vita.

3. Frèttir sögðu,
at feigr væri
Ullar sefi
einna þekkastr:
fèkk þat ángurs
Frigg ok Svâfni,
rögnum öðrum;
ráð sèr festu.

4. Út skyldi senda
allar vættir
griða at biðja,
granda ei Baldri:
vann allskonar
eið at vægja,
Frigg tók allar
festar ok særi.

5. Valföðr uggir
van sè tekit,
hamíngjur ætlar
horfnar mundu:
Æsi kallar,
afráðs krefr,
málstefnu at
margt of ræðist.

6. Upp reis Oðinn,
alda gautr,

ok hann á Sleipni
söðul um lagði,
reið hann niðr þaðan
Niflheljar til,
mætti hann hvelpi
þeim er úr helju kom.

7. Sjá var blóðigr
um brjóst framan,
kjapt vígfrekan
ok kjálka neðan:
gó hann á móti
(ok gein stórum)
galdurs föður,
gól um leingi.

8. Framm reið Óðinn,
foldvegr dundi,
hann kom at háfu
heljar ranni;
þá reið Yggr
fyrir austan dyr,
þar er hann vissi
völu leiði.

9. Nam hann vitugri
valgaldur kveða,
leit i norðr
lagði á stafi,
fræði tók þylja,
frétta beiddi
unz nauðig reis,
nás orð um kvað:

10. Hvat er manna þat
mér ókunnra,
er mér hefir aukit
erfitt sinni?
var ek snifin snjófi
ok slegin regni
ok drifin döggu:
dauð var ek leingi.

11. Vegtamr ek heiti,
sonr em ek Valtams;
segðu mér úr helju:
(ek mun úr heimi)
Hveim eru bekkir
baugum stráðir,
flet fagurlig
flóð i gulli?

12. Hér stendr Baldri
of brugginn mjöðr,
skírar veigar,
liggr skjöldr yfir;
en ás-megir
á ofvæni.
Nauðig sagðak,
nú mun ek þegja!

13. Þegi-at þú völva!
þik vil ek fregna,
uns allt kunnak;
vil ek enn vita:
hverr mun Baldri
at bana verða
ok Óðins son
aldri ræna?

14. Höðr berr háfan
hróður-barm þinnig,

hann mun Baldri
at bana verða
ok Óðins son
aldri ræna.
Nauðig sagðak,
nú mun ek þegja!

15. Þegi-at þú völva!
þik vil ek fregna,
uns allt kunnak;
vil ek enn vita:
hverr mun heipt Höði
hefnt of vinna,
eðr Baldrs bana
á bál vega?

16. Rindr berr son
í vestur-sölum,
sá mun Óðins son
einnætr vega:
hönd um þvær-a
nè höfuð kembir
áðr á bál um berr
Baldurs andskota.
Nauðig sagðak,
nú mun ek þegja!

17. Þegi-at þú völva!
þik vil ek fregna:
hverjar 'ru meyar
er at muni gráta
ok á himin verpa
hálsa skautum?
Segðu þat eina,
sefr-at-tu fyrri!

18. Ert-at-tu Vegtamr,
sem ek áðr hugðak
heldr ertu Óðinn,
alda gautr.

19. Ert-at-tu völva
nè vís kona,
heldr ertu þriggja
þursa móðir.

20. Heim ríð þú Óðinn,
ok ver hróðigr!
svâ komi-t manna
mèr aptr á vit,
uns lauss Loki
liðr úr böndum,
ok ragna rök
rjúfendr koma!

# Þryms-Kviða
eðr
## Hamarsheimt.

1. Reiðr var þá Vingþórr,
er hann vaknaði,
ok síns hamars
um saknaði:
skegg nam at hrista,
skör nam at dýa,
rèð jarðar burr
um at þreifast.

2. Ok hann þat orða
alls fyrst um kvað:
Heyrðu nú Loki
hvat ek nú mæli,
er eigi veit
jarðar hvergi
nè upphimins:
Áss er stolinn hamri!

3. Gengu þeir fagra
Freyu túna,
ok hann þat orða
alls fyrst um kvað:
Muntu mèr, Freya,
fjaðrhams ljá,
ef ek minn hamar
mættak hitta?

Freya kvað:

4. Þó munda ek gefa þèr
þótt úr gulli væri,
ok þó selja
at væri úr silfri!
Fló þá Loki,
fjaðrhamr dundi,
unz for utan kom
Ása garða,
ok for innan kom
Jötnaheima.

5. Þrymr sat á haugi,
þursa drottinn,
greyum sínum

gullbönd snöri
ok mörum sinum
mön jafnaði.

Þrymr kvað:

6. Hvat er með Ásum?
hvat er með Álfum?
hví ertu einn kominn
i Jötunheima?

Loki kvað:

7. Íllt er með Ásum!
illt er með Álfum!
hefir þú Hlóriða
hamar um fólginn?

8. Ek hefi Hlórriða
hamar um fólginn
átta röstum
for jörð neðan:
hann engi maðr
aptr um heimtir,
nema færi mèr
Freyu at kvæn!

9. Fló þá Loki,
fjaðrhamr dundi
unz for utan kom
Jötnaheima
ok for innan kom
Ása garða:
mætti hann Þór
miðra garða,
ok hann þat orða
alls fyrst um kvað:

10. Hefir þú erindi
sem erfiði?
segðu á lopti
laung tiðindi,
opt sitjanda
sögur um fallast,
ok liggjandi
lýgi um bellir!

Loki kvað:

11. Hefi ek erfiði
ok örindi;
Þrymr hefir þinn hamar,
þursa drottinn,
hann engi maðr
aptr um heimtir,
nema honum færi
Freyu at kván.

12. Gánga þeir fagra
Freyu at hitta,
ok hann þat orða
alls fyrst um kvað:
Bittu þik, Freya,
brúðar líni!
vit skulum aka tvö
i Jötunheima.

13. Reið varð þá Freya
ok fnasaði,
allr Ása salr
undir bifðist,
stökk þat it mikla
men Brisinga:
Mik veitztu verða
vergjarnasta,
ef ek ek með þèr
i Jötunheima!

14. Senn voru Æsir
allir á þingi
ok Ásynjur
allar á máli,
ok of þat rèðu
rikir tívar,
hve þeir Hlórriða
hamar um sætti.

15. Þá kvað þat Heimdallr,
hvítastr Ása:
(vissi hann vel fram
sem Vanir aðrir)
Bindu ver Þór þá
bruðar líni,
hafi hann it mikla
men Brísinga!

16. Látum und honum
hrynja lukla,
ok kvenváðir
um knè falla,
en á brjósti
breiða steina,
ok hagliga
um höfuð typpum.

17. Þá kvað þat Þórr
þrúðugr Áss:
Mik munu Æsir
argan kalla,
ef ek bindast læt
brúðar líni.

18. Þá kvað þat Loki,
Laufeyar sonr:
Þegi þú Þórr
þeirra orða:
þegar munu jötnar
Ásgarð búa,
nema þú þinn hamar
þèr um heimtir.

19. Bundu þeir Þór þá
brúðar líni
ok enu mikla
meni Brísinga,
lètu und honum
hrynja lukla
ok kvenváðir
um knè falla
en á brjósti
breiða steina,
ok hagliga
um höfuð typtu.

20. Þá kvað þat Loki,
Laufeyar sonr:
Mun ek ok með þèr
ambót vera,
vit skulum aka tvö
í Jötunheima.

21. Senn voru hafrar
heim um reknir,
skyndir at sköklum,
skyldu vel renna:
björg brotnuðu,
brann jörð loga,
ók Óðins son
í Jötunheima.

22. Þá kvað þat Þrymr,
þursa drottinn:

Standit upp Jötnar
ok stráit bekki;
nú færit mèr
Freyu at kván,
Njarðar dóttur
úr Nóatúnum.

23. Gánga hèr at garði
gull-hyrndar kýr,
öxn alsvartir,
jötni at gamni;
fjöld á ek meiðma,
fjöld á ek menja,
einnar mèr Freyu
ávant þikkir.

24. Var þar at kveldi
um komit snimma,
ok for jötna
öl fram borit:
einn át oxa,
átta laxa,
krásir allar
þær er konur skyldu,
drakk Sifjar verr
sáld þrjú mjaðar.

25. Þá kvað þat Þrymr,
þursa drottinn:
Hvar sáttu brúðir
bita hvassara?
sák-a ek brúðir
bita enn breiðara,
nè inn mæra mjöð
mey um drekka.

26. Sat in alsnotra
ambót for,
er orð um fann
við jötuns máli:
Át vætr Freya
átta nóttum,
svâ var hún óðfús
i Jötunheima!

27. Laut und línu,
lysti at kyssa;
en hann utan stökk
endlángan sal:
Hvi eru öndótt
augu Freyu?
þikki mèr úr augum
eldr of brenna!

28. Sat in alsnotra
ambót for,
er orð um fann
við jötuns máli:
Svaf vætr Freya
átta nóttum,
svâ var hún óðfús
i Jötunheima!

29. Inn kom in arma
jötna systir,
hin er brúðfjár
biða þorði:
Láttu þèr af höndum
hringa rauða,
ef þú öðlast vilt
ástir mínar,

ástir mínar,
alla hylli!

30. Þá kvað þat Þrymr,
þursa drottinn:
Berit inn hamar,
brúði at vígja:
leggit Mjölní
i meyar knè,
vígit okkr saman
varar hendi!

31. Hló Hlórriða
hugr i brjósti,
er harðhugaðr
hamar um þekði:
Þrym drap hann fyrstan,
þursa drottin,
ok ætt jötuns
alla lamdi.

32. Drap han ina öldnu
jötna systur,
hin er brúðfjár
of beðit hafði:
hún skell um hlaut
for skillinga,
en högg hamars
for hringa fjöld.
Svâ kom Óðins sonr
endr at hamri!

# Völsúnga Kviða hin forna.

Granmarr hèt ríkr konúngr, er bjó at Svarinshaugi, hann átti marga sonu: einn hèt Höðbroddr, annarr Goðmundr, þriði Starkaðr. Höðbroddr var í konúngastefnu, hann fastnaði sèr Sigrúnu Högnadóttur, en er hún spurði þat, þá reið hún með valkyrjur um lopt ok lög at leita Helga. Helgi var þá at Logafjöllum ok hafði barizt við Húndingssonu, þar feldi hann þá Álf ok Eyólf, Hjörvarð og Hervarð, ok var hann allvigmóðr ok sat undir Arasteini; þar hitti Sigrún hann ok rann á háls honum ok kysti hann, ok sagði honum erindi sitt, svâ sem segir i Völsúnga-kviðu inni fornu:

1. Sótti Sigrún
sikling glaðan,
nam hún Helga
hönd at sækja,
kysti ok kvaddi
konúng und hjálmi.

2. Þá varð hilmi
hugr at vífi;
fyrr lètzt unna
af öllum hug
syni Sigmundar
enn hún sèð hafði.

3. Var ek Höðbroddi
í her föstnuð,
en jöfur annan
eiga vilda 'k:
þó sjámk, fylkir,
frænda reiði,
hefi ek mins föður
munnráð brotit!

4. Nam-a Högna mær
of hug mæla,
hafa kvaðst hún Helga
hylli skyldu.

5. Hirð eigi þú
Högna reiði,
nè illan hug
áttar þinnar!

þú skalt, mær úng,
at mèr lifa:
ætt áttu, in góða,
er ek sjámk.

Helgi samnaði þá miklum skipaher ok fór til Frekasteins, ok fengu í hafi ofviðri mannhætt, þá kvâmu leiptrar yfir þá, ok stóðu geislar í skipin; þeir sá í loptinu at valkyrjur níu riðu, ok kendu þeir Sigrúnu, þá lægði storminn ok kvomu þeir til lands. Granmars synir sátu á bjargi nokkuru, er skipin sigldu at landi. Goðmundr hljóp á hest ok reið á njósn á bergit við höfnina, þá hlóðu Völsúngar seglum. Þá kvað Goðmundr svâ sem fyrr er ritat í Helga kviðu:

6. Hver er fylkir sá
er flota stýrir,
ok hann feikna-lið
færir at landi?

Þetta kvað Goðmundr Granmars son:

7. Hverr er skjöldúngr sá
er skipum stýrir,
lætr gunn-fána
gullinn fyrir stafni?
þikkja merki frið
í farar-broddi,
verpr víg-roða
um víkinga.

Sinfjötli Sigmundar son svarar, ok er þat enn ritat:

8. Hèr má Höðbroddr
Helga kenna,
flótta-trauðan,
í flota miðjum:
hann hefir eðli
ættar þinnar,
arf fjörsúnga,
und sik þrúngit.

9. Því firr skulu
at Frekasteini
sáttir saman
um sakir dæma!
mál er, Höðbroddr,
hefnd at vinna,
ef vèr lægra hlut
lengi bárum.

10. Fyrr muntu, Goðmundr
geitr um halda,
ok bergskorur
brattar klifa,
hafa þèr í hendi
hesli-kylfu;
þat er þèr bliðara
enn brimis dómar!

(Helgi kvað:)

11. Þèr er, Sinfjötli,
sæmra miklu
gunni at heya
ok glaða örnu,
enn ónýtum
orðum at bregða,
þótt hildíngar
heiptir deili!

12. Þikki-at mèr góðir
Granmars synir,
þó dugir siklingum
satt at mæla:
þeir merkt hafa
á Móins-heiðum
at hug hafa
hjörvum at bregða,
eru hildíngar
hölzti snjallir!

Goðmundr reið heim með hersögu, þá sömnuðu Granmars synir her, komu þar margir koníngar: þar var Högni, faðir Sigrúnar, synir hans Bragi og Dagr. Þar var orusta mikil, ok fèllu allir Granmars synir, ok allir þeirra höfðíngjar, nema Dagr Högnason fèkk grið ok vann eiða Völsúngum. Sigrún gekk í valinn ok hitti Höðbrodd atkominn dauða, hún kvað:

13. Mun-a þèr Sigrún
frá Sevafjöllum,
Höðbroddr konúngr,
hníga at armi!
liðin er ævi,
opt náir hreifi
gran-stoð gríðar
Granmars sona.

Þá hitti hún Helga ok varð allfegin; Helgi kvað:

14. Er-at þèr at öllu,
alvitr, gefit;
þó kveð ek nökkvu
nornir valda:
fèllu í morgun
at Frekasteini
Bragi og Högni,
varð ek bani þeirra.

15. En at Styrkleifum
Starkaðr konúngr,
en at Hlèbjörgum
Hrollaugs synir,
þann sá ek Gylfa
grimmúðgastan,
er barðist bolr,
var á brott höfuð.

16. Liggja at jörðu
allra flestir
niðjar þínir
at nám orðnir:

vant-at-tu vígi,
var þèr þat skapat
at þú at rógi
ríkmenni vart!

Þá grèt Sigrún, hann kvað:

17. Huggasttu Sigrún!
Hildr hefir þú oss verit,
vinna-t skjöldúngar sköpum.
Lifna munda ek nú kjósa
er liðnir eru,
ok knætta ek þèr þó í faðmi felast. —

Helgi fèkk Sigrúnar, ok áttu þau sonu; varð Helgi eigi gamall. — Dagr Högnason blótaði Óðni til föðurhefnda, Óðinn lèði Dag geirs sins. Dagr fann Helga mág sinn þar sem heitir at Fjöturlundi, hann lagði ígögnum Helga með geirnum: þar fèll Helgi, en Dagr reið til Seva-fjalla og sagði Sigrúnu tiðindi:

18. Trauðr em ek, systir,
trega þèr at segja,
þvíat ek hefi nauðigr
nipti grætta:
fèll í morgun
und Fjöturlundi
buðlúngr sá er var
beztr í heimi
ok hildingum
á hálsi stóð.

19. Þik skyli allir
eiðar bita,
þeir er Helga
hafðir unna,
at enu ljósa
leiptrar vatni
ok at úrsvölum
unnar steini.

20. Skríði-a þat skip
er und þèr skríði,
þótt óska-byrr
eptir leggist;
renni-a sá marr
er und þèr renni,
þóttu fjandr þína
forðast eigir!

21. Bíti-a þèr þat sverð
er þú bregðr,
nema sjálfum þèr
sýngvi um höfði:
þá væri þèr hefnt
Helga dauða,
ef þú værі vargr
á viðum úti,
auðs andvani
ok alls gamans,
hefðir eigi mat,
nema á hræum sprýngir!

22. Ær ertu, systir,
ok örvita,

er þú bróðr þínum
biðr forskapa:
einn veldr Óðinn
öllu bölvi,
þvíat með sifjúngum
sakrúnar bar.

23. Þèr býðr bróðir
bauga rauða,
öll Vandilsvè
ok Vígdali:
hafðu hálfan heim
harms at gjöldum,
brúðr baugvarið,
ok burir þínir!

24. Sitk-a ek svâ sæl
at Sevafjöllum
ár nè um nætr
at ek una lifi:
nema at liði lofðúngs
ljóma bregði,
renni und vísa
víg-blær þinnig
gullbitli vanr,
knega ek grami fagna!

25. Svâ hafði Helgi
hrædda gjörva
fjandr sína alla
ok frændr þeirra,
sem for úlfi
óðar rynni
geitr af fjalli
geiskafullar.

26. Svâ bar Helgi
af hildíngum
sem ítrskapaðr
askr af þyrni,
eða sá dýrkálfr
döggu slúnginn
er öfri ferr
öllum dýrum,
ok horn glóa
við himin sjálfan.

Haugr var gjörr eptir Helga; en er hann kom til Valhallar, þá bauð Óðinn honum öllu at ráða með sèr. Helgi kvað:

27. Þú skalt, Hundíngr,
hverjum manni
fótlaug geta
ok funa kinda,
hunda binda,
hesta gæta,
svínum soð gefa
áðr sofa gángir!

Ambót Sigrúnar gekk um aptan hjá haugi Helga ok sá at Helgi reið til haugsins með marga menn. Ambót kvað:

28. Hvârt eru þat svik ein
er ek sjá þikkjumst
eðr raknarök!
ríða menn dauðir!
er jóa yðra
oddum keyrit;
eðr er hildingum
heimför gefin?

29. Er-a þat svik ein
er þú sjá þikkist,
nè aldar-rof
þóttu oss litir,
þótt vèr jóa ora
oddum keyrim,
nè er hildingum
heimför gefin!

Heim gekk ambót og sagði Sigrúnu:

30. Út gakk þú, Sigrún,
frá Sevafjöllum,
ef þik fólks-jaðar
finna lystir:
upp er haugr lokinn;
Helgi er kominn,
dólgspor dreyra;
döglíngr bað þik
at þú sár-dropa
svefja skyldir.

Sigrún gekk i hauginn til Helga ok kvað:

31. Nú em ek svâ fegin
fundi okkrum
sem ât-frekir
Óðins haukar
er val vitu,
varmar bráðir,
eða dögg-litir
dags brún sjá.

32. Fyrr vil ek kyssa
konúng ólifðan
enn þú blóðugri
brynju kastar:
hár er þitt, Helgi,
hélu þrúngit,
allr er vísi
val-dögg sleginn,
hendr úrsvalar
Högna mági;
hve skal ek þèr, buðlúngr,
þess bót of vinna?

33. Ein veldr þú, Sigrún
frá Sevafjöllum,
er Helgi er
harm-dögg sleginn:
grætr þú, gullvarið,
grimmum tárum,
sólbjört, suðræn,
áðr þú sofa gángir;
hvert fèlt blóðugt
á brjóst grami
úrsvalt, innfjálgt,
ekka þrúngit!

34. Vel skulum drekka
dýrar veigar,
þótt mist hafim
munar ok landa:
skal engi maðr
ángr-ljóð kveða,
þótt mèr á brjósti
benjar líti:
nú eru brúðir
byrgðar í haugi,
lofða-dísir
hjá oss liðnum!

Sigrún bjó sæing í hauginum:

35. Hèr hefi ek þèr, Helgi,
hvílu gjörva,
ángrlausa mjök
ylfinga nið:
vil ek þèr í faðmi,
fylkir, sofna,
sem ek lofðúngi
lifðum myndak.

36. Nú kveð ek einskis
örvænt vera,
síð nè snemma
á Sevafjöllum,
er þú at armi
ólifðum sefr,
hvít, í haugi,
Högna dóttir!
ok ertu kvik,
in konúngborna.

37. Mál er mèr at ríða
roðnar brautir,
láta fölvan jó
flug-stig troða:
skal ek for vestan
vindhjálms brúar
áðr salgofnir
sigr-þjóð veki.

Þeir Helgi riðu leið sína, en þær fóru heim til bæar.

Annan aptan lèt Sigrún ambót halda vörð á hauginum, en at dagsetri er Sigrún kom til haugsins, kvað hún:

38. Kominn væri nú,
ef koma hygði,
Sigmundar burr
frá sölum Óðins:
kveð ek grams þinnig
grennast vánir,
er á ask-limum
ernir sitja,
ok drífr drótt öll
draumþinga til.

39. Verðu eigi svâ ær
at ein farir,
dís skjöldúnga,
draughúsa til:
verða öflgari
allir á nóttum
dauðir dólgar, mær,
enn um daga ljósa!

Sigrún varð skammlíf af harmi ok trega. Þat var trúa í forneskju at menn væri endrbornir, en þat er nú kölluð kerlinga villa. Helgi ok Sigrún er kallat at væri endrborin: hèt hann þá Helgi Haddingjaskaði, en hún Kára Hálfdánardóttir, svâ sem kveðit er í Káru-ljóðum, ok var hún valkyrja.

# Sólar-ljóð.

1. **F**è ok fjörvi
rænti firða kind
sá hinn grimmi greppr:
yfir þá götu
er hann varðaði
náði eingi kvikr komast.

2. Einn hann át
opt harðla,
alldri bauð hann manni til matar,
áðr enn móðr
ok megin-lítill
gestr gángandi
af götu kom,

3. Drykks of þurfi,
hinn dæsti maðr,
ok lètzt vanmettr vera,
hræddu hjarta
hann lètzt trúa
þeim er áðr hafði vâlyndr verit.

4. Mat ok drykkju
veitti hann þeim er móðr var,
allt af heilum hug:
guðs hann gáði,
góðu honum beindi,
því hann hugðist vâligr vera.

5. Upp hinn stóð,
illt hann hugði,
ei var þarfsamliga þegit:
synd hans svall,
sofandi myrði
fróðan, fjölvaran.

6. Himna guð
bað hann hjálpa sèr,
þá hann veginn vaknaði:
en sá gat
við syndum taka
er hann hafði saklausan svikit.

7. Helgir englar
komu úr himnum ofan
ok tóku sál hans til sín:
í hreinu lífi

hún skal æ lifa
með almáttkum guði.

8. Auð nè heilsu
ræðr eingi maðr,
þó honum gángi greitt;
margan þat sækir
er minnst of varir,
eingi ræðr sættum sjálfr.

9. Ekki þeir hugðu,
Unarr ok Sævaldi,
at þeim mundi heill hrapa:
naktir þeir urðu
ok næmir hvívetna,
ok runnu sem vargar til viðar.

---

10. Munaðar ríki
hefir margan tregat,
opt verðr kvalræði af konum,
meingar þær urðu,
þó hinn máttki guð
skapti skírliga.

11. Sáttir þeir voru,
Svafaðr ok Skarthèðinn,
hvârgi mátti annars án vera,
fyrr enn þeir æddust
fyrir einni konu,
hún var þeim til lýta lagin.

12. Hvârkis þeir gáðu
fyrir þá hvítu mey,
leiks nè ljósra daga,
aungvan hlut máttu þeir
annan muna
enn þat ljósa lík.

13. Daprar þeim urðu
hinar dimmu nætr,
eingan máttu þeir sætan sofa,
en af þeim harmi
rann heipt saman
millum virtar-vina.

14. Fádæmi verða
i flestum stöðum
goldin grimmliga:
á hólm þeir gengu
for it horska víf,
ok fengu báðir bana.

---

15. Ofmetnað drýgja
skyldi eingi maðr,
þat hefi'k sannliga sèt,
þvíat þeir hverfa
er honum fylgja
flestir guði frá.

16. Rík þau voru,
Ráðey ok Vebogi,
ok hugðust gott eitt gera,
nú þau sitja
ok sárum snúa
ýmsum eldi til.

17. Á sik þau trúðu
ok þóttust ein vera
allri þjóð yfir;
en þó leitzt

þeirra hagr
annan veg almáttkum guði.

18. Munað-lífi þau drýgðu
á marga vegu
ok höfðu gull for gamni:
nú er þeim goldit,
at þau gánga skulu
milli frosts ok funa.

---

19. Óvinum þínum
trú þú aldregi,
þó þèr fagurt mæli fyrir,
góðu þú heit:
gott er annars
víti at hafa fyri varnaði.

20. Svâ honum gafst,
Sörla inum góðráða,
þá er hann lagði á vald hans
Vigólfs:
tryggiliga hann trúði,
en hinn at tálum varð,
sínum bróður-bana.

21. Grið hann þeim seldi
af góðum huga,
en þeir hètu honum gulli í gegn;
sáttir lètust
meðan saman drukku,
en þó kvâmu flærðir fram.

22. En þá eptir
á öðrum degi,
er þeir höfðu í Rýgjardal riðit,
sverðum þeir meiddu
þann er saklauss var,
ok lètu hans fjörvi farit.

23. Lík hans þeir drógu
á leyni-götu
ok brytjuðu í brunn niðr,
dylja þeir vildu,
en drottinn sá
heilagr himnum af.

24. Sál hans bauð heim
inn sanni guð
í sinn fögnuð fara,
en sökudólgar
hygg ek síðla muni
kallaðir frá kvölum.

---

25. Dísir bið þú þèr
drottins mála
vera hollar í hugum:
viku eptir
mun þèr vilja þíns
allt at auðnu gá.

26. Reiði-verk,
þau þú unnit hefir,
bæt eigi illu yfir:
grættan gala
skaltu með góðum hlutum,
þat kveða sálu sama.

27. Á guð skal heita
til góðra hluta,
þann er hefir skatna skapat:

mjök fyrir-verðr
manna hverr
er sinn fjóna föður.

28. Æsta þikkir
einkum vandliga
þess er vant þikir:
alls áni verðr
sá er einskis biðr;
fár hyggr þegjanda þörf.

29. Siðla ek kom,
snemma kallaðr,
til dómvalds dyra:
þángat ek ætlumst,
því at mèr heitit var;
sá hefir krás er krefr.

30. Syndir því valda
at vèr syrgir förum
ægisheimi úr:
eingi óttast
nema íllt gjöri;
gott er vammalausum vera.

31. Úlfum likir
þikja allir þeir
sem eiga hverfan hug,
svâ mun gefast
þeim er gánga skal
þær inar glæddu götur.

32. Vinsamlig ráð
ok viti bundin
kenni ek þèr sjö saman:
gjörla þú nem
ok glata aldregi,
öll eru þau nýt at nema.

---

33. Frá því er at segja,
hvat sæll ek var
ægisheimi í,
ok hinu öðru,
hve ýta synir
verða nauðgir at nám.

34. Vil ok dul
tælir virða sonu,
þá er fíkjast á fè:
ljósir aurar
verða at laungum trega,
margan hefir auðr apat.

35. Glaðr at mörgu
þótti ek gumnum vera,
því at ek vissa fátt fyrí;
dvalar-heim
hefir drottinn skapat
munafullan mjök.

36. Lútr ek sat;
lengi ek hölluðumst,
mjök var ek þá lystr at lifa
en sá rèði
sem rikr var:
fram eru feigs götur.

37. Heljar reip
kvâmu harðliga
sveigð at síðum mèr,
slíta ek vildi,

en þau sterk våru,
lètt er lauss at fara.

38. Einn ek vissa
hve alla vega
sullu sútir mèr:
heljar meyar
mèr hrolla buðu
heim á hverju kveldi.

39. Sól ek sá,
sanna dag-stjörnu,
drjúpa dyn-heimum í;
en heljar grind
heyrða ek á annan veg
þjóta þúngliga.

40. Sól ek sá
setta dreyr-stöfum,
mjök var ek þá úr heimi hallr,
máttug hún leitzt
á marga vegu
frá því sem fyrri var.

41. Sól ek sá,
svâ þótti mèr
sem ek sæi göfgan guð:
henni ek laut
hinnsta sinni
alda-heimi í.

42. Sól ek sá:
svâ hún geislaði
at ek þóttist vætki vita;
en Gilvar straumar
grenjuðu á annan veg,
blandnir mjök við blóð.

43. Sól ek sá,
sjónum skjálfandi,
hræðslufullr ok hnipinn,
þvíat hjarta mitt
var heldr mjök
runnit sundr í siga.

44. Sól ek sá
sjaldan hryggvari,
mjök var ek þá úr heimi hallr,
túnga mín
var til très metin
ok kólnat at fyrir utan.

45. Sól ek sá
síðan aldregi
eptir þann dapra dag,
þvíat fjalla-vötn luktust
fyrir mèr saman,
en ek hvarf kallaðr frá kvölum.

46. Vonarstjarna flaug,
þá var ek fæddr,
burt frá brjósti mèr:
hátt at hún fló,
hvergi settist
svâ at hún mætti hvíld hafa.

47. Öllum lengri
var sú eina nótt
er ek lá stirðr á stráum;
þá merkir
þat guð-mæli:
maðr er moldu samr.

48. Virði þat ok viti
inn virki guð,
sá er skóp hauðr ok himin,
hversu einmana
margir fara,
þó við skylda skili.

49. Sinna verka
nýtr seggja hverr,
sæll er sá er gott gjörir:
auði frá
er mèr ætluð var
sandi orpin sæng.

50. Hörundar húngr
tælir hölda opt,
þat hefir margr til mikit:
lauga-vatn
er mèr leiðast nú
eitt allra hluta.

51. Á norna stóli
sat ek níu daga,
þaðan var ek á hest hafinn,
gýgjar sól
er skein grimmliga
úr ský-drupnis skýum.

52. Utan ok innan
þóttumst ek alla fara
sigrheima sjö,
uppi ok niðri
leitaði ek æðra vegar,
hvar mèr væri greiðastar
götur.

53. Frá því er at segja
hvat ek fyrst um sá,
þá ek var í kvölheima komiun:
sviðnir fuglar,
er sálir voru,
flugu svâ margir sem mý.

54. Vestan sá ek fljúga
vonar dreka,
ok fella glævalls götu:
vængi þeir skóku,
svâ víða mèr þótti
springa hauður ok himinn.

55. Sólar hjört leit ek
sunnan fara,
hann teymdu tveir saman:
fætur hans
stóðu foldu á,
en tóku horn til himins.

56. Norðan sá ek ríða
niðja sonu,
ok vâru sjö saman;
hornum fullum
drukku þeir inn hreina mjöð
úr brunni baug-regins.

57. Vindr þagði,
vötn stöðvaði,
þá heyrða ek grimmligan gný:
sínum mönnum
svipvísar konur
mólu mold til matar.

58. Dreyrga steina
þær hinar dökkvu konur

dróu daprliga,
blóðug hjörtu hèngu þeim
fyri brjósti utan,
mædd við miklum trega.

59. Margan mann sá ek
meiddan fara
á þeim glæddu götum:
andlit þeirra
þóttu mèr öll vera
rýgjar blóði roðin.

60. Marga menn sá ek
moldar gengna,
þá er ei máttu þjónustu ná:
heiðnar stjörnur
stóðu yfir höfði þeim,
fáðar feiknstöfum.

61. Menn sá ek þá
er mjök ala
öfund um annars hagi:
blóðgar rúnir
vâru á brjósti þeim
merktar meinliga.

62. Menn sá ek þar
marga úfegna,
þeir voru villir vega,
þat kaupir sá
er þessa heims
apast at úheillum.

63. Menn sá ek þá
er mörgum hlutum
væltu um annars eign:
flokkum þeir fóru
til fègjarns borgar
ok höfðu byrðar af blýi.

64. Menn sá ek þá
er margan höfðu
fè ok fjörvi rænt:
brjóst igegnum
rendu brögnum þeim
öflugir eitrdrekar.

65. Menn sá ek þá
er minnst vildu
halda helga daga:
hendur þeirra
vâru á heitum steinum
negldar nauðliga.

66. Menn sá ek þá
er af mikillæti
virðust vonum framar:
klæði þeirra
vâru kýmiliga
eldi umslegin.

67. Menn sá ek þá
er margt höfðu
orð á annan logit:
heljar hrafnar
úr höfði þeim
sárliga sjónir slitu.

68. Allar ógnir
fær þú eigi vitat,
þær sem helgengnir hafa;
sætar syndir
verða at sárum bótum:
æ koma mein eptir munuð!

69. Menn sá ek þá
er margt höfðu
gefit at guðs lögum:
hreinir kindlar
vâru yfir höfði þeim
brendir bjartliga.

70. Menn sá ek þá
er af miklum hug
veittu fátækum frama:
lásu englar
helgar bækur
yfir höfði þeim.

71. Menn sá ek þá
er mjök höfðu
húngri farit hörund:
englar guðs
lutu öllum þeim,
þat er æðsta unað.

72. Menn sá ek þá
er móður höfðu
látit mat í munn:
hvílur þeirra
vâru á himin-geislum
hafðar hagliga.

73. Helgar meyar
höfðu hreinliga
sál af syndum þvegit
manna þeirra
er á mörgum degi
pína sjálfa sik.

74. Hávar reiðar
sá ek með himnum fara,
þær eiga götur til guðs:
menn þeim stýra
er myrðir eru
alls for eingar sakir.

75. Hinn máttki faðir,
mesti sonr,
heilagr andi himins!
þik bið ek skilja,
er skapat hefir,
oss alla eymdum frá.

---

76. Bjúgvör ok Listvör
sitja i Herðis dyrum
orgáns stóli á:
járna dreyri
fellr úr nösum þeim,
sá vekr fjón með firum.

77. Oðins kvon
rærr á jarðar skipi,
móðug á munað,
seglum hennar
verðr síð hlaðit,
þeim er á þráreipum þruma.

78. Arfi! faðir
einn þèr ráðit hefir
ok þeir Sólkötlu synir,
hjartarhorn
þat er úr haugi bar
enn vitri Vigdvalinn.

79. Hèr 'ru rúnir,
er ristit hafa
Njarðar dætr níu,

Baugvör in elzta
ok Kreppvör in ýngsta
ok þeirra systur sjö.

80. Hverju þeir
hafa belt,
Svafr ok Svafrlogi!
blóð þeir vöktu
ok benjar sugu
undir öllum eyvana.

81. Kvæði þetta
er ek þèr kennt hefi
skaltu fyrir kvikum kveða:
Sólar-ljóð,
er sýnast munu
minnst at mörgu login.

82. Hèr vit skiljumst,
ok hittast munum
á fegins-degi fira.
Drottinn minn
gefi dauðum ró,
hinum líkn er lifa!

83. Dásamligt fræði
var þèr í draumi kvaðt,
en þú sátt it sanna:
firða eingi var
svâ fróðr um skapaðr
er áðr heyrði Sólar-ljóðs sögu!

# Höfuðlausn
## Egils Skallagrímssonar.

1. Vestr fór ek of ver;
en ek Viðris ber
mun-strandar mar,
so er mitt of far:
dró ek eik á flot
við isa brot,
hlóð ek mærðar hlut
minnis knarrar skut.

2. Buðumst hilmir löð,
þar á ek hróðrar kvöð,
ber ek Óðins mjöð
á Engla bjöð;
lof at vísa vann,
víst mæri ek þann,
hljóðs biðjum hann,
þvíat hróðr of fann.

3. Hygg vísir at,
(vel sómir þat)
hve ek þylja fat,
ef ek þögn of gat!
Flestr maðr of frá
hvat fylkir vá,
en Viðrir sá
hvar valr of lá.

4. Óx hjörva hlöm
við hlífar þröm;
guðr óx um gram,
gramr sótti fram;
þar heyrðist þá
(þaut mækis á)
málmhríðar spá,
sú er mest of lá.

5. Var-at villr staðar
vefr darraðar
of grams glaðar
geirvángs raðar:
þar's í blóði,
í brimils móði,
flaustr of þrumdi,
en und um glumdi.

6. Hnè firða fit
við fleina hnit:
orðstýr of gat
Eiríkr at þat.

7. Fremr mun ek segja,
ef firðar þegja,
frágum fleira
til frama þeirra.
Æstust undir
við jöfurs fundi,
brustu brandir
við blár randir.

8. Hlam hryns-öðul
við hjálm-röðul,
beit ben-grefill,
þat var blóð-refill:
frá ek at fèlli
fyri fetils svelli
Óðins eiki
í járn-leiki.

9. Þá var odda at
ok eggja gnat:
orðstýr of gat
Eiríkr at þat.

10. Rauð hilmir hjör,
þat var hrafna gjör,
fleinn hitti fjör,
flugu dreyrug spjör,
ól flagðs gota
fár-bjóðr Skota,
trað nipt Nara
náttverð ara.

11. Flugu hjaldr-tranar
of hræs lanar,
voru-t blóðs vanar
ben-más granar;
þá er oddbreki
(sleit und freki)
gnúði hrafni
á höfuð-stafni.

12. Kom gríðar læ
á Gjálpar skæ:
bauð úlfum hræ
Eiríkr of sæ.

13. Beit fleinn floginn,
þá var friðr loginn,
var álmr dreginn,
því varð úlfr feginn:
brustu broddar,
en bitu oddar,
báru hörvar
af bogum örvar.

14. Verpr brodd-fleti
af baug-seti
hjörleiks hvati,
hann er blóðskati;
þróast hèr sem hvar,
hugat mæli ek þar,
frètt er austr um mar
Eiríks of far.

15. Jöfurr sveigði ý,
flugu unda bý:
bauð úlfum hræ
Eiríkr of sæ.

16. Enn mun ek vilja
frá verjum skilja
skapleik skata;
skal mærð hvata.
Lætr snót saka
um súð frí vaka,
en skeirs aka,
skið Geirs, braka.

17. Brýtr hóg-vita
bjóðr hram-þvita,
mun-a hodd-dofa
hringbrjótr lofa:
gladdist flotna fjöl
við Fróða mjöl,
mjök er hilmi föl
hauk-strandar möl.

18. Stóðst fólk eigi
fyri fjörleigi,
gall ýbogi
at egg-togi,
værpr af bröndum,
en jöfurr löndum
heldr hornklofi,
hann er næstr lofi.

19. Jöfurr hyggi at
hve ek yrkja fat;
gott þóttumst þat,
er ek þögn of gat:
hrærða ek munni
af munar grunni
Oðins ægi
á Jóru-fægi.

20. Bar ek þengils lof
á þagnar rof,
kann ek mæla mjöt
of manna sjöt,
úr hlátra ham
hróðr ber ek fyri gram,
svâ fór þat fram
at flestr of nam.

21. Njóti bauga
sem Bragi auga,
vagna vara,
eðr vili tara!

---

# Brot af Eiríks-Drápu.

Eptir fall Eiriks lèt Gunhildr yrkja kvæði um hann, svâ sem Oðinn fagnaði honum i Valhöll, ok hefr svâ:

1. Hvat er þat drauma
(kvað Óðinn)
er ek hugðumk
fyri dag litlu:
Valhöll ryðja
fyri vegnu fólki.

2. Vakta ek einherja,
bað ek upprísa,
bekki at strá,
borðker at lyðra,
valkyrjur vín bera
sem vísir komi:
er mèr úr heimi
hölda vânir
göfgra nokkurra,
svâ er mèr glatt hjarta.

3. Hvat þrýmr þar, Bragi,
sem þúsund bifist
eða mengi til mikit?
Brak a öll bekkþili
sem muni Baldr koma
eptir í Óðins sali.

4. Heimsku mæla
(kvað Óðinn)
skalt þú, hinn horski Bragi,
þó at þú vel hvat vitir;
fyr Eiríkr glýmr
er hèr mun inn koma
jöfurr í Óðins sali.

5. Sigmundr og Sinfjötli,
risit snarliga
ok gángit i göngu,
grami inn þú bjóð,
ef Eiríkr sè,
hans er mèr nú von vituð.

6. Hví er Eiriks von
(kvað Sigmundr)

heldr enn annarra kónga?
Þvíat margu landi
(sagði Óðinn)
hann hefir mæki roðit
ok blóðugt sverð borit.

7. Hví namt þú hann sigri þá,
er þèr þótti hann snjallr vera?
Þvíat óvíst er at vita,
(sagði Óðinn)
sèr úlfr enn hausvi
á sjót goða.

8. Heill þú nú Eiríkr,
(kvað Sigmundr)
vel skalt þú hèr kominn,
ok gakk í höll horskr;
hins vil ek þik fregna:
hvat fylgir þèr jöfra frá
eggþrymu?

9. Konúngar eru fim,
(sagði Eiríkr)
kenni ek þèr nafn allra,
ek em hinn sètti sjálfr.

---

## Hákonar-Mál.

---

Eivindr Skáldaspillir orti kvæði eitt um fall Hákonar konúngs Aðalsteinsfóstra, ok setti hann þat eptir því sem Gunhildr hafði látit yrkja eptir Eirík: þat eru kölluð Hákonar-mál.

1. Göndul ok Skögul
sendi gauta-týr
at kjósa of konúnga:
hverr Yngva ættar
skyldi með Oðni fara,
í Valhöll at vera.

2. Bróður fundu þær Bjarnar
úr brynju fara,
konúng hinn kostsama
kominn und gunnfána:
drupðu dólgar,
en daraðr hristist,
upp var þá
hildr um hafit.

3. Hèt á Háleygi
sem á Hólmrýgi,
jarla einbani
fór til orrustu;
gott hafði inn gjöfli
gengi Norðmanna,
ægir Ey-dana
stóð und ar-hjálmi.

4. Hrauðst úr hervâðum,
hratt á völl brynju,
vísi verðúngar
áðr til vígs tæki;
lèk við ljóðmögu,
skyldi land verja,
gramr hinn glaðværi
stóð und gullhjálmi.

5. Svâ beit þá sverð
úr siklings hendi
vâðir Vafaðar
sem í vatn brygði:
brökuðu broddar
(brotnuðu skildir,
glaumruðu glymhríngar)
í gotna hausum.

6. Tröddust törgur
fyrir týs ok bauga
hjalta harðfótum
ok hausar Norðmanna;
róma varð í eyu,
ruðu fírar margir
skírar skjaldborgir
í skatna blóði.

7. Brunnu beneldar
í blóðgum undum,
lutu lángbarðar
at lýða fjörvi,
svarraði sár-gýmir
á sverðanesi,
fèll flóð fleina
í fjöru Storðar.

8. Blendust við roðnar
und randar himni
Sköglar veðr lèku
við skýs um bauga,
umdu odd-lár
í Oðins veðri,
hnè margt manna
fyrir mækis straumi.

9. Sátu þá dögglíngar
með sverð of togin,
með skarða skjöldu
ok skornar brynjur:
var-a sá herr í hugum
ok átti til Valhallar vega.

10. Göndul þat mælti:
(studdist geirskapti)
Vex nú gengi goða,
er Hákon hafa,
með her mikinn,
heim bönd of boðit.

11. Vísi þat heyrði
hvat valkyrjur mæltu,
mærar, af mars baki:
hyggiliga lètu
ok hjálmaðar sátu
ok höfðust hlífar fyrir.

12. Hví þú svâ gunni
skiptir, Geirskögul?
værum þó verðir gagns frá
goðum!
Vèr því völdum

er þú velli hèlzt,
en þínir fjandr flugu!

13. Ríða vit skulum
(kvað hin ríka Skögul)
græna heima goða,
Oðni at segja
at nú mun allvaldr koma
á hann sjálfan at sjá.

---

14. Hermóðr ok Bragi,
(kvað hropta-týr)
gángit í gögn grami!
alls konúngr ferr,
sá er kappi þykkir,
til hallar hinnig.

15. Ræsir þat mælti:
(var frá rómu kominn,
stóð allr í dreyra drifinn)
Illúðigr mjök
oss þikkir Oðinn vera,
sjá vèr hans of hugi.

16. Einherja grið
skaltu allra hafa,
þigg þú at Ásum öl!
jarla bægi,
þú átt inni hèr
átta bræður (kvað Bragi).

17. Gerðar vârar
(kvað hinn góði konúngr)
viljum vèr sjálfir hafa;
hjálm ok brynju
skal hirða vel:
gott er til geirs at taka.

19. Þá þat kyndist,
hve sá konúngr hafði
vel of þyrmt vèum,
er Hákon báðu
heilan koma
ráð öll ok regin.

20. Góðu dægri verðr
sá gramr of borinn
er sèr getr slíkan sefa:
hans aldar
mun æ vera
at góðu getit.

21. Mun óbundinn
á ýta sjót
Fenris-úlfr of fara,
áðr jafngóðr
á auða tröð
konúng-maðr komi!

22. Deyr fè,
deya frændur,
eyðist land ok láð:
siti Hákon
með heiðin goð:
mörg er þjóð of þjáð!

---

# Brot af flokki um fall Erlíngs Skjálgssonar.

1. Út réð Erlingr setja
eik, sá er rauð hinn bleika,
íflaust er þat, jöfri,
arnarfót, at móti:
skeið hans lá svâ síðan
siklings i her miklum,
snarir börðust þar sverðum,
sibyrð við skip, firðar.

2. Rakkr þengill hjó rekka,
reiðr gekk hann um skeiðar,
valr lá þraungt á þiljum,
þúng var sókn fyrir Túngum:
bragníngr rauð, fyrir, breiðan
borðvöll, Jaðar norðan,
blóð féll varmt i víðan
(vâ frægr konúngr) ægi.

3. Öll var Erlíngs fallin
(úngr fyrir norðan Túngur
skeið vann skjöldúngr auða)
skip-sókn við þröm Bóknar;

einn stóð sonr á sinu
snarr Skjálgs, vinum fjarri,
í lyptíngu lengi,
læ-trauðr, skipi auðu.

4. Rèð eigi grið, gýgjar,
geðstirðr, konúngs firða
skærs þó at skúrir þyrri-t,
Skjálgs hefnir sèr nefna;
en varð keri verðar,
við Bókn nè kemr síðan,
glyggs á gjálfri leygðan
geirs, ofrhugi meiri.

5. Öndverða bað, jarðar,
Erlíngr, sá er vel lengi
geymdi, lystr nè lamdist,
landvörn, klóast örnu,
þá er hann at síg sönnum
(sá var áðr búinn ráða
ats) við Útstein hitzig
Ólaf of tók málum.

6. Erlíngr fèll en olli
allríkr tapað slíkum
(biðr-at betri dauða)
bragna konr með gagni;
mann veit ek eingi annan,
allbrátt þó at fjör láti,
enn sá er allan kunni
aldr fullara at halda.

7. Áslákr hefir aukit
(er vörðr drepinn Hörða)
fáir skyldu svâ foldar,
frændsekju, styr vekja;

ættvígi má hann eigi,
álíti þeir, níta,
frændur skyli böls of bindast
bornir, mál hin fornu.

Þessa vísu er sagt at Ólafr konúngr kvæði:

Lítt mun halr hinn hvíti
(hrafn etr af ná gefnum,
vèr unnum gný gunnar)
glaðr í nótt á Jaðri:
svâ hefir öllúngis illa,
ættgóðr of rof sætta
Erlíngr beið til árla
andrán, gefist hánum.

---

# Bersöglis-Vísur.

Magnús konúngr Ólafsson gerði við marga þá menn stórar refsingar er mestan mótgáng höfðu veitt Olafi konúngi, föður hans: suma rak hann úr landi, en af sumum tók hann stór fè, fyri sumum lèt hann bú höggva. Þá tóku bændur at gjöra kurr ok mæltu sin í milli: Hvat mun konúngr þessi fyrir ætla, er hann brýtr lög á oss, þau er setti Hákon konúngr enn góði? man hann eigi þat at vèr höfum jafnan eigi þolat vanrèttit? mun hann hafa farar föður síns eðr annarra höfðíngja, þeirra er vèr höfum af lífi tekit, þá er oss leiddist ofsi þeirra ok lögleysa! Þessi kurr var víða í landi. Sygnir höfðu liðsafnað, ok var þat orð á at þeir mundu halda til bardaga við Magnús konúng, ef hann færi ínn í fjörðinn. Magnús konúngr var þá á Hörðalandi ok hafði þar dvalizt mjök lengi ok hafði lið mikit ok lèt sem þá ok þá mundi hann fara norðr í Sogn. Þessa urðu varir vinir konúngs, ok gengu tólf menn á málstefnu, ok samdist þat með þeim at hluta til einn mann, at segja konúngi þenna kurr, en svâ var tilstilt at Sighvatr skáld hlaut.

Sighvatr orti þá flokk þann, er hann kallaði Bersöglis-Vísur, ok hefir hann fyrst of þat, at þeim þótti konúngr velkja ofmjök ráðin, at setja bændur aptr, þá er heituðust at reisa ófrið móti honum; hann kvað:

1. Fregn ek at suðr með Sygnum,
Sighvatr hefir gram lattan
fólk-orrustu at fresta,
fer, ef þó skulum berjast:
förum í vâpn ok verjum
vel tvist konúng lystir
hve lengi skal hríngum
hans grund til þess fundar.

Í því sama kvæði eru þessar vísur:

2. Hèt sá er fèll á Fitjum,
fjölgegn ok rèð hegna
heiptar rán, ok hánum,
Hákon, fírar unnu:
þjóð hèlt fast á fóstra
fjölblíðs lögum síðan,
enn eru af því er minnir,
Aðalsteins, búendur seinir.

3. Rètt hygg ek kjósa knáttu
karlfólk ok svâ jarlar,
af því at eignum lofða
Ólafar frið gáfu.
Haralds arfi lèt haldast
hvár-dyggr ok son Tryggva
lög þau er lýðir þágu
lauk-jöfn at þeim nöfnum.

4. Skulu-t ráðgjafar reiðast,
rýðr þat, konúngr, yðrir,
drottins orð til dýrðar,
döglíngr, við bersögli:
hafa kveðast lög (nema ljúgi
landherr) búendr verri
endr í Úlfasundum
önnur enn þú hètzt mönnum.

5. Hverr eggjar þik, harri
heiptar strángr, at gánga,
opt reynir þú, þínum,
þunn stál, á bak málum?
fastorðr skyli firða
fengsæll vera þengill,
hæfir heit at rjúfa,
hjaldr-mögnuðr, þèr alldri.

6. Hverr eggjar þik höggva,
hjaldr-gegnir, bú þegna?
ofrausn er þat jöfri
innanlands at vinna!
engr hafði svâ úngum
áðr bragníngi ráðit:
rán hygg ek rekkum þínum,
(reiðr er herr) konúngr, leiðast.

7. Gjaldtu varhuga vælltar
viðr þeim er nú ferr hèðra,
þjófs skal hönd í hófi,
hölda kvitt, of stytta;
vinn ek varmra benja,
varnað, en byðk hlýðit,
tár mútaris teitir,
til hvat búmenn vilja.

8. Hætt er þat er allir ætlast
(áðr skal við því ráða)
hárir menn, er ek heyri,
hót, skjöldúngi at móti:
greypt er þat höfðum hnepta
heldr ok niðr í felda
(slegit hefir þögn á þegna)
þingmenn nösum stínga.

# Brot af Lilju.

1. Almáttigr guð, allra stètta
yfirbjóðandi, engla ok þjóða,
ei þurfandi staði nè stundir,
stað haldandi í kyrrleiks valdi,
senn verandi úti ok inni,
uppi ok niðri ok þar í miðju,
lof sè þèr um aldr ok æfi,
eining sönn í þrennum greinum!

2. Æski ek þín en mikla miskun
mèr veitist, er ek eptirleita
af klökkum hug, því ek ynnist ekki
annat gott nema af þèr, drottinn:
hreinsa brjóst ok leið með listum
loflig orð í stuðlaskorðum,
stefnlig gjörð svâ vísan verði
vunnin yðr af þessum munni.

3. Beiði ek þik, mær ok móðir,
í mínum hug, fyrir umsjá þína,
renni mál af raddartólum
rèttferðugast í vísum slèttum,
skír ok sæt af vorum vörum
vorðin svâ at mætti orðin
laugast öll í glǫanda gulli:
guði væri ek þau skyldr at færa.

4. Fyrri menn er fræðin kunnu
forn ok klók á sínum bókum
slúngin mjúkt af sínum kóngum
súngu lof með danskri túngu:
í þvílíku moðurmáli
meir skyldunst ek enn nokkurr þeirra
hrærðan dikt með ástarorðum
allsvaldanda kóngi at gjalda.

5. Sköpun ok fæðing, skírn ok prýði,
skynsemi full, sú betri er gulli,
dreyrinn Krists af síðu sári,
syndalíkn ok dagligt yndi,
háleit von á himnasælu,
hrygðin jarðar neðstu bygðar
bjóða mér í frásögn færa
fögur stórmerkin drottins verka.

---

59. Ek segi rètt at enginn ætti
ógrátandi vörum láta,
Jesú minn, þá letrit læsi,
linhjartaðr, af píslum þínum,
þvíat náttúran æpti af ótta
öll skjálfandi, en himnar sjálfir
týndu ljósi, þá berr vart bundinn,
bifaðist hauður í þínum dauða.

60. En í andláti Jesú sæta,
oss er flutt, at gægzt á krossinn
fjandinn hafi ok frètt at syndum
færaglöggr, ef nokkur væri:
hlæir mik at hèr muni teygjast
hans forvitni honum til vansa,
eigi mun nú ormrinn bjúgi
agn svelgjandi á króki fagna.

61. Öll helvitis járnhlið skjálfa,
undrast myrkr at ljós er styrkra,
hlaupa fjandur ok ætla undan,
ódæmin þeir sögðu at kæmi;
hræðslan flaug um heljar bygðir,
helga menn er fjötrar spenna
hlaut óvinrinn lausa at láta,
lamdr ok meiddr, sem valdit beiddi.

---

63. Signat ljós hinn sæti Jesús,
sannr lífgjafari dauðra manna,
dragðu mik frá djöfla bygðum,
drottinn bliðr, ok halt mèr síðan!
Æfinliga með lyptum lófum
lofræðandi á knè sín bæði
skepnan öll er skyld at falla,
skapari minn, fyrir ásján þinni.

64. Sè ek ei þann er út megi inna,
orðasnild þó prófa vildi,
alla gleði er fèkk með fullu
forni Aðam við Jesús kvâmu,
sjálfr hann einn þvíat batt með bölvi
börn sín öll í dauðapínu,
en nú leysti öll úr banni
eitt hans barn ok miskun veitti.

---

67. Síðan reis með sigri af dauða
sunnudag ok gjörði kunnan
sinn ódauðleik mörgum manni
mildin sjálf, þótt deya vildi;
tvennar gengu tvisvar sinnum
tíu dægranna rásir hægar,
áðr enn upp yfir himnahæðir
hóf hann blóð, þat er tók af móður.

